blotmenn (sogdu) þetta (af) fiolkyngi hennar en eigi guds krapti. En domandinn kalladi a kvalarana ok bad, at þeir kvelldi meyna. Þa hellt Agnes hondum til himins ok bad til guds a þessa lund: «Almattigr ok ogorlegr ok gofuglegr fader, drottinn minn[1], þik lofa ek ok dyrka ek, þviat fyrir son þinn fordumz ek ognir vondra manna, ok ste ek yfir velar diofuls ok geck osaurgada[2] gautu. Nu hvelfiz yfir mik dogg af himne af helgum anda, svo at elldrinn sloknar hia mer, ok skauz[3] loginn ok hvarf hitinn til þeira, er hann kyndu. Þik lofa ek, gaufugr fader, þu lętr mik koma til þin ohrędda a medal ellda. Nu se ek þat, er (ek) truda; nu helld ek þvi, er ek venta; nu fagna ek þvi, er mik fysti til; þer iata ek med munne minum, ok til þin fysumz ek af ollu hiarta. Nu þegar kem ek til þin, lifandi gud, er med drottne vorum Jesu Kriste syne þinum lifer ok rikir nu ok um allar (allder) allda.« En er hon hafdi lokit bęn sinni, þa sloknadi elldrinn allr, svo at eingi flęr(!) var eptir. Þa matti Aspasius eigi standazt [op alþydu[4], ok let spioti leggia i briost meyiarinnar, ok helgadi gud ser hana brudi ok pislarvott, ok for hon til almattigs guds med þessu liflati. En frendr hennar toku likam hennar med fagnaðis[5] ok grofu i landeign sinni skamt fra Romaborg a gotu þeiri er Numentana heitir. En er kristinn lyðr kom opt þangat til bœna, þa somnuðu heiðnir menn liði ok borðo grioti at þeim ok rako þa a brot þaðan.

8. En Emerenciana het [fosystir Agnetis[6], sia var heilog mær ok þo primsignd at eins; hon stoð ohrædd ok flyði eigi, helldr avitaði hon heiðna menn ok mællti: «Þer væslir[7] ok grimmir hamnit[8] þeim, er almatkan guð gofga, ok hoggvit saklausa menn, en truit sialfir a stock ok stein.« En er hon mællti þessor orð ok þessom lik, þa bǫrðo þeir hana grioti, ek lét hon ǫnd sina, er hon var a bœnom hia leiði sellar Agnetis[9]. Þessi mær skryddiz i bloði sino, þviat hon tok bana fyrir þat er hon iatti guði[10]. A þeirri somo stundo varð landskialpti mikill, flugo elldingar ok reiðarðrumor [i heidi[11], ok fell niðr mikill hlutr heiðins lyðs ok do. Þaðan fra þorði engi maðr at granda þeim monnum, er komu til leiðis heilagra manna at biðia fyrir ser. En frendr Agnetis[9] komu of nott með kennimonnum ok toko likam Emerencianc meyiar ok grofu skamt fra leiði Agnetis[9]. En er frendr Agnetis vokðo opt um nætr a bœnum at leiði hennar, þa sa þeir at miðri nott meyia

1 Jesu Cristi *tilf.* *Cd.* 2 osaurgata *Cd.* 3 skustz *Cd.* 4 [ok alþyda *Cd.* 5 *Her beg. Fr. 238b.* 6 [fostsystir Agnesar *B.* 7 vesalir ok fallvalltir *B.* 8 banet *B.* 9 Agnesar *B.* 10 tru sina *tilf. B.* 11 [*tilf. B.*

flock mikinn i lofti [með liosi[1]. Þær voru allar skryddar gullofnum cleðom. I þeirra liði syndiz þeim heilog Agnes[2], ok stoð til hægri handar henni lamb [sniofi hvitara[3]. En er frendr hennar sa þessi tiðendi ok aðrir kristnir menn, þeir er þar voro, þa kom hræzla mikil yfir [þa. Þa nam Agnes staðar með[4] meyia lið sitt ok mællti til frenda sinna: «Eigi skolu þer grata andlat mitt, helldr[5] fagne þer med mer ok glediz, þviat med þessum meyium ollum eignumz ek liosan stad, ok er ek nu a himnum i e(i)lifum fagnadi med þeim, er ek elskadi a iordu af ollu hiarta.» En er hon hafdi þetta męllt, þa leid hon til himins.

9. En er madr sagde þesse tidende hverr audrum, þa kom sia saga til eyrna dottur Constantini konungs, en hon het Constancia, en hon var hin vitrasta mær. En hon var svo oll hriuf ok sar, at eingi fleckr var heill a hennar horundi allt or hvirfli ok ofan a tęr; en henne var þat rad kennt til heilso, at hon fęre um nott til leidis Agnesar ok będi fyrir ser til guds, þviat hon hafdi tru i hug ser, þott hon vere heidin. En er hon giordi, sem henne var kennt, þa sofnadi hon a bęn sinne, ok vitradiz henne heilog Agnes i draume ok (męllte) vit hana: «Vertu styrk ok stadfost, Constancia, ok tru drottin Jesum Crist vera guds son ok grędara þinn af himne, ok mantu taka heilsu allra sara þinna.« Þa vaknadi Constancia, ok var svo alheil, at einskis sars matti stadi sia a likam hennar. En er hon kom heim til konnungs hallar, þa gerdi hon mikinn fa(gna)d fodur sinum ok brędrum, ok urdu allir hirdmenn ok borgarlydr henne fegnir, en otrua heidinna manna hneyktis. En Constancia bad fodur sinn ok brędr, at þeir lofadi[6] kirkio at gera til dyrdar Agnesu, ok let hon ser i þeiri kirkio grauf gera. En er þessi tidendi frettuz, þa kvomo margir til leidis Agnesar ok fengu þar heilso sina, hvat er þeim vard at meine adr, ok halldaz þęr iarteignir til þessa dags. En Constancia konungs dottir hellt meydom sinn alla ęfi sina, ok lifdu margar eptir hennar dęmum ok toku nunnovig(s)lor. Svo þroadis ok vox hreinlifis kraptr af godum dęmum hinnar helguztu Agnesar, at margar meyiar i Romaborg helldu hreinlifi sino allt til daudadags, þviat þęr nunnur eignaz eilifan sigr ok sęlu an enda, ef þęr hallda hreinlifi an efa

1 [lida *B.* 2 med miklu liose *tilf. B.* 3 [sniahvitt *B.* 4 [menn alla. En heilog Agnes stodvar *B.* 5 *Her ender Fr. 238.* 6 lofudu *Cd.*

fyrir drottin voru Jesum Cristum, þann er lifir ok rikir medr fedr ok helgum anda gud um allar alldir allda. Amen.

---

*I 233 folio, hvor kun Slutningen af Sagaen findes, lyder denne saaledes*: tak þu heilsu þina. Eptir þat leid hun fra henni at syn til himins. En er Konstancia vaknaði, var hun alheil, sva at hvergi var sár ne hrufva aa hennar likama, ok for hun fagnandi heim, ok varð fadir ok broþir hennar heilsu fegnari, en fra megi segia, ok oll þeira hird, ok varð þa kristnum monnum i Romaborg mikill fagnaðr, ok efldiz guds kristni, en otrua heiþinna manna skammadiz. En Konstancia let gora kirkiu til vegs ok dyrdar gudi ok heilagri Agnete, ok fa þar siukir menn heilsu, hvat sem at meinum er, þeir sem þangat koma med rettri tru. En Konstancia helt meydomi um alldr sinn, ok giordo margar gôfgar meyiar at hennar dæmum; ok var þar klaustr gert hia kirkiu hennar, ok helldz su dyrd i Rómaborg i klaustri Agnesar alt til þessa dags eptir hennar dæmum, at þær megi fyrir sitt hreinlifi ok hennar heilagleik audlaz eilifan sigr ok sælu med drotni vorum Jesu Kristo, þeim er lifir ok rikir med fedr ok syni ok helgum anda einn guð um allar alldir verallda. Amen.

---

# ALEXIS SAGA.

(*Cd. 623 qv.*)

**Fabella Alexis confessoris.**

A dꜹgom Arkadij oc Honorij keisara var einn gꜹfogr maþr[1] oc trufastr i Romaborg, sa hęt Euphimianus, einna mestr hofþingi er kononga liddi. En hann at(ti) .iii.ar þusundir huscarlla, þeir varo dyrligom cleþom scryddir[2], en hann var sonlꜹssʒ[3], þviat kona hans var óbyria; en hon var vel truoþ oc hellt boþorþ guþs. Eup(h)imianus fastaþi hvern dag til nons. Þriu borþ setti hann i husi sinu oc laþaþi þangat valaþa menn oc siuka, [ut]lenda oc frendlꜹsa. En kona hans hét Aglais, hon gerþi h[vern d]ag guþs verc meþ tru oc callaþi a guþ i bęnom oc melti: «Minztu [mi]n overþ(r)ar ambáttar þinnar, drottinn, oc gef þu mer erfin[gia þ]ann er verþi huggon andar minnar.« Guþ heyrþi bęn hennar oc veitti henni son at geta þann er i þvi var farsęla fꜹþr oc moþr. Sveni var nafn gefit oc var callaþr Alexis. En er hann var á náfs(!) alldri, þa var hann til leringar settr at nema speci oc mælsco oc allann cristinn fróþleic, oc varþ hann spakr sveinn i ꜹllom hlutom. En er hann var fulltiþi, þa melti Euphimianus viþ kono sina: «Leitum viþ qvanfangs syni ockrom, at hann se meþ okr avallt oc biargi vesolom oc valꜹþom i olmoso gęþi.« Þat leizk þeim baþom gott ráþ, oc var honom siþan fꜹstnoþ mér or eno gꜹfgasta kyni, oc var siþann at samcundu fingit oc boþit enom gǫfgostum monnom, oc var þar gleþi mikil oc fꜹgnoþr þann dag allan. En at apni var honom fylgt til recio. En er allir varo ut gi(n)gnir, þa setizc hann á hvilostocc oc dro fingrgull af fingri sér oc scar hlut af belti sino oc knyti i duci oc selldi festarmeyio sinni oc melti: «Tak þu þetta oc varþveit, en guþ veri á meþal occar, sem honom licar.« Marga aþra hluti leynda melti hann viþ hana oc gek brꜹt fra hvilonni oc gek i klefa sinn, er fe[4] hans var i oc hafdi meþ ser hlut af ego sinni oc fór brǫtt or Romaborg. En er hann com til sevar, þa ste hann a scip meþ cꜹpmonnom þeim er foro

1 ᛘ *Cd.* 2 scyrddir *Cd.* 3 sonlꜹst *Cd.* 4 ᚠ *Cd.*

til Syrlanz. Borg heitir Edissa á Syrlandi i heraþi þvi er Mesopotamia hetir. I þeiri borg hafþi verit Abagarus konongr, sa er sendi rit drottni Jesu Cristo, oc tok rit i gegn af honom oc tru oc heilso. En (er) heilag[r A]lexis com til þessar borgar, þa selldi hann ꜳþefi, þꜳ er hann hafdi m[eþ se]r, oc gaf ꜳmom monnom, oc kleddi sic stafkalls buningi oc sat sva sem þurfamaþr i guþs moþr kirkiogarþi oc tok c[orpus domini] hvern drottinsdag. Lútr var hann oc litillatr at licams y[firl]yti, en hiarta hans var hátt fyrir guþi, oc gaf hann ꜳmom monnom allt þat er honom var gefit. En er hans var saonaþ i Româborg, þa var hans leitat miok, oc fanzc egi. Þa sendir faþir hans þ(r)iar þusundir manna at leita hans, oc fundo þeir hann egi, en er þeir komo i borg þa er Edissa heitir, þa fundo þeir hann oc kendo hann egi oc gafo honom olmoso giof. En hann kendi þa oc dyrkaþi guþ oc melti: «Þakcir geri ec þer, drottinn, er mic lezt þiggia giof af þrelom fꜳþr mins fyrir nafn[1] þitt.» Þa como aptr þeir er sendir varo til borgarinnar oc sꜳgþo drottni sinom, at þeir fundo hann egi. En fra þeim degi fór moþir hans at sittia ein i husi, oc sat hon á gólfi eda hvildi í hárkleþi oc i molldo oc melti sva: «Egi mon ec up risa af þesso golfi, aþr ec veit hvar enga sonor minn er.» Þa scilþo þꜳ hion rękio sina oc melto: «Viþ scolom nalgasc til guþs i hreinlifi, at drottinn fagni ockr oc syni ockrom, þeim er guþ gaf ockr.» [En] festarmęr hins dyrl[iga] sveins stóþ fyrir svęro sinni oc melti: «Egi mon ec heþann ut ganga a dꜳgom lífs mins, heldr[2] mon ec gliciasc foglom þeim er turt[uri]s heita, oc halda hreinlifi oc biþa, unz ec veit hvat or buanda minom er orþit, eda hverso heilagliga hann helldr þat er viþ áttom męlt.» En heilagr svein Alexius þionaþi drottni .xiii. ár i guþs moþr kirkiogarþi. En er .xiii.[3] vætr voro liþnir, þa melti licnesci guþs moþr á einom hatiþardegi viþ þann er kirkio varþveitti, en sa het Paramoniarius: «Leiþ þu inn guþs vin i kirkio, þvi at hann er verþr rikis himna. Bęn hans ilmar sem reykelsi oc hvilis yfir honom heilagr andi sem kononglig corona, oc sva scyn andlit hans i ꜳgliti engla, sem solar scyn lysir yfir iorþ.» Þa gekc út Paramoniarius oc leitaþi guþs vinar oc fann égi. Siþan gecc hann inn i Mariu kirkio oc baþ guþ syna ser sinn vin. Þa melti licneskit enn: «Sa er guþs maþr er sitr uti fyrir kirkiodyrom.» Þa tóc Paramoniarius í hꜳnd honom oc leiddi hann inn i musteriþ. Þa melti Alexius ein í hug sér: «Kuþr em ec ꜳllom nu her.» Siþan

1 nanf *Cd.* 2 s; (*d. e.* sed) *Cd.* 3 xvi *Cd.*

for hann or borginni Edissa oc villdi fara til Sicileyiar oc þiona guþi i mustari heilags Pꜹli, þviat hann var þar okunnr ꜹllom. En scip þat, er hann var a ginginn, reiddi vindr til Romaborgar. Þar gek hann up fra scipi til borgar oc lęt sem hann vęri útlendr, oc mętti fꜹþr sinom fyrstom manna, oc qvaddi hann oc melti: «Guþs þręll, gerþu miscon viþ mik, valaþr oc útlendr (em ec), oc tac mik i hus þitt oc fęþ mic af mola þeim er fellr af borþi yþro; en guþ blezi þitt lif oc gefi þer riki himna.« En er faþir hans heyrþi þetta, þa toc hann viþ honom í hus sitt sva sem viþ utlendom, oc mintisc hann enga sonar sins, sva sem hann var vanr ávallt, er hann toc viþ utlendom eda gaf þurfamonnom. Þa męlti hann viþ þrela sina: «Sa ydvar er þessom vinno[r] beina scal egnazc frelsi oc [hl]ut erfþar i husi mino, sa scal gera reckio hans oc vinna vel oc gesta egi hug hans.« En a þeim enom sama aptni hlogo þrelar oc sveinar at þessom enom utlenda manni, er þeir hugþo at vęri, oc freistoþo hans oc gerstu hug hans, oc sumir þogu disca oc helto þvi i hofod honom En guþs vinr sa, at þetta var freistni viþ hann af ꜹfond fianda, oc sat hann þolinmoþliga. Siꜹtian vętr var hann i husi fꜹþr sins oc moþr, oc visso þꜹ égi hver[r hann v]ar. En er su tiþ com, er drottinn villdi taca ꜹnd hans, þa melti Alexis viþ þann er ręiþo vann honom: «Broþir, sagþi hann, sel þu mer teki þꜹ, at ec mega ríta.« En er honom var þat selt, þa reit hann allt lif sitt fra uphafi, þaþan fra er hann óx up i husi fꜹþr sins. En á enom drottinsdegi eptir messo, þa er pafi var i kirkio oc hinir milldosto konongar Arcadius oc Honorius oc margr lyþr meþ þeim, þa var heyrþ rꜹdd af himni yfir alltera oc melti: «Comiþ er til min allir, er starfiþ oc erfiþi hafit, oc mon ec fęþa yþr.« Þa urþo allir hreddir oc fello til iarþar oc sungo kirieleison. Þa heyrþo þeir rꜹdd i annat sinn oc melti: «Leitiþ er guþs vinar, at hann biþi fyrir Romaborg.« Þa leitoþo allir guþs vinar oc baþo, at guþ s[yn]di þeim hann. En en fimta dag viko at aptni þa var vitraþ fyrir þeim, at guþs maþr mundi finnasc í husí Eufimiani. En þa męllto þeir viþ Euphimianum: «Fyrir hvi syndir þu oss egi miscon þa er þu hefir i husi þino?« En at ꜹndverþom fꜹstodegi toc guþ ꜹnd heilax Alexis fra likam hans. Þa buþu konongar at leita heilax pislarvaz guþs i húsum Eufimiani. Eufimianus bꜹþ þręlom sinom at bua hus innan vanliga, er kononga var þangat van, oc g[in]go menn á mot þeim meþ reykelsis kerom oc allz cyns dyrþ. En þa er konongar komo í hus hans, þa var at ręflat

i hlioþi, hverr þar mundi vera guþs vinr. En mo[þir h]eilax Alexis oc festarkona hans sá þessi tiþendi a͛ll þa[þan] er þer stoþo viþ glugg i h[usi] sino oc mellto þer meþ ser: «Hvi gegnir þyss sia manna? eþa hvat hafa þeir her at męla?« En er þęr áttu of þessa hluti at dǽma, þa gek fram þionn sa er viþ enom útlenda hafdi tekit, at þvi at þeir ætlloþo hann vera, oc melti: «Maþr[1] sa er er selldoþ mér til varþveizlo, þar hefi ec sęþ marga dyrliga hluti yfir honom; hann toc corpus domini hvern drottinsdag, en þa hafþi hann litla fæzlo, er hann mataþisc, oc svaf h[ann liti]t eþa ecki of nętr; þrelar hlogo at honom, oc bar hann þat allt þolinmoþliga.« Þa rann Eufimianus þegar þan[gat] til han(s) oc villdi męla viþ hann, en þa var hann andaþr. En Eufimianus toc duc af andliti hans, oc syndizc monnom andlit hans biart sem engils andlit, hann hafþi rit i hendi oc let egi la͛st. Eufimianus męllti viþ cononga: «Nu hofom ver fundinn þann er ver leituþom, oc hefir hann her verit .xvii. vetr, en nu er hann andaþr oc hefir rit i hendi oc vil egi selia oss.« Þa gingo conongar þangat oc pafinn oc Eup[h]imianus oc allir enir ga͛fga͛stu menn oc stoðo fyrir liki guþs vinar oc męlltu meþ tarom: «Þót ver sém syngir, þa erom ver þo konongar. Sel þu oss rit þetta, at ver vitim hver þu ert.« Þa let hann la͛st ritit, oc tóco þeir þat oc melto þeir at raþa scylldi ritit. En er ritit var raþit, þa fell Euphemianus til iarþar fyrir liki sonar sins oc melti meþ tarum: «Þu en kersti son, fyrir hvi hryggir þu hug minn oc lifþir sva meþiliga her meþ oss? ec vęta at ec munda heyra mal þit oc vita, hverr þu vęrir; nu se ec enga son minn da͛þan, oc nai ec egi at męla viþ hann.« Þa reis up moþir hans meþ miklom harmi hugar oc męlti viþ lyþinn: «Gefiþ er mér rúm, at ec of sia son mi[nn þa]nn er ec fedda a briosti mino [oc u]nna ec sem lifi mino.« Þa barþi hon a briost ser oc męlti mikilli ra͛ddo: «Komit er oc gratiþ meþ mer, þvi at son minn var meþ mer .xvii. vętr í husi minu, oc vissi engi hverr hann var; þrelar hans gorþo honom kinhesta oc spitto í andlit honom oc hlogo at honom oc gerþo hversconar oscil.« Þessa hluti męllti hon, oc com sva opt til lics sonar sins sem dufa til hreþr sins oc [hellt]i tárum yfir andlit honom oc męllti: «Hverso mattir þu, son, leynasc sva léngi i husi fa͛þr þins? þu sátt oss hvern dag gráta [ept]ir þig oc leindisc þu þo fyrir oss.« Þa gek bruþr hans þangat [oc męlti] meþ miklom sarleik hiarta

1 Ɏ *Cd.* 2 s; *Cd.*

sins: «I dag hefi ec tynt forysto minni, oc synumc nu eckia oc emk nu orþinn huggonarlꜹs allt til enda lifs mins.« Allr lyþr undra(þ)iz þenna atburþ, oc mátti engi vattni hallda. Þa męllto konongar, at bera scylldi lic hans i miþia borg. En þa rann allr lyþr á mot licino, er þeir frágo, at sa var fundinn er leitaþ var. Þa toko siukir heilso, en syn blindir, dumbir mal, en heyrn dꜹfir, oc flęþo dioflar fra oþum. En er konongar sa iarteinir, þa baro þeir likbarar, oc pafin meþ þeim, at þeir helgaþi sig af likino. En moþir hans oc bruþr fylgþo liki oc gręto. En þa dreif þangat sva margr lyþr, [at] þeir mattu egi comazc fyrir þrꜹng, er lici fylgþo. Þa lęto konongar sa gulli oc silfri a gꜹtona, til þess at menn dvelþisc þar at oc gefi mꜹnnom rum. En þa gafo ꜹngir gꜹm at gulli ne at silfri, helldr at fylgia liki, oc báro þeir ba[rar] meþ mikilli þrꜹng allt til musteris Bonifacii meþ dyrþ oc lofsôngvi. Þa var gortt scrin or gulli oc silfri. En þar veitasc monnom iartęinir al[lt til] þessa dags, oc gęrisc dyrligur ilmr or scríni hans sem af reykelsi, oc geta þeir bęnir at guþi, er þar biþia fyrir verþleic oc arnaþarorþ sel(s) Alexis guþs vinar drottins vars Jesu Cristi, þeim se vęgr oc velldi, lof oc riki in secula seculorum. Amen.

---

# AMBROSIUS SAGA BYSKUPS.

*(Cd. Holm. 2 folio.)*

**Her hefr sogu ens heilaga Ambrosij byskups.**

A dogum Juliani nidings var einn rikr iarl i hans riki. A einni nott dreymdi konu iallzsins, at hon drægi purpura pell or kalfa honum; en þenna draum þyddi iall sva, at i hans kyni mundi keisarinn fædaz, þviat purpurinn er þeira bunadr ok merkir þeira tign. Þat berr ok sva at, at dottur vard þeim audit, ok het su Justina. Nôekuru sidar fregn keisarinn þetta ok ihugar, lætr taka iarl ok drepa, en Justina komz i nunnusetr. Langri stundu sidar þa er Justina er fullkomin at alldri, kemr til þessar borgar ok nunnusetrs Valentinianus, er þa var keisari ordinn, ok drottningin med honum kona hans, er Severa het. A einhverium degi var þeim laug buin, ok su kona til feingin drottningunni at þiona i lauginni, er þar var tignuz at kyni ok friduz at yfirliti, ok var þar Justina. Eptir laugina legz drottningin upp hia keisaranum, ok vard þetta i rædu hennar til konungs, at hon kynni honum tidindi at segia. «Hver?« segir hann. «Konu hefir ek sena, segir hon, i laugu hia mer sva væna, at slikan ennis vôxt edr andliz, fingra fegrd edr fota edr yfirbragd allz likama hefir ek alldregi fyrr sed, fyrir utan har ok augu, þat var hvartveggia svart. Nu allz ockr verdr sva farra barna audit, enda syniz þer annarrar konu at fa, þa vil ek þer þessa leyfa.« Keisarinn beidiz at sia Justino, ok syniz honum konan (fogr). Nu stefnir hann þing fiôlment, en a þinginu talar hann þetta eyrindi ok segir sva: «Stormenni ok villdarlid vort, ihugit ord min ok litit a, hversu vera ma. Nu kemr ufridr austan, sem verda kann, a Grickia riki, en annarr vestan a Romveria, hversu ma keisarinn þa deila ser i .ii. stadi at risa i moti hvorumtveggium? Syniz mer þvi sem vidkvæmiligt væri, at keisari mætti meira rumelsi eiga a um kvonfang en adrir menn, þviat hann þyrfti fleira en einn erfingia eptir sik at eiga til rikis vardveizlu. Nu

fyrir þvi at ockr Severo verdr eigi meir en eins sonar audit, er Gracianus heitir, ok hôfum vid leingi saman verit, þa villdi ek þessa lagabreytni eda leyfis mer bidia, at ek fa annarrar konu.« En at iatudu þessu af ôllu stormenni, þa lætr konungr leida i somu sæng ser Justinu, ok hon var ok fastæk i Arrius villu. Son gatu þau saman ok var sa kalladr Valentinianus enn yngri. Nu er her fra at hverfa en annars stadar fyst til at taka.

2. [1] Jarl var einn edr greifi i Vallandi ok het Ambrosius. Honum vard sonar audit, ok gaf hann nafn sitt þeim sveini. Þa er sia enn ungi Ambrosius var i vôggu einnhvern dag uti ok hann svaf opnum munni, þa kom at byflygi sva mart ok settiz i andlit honum, ok fylldi upp munninn ok for ut ok inn i munn hans. Fostra barnsins ugdi, at þat mundi sveininum granda ok villdi i brott reka; en hia var staddr fadir hans ok bad hana vera lata ok bida, hver lok a þetta felli. En litlu sidar hofz byflygit i lopt upp ok sva langt, at syn fal. Jarlinn ihugadi ok sagdi sva: »Til mikils nôckurs skal sia fæddr, ef lifi helldr.« Nu syndi þetta hunangsflyge sidar sętleik orda hans, þann er upp hof hugskot manna fra iardligum hlutum til himneskra. Eptir andlat fôdur sins var hann uppfæddr i Romam med modur sinni ok systur. Nu ser hann optliga, at kystar ero hendr byskupa edr presta af lægrum monnum; nu ok i leik sinum rettir hann framm hond sina ok bidr systur sina kyssa ser a hond. Spadi þat þvi fyrir, er framm kom sidar i hans lifi. I skola nemr hann heilug frædi ok boka iþrottir; eptir skolann for hann or Romaborg ok atti hlut i malaferlum manna ok saxsoknum, ok matz hann sva i þeiri syslu fyrir vizku sakir ok malsnilldar, at hann var kosinn ok valdr af greifanum Probo til raduneytis um ôll vandamal. Litlu sidar var honum iarldomr gefinn ok riki yfir herudum i nandir Melansborg, þeim er heita Liguria ok Emilia.

3. I þann tima do villubyskup Auxoni i Melansborg; sa hafdi adr af stoli rekinn ok i utlegd færdan heilagan Dionisium byskup, dyrligan mann ok sanncristinn, ok settiz nidr i byskupstolinn. En eptir frafall þessa villubyskups horfiz til missættis ok styrialldar i borginne medal cristinna manna ok villumanna, þviat hvorir villdu af sinni halfu byskup kiosa. Þa kemr til iarl Ambrosius ok vill eigi bardaga ne agang borgarmanna, bodar þeim i kirkiu til sattarfundar, ok i midri rædu þessa mals þa kallar barn

1. Fæddr Ambrosius *Overskr. Cd.*

eitt «Ambrosium byskup.« En vid þetta kall stodvaz hvorirtveggiu, ok þeir er adr hôfdu mest i moti gengit, sveigduz sva saman med undarligu samþycki, en hvorirtveggiu keru Ambrosium til byskups. En er hann matti eigi ordi fyrir sik koma, þa skilr hann fundinn · ok setz yfir domstol ok gefr monnum sakir ok synir i domum sinum oiafnat ok grimd mikla. Eptir þat sagdiz hann vilia vera philosophus, þat er spekingr, sa er ecki vill eiga ok ongu styra ok allt fyrirlita i þessum heime nema spekt. Þvi næst let hann leida portkonur i reckiu hia ser berliga, ok gerdi þetta allt til þess, at hann þotti þa sidr til byskups fallinn en adr. En folkit var þvi akafara ok sagdi sva: «A oss falli sia synd, en þu ver byskup vorr.« En þa ser hann, at ecki stodar slik undanleitan, þa leyniz hann a braut of[1] nott or borginne ok ætlar til Ticinu borgar. Ferr hann alla nottina ok kemr at morni aptr til sama borgarhlids, sem hann for fra um kvelldit; þa var hann fundinn ok handtekinn ok vardveittr. Sidan voru bref send um þetta mal keisaranum Valentiniano enum ellra, hann tekr þessu mali vel ok sendir bod sin ok bref i moti, at þetta skylldi frammgengt verda. En medan brefin foru a milli, þa vard Ambrosius laus ok villdi a brott fara, ok vard hann enn fundinn ok handtekinn ok vardveittr leyniliga af hôfþingia, þeim er Leonsius het. Nu qvomu bref keisarans med þeim atqvædum, at sa skylldi fyrirgert hafa fe sinu ok fiôrfi, er[2] Ambrosio leynir ok vill hann eigi framm selia. Leonsius verdr nu fyrir at sia ok selr framm Ambrosium, ok er hann leiddr þegar [til] Melansborgar af kennifedrum. Nu skilr [Am]brosius guds vilia i moti standa sinum vilia ok sier nu ecki vid mega gera ne mæla; þa beidiz hann skirn at taka, þviat hann er adr primsignadr at eins, af rettcristnum byskupi, þviat honum var hugstæd villan Arrius manna. Sidan er hann skirdr ok eptir þat vigdr af rettcristnum byskupi ôllum vigslum, ok a .viii. degi eptir skirnina var hann til byskups vigdr vid allra manna astud ok fagnad.

Nôckurum vetrum sidar ferr hann til odals sins ok heim i Romam, ok finnr hann þar systur sina ok fostsystur, en modir hans var ôndut. Ok þa er þær kyssa hond hans eptir sidveniu manna, þa brosir hann at oc mællti: «Nu kyssit id byskupshond þessa, sem ek sagda yckr fyrir lôngu.« A þeiri stundu var honum heim bodit ut i Latran til þionustugerdar af einni konu, ok þa er hann var þar staddr, let ein kararkona bera sik a fund hans ok bad hann

1 of um *Cd.* 2 enn *Cd.*

signa sik, ok þa er hann signadi hana ok hon kysti klædi hans, tok hun gongu ok heilsu, ok fylldiz þa a honum gudligt fyrirheit, þat er hann het postolonum ok sinum monnum, at slika hluti mundi þeir gera i iarteinum, sem hann hafdi gert, ok þadan af meiri hluti. Nu þviat margir voru vid staddir, þa vard monnum datt um iarteinina.

Greifinn Probus, er fyrr var nefndr, er hann fra Ambrosium byskup vordinn, þa fagnar hann þvi miǫg, er ord hans fyllduz a Ambrosio, þviat hann hafdi sva mællt einhveriu sinni at skilnadi þeira, þa er Ambrosius skylldi fara med hans eyrindum ok bodum: «Far þu nu, sagdi hann, ok frem þetta eyrendi, sem þu ser byskup helldr en domandi.

Nu er þeir funduz keisarenn Valentinianus ok erkibyskup Ambrosius, þa spyrr Ambrosius keisarann, hvern hann villdi setia yfir iarldom edr rikit, þat er hann hafdi adr haft at styra. Kongr sagdi: «Gud hefir þer i valld gefit andir manna, en ek gef likamina, ok sva sem þu hefir af gudi tekit valld at styra ǫndunum, sem byskup skal, sva skalltu hafa valld af mer at styra rikinu ok likǫmunum, sem domandi skal.« Nu finnz af þvi i frasǫgninni, at Ambrosius hefir optliga setit yfir domstoli veralldlig mal at dæma, at hann vardveitti saman veralldliga tign ok iarldomsins med gudligu velldi byskupsdomsins.

4. Eptir frafall Valentiniani ens ellra konungs, tekr rikit sonr hans Gracianus med fǫdurbrodur sinum Valente, þeim er adr styrdi rikinu med brodur sinum Valentiniano. En Justina drottning fædir upp son sinn Valentinianum enn yngra ok hefir fiǫlmenni mikit um sik, ok var hon ok sonr hennar ok allr afli þeira fastekinn i Arrius villu ok i mikilli motstodu vid Ambrosium byskup ok postolega cristne. A einhverri stundu þa er Ambrosius byskup kom til borgar, er Smymium heitir, ok þar skylldi hann vigia til byskups þann mann, er Annennimum het, þa var þar mikit fiǫlmenni saman dregit af radum Justinu ok til þess ætlat at handtaka Ambrosium ok færa hann i utlegd ok lata her sidan byskup vigia af sinni halfu ok setia þann villubyskup i stad Ambrosius til Melansborgar; en enn heilagi Ambrosius byskup ottadiz ecki afla þeira edr fiǫlmenne. Ok nu er hann sat a domstoli i yfirsyn þessa mala, þa gengr þar kvennaflockr mikill. Þat voru nunnur Arriomanna, ok ein af þeim fylldiz þeirar diorfungar, at hon red at honum byskupi ok þrifr i klædi hans ok villdi keyra hann af stolinum ok draga hann i flock þeira qvennanna ok færa

hann sva sidan i utlegd; ok voru þetta allt rad Justinu. Byskup tekr til ordz ok mællti til hennar a þessa lund, sem hann var optliga vanr at mæla: «Nu þo at ek se osælligr i kennimannz tign edr guds þionustu, þa somir þer þo eigi edr þinu fyrirheiti hendr a mig at leggia edr annan kennimann. Nu hræztu guds dom, at eigi beri bratt nockut þungliga at hendi.« Frammqvæmd veitti fullting þessum ordum, þviat þegar var hon lostin bradasott, sva at annan dag eptir var lik hennar til grafar borit, ok veitti byskup henne fyrir illvilia ok meingerd bædi fylgd ok bænir. Sia atburdr gerdi mikinn otta ok hræzlu ôllum motstôdumonnum hans, sva at mangi þordi þadan ifra at talma byskupsvigsluna edr adra þa hluti, er hann villdi fremia.

5. Byskup ferr heim til stols sins eptir þetta. En Justina fyllizt þa kaps ok illzku i moti honum, ok bydr monnum til motgangs vid hann sumum riki ok tign en sumum fiarhluti edr ônnur fridindi, ef nôckur mætti riki edr brogdum vid koma at færa hann af stolinum i utlegd. Margir toku vid þessi flugu ok mattu þo eingu a leid koma, þviat guds vili stod i moti. En var einn audrum aumari, sa het Eutimius, sia fyllizt þeirar dirfdar, at hann lætr hus gera nær kirkiu Ambrosij, ok i husinu lætr hann bua einn reidsleda ok ætlar med brogduligu tilstilli at koma byskupi i gilldro þessa ok hleypa yfir ofan sidan tilbunum stocki ok aka hann sva ut or borginni til utlegdar. En sia snara fell honum a hals sialfum, þviat vetri sidar, ok a þeim sama degi er hann hugdiz veida mundu byskup, þa vard hann fyrir sannar sakir a þessum sama reidskiota edr reidsleda brott rekinn ok til utlegdar dæmdr ok dreginn: sa hann þetta ok iatadi rettan guds dom a sik fallinn, at hann tæki slikan a sik, sem hann hafdi odrum ætlat. Byskup veitti honum þa enn atvinnu fyrir umsatir ok marga huggan fyrir margfôlld svik. Þessi atburdr þverdi ecki ædi edr akafa villumanna, þviat þa sendu þeir vopnad herlid til kirkiu Ambrosij byskups at banna ôllum cristnum mônnum inngongu kirkiunnar. En almattigr gud, sa er opt er vanr fagran sigr at gefa sinni cristni a sinum motstôdumonnum, sneri hug ok hiarta riddaranna, sva at þeir sneru vôpnum sinum at kirkiunne en gafu ollum leyfi til inn at ganga en tregliga brott at fara. Þat fylgdi ok til auka gudligs takns i þessu mali, at riddararnir taka tidir at stydia med Ambrosio ok fôgrum hliodum at syngia, ok af þessu gudligu tilstille tekr Ambrosius sông at fremia ok semia vid tidir bædi antefnur ok ymna, ok sidan af hans dæmum Gregorius pafi,

ok adrir dyrligir menn settu ok orktu dyrliga sôngva til dyrdar gudligri þionustu, ok hefir sa sidr sidan þroaz ok er nu kominn um alla Romveria cristni.

6. A þessum stundum vitruduz þeir Gervasius ok Protasius pindir menn Ambrosio byskupi ok segia til graftar sins, þviat bædi voru ôdrum monnum okunnig nôfn þeira ok leg. Byskup Ambrosius lætr nu upp taka helga doma þeira ok virduliga um bua, ok fa þar margir siukir menn heilsu sina i upptoku þeira. Severus het blindr madr, sa feck syn sina, þegar er hann snart klædi þat er breitt var yfir helga domana; margir odir menn voru þar fra diôflum leystir ok gengu heilir þadan. Af þessum iarteinum tekr postolig cristni at þroaz ok eflaz, en minkaz framgongur ok villa Arriusmanna. En Justina ok hird hennar hôfdu slik stormerki i skaupi, ok segir Ambrosium monnum fe hafa til gefit at segiaz diofulodir edr siukir ok lata, sem þeir feingi heilsu af þessum pindum monnum edr af Ambrosio. En gud þoldi eigi skaup edr spott þeira leingi hefndalaust: einn af þeira lidi vard diôfulodr i þvi bili ok kallar, at allir skylldi sva qveliazt sem hann qveldiz, þeir er neita þessa vera piningarvotta edr eigi trua heilagri tru, þeiri er Ambrosius bodar. En vid þetta kall verdr sem hinum drepi i vatn, ok skammaz þeir, ok þessu takni, er þeim var til leidrettu veitt, þa sneru þeir ser til afallzdoms, sva at þeir toku enn oda ok drecktu i tiôrn, ok sodludu sva glæp a uhapp, manndrapi a otru. I þann tima var madr i villumanna lidi ordslægr ok malsniallr, stirdr ok torvelldr til tru at vikia. Sia madr vard staddr i kirkiu vid tôlu byskups, ok var honum syn veitt, su er hann sa guds eingla standa hia honum ok mæla i eyru honum hvert ord, þat er hann taladi fyrir folkinu; en eptir þessa syn tekr hann þa tru ath stydia, er hann stod adr i moti. Þa er einn fiôlkunnigr madr var pindr til sagna af sôkum nôckurra illgerda, þa sagdi hann ser a hendr annat en hann var frettr, qvez meiri qvaler tekit hafa a sik af giæzkueingli Ambrosius, þa er Justina hafdi sendan hann a nattarþeli til husa byskups at blota þar yfir honum, til þess at folkit hygdi þat hans rad vera ok ræki hann fyrir þat fra stoli sinum; hann qvez ok sent hafa diôfla til byskups at vinna honum grand ok bana, en diôflar qvomu aptr ok sogdu sik hvergi mega nær honum koma, þviat logi lek þar allt yfir, ok sva heitr, at þeir þottuz þegar brenna, er þeir qvomu nôckur i nand. Annarr madr var enn sendr af Justinu til hofuds Ambrosio, sa geck inn um nott at reckiu hans sofanda med

brugdnu sverdi, ok þa er hann reiddi sverdit til hôgs, þa stirdnadi hondin ok matti eigi ofan vikiaz. Þa vard hann fundinn at þessu svikrædi, ok er hann iatadi sik sendan af Justinu ok svik ser a hendr, þa myktiz hond hans ok vard heil.

7. En þa er Justina sa sik sigrada i ôllum hlutum af Ambrosio, þa snyr hon medferd sinni ok bydr honum þa heim til veizlu, ok um qvelldit var honum virdulig reckia buen i lokhvilu nôckurri. Ok er hann hafdi til svefns lagiz, þa kemr Justina ok legz i reckiu undir fôt hia honum i nattserk einum ok hefir vid hann blidlæti ok þydleic, en hon sagdi sva sidan ord hans: »lat mik sofa, en þu varaz þat er liggr i milli ockar.« En hon hyggr at ok ser hôggorm hrôckvaz upp i milli þeira[1]. Nu verdr hon rædd ok sprettr upp or reckiunni[2] sem skiotaz. En sia tiltekia hennar hefir meir til þess verit, at hon villdi gera hann saknæman ok [færa hann sva i utlegd[3] helldr en fyrir girndar sakir til munudarlifis. A [annarri stundu bar sva at, at[4] Justina ok hird hennar satu under bordum, en[5] matr allr a bordunum vard at drekum ok hoggormum ok pôddum, en dryckr at blodi. Allir undruduz ok ottaz miôg. Menn eru þa sendir til hallar byskups at fretta hann, [hvi þessi kyn sæti[6]. Byskup svaradi: »Segit er sva Arrius monnum, at ollum þeim, er eigi hafa postoliga tru ok almenneliga, at þeim verdr ôll fæzla ohrein, sva sem þeir eti orma, dreka edr pôddur, eptir þvi sem segir Paulus postoli: Allir hlutir eru hreinum hreinir, en sôrgum[7] ok trulausum er allt sôrugt[8]. Nu er slikt ok synt i þessum undrum.« Margir sneruz til rettrar truar af þessum atburd[9]. En af slikum hlutum, [sem nu ero sagðer[10], hofz Ambrosius eigi upp til metnadar, helldr lægdi hann sik[11] meir fyrir gudi, sem hann var meir upphafinn fyrir monnum, ok þroadiz hann hvern dag bædi i ast ok tru fyrir gudi ok monnum.

8. Menn voru .ij. vinir [ok hôfudverdir[12] Gracianus[13] keisara ok fast teknir i villunni. Einn dag er byskup taldi [fyrir folki[14], fa þeir honum vanda spurning um burd Crisz ok holdgan, sva at hann þottiz eigi þegar i stad leysa mega; bydr hann þeim annan dag til kirkiu at[15] heyra orlausn sina, ok þeir hetu at koma. Nu kemr dagr annarr, ok er nu byskup til kirkiu kominn ok mikit

1 *Med dette Ord begynder Fragm. 238 folio.* 2 hvilunni *Fr.* 3 [koma honum sva til útlægðar *Fr.* 4 [oðrum tima bar sva til, þa er *Fr.* 5 at *Fr.* 6 [hveriu þetta undr gegndi *Fr.* 7 saurgom *Fr.* 8 ohreint *Fr.* 9 atburðom *Fr.* 10 [*tilf. Fr.* 11 þvi *tilf. Fr.* 12 [*mgl. Fr.* 13 Graciani *Fr.* 14 [*tilf. Fr.* 15 coma oc *tilf. Fr.*

fiölmenni at heyra þeira vidrædu[1]. En þessir aumu menn gefa eigi gaum heitordi sinu edr gudi edr byskupi edr folkinu, er þeira beid i kirkiunne, minnaz ok eigi orða[2] drottins sva mælanda: Hverr sem styggir einn af [enum minnztum[3] minum, þa byriar at ausnuligr qvernsteinn bindiz vid hals honum ok dreckiz hann i siofar diup. Þessir .ii. stiga upp i reidsleda einn ok aka a brott or borginni eyrinda sinna at bidanda byskupi [oc folkino[4] i kirkiunne. [Þeira farar vard allt senn endir ok[5] ogurligr atburdr. [Nu er minzt er von, slöngir þeim badum[6] or reidsledanum hörmuliga, ok koma badir daudir a iörd. Byskup i ödrum stad vissi eigi, hvat um þa var titt, ok er honum þotti eigi leingr bida mega, þa talar hann fyrir monnum[7] um þetta mal ok [losar fylliliga ok fagrliga þeira mal[8].

8. A þessum stundum ris upp höfþingi einn, er Maximus het, hann var kominn fra Maximiano enum versta keisara[9], hann var fyrir herlidi miklu ok ferr af Roma til Bretlandz, ok lætr hann ser þar gefa keisara nafn,. ok ferr hann sidan ok leggr undir sik Saxland. Þat fregnar[10] Gracianus keisari ok sendir a mot honum .ii. konunga med mikit fiolmenni, annan Gnavim[11] Huna konung, en [annarr heitir Melga Picta konungr[12]; þeir koma til Kolne ok setiaz um borgina. I þvi bili kemr þangat Ursula dottir Dionoti konungs med .xi. þusundir meyia, en fyrir þvi at þær villdu eigi samþyckiaz vid þa hermennina til saurlifis, þa [letu þeir höggva þær allar[13], ok letu þær lif sitt fyrir guds nafni. Maximus for annars stadar ok lagdi undir sik þiod þa, er Gothi eru kalladir, ok kugadi hann þa til þess, at þeir skylldi risa i mot [ok drepa Valens keisara fodur Graciani[14]. Þeir gerdu ok sva, draga lid at keisaranum ok [gefa honum agirni sina at sök ok geta hann sigrat[15] ok handtekinn ok brenna hann qvikan[16] i halmelldi; for hann herfiliga af heime[17], þviat hann var vafdr i villu. En at honum drepnum gera Gothi hver skripi[18] bædi i brennum ok ranum. Þessa tiþinda verdr varr Gracianus, velr hann nu höfþingia i stad Valens[19] ok gefr þeim[20] keisara nafn, en sa het

1 viðrattu *Fr.* 2 *saal. Fr.*; ordada *Cd.* 3 [*saal. Fr.*; mintzta *Cd.* 4 [*tilf. Fr.* 5 [I þeira ferð varð *Fr.* 6 [þvi at þa sem minntz varðe, slöngvir þeim baðom senn *Fr.* 7 folkino *Fr.* 8 [glosar fullega oc fagrliga allt þeira vandmæli *Fr.* 9 konungi *Fr.* 10 spyrr *Fr.* 11 Gnarvm *Fr.* 12 [annan Melca Picta konung *Fr.* 13 [voro þær allar hağnar *Fr.* 14 [Valenti faðorbroðor Graciani oc drepa hann *Fr.* 15 [fa sigrat hann *Fr.* 16 kvikvan *Fr.* 17 sem maclict var *tilf. Fr.* 18 endimi *Fr.* 19 Valentis *Fr.* 20 honom *Fr.*

Theodosius magnus, ok felr honum a-hendi austrlond ôll til gæzlu. Theodosius hefnir sidan draps keisarans ok a marga bardaga vid þessar þiodir Gothos, Hunos, Alanos[1], Sarmatas, ok sigrar þær allar. Hann lætr gera borg mikla [i nandir a þeiri[2] er Danubius heitir, su er mest a i þessum þridiungi heimsins, er Eyropa heitir; sextigir storaa falla i hana, en hon kemr i .vii. stôdum til siofar; sia borg heitir af hans nafni Theodosia.

9. Þa er Gracianus keisari var staddr i Lugdunaborg a Vallandi, [þa hefir[3] drottningin kona hans farit i adrar sveitir a kynnis[4] leit at finna frændr sina, en þa er hennar var aptr[5] von, þa gerdu borgarmenn konunginn varan vid, at drottningin var komin[6] til borgarinnar med sinu foruneyti. Keisarinn geck i mot drottningunni fiôlmennr ok þo [betr vidbuenn þa kossum en vopnum[7]. Vôgnum var þar ekit tiôlldudum. Keisarenn hverfr at vagni þeim, er virduligast var tialldadr, ok lypti tialldinu ok villdi hverfa[8] til drottningar, þa spretta menn or vaguinum ok verpa af ser [qvennfôtum, en undir voru bryniur ok brugdin sverd[9]. Þar var Maximus kominn ok hans menn, ok bera þeir þegar iarn[10] a Gracianum keisara ok drepa hann. Jarlinn Androgacius var i þessum vælum ok svikum med Maximo. En Maximus setr þa ôndugi [rikis sins[11] i Treveris borg. Nu geriz slikt þa um hann, sem segir i Marteins sôgu byskups. Hôfþingi ok umbodsmadr Graciani konungs het Macedonius. Einhveriu sinni þa er hann skylldi dæma sakir manna, en Ambrosius byskup ferr til þinghussins ok villdi tẹia[12] mali einshvers mannz, en hann verdr varr vid Macedonius ok vissi eyrindi hans, lætr byrgia þinghusit ok [villdi eingi tillôg hans. Byskup[13] kemr at hurdu ok komz eigi inn, [hann tekr[14] sva til ordz: »Nôckuru sinni muntu til kirkiu koma sva, at upplokin hennar dyrr muntu eigi hitta.« Þat kom nu[15] framm, er Gracianus var drepinn. Macedonius komz undan fyst ok villdi a kirkiugrid, kirkian var opin, en hann fann eigi dyrnar; vard[16] hann þar tekinn ok drepinn. Eptir drap Gracianus[17] sendir Ambrosius tysvar bref Maximo til at na liki hans til graftrar[18]; fund þeira bar saman byskups ok Maximus, ok bodar byskup honum til

1 *tilf.* *Fr.* 2 [við a þa *Fr.* 3 [hafði *Fr.* 4 *mgl.* *Fr.* 5 heim *Fr.* 6 *tilf.* *Fr.* 7 [vapnlauss *Fr.* 8 minnaz *Fr.* 9 [tioldom oc kvenna bunengi, en voro undir i bryniom oc með brugðnom vapnom *Fr.* 10 vapn *Fr.* 11 [sitt *Fr.* 12 hlifa *Fr.* 13 [vill eigi tillœgo hans. En er byskup *Fr.* 14 [tekr hann *Fr.* 15 þa *Fr.* 16 var *Fr.* 17 Graciani *Fr.* 18 graftar *Fr.*

kirkiu ok qvez þar hafa meira valld til allra stormæla en annars stadar. Maximus svarar: «Ecki fer ek þangat, mældu her slikt er [þu villt[1]. Ma ek ok her bannsetia[2] þik, ef þu vill eigi sætt gera ne skript taka« segir byskup. «Wil ek vist skript taka,« segir Maximus. Byskup segir: «Syndu i þvi fyst þa idron þina, at þu legg nidr keisara nafn ok ber eigi koronu, ok haf hertuga nafn sem fyrr edr iarls.« «Þetta ma ek eigi gera, qvad Maximus, i moti tign minni.« Byskup segir: «Ef þu matt þetta nu eigi gera lostegr, þa skalltu þat sama [skams bragdz[3] gera naudigr, ok þat riki et sama, er þu hefir med rôngu tekit, skalltu þa med svivirþingu ok qvol lata. Nu ef þu vill sattr verda vid gud, þa taktu idron ok gack undir skriptina, edr ella bannfæri ek þik nu þegar, fyrir þvi at þu ert drottinsviki ok hefir drepit þinn herra saklausan, þat er mest þyngir þitt mal.« Maximus villdi eigi ganga undir þessa skript fyrir metnadi sinum, en byskup gerir hann fraskila postoligri cristni ok ôllu samneyti cristinna manna. En sva er sagt, at Maximus berr eigi þadan fra coronu ok tynir bædi [likamligri heilsu ok andligri[4], ok ferr þo sidan sudr um fiall ok a bardaga vid Valentinianum enn yngra, er þa var keisari vordinn eptir Gracianum brodur sinn, ok sigraz a honum, eptir þvi sem Martinus byskup hafdi honum fyrir sagt. Sidan steyckr undan Valentinianus med modur sinni ok lidi, en Maximus vikingr leggr undir sik Romam ok allt Italialand. En eigi ôllum vetri sidar þa drogu þeir Thôodosius ok Valentinianus mikit lid saman ok foru at Maximo. En er Maximus sers[5] ofrid at ser fara, þa rædir hann sva vid sina menn: »Þa voitit er[6] mer retta fylgd, ef er[6] beriz sva fyrir mer sem fyrir hertuga helldr en keisara.« Nu fyllduz þar þa ord Ambrosius, at hann mundi naudigr ok svivirdliga verda nidr at leggia keisara nafnit, er hann villdi eigi lostegr.

10. Nu[7] tekz bardagi med þeim vid borg þa er Aqvilegia heitir. I þeim bardaga fellr Maximus ok Victor son hans fyrir Theodosio konungi[8] ok mestr hluti lids þeira. A [nôckurri tid[9] lætr Probus agætr madr fylgia sveini sinum, er Notarius het, diofulodum a fund Ambrosii. En er þeir voru komnir midbreytis[10], þa flydi ohreinn andi fra sveininum ok vard hann heill. Nu kemr hann[11] til byskups ok er med honum nôckura hrid, ok er vel heill, en er hann ferr aptr ok kemr i þann stad, sem hann hafdi

1 [þer likar *Fr.* 2 bannfæra *Fr.* 3 [bratt *Fr.* 4 [licams heilsu oc andar *Fr.* 5 frettir *Fr.* 6 þer *Fr.* 7 Eptir þetta *Fr.* 8 keisara *Fr.* 9 [þessum sama tima *Fr.* 10 miðleiðis *Fr.* 11 Notarius *Fr.*

heilsu tekit, þa vard hann diðfulodr sem fyrr; en þa var fiandinn særdr af særingarmonnum, hvi hann hefdi fra honum[1] skiliz, er hann for til Melansborgar edr medan hann var þar, en hyrfi[2] aptr til hans, er hann for a brott þadan. Fiandinn qvez eigi þorat hafa at finna Ambrosium, en lez þar bedit hafa, unz hann færi aptr, qvez þa taka ker sitt, þat er hann hafdi tynt.

11. Eptir fall Maximus var Theodosius staddr i Melansborg, en Ambrosius byskup i austrlondum i Aqvilegia. Þa vard sa atburdr i kastala einum, at cristnir menn hofdu upp brent tidagerdarhus Gyþinga ok lund einn Valentinianorum, er blotadr var. Villumenn þessir, er Valentiniani eru kalladir, gôfgudu .xxx. goda, en af þessu verki vard missætti þeira i milli. Jarl sa, er þar var yfir settr, sendir bref Theodosio konungi [um þetta mal[3], [at hann sendi þau ord i moti ok þann dom[4], at byskup skylldi upp lata gera husit[5] Gyþinga, sa er þar var yfir, en iarlinn skylldi hefna munkunum. En er Ambrosius fra[6] dom keisarans, þa sendir hann honum bref ok bad hann aptr taka dom sinn, qvad hann rangliga dæmt hafa: «Nu ef þu vill eigi lydni veita [edr minum ordum hlyda[7], þa mun ek min ord eigi til hialpar þer leggia vid gud, þviat eigi vill gud mina bæn þiggia [fyrir þer[8], ef þu vill þik eigi mykia[9] eptir mer [um þenna lvt[3], ok þessu mali skal ek sva fast fylgia, at her skal ek lifit a leggia [helldr en gera þik upp ok sva mik i þôgn minni[10].« Nôckuru sidar finnaz þeir byskup ok konungr i Melansborg, ok einn hatidardag i kirkiu taladi byskup ok veik mali sinu til keisarans, ok let sem gud sialfr[11] mællti til hans a þessa lund: «Ek hefir þik gervan af lagum enn hæsta keisara, hefir ek þer upp gefit herlid[12] ovinar þins ok allan vidbunad ok fiarhlut hans, hefir ek ok sialfan hann selldan a þitt valld ok undir þin vopn, hefir ek þer ok erfingia gefit at sitia yfir hasæti rikis þins. Sigr hefir ek þer ok gefinn torvelldalaust, en þar a mot veitir þu uppgang ok traust ovinum minum.« En er byskup lauk tôlunni ok geck ofan af tôlustadinum[13], þa hvarf[14] konungr at honom ok mællti: «Miog [hefir þu[15] talat i moti oss i dag, byskup.« Byskup sagdi: «Eigi i moti þer helldr med þer.« «Ek ætla sva vera ok, sagdi keisarinn, at ek hafi[16] of hart dæmt.

1 sveininom *Fr.* 2 hvarf nu *Fr.* 3 [*tilf.* *Fr.* 4 [en hann sendir þann orskurð i moti *Fr.* 5 þinghusit *Fr.* 6 spyrr *Fr.* 7 [mer um þenna lvt, sagði hann *Fr.* 8 [i þina þyrft *Fr.* 9 vikia *Fr.* 10 [*mgl.* *Fr.* 11 *tilf.* *Fr.* 12 herbuðir *Fr.* 13 tòlostallinom *Fr.* 14 veik *Fr.* 15 [hafit þer *Fr.* 16 hafa *Fr.*

[Þa lǫgdo til iarlar keisarans, en[1] byskup svaradi þeim: «Vid keisarann a ek þetta mal en eigi vid ydr, þviat annars hattar er mer vid hann geranda en vid ydr.» Byskup qvez ok eigi fyrr messuna syngia mundu en [þetta mal væri honum upp iatad[2], «ok legdu nu a valld mitt,» sagdi byskup til konungs. Hann svaradi þa: «Lat vera nu sem þu vill.» Tysvar vard hann at iata hans[3] umdæmi. Sidan gengr byskup ǫruggr ok gladr til allteris ok syngr messu, ok eru[4] allir fegnir þeira sætt.

12. Litlu sidar [berst at sa lutr[5], er mikillar rygdar fær byskupi. Borg heitir Thessalonia, en lydr þessarrar borgar vard fyrir sokum ok keisara reidi, en byskup bad þeim liknar, ok keisarinn het þeim fridi. En stundu sidar geriz sva með[6] fyrirtǫlum iarla hans at ovitanda byskupi, at hann[7] sendir lid til borgarinnar, ok koma þar a uvart um morguninn snemma ok rada þegar a hendr borgarmonnum ok drepa þa allt framan[8] til dagmala. Mestr hluti borgarlids[9] var nidr drepinn, en byskupi fær þetta mikils, er hann fregn. Konungr var ok þa staddr i Melansborg. Nu apnaz ok ringir til aptansǫngs, þa geingr konungr til kirkiu med fylgd sina ok foruneyti, en byskup stendr fyrir i kirkiudyrum skryddr ǫllum skruda ok bagal i hendi, ok diakn[10] var ok skryddr til hægri handar honum, ok hafdi i hendi krismaker ok kalek toman. Sidan beidir byskup liods, ok eptir þat tekr hann til mals: «Þik qved ek at þessu, keisari, þu hefir rasat i mikinn glæp, þu hefir framit manndrap ok morgu saklausu blodi ut hellt fyrir hendr riddara þinna. Nu fyrir þessa sǫk fyrirbyd ek þer kirkiugongu, ok med þvi byd ek þer skript at fasta .xl. natta ok daga vid vatn ok braud, skalltu þessa stund hafa harklædi næst þer ok hvila a berri iǫrdu ok sitia a golfi. En ef þu vill þetta eigi, þa mun ek nu þegar skilia þik fra cristnum domi ok allri þeiri lausn ok miskunn, er geraz ma af holldi ok blodi drottins vors Jesu Cristz, þat er helgaz yfir þessum kalek, ok af smurning heilags crisma, ok fra ǫllu þvi, er manni ma til hialpar verda ok eilifrar sęlu.» Keisarinn sagdi: «Framdi David konungr bædi manndrap ok hordom, ok hefir honum þo lytt.» Byskup sagdi: «Ef þu vill fylgia honum David i afgerdinni, fylgdu ok honum i yfirbotinni.»

1 [*saal. Fr.*; sva tǫku .ii. iarlarnir ordum i. *Cd.* 2 [honum væri rettendi iatvð i þesso mali *Fr.* 3 byskups *Fr.* 4 urðo *Fr.* 5 [berr at þann lvt *Fr.* 6 *saal. Fr.*; at *Cd.* 7 keisarinn *Fr.* 8 fram *Fr.* 9 borgarlyðs *Fr.* 10 hans *tilf. Fr.*, *som ender med dette Ord.*

En er konungr heyrdi þessi en sannligu svǒr, þa iatir hann sik undir skriptina.

13. Nu geingr konungr i kofa einn undir fǒstu ok skript. Nu dregr honum fastan bratt ok stridleikr skriptanna, mest fyrir þvi at hann var adr sællifi vanr, ok þikir eigi vist, hvort hann fær annat skriptinni edr eigi. Byskup vitiar hans, ok adrir gǒfgir menn, ok qvadu hann skripthardan vera ok med litilli stillingu ok eigi at sinu samþycki. Konungr sagdi: «Hans bod skal ek halda þo, þviat hann er ǒllum ydr merkiligri ok einn hardari ok helgari, ok þo at mer se þungbær, þa skal ek þo eigi þvi bregda, er hann baud. Hofþingi ok gelldingr[1] .j. keisarans ris upp ok mælir: «Ofsamadr mikill er byskup sia, er hann vill fyrir sia, hvat konungr ma bera; nu mun ek fara ok skelfa hann til, at hann aptri ummælum sinum, ok get ek, at eigi se mikit fyrir þvi.« «Fardu, sagdi konungr, ok get ek þer þo at ǒdru reynaz, en þu ætlar til.« Hann ferr til kirkiu ok lætr byskup kalla utar or kor, ok ganga þeir a einmæli. Hǒfþinginn mælir a hendr honum um skriptabod vid konung, qvad hann rangliga dæmt hafa hans mal, «ok hefvir þu lagit a hann sva þungt, at hann ma eigi bera, ok hæfir þer annars hattar vid keisara at gera en vid einnhvern annan.« Nu leitar hann marga vega[2] vid byskup, en þar stendr þo i sama stad. Þa tekr hann at reidaz hǒfþinginn ok heitaz vid byskup, at honum skylldi eigi lyda, nema hann vikiz eptir ok vægdi honum. Byskup svaradi þa: «Þu fær mer ecki meira gert en gelldingr einn, en ek skal þat standaz sem byskup.« Hǒfþingianum vard ecki a munni ok geck a brott ok for a fund konungs ok sagdi honum, hversu farit hafdi. Konungr svaradi: «Gat ek eigi allfiarri, at sia mundi þer betri ufarin. Nu mun ek fara sialfr a fund hans, ok get ek, at hann vikiz meir eptir bæn minni en heitan þinni.« Nu ferr konungr sialfr a fund byskups, ok er byskup sier konung at kirkiu ganga, ok þa er byskup var ut genginn, þa fellr konungr þegar til fota honum ok sagdi sva: «Eigi er þat eyrindi mitt til kirkiunnar at ætla i kirkiuna, helldr at bidia þik vægdar ok liknar a skriptinni, þviat ek uggir, at ek mega eigi bera svabuit.« «Ja, ia, sagdi byskup, ek skal likna þer ok leggia annat til med þer, ef þu matt eigi þetta bera; þa er fyrir þik koma vandamal edr storlutir þeir fiarlægir or ǒdrum londum, þa hleyptu eigi skiotum domi a, helldr skalltu lida lata þria tigi daga þadan fra, er þu spyrr, adr þu dæmir, þviat þa

1 belldingr *Cd.* 2 mega *Cd.*

mattu glôgligar vita et sanna af vitnisburd fleiri manna, ok vil ek, at þu gerir þetta mal lôgtekit ok skrasett, sva at þetta halldi hverr konungr eptir annan; en ek mun skriptina af þer taka ena mestu.« Konungr qvaz þetta giarna vilia. Nu er þetta lôgfest, at hann er frelstr. Nu er lidnir eru .xl. daga ok kemr ioladagr, þa leidir byskup konung i kirkiu; en eptir guzspiall gengr konungr i sônghus innar ok stendr þar, en byskup sier ok snyr at þangat ok tekr i ôxl honum ok segir sva: »Wvigdr madr ertu en eigi klerkr, þvi attu ok at standa i milli olærdra manna.« »Til þess geck ek higat, sagdi konungr, at ek væri þa buenn ok nær staddr, er þionustugiof ferr framm.« Byskup mællti: »Gacktu til rums þins ok bid þar, ok mun þer gefaz þa rum innar at ganga, er þar kemr.« Sva gerir konungr enn, sem hann beidir. I þeiri messu er konungr hunsladr ok leystr fra allri secktinni sinna glæpa. Fra þessu upp tekr Ambrosius konung at virda ok vagsama i ôllu umframm um adra menn; konungr leggr ok alla stund a, er hann ma, at snua Valentiniano fra Arrius villu til rettrar truar, þeim er hann hafdi aptr i rikit.

14. A. þeim dôgum er Theodosius var staddr i Miklagardi en Valentinianus i Vallandi, þa eru Valentiniano bref send af Roma undir nafni aulldunga (fra) Simaco greifa, ok sendi ord til sigrstallz nôckurs ok þess heidins doms, er þar fylgdi, ok bedinn konungr leyfis at þeiri forneskiu, sem fyrrmeir hafdi verit i Roma. En er byskup vard varr þessar ordsendingar, þa bad hann konunginn til sin senda brefin, ok qvaz hann svara vilia brefunum af sinni halfu. I moti brefonum ritar hann bok vitrliga ok sendir til Romam ok med sva mikilli snilli, at enn mikli mælandi Simacus þordi eigi ordi i moti at mæla. Litlu sidar geraz þau tiþindi, at i borg þeiri a Vallandi, er Nimuensis heitir, finnz Valentinianus konungr af sinum monnum liflatinn ok heingdr, en þessi svik voru eignut af sumum monnum iarli einum, er Arbogastes het, en konungr var eigi skirdr holldr primsignadr at eins undir rettri tru. Eptir liflat konungs, koma systr hans ryggvar af miklum harmi a fund Ambrosius ok segia honum tiþindin, en hann huggar þær a marga vega i sinum ordum, ok er eitt at minnum haft af ordum hans, at hann sagdi sva: »Annathvort skulum vid badir edr hvorgi ockar himinriki hafa.« Ok ma af slikum ordum marka, hversu mikit traust hann þottiz undir gudi eiga.

15. Rikit tekr eptir Valentinianum Eugenius. En bradliga eptir þetta þa beidiz enn ens sama, sem fyrr var af Valentiniano

konungi i ordsendigu Simacus, ok beida nu þess Flavianus greifi ok Arbogastes iarl Eugenium konung. En hann gefr nu upp ok sva gud ok tru sina. Þetta fregn Ambrosius ok verdr vid reidr, ok er hann fra, at konungr for til Melansborgar, þa ferr hann fyst til þeirar borgar, er Bononiensis heitir, þadan til Favencio borgar ok sva ut i Thusciam, ok fordadiz fund ok samneyti ens gudrækia Eugenij meir en meingerdir hans. Nu sendir byskup bref til hans, ok mun her fatt sagt af þvi mörgu, er i brefunum stod. Þetta var þar mællt: «Þo at keisaradomr se mikil tign, þa er þo gud meiri ok ædri; hann ser hiörtu allra manna, litr hann ok hugrenningar manna, ok alla hluti veit hann fyrr en verdi, ok sva hvat hverium gengr til hverskis. Er þolit eigi, at er sed blecktir, en er vilit þo bleckia gud. Nu ef þu ert rangs bedinn bædi vid gud ok menn, nu er mer eigi lofat annat ok eigi byriar mer annat en at rada mer sialfum heillt, ef ek ma eigi þer.« Nockveriu sidar ferr byskup aptr til Melansborgar, en þa er Eugenius brott farinn moti Theodosio til bardaga, en byskup bidr medan i Melansborg tilqvomu ens rettcristna keisara Theodosij, ok var ohryggr i, at gud mundi eigi lata vonda menn ganga yfir sina menn. En adr Eugenius ok hans lid færi or borginni, þa höfdu þeir Arbogastes iarl ok Flavianus greifi heit (strengt) þess, ef þeir kæmi aptr med sigri, at þeir mundi gera[1] stall i kirkiu Ambrosij ok hafa hana fyrir hrossahus en drepa klerka hans, en sia var sok til þessa, at þeir villdu eigi þiggia ofron konungs ok eigi tidir syngia, sva at hann væri vid.

16. Nu faraz þeir i moti konungarnir, ok hafdi Theodosius miklu minna lid, þviat hans traust var eigi undir sverdi edr skilldi ne mannfiölda helldr undir gudi ok helgum monnum. En þa er hann kom i nand fiollum þeim, er Alphes heita, þa verdr hann þar varr vid niosnir Eugenij, þviat þeir leynduz þar i fyrirsatum. Nott ena næstu eptir vakir konungr Theodosius ok er a bænum ok bidr gud ser sigrs ok tenadar ok helga menn arnadarordz ok fulltings. Af bænenni sofnar hann ok i svefninum vitraz honom .ii. dyrligir menn ok segia honum sva: «Vid erum postolar drottins Johannes ok Philippus sendir til þin af gudi ok þat þer at segia, at Ambrosius byskup bidr fyrir þer bædi nætr ok daga til guds, at hann gefi þer sigr. Nu veitir gud þat hans bænum, at vid komum til þin ok munum vid ganga i bardaga

1 hrossahus *tilf.* *Cd.*

med þer i gegn ovinum þinum, ok þottu siair ockr eigi i orrostunni, þa skalltu þvi ifanlaust trua, at vid skulum þar vera ok þer fullting veita.« Eptir þetta vaknar konungr ok þackar gudi huggan þessa ok vitron, er honum var veitt. Enn næsta dag eptir finnaz þeir Theodosius ok Eugenius, ok tekz akôf orrosta med þeim þegar ok sva hôrd hrid, at Grickir opodu a hæl. Nu sier Theodosius sina menn hlida, þa geingr hann fra ok a hamar einn ok fellr a kne til bænar ok segir sva: »Minnztu min, drottinn, syndugs mannz, ok se at ek beriumz fyrir retta sôk.« Þetta ser ok heyrir iarl hans einn, hôfþingi hersins ok enn mesti kappi, treystiz nu guds fulltingi ok bæn konungs, eggiar nu sidan a adra iarla ok hertuga til framgongu. Risa þa vid allir i annat sinn ok sva ôruggir i hug, at annathvort skulu þa allir falla edr fa sigr ella. Þa tekz en hardazta orrosta i odru sinni będi af hôggum ok skotum, ok þa lystr a oda vedri i moti þeim Eugenio, sva at þeir Arbogastes enn mesti kappi ok Flavianus ok annat lid þeira mattu eigi i gegn vega. Einn mikill hofþingi ok hetia i lidi Theodosij, er het Bavarius, ryfr fyst fylking þeira Eugenius med akafa vedrsins; ok þo at þeir skyti i moti spiotum edr steinum, þa bar vedrit þat allt aptr a þa, ok gerdi þeim þat mikinn mannskada, en i odru lagi vopnagangr sinna ovina. Nu megu þeir eigi vid halldaz ok snua undan, þviat vedrit veitti ôdrum agang ok bana en odrum framgang ok frama. Nu ser Eugenius sik sigradan ok snarar a fund Theodosio ok fellr til fota honum ok bidr ser liknar ok lifs; en vinir Theodosij vissu hann vera liknsaman en trudu illa Eugenio, þa bidu þeir eigi svara konungs ok hiuggu hann þegar fyrir fotum honum. Nu slitr bardagann, ok sendir Theodosius konungr bref Ambrosio, segir honum tiþindin ok þackar gudi ok honum sigrinn. Byskup lætr ser ecki annat iafnskyllt en frida fyrir þeim, er undan hôfdu komiz or bardaganum, ok sendir diakn sinn med brefum med þessum eyrindum a fund konungs. Nockuru sidar ferr hann sialfr til Aqvilegia borgar, ok finnr hann þar konung, ok ens sama eyrindis enn fyrir monnum at frida, en þat geingr honum audvelliga vid konung. Konungr fellr þegar til fota honum, er þeir funduz, ok qvad hans bænir ok verdleik ser sigr hafa veitt. Fam stundum sidar tekr konungr sott ok andaz, en byskup lifdi .iii. vetr sidan. Frafall hans harmar byskup miog; um hann gerir hann langan pistil edr sendibref. I þeim pisli grætr byskup miog ok lofar konung umframm um alla adra keisara, qvedr eingan fædaz munu i verolldina þvilikan keisara sem hann var,

**Her eru iarteinir ens helga Ambrosij byskups.**

17. Enn vard sa atburdr i Florentisborg i husi gôfugs mannz eins, at sonr hans het Pansopius ok var a unga alldri diôfulodr, en af optligri bæn byskups vard hann græddr ok heill. Stundu sidar tekr hann sott ok andaz, en modir sveinsins kann illa dauda hans, hon hittir prest einn byskups ok rædir vid hann, hversu at hon skylldi med fara, qvez bidia mundu byskup, at hann gæfi lif syni hennar. Prestr leggr þat rad til, at hon skylldi leggia lik sveinsins i reckiu byskups, medan hann væri geinginn til nattsôngs, ok vita hvat hann tæki þa til, er hann kæmi aptr. Sva gerir hon, sem hann gaf rad til. Byskup kemr til reckiunnar ok ser lik sveinsins, bidr hann bæn sinni blidliga yfvir sveininum ok tekr a honum ok knyr hann sva sem til voknunar, ok segir þetta þrysvar: »Ris upp þu.« En vid þetta akall hans sez sveinninn upp heill ok lifandi, sva sem hann vaknadi or svefni. I þeiri borg enni sômu lætr byskup kirkiu gera yfir helga doma þeira Vitalis ok Agricole guds piningarvotta; þeir hofdu iardadir verit i millum Gyþinga i Bononiensis borg, ok vissu ôngir groft þeira, adr þeir vitrudu[1] byskupi, hvar þeir lagu. Nu voru þeir þadan færdir ok undir allteri þessar kirkiu nidr lagdir med morgum iarteinum ok allra manna fagnadi.

18. Þat hafdi enn verit, er iarlinn Arbogastes hafdi bariz vid sina þiod Frankismenn ok hafdi marga drepit en suma a flotta rekit, þa var hann spurdr at veizlu einni, hvort hann kynni nôckut Ambrosium byskup. En (hann) qvezt vist kunna hann ok vera vinr hans ok qvezt opt at hans borde verit hafa. »Eigi er þa undarligt,« segia þeir er spurdu[2], »þottu sigriztb i ardogum, er þu ert i þess mannz vinattu, þar er solinni sagdi sva: stattu ok stod hon þa.« En þetta er fyrir þvi sagt, at af þessu ma marka, hverrar frægdar hann var i ônnur lond. Enn lætr Ambrosius upp taka or iordu helgan dom Nazarrie martiris ok færa til postola kirkiu i Romam. Þa er sia enn helgi madr var upp tekinn, þa var blod hans i grofenni sem nyblætt væri, ok hôfud hans, þat er guds ovinir hofdu af honum hôggvit, var sva heillt med holldi ok hari ok skeggi fundit, sem þat væri nyþvegit edr nylagit i molld, ok sannadiz þar ok syndiz drottinligt fyrirheit, at eigi eitt har mundi fyrirfarazt af hôfdi þeira. Wid upptôku þessa pindz mannz vard dyrligri hilmr en[3] gros edr iurtir mætti slikan gera. En er sia

1 vitrudaz *Cd.* 2 svor. *Cd.* 3 ne *Cd.*

heilagr domr var færdr til postòla kirkiu þeirar, er fyrrmeir var yfir þeira helgum domum reist, ok þa er byskup taladi þar fyrir monnum, þa tekr ohreinn andi at kalla fyrir einn odan mann ok qvez sik qvaldan vera af Ambrosio. Byskup sneri til hans ok sagdi: «Þegi þu diðfull, þviat eigi qvelr þik Ambrosius byskup helldr craptr þessa enna helgu manna ok ðfund þin, þviat nu sier þu mennena þangat upp ganga, sem þu vart fra rekinn.« En ad sva mællto þagnar enn odi ok fellr nidr i omatt ok skildiz sva vid vanheilsu sina.

19. Eptir frafall Theodosij ens goda konungs taka rikit eptir hann Archadius ok Honorius synir hans. En er Honorius er staddr i Melansborg ok hann þingar þar vid folkit, ok hafdi hann haft dyr morg utan af londum til skemtanar monnum, þa var sendr riddara flockr af Stilico iarli ok af radum Eusebius greifa at taka mann nðckurn, er Crisconius het. En hann komz a kirkiugrid, en þeir rada i kirkiuna eptir honum ok taka hann iafnt fra allterino or hondom byskupi ok klerkum hans, þviat þeir voru fair fyrir. Fara þeir i brott med gleymingi miklum, en byskup eptir med hðrmungu legz nidr fyrir allteri til bænar. Riddararnir komu aptr til motstefnunnar ok hælduz miðg. En i þvi bili eru dyrin laus latin til leiks ok skemtanar monnum, þau er leopardi heita, þau eru lik oðrgum dyrum, en þegar er þaù verda laus, þa gera þau fðr at þeim monnum, er kirkiuna hðfdu hneista, ok drepa þa undir sik ok leku þungliga flesta edr meiddu, ok mundi af daudum ganga sumum, ef eigi nyti mannfiolda vid. En er iarlenn Stiliko ser þetta, þa idraz hann bods sins ok vikz til satta vid byskup ok gefr aptr mannenn. En med þvi at sia madr var þungra hluta sekr, þa ferr hann or landi, þviat hann matti eigi annars kostar sitt mal bæta, ok kemr aptr sidan i sætt.

20. Þat var enn i þann tima, at einnhvern dag geingr byskup ok hans menn til hallar sinnar, en byskup skridnar ok fellr nalega. En Theodorus, er þa var ritgerdarmadr hans en sidan byskup Mutinensis cristni, hann brosir at falle byskups, en byskup litr vid honum ok segir sva: «Varaztu fyst, at eigi fallir þu.« En i þvi bili fellr hann, sva at honum vard meint vid; atti sa þa sitt fall at harma, er adr hafdi hlegit at annars falli.

A enni somu stundu kemr bref med virduligum giðfum ok sendimonnum af drottningu einne, er Fritigil het, utan or londum til Ambrosium. Hon hafdi tru tekit af einum cristnum manni,

þeim er til hennar hafdi komit af Italia ok sagt henne mart fra heilagleik ok agætum Ambrosius. I brefunum bad hon senda ser ritning nóckura edr ord, þau er henne kendi, hversu hon skylldi lifa. Hann gerir pistil i moti þvi sendibrefi med tilvison truarinnar, bidr hann hana þess, at hon sendi ord[1] til vid bonda sinn, at hann gangi undir Rumveria med sina sveit ok sitt riki. Hon drottningin ferr þegar til Melansborgar ok ætladi at finna Ambrosium, en hann var þa frammkominn, er hon kom; ok feck henne þat mikillar ahyggiu ok hrygdar.

21. A einum drottinsdegi bar sva at, þa er Ambrosius sóng messu, at eptir collecto um pistil sofnar byskup, en sa var þa vani, at diakn skylldi blezan taka af byskupi til lesningar; nu kemr at þvi, en byskup vaknar eigi. Nu verdr fall a tidunum. Keisarinn var vid staddr Archadius, ok frettir hveriu sęti fall tidanna, en honum var sagt, at byskup svaf. En óllum var sva mikil ogn af byskupi, at eingi þordi at vekia hann; en keisarinn riss upp loks, þa er þógn hafdi verit nær halfa eykt, ok tekr hann sa honum ok knyr hann ok mælir: «Herra, framm lidr stundin, ok villdi diaknit blezan, ok er folkit þrotit at bidstundu langri.« Byskup vaknar ok mællti: «Latid ydr eigi at þikia, segir hann, þviat gud hefir mer mikit veitt i þessum svefni; nu kann ek ydr tiþindi at segia, þviat broder minn Martinus byskup er frammfarinn af verolldu þessi, ok var ek þar um rid ok veitta ek honum þionustu ok liksóng, ok var nu ein bæn osóngin, er þer voktud mik.« Sidan syngr byskup messu, ok at lokenni henne snyz hann utar ok segir sva: «Keisari þessi, er mik vakti ok let mik eigi sofa þa stund, er mik beiddi naudsyn til, fari hann þenna dag i brott or Melansborg ok komi her alldri sidan; en ef hann gerir eigi sva, þa mun hann daudr, adr iafnleingd komi annarra missera.« Keisari gerdi sva, at hann ferr a braut þann dag ok kemr þar alldregi sidan. En nu fretta menn liflatzstund Martinus, ok berr saman svefnstund Ambrosius ok likfylgiu Marteins byskups. Þat for ok med, at þeir Turonsborgar menn sa þar byskupligan mann koma ok tiguligan nær dagmalum dags, ok geck sa framm fyrir adra bædi um fyrirsóng ok adra þionkan vid byskup ok hvarf a brott naliga vid lokinn liksónginn.

22. Þat hafdi enn verit, at Melansborgar menn hófdu ord sęnd Romverium, at þeir skylldi senda þeim meistara til at kenna

1 ordi *Cd.*

rethorikam, þat er malsnilldar iþrott; en þeir fa til þeirar farar Augustinum, er þa var kænstr i þeiri iþrott; ok ferr modir hans med honum, er Monica het, hon var cristin. Augustinus var i villu Manichiorum, hann var kvennamadr mikill. Modir hans ferr opt a fund Ambrosius ok harmar son sinn ok bidr byskup arna honum leidrettu. A einum hatidardegi bidr Monika akafliga son sinn Augustinum fara med ser til kirkiu ok heyra tolu Ambrosius. Þat fær hon af (honum) loks, ok koma þau þar, en Ambrosius byskup talar ok greinir alþy(d)liga tru ok brytr fagrliga saman et forna lǫgmal ok et nyia. En vid tolu hans vitiar craptr ok miskunn heilags anda hiarta Augustini, ok komz hann vid miog, ok skiptiz allt hugarfar hans. Ambrosius ser ok, at hans er vitiat af gudi, ok vard feginn ok lofar gud med þessum ordum Te deum laudamus, en Augustinus svarar Te eternum patrem. Sva mælaz þeir vid med versaskipti til loka. . Eptir þat tekr Augustinus tru ok ferr sidan ut i Affricam ok vard enn æzti kennandi ok byskup.

23. Sia enn helgi byskup Ambrosius var meinlætamadr mikill, hann fastadi hvern dag nema drottinsdag edr þvottdag edr ena haleituztu messudaga; iduliga var hann a bænum bædi nætr ok daga; avallt er annarra naudsynia vard a milli, þa ritadi hann ok dictadi helgar bækr. Ahyggia hans var mikil fyrir allri cristninni. I gudligri þionustu var hann sva kostgæfr ok frammqvæmdarsamr, at hann skirdi ok cristnadi fleiri menn en .v. enir næstu byskupar sidan eptir hann; mikill umhyggiumadr var hann fatækum monnum ok utlendum monnum, gull ok silfr ok gersimar, þær er hann atti fyrir vixlu sina, gaf hann upp kirkiu edr fatækum monnum, ok sva þorp, þat er hann atti, gaf hann til kirkiu ok let þo systur sina taka skulld af til atvinnu ser. Hann var sva huggodr madr, at hann var fagnandi med fagnendum en gratandi med gratendum; sva ok þa er menn geingu til skripta med hann, þa komz hann vid, unz hann kom hinum med ser til tara. Hann harmadi edr gret miog avallt, er hann fra andlat presta edr byskupa, ok er klerkar hans undruduz þat, þa sagdi hann sva, at hann qvaz eigi þat grata, er sa var framfarinn, er þa var andadr sagdr, helldr hitt at hann var honum fyrri frammfarenn, ok sva þat at torvelldliga[1] finnz sa kennemadr, er gudi ma algerliga lika. Hann sagdi fyrir sinum monnum andlat sitt ok qvaz med þeim vera

1 felagi *Cd.*

mundu til paska. Oaflatliga harmadi hann þat, er hann sa rot allz ens illa upp renna ok þroaz milli manna, þat er agirne, su er eigi sedz af gnott ne minkaz af voladi, ok qvad hann hana aumliga a milli allra, en þo miklu aumligzta mėdal lærdra manna. Þat var fam dǒgum fyrr en hann legdiz i reckiu, at hann dictadi skyring um Deus auribus nostris. Þa kom yfir hann logi med skialldar vexti ok leid sva inn i munn honum, sva sem þa er hǒfþinginn geingr inn i hǒll sina, en vid þetta vard andlit hans biart sem snior; stundu sidar tok hann yfirlit sin en sǒmu. Þann dag gerdi hann enda a dicti sinum ok riti, þviat sa salmr vard eigi fylldr edr luktr, er þa var upphafdr.

24. Þionustumadr iarlsins Stilico hafdi gerr lygibref nǒckur til talar vid þa menn, er kirkiu sottu edr tidir Ambrosius. En iarlenn villdi eigi hegna þat mal, er hann (vard) varr vid. En er þetta mal kom fyrir byskup, þa kallar hann þenna mann til sin ok berr a hendr honum þetta mal, ok er hann matti eigi undan komaz ok vard sannreyndr at, þa segir byskup sva: Þat byriar honum, at hann se andskota selldr i tion likamans, at eigi þori neinn slika uhęft upp at taka sidan. Þegar a sǒmu stundu er byskup hafdi þetta talat, þa vard hinn diǒfulodr. Sia atburdr feck ǒllum mikils otta ok hræzlu, þeim er vid voru staddir. Margir menn feingu heilsu diǒfulodir a þeim dǒgum af hans bænum ok yfirsǒngum.

25. Madr het Nicecius gǒfugr, hann var sva fothrumr, at hann matti eigi i fiǒlmenni vera; en a einum hatidardegi, þa er hann skylldi innar ganga þionustu at taka, þa vard honum bægt af fiolmenninu, sva at hann fell, ok vard hann undir fotum trodinn af byskupi sialfum, ok litr byskup til hans ok mælir: «Ris upp þu ok ver heill hedan fra.« Sva vard ok, sem hann mællti, ok kendi hann ser alldregi fotar meins sidan.

26. Fam dǒgum sidar, þa er (hann) hafdi vigdan byskup til Ticino borgar, þa tekr hann sott, ok er iallinn Stilico fregn vanmatt hans, þa tekr hann sva til ordz: «Ef þenna tek(r) fra oss, þa ferr þar forysta ok upphalld allz Italialandz.« Jarlenn kallar til sin alla ena gǒfgǒztu menn borgarinnar ok vini hans, hann bad þa til med blidmælum ok baud þeim med stridmælum, at þeir færi a fund erkibyskups ok bædi hann þess, at hann þægi af gudi leingra lif. En er þeir koma fyrir hann ok bidia þessa, þa svarar hann sva: «Sva at eins hefi ek med ydr verit, at mik tregar ecki leingr at lifa, ok eigi ottumz ek ok at deyia, þviat vær eigum milldan

drottin ok miskunnsaman.« Miðg a enni sômu stundu voru staddir i forhusinu fyrir framan, þar er hann hvilldi, diaknar hans .ii. ok rædduz vid hliodliga, hverr byskup mundi verda eptir Ambrosium, en þeir hôfdu mest i ætlun til þess Simplicianum. En þa er þeim var sem tidaz um þetta at ræda, þa svaradi byskup mali þeira, sem hann væri vid staddr ok heyrdi ord þeira, en þat matti þo eigi at likindum vera, þviat þeir hvisludu lagt, en hann var fiarri, ok andsvaradi hann sva, þa er þeir nefndu Simplicianum: »Gamall ok þo godr.« Þrysvar mællti hann þetta. En þeir verda ihugafullir ok leggia i brott þegar diaknarnir. En þetta berr þo sva at, at sia var til byskups kosinn eptir hann, sem hann hafdi merktan ok kalladan gamlan ok godan, þviat Simplicianus var alldri orpinn.

27. Fam dogum adr hann andadiz ok a einni stundu, þa er hann badz fyrir, þa sa hann Crist sialfan koma til sin ok læia vid ser. Aptan þann er hann andadiz, fra elliftu tid ok til andlatz hans, þa lagdi hann hendr sinar i cross ok badz fyrir; sa allir menn, at einart rærduz varrir hans til bænar, en ôngir namu orda skil. Honoratus prestr hafdi til svefns lagiz i lopti einu þar hia, þa var a hann kallat þrim sinnum ok mællt sva: »Ris upp þu, skundadu, þviat byskup er nu buinn til framfarar.« Id þridia sinn sprettr hann upp vid kallit, þott hann vissi eigi, hverr kalladi, fer hvatliga þangat til, er byskup hvilir, ok gefr (honom) þegar corpus domini. Her var dyrligt ok fagrligt samþycki, þviat iafnskiott sem hann tok corpus domini i sinn likam, þa gaf hann þegar ôndina i moti. Nu hafdi ônd hans þetta farnest af verôlldunni med ser til samneytis heilagra manna ok eingla, ok gladdiz hon nu i samlagi Helias, (þviat hann) ottadiz all(d)ri rettinde at boda hofþingium edr rikismonnum, sva vægdi sia ok neigdi alldri af rettu helldr fyrir keisurum en aumingium. Þat var sialf paskanottin, er hann andadiz a. Ok var nu borit lik hans til kirkiu, fyrr en dagr kom. Margir ungir menn ok þa nyskirdir sôgdu frændum sinum edr fedrum, at þeir sæi hann ganga i kirkiunne i skruda sinum. Sumir sa stiôrnu biarta yfir liki lans, en þeir einir sa, er nyskirdir voru. En er lysa tok paskadag, þa var lik hans borit til hôfudkirkiunnar, er nu er kôllut Ambrosiana, ok fylgdi otaligr lydr bædi gôfugra ok fatækra, karla ok qvenna, eigi at eins cristinna helldr ok gyþinga ok heiþingia, ok urpu menn dreglum edr gyrdlum yfir likit, þar sem borit var, til heilsobotar monnum. Diôflar kôlludu fyrir munn odra manna ok sogdu

qveliaz af navistum hans. A enum sama degi liflatz hans vitradiz hann ok syndiz austr i londum i claustri einu brædrum, ok var a bæn med þeim ok gaf þeim blezan.

28. I Tucia i borg einni, er Florenciana heitir, var einn heilagr byskup, er Zenobius het, hann hafdi bedit Ambrosium, ok hann het honum ok þvi, at hann mundi þangat koma optliga hans at vitia; þa efnir hann þat sva andadr, at i þeiri kirkiu, er hann hafdi gera latit, er ok var Ambrosiana kôllud, syndiz hann hia allteri optliga. I þeiri borg vard ok sa atburdr, at hôfþingi einn edr vikingr, er Redigaisus het, hafdi setz um borgina med herlidi sinu, ok borgarmenn þottuz uppgefnir, þa ber sva at a ena næstu nott i husum þeim i borginni, er Ambrosius hafdi haft fyrr meirr, at hann vitraz þar i svefni einum manni ok heitr borgarmonnum fulltingi næsta dag eptir. Hann segir vitron þessa borgarmonnum ok styrkiaz borgarmenn i huga sinum. Eigi geingr i tauma fyrirheit hans: um daginn eptir kemr iarlinn Stilico til borgarennar med miklu lidi ok vinnr sigr a vikingonum[1].

Macezel het einn hôfþinge, hann var i herfor kominn moti þeim hôfþingia, er Gilldu het. Nu hafdi Mascizel lid minna, ok ôrvænti hann ser sigrs; hann var vinr Ambrosius, nu skorar hann a hann i sinum bænum til fulltings. Um nott eptir hefir hann vitron i svefni, hann þottiz sia Ambrosium med elldiligu aliti ok staf i hendi, ok þa er hann þottiz til fota honum (falla), þa laust hann nidr stafinum þrysvar, ok sem hann markadi stadinn a vellinum, ok mællti sva: «Her her her.« Hann þottiz skilia i svefninum, at i þeim stad mundi hann sigraz a Gilldo(n)e, sem byskup laust nidr stafinum. Sva vard ok a .iii. degi þadan, ok fellr Gilldo i þeim sama stad, en Macezel feck fagran sigr.

Sa atburdr vard enn i Naunio heradi, at heidnir menn hôfdu drepit .ii. guds vini Alexandrum ok Sisinnium, en helgir domar þeira voru færdir til Melansborgar. En i þvi bili var einn blindr madr i annarri sveit, honum var vitrad, at a einni[2] nott sa hann skip at landi fara, þar voru margir menn a, ok voru allir i hvitum clædum; hann þottiz fregna, hverir þar væri, en honum var svarat, at þar væri Ambrosius ok foruneyti hans. Hann bad, at hann blezadi honum ok gefi honum syn. Hann sagdi: «Fardu til Melansborgar ok renn i mot brædrum minum, þeim er þa munu þangat koma - nefndi hann a dag um þat - ok muntu þa fa syn

[1] vikingionum *Cd.* [2] eirni *Cd.*

þina.« Enn blindi madr gerir sem honum var bodit, fer til Melansborgar ok kemr þar þann dag sama, er helgir domar þeira Alexandri ok Sisinnij voru til kirkiu bornir. En er hann snart kistu þa, er i voru helgir domarnir, þa tok hann syn sina ok sagdi allt, hversu farit hafdi.

En þat er at segia, at gud fylldi þat er hann sagdi spamonnum sinum a þessa lund: Sedentem adversum fratrem tuum et occullte detrahentem hunc persequebar, þann mun ek hegna, qvad drottinn, er setz i moti brodur sinum en finnr at honum i liodi. Enn mællti hann sva: Noli detrahere diligere, ne eradiceris, elskadu eigi aleitni, at eigi gerir þu þic upp. Nu ok sa hverr, er hann veit sik hluttakara vera þessa skauplastar, at hann se aleitinn edr atfundull, þa ihugi hann þat, er eptir ferr, ok lati ser annars viti at varnadi. Madr het Donatus, hann var æzskadr or Affrika ok var þa prestr i Melansborg, hann var staddr i samsæti konungsmanna einn dag, ok vard rætt um Ambrosium; en er allir lofudu hann, þa snyz hann vid prestr ok leitar a hans rad. Hann vard þegar lostinn bradasott, sva at hann vard til reckiu at bera, en litlu sidar or rekkiu til gravar. Annars stad(a)r vard ok vidlikr atburdr i borg þeiri, er Cartago heitir. Þar var virdulig veizla bædi at manna skipan ok vidbunadi at diacns eins gôfugs, er Fortunatus het. At þeiri veizlu var Vincencius byskup ok Murannus byskup ok Paulinus fostri Ambrosius byskups, er sôgu þessa hefir saman setta ok sidan var heilagr, ok margir adrir byskupar ok klercar. Verdr þar ok umræda til Ambrosius, Murannus byskup er i aleitni vid hann, en Paulinus segir, hversu presti for Donato. En þessa sôgu med odrum reynir a ser Murannus byskup, þviat iafnskiott sem sagan er sôgd, þa er hann sleginn oda meini, sva at þegar vard hann til hvilu bera, ok lukti sia dagr hans lifi, ok vard sia hans enn efsti. Ollum feck sia atburdr otta, þeim er vid voru staddir, ok sva þeim er frettu þat, at sia vard endir þeira manna, er Ambrosio hallmællto. Mun nu ok endir þessar frasôgu med þeim formala, at sa, er ritadi ok sagdi, ok sva hverr, er lyddi, hafi arnan ens helga Ambrosius ser til syndalausnar ok eilifs farnadar, en af almattkum gudi hialp ok frid ok fagnad bædi nu ok leingdar, þeim er var ok er ok vera mun eilifr gud veitandi viliandi megandi alla hluti goda um allar alldir allda. Amen.

---

# APPENDIX.

(Beklippet Pergamentblad 655 qv. xxviii A. Levning af en gammel Codex. Jvf. ovenfor $34^{7}$—$37^{27}$.)

*Forsiden.*

kia bvin i lokhvilo nokurri ok þa er hann hafði til svefns lagiz, þa kemr Justi[na ok] legzt vndir føt honum i nattserk einom ok hefir við hann þyðlęti ok bliðo. En hon sag[ði sva] siðan orð hans: »lat mik sofa, sagði hann, en þu varaz þat er liggr i mille okar.« [En hon] hyggr at ok ser, at þar hreykviz hauggormr i millom þeirra. Nu verðr hon h[ręddd] ok sprettr ur rekionni sem skiotaz. En sia tiltekia hennar(!) at hon villdi gera hann sa[knę]man ok siðan sva fęra til vtlegðarinar helldr en firir girnðar sakir til . . . A annari stundu ber sva til, þa er Justina ok hirð hennar sato undir drykiobor[ðom, at] matr allr a borðonom varð at drekom ok hoggormum ok poddum en drykrin at bl[oði. Allir] undruðoz ok ottuðuz. Menn eru sendir til hallar B. ok spyria, hvi þessi vndr ge[gndo]. Segit er sva Arrius maunnvm, qveðr hann, aullom þeim, er eigi heifa(!) postoliga trv [ok almenn]iliga, verðr aull fęzla ohrein, sva sem þeir eti orma, eptir þvi sem segir P[avlus postoli] Allir hlvtir ero hreinom hreinir, en saurgum ok trulausom er allt saurukt. [Nv er] slikt synt i þessom vndrom. Margir toko tru af þessom atburð. En af slikom [hlu]tom, sem nu ero sagðir, hofz sanctus Ambrosius eigi upp i metnaðr(!), helldr lęgði hann [sik] þvi meirr firir deo, sem hann var meir upp hafiðr af maunnum; þroaðiz hann h[vern] dag i ast ok i tru firir deo et hominibus. Menn voru tver(!) vinir ok haufvð ver[ðir] Gracianus ok fasteknir i villoni; ein dag er B. talaði, fa þeir honom vanda sp[urn]ing of hollgon Krist, sva at hann þottiz eigi i stað mega or leysa; byðr þeim [an]nan dag eftir til kirkiu at heyra orlausn hans, ok þeir heto at koma. Nu kemr [dagr] annar, ok er nu B. i kirkiu komin ok fiolmenni at heyra þeirra viðspell. En þessir au[mu] menn gefa eigi gaum at heitorði sinu, eigi guði, eigi B., eigi folkinu, er beið i kirkiu, ok m[inn]az eigi ok orða drotins sva melanda: hverr semt †[1] ein af enum minstvm minum [þa] byriar at ausnoligr steinn bindiz við hals honum ok drekiz hann i sęfar divp. Þeir st[iga] upp i reiðslęða ok aka a braut or borgini eyrenda

1 *Det til dette Mærke hørende Marginaltillæg er bortklippet.*

sina at biðanda B. ok folk[ino] i kirkionni. Þeirrar farar varð allr senn endir ok ogorligr atburꝺr. Nu er minz[t] varir sleyngvir þeim or sleꝺanvm ok komo baꝺir dꜹðir a iꜹrð. B. i ꜹꝺrum st[að vi]ssi eigi hvat titt var, ok er honom þotti langt at biꝺa, þa talar hann firir mꜹnnvm [vm þetta] mal ok losar fvlliga ok fagrliga vm þetta vannmæli, er þeim v . . . . . . . A þessvm stundom ris upp hꜹfꝺingi sa er Maximus heitir, hann var ko[min] fra Maximiano enom versta keisera, hann var firir herliði miklo ok ferr [af Ro]ma til Bretlanz ok lętr ser gefa keisera nafn, ok ferr hann siðan ok leggr [hann un]dir sik Saxland. Þat fregn keiseri Gracianus ok sendir a mot honom t[va konunga] með mikit fiolmenni annan Gna[rvm] Hvna konung en . . . . . . cta konung. Þeir koma til Colni ok setiaz um borgina . . . . . . gat Vrsula dottir Divnvti konungs með .xi. þusundir . . . . . . . þęr villdo ei samþykiaz hermꜹnnum . . . . . . . . . . . . . . . . þęr hꜹgva. Maximus for annarstaꝺar ok lagði v . . . . . . . . . . ok kugaði þa með sullt at risa i mot Valens . . . . . . . . . . . . ok gefa honom agirni sina at s . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ga af heimi . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

*Bagsiden.*

[ra n]afn en sa heitir Theodosius magnvs ok felr honum a hendi ꜹstr lꜹ[nd] ꜹll til geizlo(!). Þeodosius hefnir siðan draps keiserans ok a marga bar[daga] við þioꝺir þessar Gothos Hvnos Alanos Sarmatas ok sigrar þęr. [hann l]et gera borg mikla ok agęta i nand við a þa er Danubius heitir, su [er m]est a i heiminvm er Evropa heitir; sex tigir stor a falla i hana, en hon [kem]r i siꜹ stꜹðum til sefar. Sia borg heitir af hans nafni Theodosia. Þa [er] Gracianus keiseri var staddr i Lugðuna borg i Vallandi, þa hefir drotningin [farit] i aðrar sveitir a kynis leið(!) at finna fręndr sina. En þa er hennar var [aptr] van, þa geyrðu borgarmenn keiseran varan við. Keiserin gek i moti drotning[ini fi]olmeꝺr, ok þo betr viꝺbuin þa kossum en vapnum. Vꜹgnum var þar [ekit] tiolld-uðum. Keiserin hverfr at þeim vagninvm er virðuligastr var ok lypti tialld[inu] ok villdi hverfa til drotningiar(!). Þa skretta(!) þar menn vr vagninum ok verpa af [ser] kvenfꜹtum, en undir voro brynior ok brugðin vapn. Þar var Maximus komin [ok menn] hans, bera þeir vapn a Gracianvm ok drepa hann. Jarlin Adro-gatius var i þessum svi[kum ok velræ]ði með Maximo. En

Maximus setr ꜹndvegi rikis sins i Treveris borg. Nu ger[iz] slikt þar þa um hann sem segir i sꜹgu Martini episcopi. Hꜹfðingi ok umboðsmadr Graci[anus he]t Macedonius. Einhverio sini þa er Macedonius skylldi dęma um sakar manna, en [Am]brosius ferr til þinghussins ok villdi tioa mali einshvers mans. En hann ver[ðr var]r við Macedonius ok vissi eyrendi hans ok villdi byrgia þinghusit. B. kemr at [hu]rðu ok komz eigi inn, hann tekr sva til orðz: Nokverio sinno(!) muntu til kirkiu koma ok [u]p lokin hennar dyrr muntu eigi finna. Þat kom nu fram, er Gracianus var drepin. [M]acedonius komz undan fyrst ok villdi a kirkiu grið; kirkian var opin en hann fann eigi [dy]rrin, var hann þar drepin. Eftir drapit Gracianvs sendir Ambrosivs bref Maximo [tysvar] at na likunum til graptar. fund þeirra bar saman B. ok Max. ok boðar B. honom til [kirkiu ok] qvez þar hafa meira valld til allra stormala. M. s. Eigi fer ek þangat, męlðu her [slik]t er þu vill. Ma ek, segir B., banfęra þik her, ef þu vill eigi skript taka. M. [sva]rar: Vil ek taka skript. Syn þu i þvi iðran þina, segir B., attu legg niðr keisera [nafn] ok ber eigi corono ok haf hertoga nafn sem fyrr. Þetta ma ek eigi gera, segir M., i moti [tign] minni. B. s. ef þu matt þetta eigi gera lostigr, þa skalltu þat sama skamz bragz gera [nꜹði]gr ok þat riki er þu hefir at rꜹngu tekit. (!) Nu ef þu vill sattr verða við guð, [þa ta]k þu iðran eða ella banfęri ek þik þegar, er þu hefir drepit þin herra. M. [villdi] eigi ganga undir skriptina firir metnaði sinum. En B. gerir hann fraskila postoligri [kristni ok ꜹllo sam]neyti kristinna manna. En sva er sagt, at þaðan i fra ber . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .
likamligri heilso ok anligri ok fer þo siðan suðr um fiall . . . . .
ok þa var keiseri orðin eptir Gracianum . . . . . . . . . . . . . .
eptir þvi sem Martinus b. hafði honom . . . . . . . . . . . . . . .
ok liði, en M. vikingr leggr un . . . . . . . . . . eigi ꜹllom vetri
siðar þa drogu þeir Theodo . . . . . . . . . en M. ser ofrið . . . .
. . . . . . . . . fylgð ef er . . . . . .

# ANTONIUS SAGA.

---

*(Codex 234 folio. Sagaen, hvis Begyndelse mangler, tager fat midt i den latinske Originals 6te Capitel.*

[Antonius var født i Overægypten af fornemme og fromme Forældre, havde af disse erholdt en religiøs Opdragelse. Efter disses Død delte han sin store Formue mellem de Fattige, anbragte derpaa sin Søster hos fromme Kvinder, men søgte selv Ensomhed, hvor han hengav sig til et strengt asketisk Liv under stadige Fristelser og mange Anfegtelser af Djævelen. Nætterne tilbragte han som oftest under Bøn, spiste kun en Gang om Dagen efter Solens Nedgang; undertiden kunde han tilbringe to ja tre Dage uden at tage Næring til sig; denne bestod i Brød og Salt med en Slurk Vand til. Sin Søvn nød han paa flettet Siv iført en Haarskjorte, stundom tjente ogsaa den bare Jord ham til Leie.]

Sva tamði hann sitt eiginlikt holld með meinlætvm, at sa honvm fylltizt orð postolans, er hann segir sva: Þa er ek verð sivkr, em ek sterkari. Þa sagði hann hvgskoti(t) verða hofsamtt ok avndina sterka, er maðr þravngvir með avllv likamligvm teygingvm ok beiðni. Þetta rað var ok harðla heilsamlikt. Starf hreinlifvis ok heilagrar bindendi villdi hann eigi fyri ætla með mæling akveðins tima, helldr með ast ok orvggleik ætlaði hann þat til endalycktar at varðveita; eigi talði hann eða virði erfiði liðinnar tiðar, helldr var hann nv sterkari ok hravstari, sva sem þetta væri vpphaf hans þravtar, en bio sik meira ok avfilgara til varðveizlv okominnar stvndar, sva sem postolinn mælti: Liðnvm lvtvm gleymi ek, sagði hann, en styrkivmzt i mot oorðinni freistni. Varðveitti hann ok með ser spamanzins orð sva segiandi: Gvð er lifvandi, i þess avgliti stoð ek i dag. Þessa geymði hann, þat vitandi, at spamaðrinn nefndi eigi i dag merkiandi liðna tið, helldr nv verandi stvnd. Skyndi hann nu sia(l)fvan sik slikan gvði at forma, sem rettlatvm manni byriar at vera i gvðs avgliti, þat er með reinv hiarta ok bvinn at þiona hinvm hæsta gvði ok engvm avðrvm, hvgsaði hann ok her með þann vera rettan mvnk, er lifði eptir dæmvm ok atferð hins mikla spamanz Helie.

7. Antonivs með þessvm hætti styrktr ok lærðr for a brot af þeim stað, er hann hafði verit vm stvnd, i annat herað eigi miok fiarlægtt. Þar fann hann hauga nackvara forna harðla. I einn af þeim geck hann inn ok bio ser þar herbergi. Einnhverr maðr valðiz til ok vandizt at færa honvm bravð. Antonivs var einn saman vm nætr i þessv herbergi ok byrgði vandliga dyrr. Hinn forni havggormr þolði þetta eigi at vera sva haðvliga fyrlitinn af einvm vngvm manni, ottaðiz hann nv, at þessi Antonivs mvndi bratt vilia fara i eyðimork til einsetv. Ok at saman kavllvðvm sinvm illzkvþionvm[1] bravt hann vpp a navckvarri not hvsdyrnar ok hliop a hinn helga Antonivm með sinvm fianzligvm grimleik, ok mæddi hann með morgvm kvavlvm ok sarvm, sva at þria daga la hann eptir a golfvinv mallavss ok avrvita. En er sa maðr kom eptir vanda, er honvm færði fæzlu, geck hann inn ok fann Antonivm grimliga særðan a iorðv liggianda. Sia maðr tok hann vpp ok flvtti i brvtt til hinnar næstv borgar ok lagði hann niðr i miðri kirkiv þess staðar. Ok þegar er þessi tiðenði frettvzt i borginni, safnaðizt saman til kirkivnnar þeirar, er Antonivs la, mikit fiolmenni bæði hans frændr ok annat folk af þeim stað. Giorðizt þa af mavrgvm, sem vannt er, hormvngar atbvrðvm mikil sorg ok akafligr grattr. Allr þessi lyðr, þviat þa tok at kvellda, settizt þar vm nottina i kirkivnni. Enn með gvðligv fvlltingi endrlifnaði hinn sæli Antonivs nær miðri nott. Ok nv er hann hof vpp havfvt ok avgv, sa hann mikit folk bæði karla ok kvenna ok alla fast sofvandi, ok þann einn mann sa hann vakanda ok engan annan, er hann hafði þangat flvtt, kallaði hann þenna þegar til sin ok bað hann flytia sik i þann stað ok herbergi, sem hann hafði aðr verit, sva at engi yrði varr við. Ok er sa maðr heyrði þetta, flvtti hann Antonivm þegar aptr, þott hann vndraðizt orvggleik hans ok staðfesti harðla miok, ok lagði hann niðr i hit sama herbergi, sem hann var fyrr; byrgði siðan dyrr eptir vanda, aðr hann færi i bravtt. Enn helgi Antonivs baz nv fyri staðfastliga liggiandi a iorðvnni, þviat akaflig ohægendi af storvm sarvm talmvðv, at hann mætti standa vpp. Ok eptir lycktaða bæn kallaði hann með mikilli ravdd ok avitaði fiandann með þessvm orðvm: «Eigi skelfva mik ognir þinar, eigi kvalar þinar eða sar ok eingi otti; nv em ek her kominn ok bvinn, nv skal ek hvergi flyia, þo at þv rifvir ok slitir likam minn; æingi sarleikr ok eingi meizll

1 illzkv þioðvm *Cd.*

mega mik fra skilia ast drottins mins, ok þott þer bvit mer i moti, sem psalmaskalldit savng, mikinn fiolða herbvða, man eigi ottazt hiarta mitt.

8. Þa er hinn sæli Antonivs hafði þessa lvti sagtt, varð fiandinn með samfelavgvm sinnar illzkv miklvm otta sleginn, er hann sa trv hans sterka ok oskadda; slæfvaðizt hann þo eigi enn sva sem sigraðr, helldr vakði hann vpp með sinni slægð annat nyfvndit pislarkyn ok hræzlv i gegnn þionostvmanni gvðs Antonio. Kallaði hann nv saman þræla sinnar ofdirfðar ok avitaði þa fyrst sva segiandi: «Hvar er nv aræði yðartt ok dirfð, eða hvar er kraptr yðarr, hver erv grimðarfvll verk yðr, hvar(t) siai þer eigi styrkleik eins þionostvmanz Kristz, eða vili þer gleyma, er otalligr fiolði varra sveitvnga er sva miok sigraðr? Með engvm kvavlvm ok engvm sarleik eða meingiorðvm megvm ver hann vndir briota, helldr er hann myoklv sterkari en i fyrstv, ok hæðir at oss sva sem hegomligvm ok herfviligvm. Nv þa bregðvm a oss likamvm ymisligra dyra eða kvikvenda, ok veitvm honvm atgavngv, at hann kenni i nockvrvm lvt afll vart ok olmleik.» Þa er fiandans ærir, þeir er ecki vetta er omattvligtt illtt at giora, vorv sva eggiaðir, flycðvzt þeir saman með mikilli sveit, ok at liðinni hinni fyrstv stvnd nætr veittv[1] þeir aras Antonio með sva myklvm gny ok hræðiligvm storm, at sva matti synazt, sem herbergit hans, fiollin ok sialf iorðin mvndi af akafligvm skialfta með avllv vm snvazt. Gengv þegar at grimliga ok brvtv viða hvsveggina; tok þa miok at falla þetta hit litla herbergi ok vpp at lvkazt. Eptir þat gengv vhreinir andar i syn við hinn helga Antonivm i likavmvm ymisligra skogdyra; sa hann þar bæði leones ok pardos, hin grimmvztv dyr er sva heita, bia(r)ndyr, navðrvr ok þa eitrorma, er regvli kallaz, ok morg avnnvr skaðsavm ok eittrfvll kvikvendi af ymisligv kyni. Avll þessi skrimsl forv remiandi, hvertt eptir sinni nattvrv ok ravst ok með gapanda gin, sva sem þav þyrsti avll til bloðs þessa rettlata manz ok hann at svelgia. Enn þott osigraðr gvðs kappi Antonivs staddr i ognn nyligrar freistni væri miok mæddr af hinvm fyrrvm kvolvm, hafði hann efvalavsliga ser i briosti i þessi margfalldri ok haskafvllri þravt [osigrat vigi[2], þat er nafnn Kristz, i gegn avllvm diofvligvm skeytvm. Stoð hann nv snarpliga i gegnn þessvm hinvm grimmazta diofvls her sva segiandi: «Ef nackvarr kraptr er með yðr, þa mvndi ecki

1 ventv *Cd.* 2 [osigraðr j vigi *Cd.*

meirr en einn af yðarri sveit ganga mer i mot mik at hræða eða skelfva; enn fyri því at eingi er sannleikr með yðr hvarki krapz ne likamligra mynda, er sialfr gvð giorir vanmegna ok afllavsa með himneskvm krapti, því kostgiæfit er mik at skelfva eigi með striðleik eða afli helldr með syn ok otta margmyndaðra skrimsla; er þat ok hit sannazta mark yðars ostyrkleiks, er þer ervð svmir i dyra liki ok asionv[1]. Nv ef nockvrr er sannleikrinn með yðr, ok ef þer hafvit valld a mer með akafligvm gny ok remian, en raðit eigi a mik; enn þat velldr, at þer megvt eigi, því at þer ervt ostyrkir ok afl(l)avsir. En sterk trv var til gvðs er hit orvggazta vigi várt, mark sigvrs ok hialpar várrar«. Ok er diofvlls ærir þottvz liottliga vera hæddir af honvm i þessvm orðvm, giorðvzt þeir æ því grimmari i sinni illzkv ok reiði.

9. En er hvorirtveggiv þreyttv með þessvm hætti, vitiaði drottinn þionostvmanz sins. Ok er Antonivs hof vpp avgvm(!), sa hann eina stiornv skinandi með miskvnnsamligv liosi. Leið þetta ofvan i herbergit, sva at þat skein allt innan af þessi birti. Við þenna atbvrð flyðv brvtt skiottliga allir dioflar; hvsit var nv ok endr bætt ok alheilltt, enn mikill verkr likamligra sara miok i brvttv. Þa er Antonivs skilði, at drottinn var honvm nalægr, fylltizt hann vpp miklvm fagnaði, ok mællti til synar þeirar, er honvm birtizt: »Heyrðv, drottinn, heyrðv, hinn goði Jesv, hvi fyrleztv mik, hvi syndir þv þik eigi mer þegar i vpphafvi, at þv linaðir meinlætvm minvm ok græddir sar min?« Þa heyrði hann ravdd ser svarandi með þessvm hætti: »Antoni, her var ek hia þer, ok beið ek, at ek mætti sia þravt þina ok trv. En fyri því at þv ert eigi sigraðr, man ek þer ævallt fvllting veita ok giora þitt nafnn frægtt a avllv iarðriki.« Ok er Antonivs heyrði þessa lvti, reis hann vpp af iorðvnni lofvandi ok blezandi nafnn drottins ok styrkizt sva miok, at hann var nv myklv hravstari ok sterkari, en aðr hann feingi þessa vitran. Þa var hann halfertvgr at alldri.

10. Hinn helgi Antonivs, framarr treystandi en fyrr gvðs miskvnn, for eptir þria daga liðna til þess hins gamla ok hreinlifva mannz, er ver savgðvm fyrri[2] fra, ok bað, at þeir mvndv fara baðir samtt i eyðimork at byggia þar. Enn er Antonivs skilði, at hann villdi eigi fyri sakir mikils alldrs ok þess staðar, er hann hafði aðr leingi vanizt at vera, for hann einn samtt i eyðimorkina

[1] asionvr Cd. [2] *Lat. cap. 3*: Erat in agello vicino senex quidam, vitam solitariam a prima sectans ætate: hunc Antonius cum vidisset, æmulatus est ad bonum.

til fiallz nockvrs. En er vvinrinn saa trv hans ok astvndan, ok at hann var sa leið kominn, villdi hann talma ferð hans ok goða fyriætlan, skipti hann nv asionv ok syndizt sva sem einn silfrdiskr, la hann a miðri gavtv, þar sem Antonivs skylldi fara til fiallzins. Ok er hinn helgi Antonivs saa diskinn liggianda fyri ser, nam hann staðar ok litaðiz vm, hvgsaði hann, hverssv þat mætti vera, at nackvarr maðr hefði tynt eða niðr felltt þenna silfrdisk, með þvi at engi var bygð i þeim stað eða manna ferð. Skilði hann nv skiott, at hinn versti fiandi var snvinn i þessa silfrs mynd at dvelia ferð hans. Mælti hann nv sva sem við þenna disk: »Þetta er silfr þitt, fiandi, eigi mantv nv faa talmat gavtv mina ok fyriætlan, enn þetta man vera til vitnis glatanar þinnar.« Þaa er Antonivs hafði þetta mæltt, hvarf diskrinn i bravtt. Ok er hann hafði enn farið vm stvnd, var honvm eigi gior sionhverfving sem fyrr, helldr fann hann a gavtvnni satt ok ofalsat gvll. En þat er eigi vitað, hvart fiandinn hafði þat þangat flvtt, eða drottinligr kraptr at reyna hinn helga Antonivm, til þess at dioflinvm væri þat sannliga syntt, at gvðs þionostvmaðr Antonivs hafnaði eigi at eins hans falsi, helldr fyrleit hann ok sialftt gvllit. Vndraðizt Antonivs fegrð ok mikileik þessa gvllz, at eigi at siðr flyði hann, sva sem þat væri elldr brennandi helldr en gvll. Flyði hann ok þenna stað, sva sem hann ottaðizt þar leingr at vera, ok for nv til fiallz þess, sem hann hafði aðr fyri ætlat.

11. Antonivs miok mædr af langri ferð kom þar, er hann fann einn harla fornan kastala eyddan af allri manna bygð ok fvllan af havggormvm. Ok er hann hafði vandliga skyniat þenna stað, fal hann sik þar. Allir havggormarnir flyðv þegar skiott ok fyrletv staðinn, sva sem þeir væri af nockvrvm bravtt keyrðir. Eigi hafði hann meira bravð en sex manaða fæzlv, þaa er hann byrgði sik i þessvm kastala. Margir aðrir siðlatir menn af Thebaida sottv þenna stað, dvavlðvz svmir litla stvnd, en svmir satv alla .xii. manaði, ok forv siðan i brvtt. Var ok i þessvm stað, sem iafnan er vannt i eyðimork, litil vatzæðr eða vppspretta. I þessvm kastala byrgðr bygði Antonivs einn saman, sva at eigi geck hann vtt, ok eigi lavk hann upp fyri þeim, er til hans sottv. Tysvar a .xii. manvðvm var honvm bravð færtt af nockvrvm siðlatvm manni ok sentt til hans vm einn glvgg kastalans. At longvm tima liðnvm tok martt folk ok frendr hans ok vinir at vitia hans optliga fyri astar sakir. En hann tok eigi við þeim, ok eigi lavk hann vpp kastalann. En er þeir vorv vti hia

herberginv, heyrðv þeir bæði vm nætr ok vm daga mikit hark ok hareysti, sva sem þar væri inni mikit fiolmenni, heyrðv þeir ok herfviliktt kall með þessv orðtaki: «Dragztv i brvtt af herbergi vorv, hvat er þer sameigit með oss? eigi skalltv þola mega vorar meingiorðir.« Þat hvgðv þeir fyrst, er þeir heyrðv þessi orð, at nockvrir menn við hann svndrþyckir væri hia honvm, þeir er eptir stigvm hefði vpp komiz a veggina ok sva inn i kastalann; ok er þeir ranzavkvðv vandligar, hveriv þetta gegndi, fengv þeir seð vm eina rifv a vegginvm, at engir menn vorv hia hinvm helga Antonio. En fyri þvi at þeir skilðv nv, at dioflar hofðv giortt þetta hareysti ok okyrleik, vrðv þeir akafliga hræddir, ok af miklvm otta kavllvðv þeir Antonivm til fvlltings. Ok er hann varð varr, at menn vorv vti hia herbergi hans, leði hann meirr eyrna til at heyra þeira kall ok orð en hia ser inni geyiandi diofvligar raddir. Geck hann nv til dyra ok hvggaði þa, er komnir vorv, sva mælandi: «Hirðit eigi, bræðr, at mæða yðr, helldr farið er brvtt með friði ecki vetta ottandi. I gegnn þeim erv dioflar diarfaztir ok veita þeim mestar ok harðaztar arasir, er þeir sia hræddazta ok með mestri ostyrkð. En þer skolvt hafva nafnn drottinns i hiortvm yðrvm ok merkia yðr með marki hialpar varrar, þat er hinvm helga krossi, ok farið sva vtan alla hræzlv til yðarra herbergia, en latið þessa, er yðr skelfva, hæða sialfva sik.« Með þessvm hvgganarorðvm styrkðir forv þessir i brvtt, er sott hafðu fvnd Antonij, hlifðir með marki hialpara vars Jesus Kristz. En hann var einn eptir i þeim sama stað ohrædr ok með avllv oskialfvandi, þvi at hann hafði nv fvndit i margfalldri freistni ser veittri, at dioflar erv vandmegnir ok hegomligir.

12. Eigi myckly siðarr forv margir hans kvnnir menn at forvitnaz ok skynia, hvartt eigi hefði með avllv dioflar drepit hann. En hinn helgi Antonivs lofvaði ok blezaði gvð ok sagði sva: «Ris vpp þv drottinn, ok dreif ovinvm minvm! lattv flyia fyr mer alla þa, er mik hotvðv; sva sem eyðizt akafligr reyckr af ellde framfarandi, eða vax af miklvm ellzloga, sva fyrfariz nafnn syndvgra i avgliti drottins.« Ok enn sagði hann sva: «Allar þioðir veittv mer vmsat, en ek sigraða þær i nafnni drottins mins.« Þetta talaði hann i gegnn fianda freistni ok þeira vmsat. Þessa staðfesti hellt hann i þeim sama stað .xx. vetr, sva at af avngvm var hann senn langtt eða viða farandi.

13. Siðan giorðizt þat, at margir hormvðv af hans einsetv ok fiarvist, er hann bio einn samtt i eyðimorkinni. Ok þeir, er

eða nockvð sinn beiðandi, at honvm væri til handa bvin meirr vavndvt fæzla, þott hann væri i vanmegni, en eptir hverssdagligvm sið. Hellt hann ok til endalycktar hvavs(svm) skygnnleik avgna, ok sva avllvm tavnnvm at tavlv[1], þott þær syndiz littað hrornaðar af elli, sva et sama fota afli ok gavngv; ok fyri hans mickla verðleika varðveitti gvðlig miskvnn hans avfll ohrornvð ok allan likam, sva at i gegnn nattvrvligv eðli syndiz hans holld fegra, glaðara ok hreinligra en þeira likamir, er fæðaz morgvm krasvm ok þvaz i baði eða lavgv. Hvggivm at ok, bræðr, hverssv mikils hattar þat er orðit, er frægð þessa ens helga manz hefvir flogið ok flvzt vm avll lavnd ok hervð, ok hann er af avllvm goðvm mavnnvm elskaðr, með þvi at hann varð eigi agiætr af mikilli snilld samsettra boka, eigi af dispvtan veralldligrar spekðar, eigi af tignn gofvgrar ættar eða samdrætti otalligra avðæfva. Hyggivm at, hverivm þetta er eignanda! Þetta skolv ver allir eigna sialfvm gvði, þetta er hans giof við sinn astvin, þann er hann fann goðfvsliga þionanda vndir sinv almattigv valldi. Hann let ser soma þenna enn helga mann Antonivm, er leyndiz i eyðimorkvm vtarliga i heiminvm, sva sem hann sialfr het i vpphafvi, honvm hvggan veitandi i sinni freistni, kvnnan at giora i Affrika, Hispania, Gallia, Italia, Illiriko, ok iaf(n)vel i sialfri Roma, er kallaz havfvð allra borga. Þessi er goðgirnð sialfs skapara vars, hann lætr ser soma at tigna sina þionastvmenn, þaa er forðaz vilia hegomafvllt manna lof i sinv lifvi, at af dæmvm heilagra manna, þaa er þav verða avllvm kvnnig, syniz kraptrinn mattvligr at fremia, ok eingi hyggi vmfram nattvrvligtt megnn mannzins vera vel at lifva, ok til þess at hverr[2] sem einn þickiz skylldr eptir at likia lifvi gvðs astvina, þaa er hann leiðir ser fyri hvgskoz avgv farsæligan ok eilifvan avavxt þeira stvndligs erfviðis.

Lesit þessa bok optliga, ok geymit allra mest at lesa hana fyri bræðrvm, til þess at, þaa er þeir heyra ok við kannaz haleitlict lif rettkristinna manna ok mvnka, viti þeir efvanarlavst, at hialpari várr Jesvs Kristr veitir þeim dyrð, er hann dyrka, ok eigi at eins veitir þeim, er honvm þiona, himinrikis fagnað, helldr tignar hann þaa ok iamvel með mikilli frægð ok agiæti, er sialfvir fysazt honvm leyniliga at þiona i fiollvm byggiandi eða avðrvm leyndvm stavðvm. Til þess skal ok fyr bræðrvm lesa þessa bok, at þaa er þeir gioraz eptirlikiarar þeira stormerkia, er hon vattar, se þeir

1 tavlvm *Cd.* 2 hverss *Cd.*

ok lofs verðir af sinvm verðleikvm, en aðrir eggiz til goðs lifs af þeira dæmvm. En ef navzvn beiðir, lesit hana ok fyri heiðnvm mavnnvm, ok sva kanniz ok þeir við, at drottinn varr Jesvs Kristr son lifvanda gvðs er eigi at·eins gvð, helldr gaf hann ok þeim þat valld, er sa hann trva rettliga ok hann dyrka af avllvm alhvga, at þeir brioti, felli ok vndir fotvm troði þaa diofla, er sialfvir heiðingiar hyggia ok trva gvð sinn vera, en þeir erv sannliga svikarar mannanna ok hofvðsmiðir alls spellz, flærðar ok illzkv.

68. A davgvm Jvstiniani ens mickla keisara, þess er smiða let i Micklagarði þat mvsteri gvði til dyrðar aggian sophian[1], þat er sanctam sapienciam - ok eigi maa annað þvilict finnaz i allri verolld - fannz fyri gvðliga vitran likamr heilags favðvr Antonij; hann var flvttr i Alexandriam ok grafvinn i kirkiv ens sæla Johannis baptiste. Biðivm nv af avllvm hvg þenna enn dyrðliga gvðs iatara Antonivm, at fyri hans arnaðarorð verðim ver eigi sigraðir af fiandans freistni, meðan ver lifvm i þessvm davðligvm likam, ok at fyrgefnvm syndvm skilivmz ver við þetta fallvallta lif, en at envm efzta domi laði oss ok leiði i eilifvan fagnað varr hialpari drottinn Jesvs Kristr, sa er með feðr ok helgvm anda anda lifv(i)r ok rikir einn gvð vm allar alldir. Amen.

1 *l Texten staar:* atian coþyau, *herover er af en samtidig Haand som Rettelse skrevet:* i. (*d. e.* id est) aggian sophian.

# AUGUSTINUS SAGA.

(*Cd. 234 folio*, *A*; *Cd. Holm. 2 folio*, *B*; *Cd. 235 folio*, *C*.)

## Prologus.[1]

Heilagr pavi Celestinus segir sælan Augustinum hafa verit agiætan ok mykinn kennifauður ok i aullum lutum lofsamligan[2], talandi þessum orðum: Augustinum heilagrar minningar mann hofðum[3] ver iafnnan i varre vinattu ok samneyti fyrir sitt heilagtt lif; hans agiæta meðferð matti eigi nokkut sinn spilla orðromr illrar aleitne; hann vissum ver hafa verit sva mykillar vitzku ok skilningar, at þeir, er [fyrir mer[4] voru, helldu hann með hinum beztum meistaurum. Ok með einu samþycki var hann sva vel virðr af allum, at hann var hvervetna bæði elskaðr ok vegsamaðr, sem verðugtt var. Meðr þessum hætti hefr saa malit, er dictat hefir saugu heilags Augustini.

## Her hefr upp sogu heilags Augustini byskups.[5]

Sæll Augustinus var fæddr i þeim þriðiungi heims, er Affrica heitir, ok i þeiri borg, er kaullut er Taga(s)tensis. Frændr hans voru harðla gaufgir ok framarligha virðer i hirðgarði. Patricius het faðir hans, en Monika moðir. Augustinus var vandliga uppfæddr ok fostraðr; þegar i bernsku[6] var hann til bokar settr, ok er hann hafði alldr til þess, var hann i skola sendr ok þar fullkomliga lærðr. Þat giorðiz sa einum degi, at hann varð miok innan siukr, ok er þetta mein þraungði hann akafliga, eggiaði[7]

1 *Saal. C.; alle Overskrifter mangle i A.* 2 *saal. B;* lofsamligum *A, C.* 3 *saal. B, C;* havfvm *A.* 4 [fyrri menn *B.* 5 *Saal. Overskr. i B; C har:* Augustinus saga. 6 barnæsku *B, C.* 7 hann akafliga *tilf. A; mgl. B, C.*

moðir hans, at hann skylldi taka heilagha skirnn, þvi at hun var harðla vel kristin, en faðir hans afneitaði, þvi at hann var heiðinn, ok þvi dvalðiz skirnin. En guðleg miskunn græddi hann litlu siðar, ok varð hann alheill af þessum siukleik. Skirnin frestaðiz fyrir þvi um stund, at lifandi maðr fær varla[1] syndina forðaz, en allir vita, at meire sekð er at misgiora eptir skirnina. Girðzka tungu, er hann hafði numit, hataði hann, en elskaði latinu tungu. A þessum stundum hafði hann með hendi[2] ok yfirlas eina bok Ciceronis, þess spekings er sva heitir[3] ok sva snialla tungu hefir haftt, at nær undrazt hvers[4] mannz briost, en su bok hefir i ser saeggian þessa spekings at elska sialfa philosophiam, er kennir .vii. haufutiðrottir, en bokin heiter Hortensius. Þessi bok skipti hans sastundan ok alhuga, sva at hann sneri [bænir sinar ok fyrstir[5] til sialfs drottins ok annars at girnazt en fyrr. Nu leiddizt honum skiotliga aull hegomlig von ok girnntizt nær með otruanligum hiartans hita odauðleik sannrar speki; tok nu andliga[6] upp at risa, at hann skylldi snuaz til guðs.

### Um villu ok vantru Augustini.[7]

2. Augustinus var þaa .xix. vetra, er þetta gerðiz, en faðir hans hafði andazt .ii.[8] vetrum aðr. Af þvi einu gladdiz hann þo allra[9] mest i þeirar bokar saeggian, er nefnd var, at eigi minnti hun hann sa at hallda annan sið helldr en annan, helldr at hann elskaði sanna speki ok eptir leitaði ok[10] helldi[11] siðan fastliga. En af þvi einu kolnaði nockut saa mykli hiartans hiti, er hann hafði fengit af lestri[12] bokarinnar Ciceronis, at Kristz nafnn var þar eigi, þvi at þetta nafnn hialparans hafðe hans ungtt hiarta milldlegha druckit þegar með moður miolk ok siðan halldit, ok hvat sem hann las utan[13] þetta nafnn, þo at þat syndizt slett[14] eða satt, felldi hann ecki þar til allan sinn trunat. A þessum stundum varð hann leiddr sa þann hegoma, at hann skylldi trua fiktreit grata, þaa er savauxtr væri af þvi tekinn, ok at moðir þess sialftt vintreit mundi miolkleg tár fella.

1 eigi *B*, *C*. 2 hondum *B*, *C*. 3 het *B*, *C*. 4 vitrs *tilf.* *B*, *C*. 5 [bænum sinum ok fystum *B* 6 vandliga *C*. 7 *Ovskr. af B*; *her og senere*. 8 tveim *B*. 9 hluta *tilf.* *C*. 10 *tilf.* *B*, *C*. 11 hellt *B*. 12 blæstri *C*. 13 nemfma(!) *C*. 14 *saal.* *B*, *C*; sætt *A*; *lat.* quamvis expolitum et veridicum.

**Draumr edr vitran modur [Augustini].**

3. Moðir hans gret akafligha villu hans, framarr en mædr grata iafnnan likamligan dauða sona sinna, ok bað fyrir honum til guðs. Sialfr guð heyrði hana[1] ok fyrirleit eigi tar hennar. Siðan bar þat fyrir hana i draumi, at þau væri bæði samt ok son hennar, ok hann skylldi hafva borð með henni i hennar husi. En þetta þottizt hun eigi vilia, þvi at hun rækti guðlastan hans villu. Þvi næst þottizt hon standa i nockurri regluligri liniu[2], ok þa sa hun koma til sin einn ungan mann biartan, glaðligan ok lægianda[3] ser i mot, með þvi at hun var sytandi ok mædd af myklum trega. Þessi spurði, hver sauk til væri, at[4] hon var sva miok sytandi. Hun svaraðis[5]: »Ek græt glatan sonar mins Augustini.« Hann bað, at hun skylldi vera uhrygg[6] i huginum ok hyggia at, hvar hun var sialf, sagði ok þar vera son hennar. Ok er hun hugði at, sa hon son sinn standa[7] hia ser i þeiri saumu liniu, sem hon stoð. Ok er hun sagði þenna draum syni sinum, villdi hann til þess þyða, at hun mundi siðarr þvilikum sið fylgia, sem hann hafði þa. Hon svaraði þessu utan alla dvaul[8] ecki efandi ok sagði:[9] Eigi var mer sagtt, at þu mantt[10] þar vera, sem son þinn er, helldr sva, at hann man þar vera, sem þu ertt

**Andzsvor eins byskups.**

3. Niu[11] aar liðu sva siðan, at Augustinus var vafðr i saumu villu, en moðir hans hreinlif, milld ok grandvor eckia, af guði elskut sem þær, er sva eru hattaðar, var nu auruggare af von[12] hans leiðrettu, en let þo eigi af at biðia fyrir honum til guðs með sut ok grati sa hverre stund er hon matti. Guð heyrði bænir hennar, en þolði þo, at hann væri i vafðr saumu villuþoku. Hann huggaði hana eitthvertt sinn fyrir andsvor eins mykils byskups, þaa er hun bað, at hann mundi virðaz at tala við son hennar ok leysa villur hans. Byskup villdi þat eigi, sagði at son hennar mundi [enn ecki[13] vilia hafa hans fortaulur eða kenning, meðan hann var sva fastliga i villu[14] halldinn, talaði sva til hennar: »Lat

1 bæn hennar *C.* 2 þionustu *C; lat.:* in quadam linea (*v. l.* regula) lignea. 3 hlæianda *B, C.* 4 er *B, C.* 5 honum sva *tilf. B, C.* 6 ðrugg *B, C.* 7 *tilf. B, C.* 8 alla dvaul *rettet*; allan dawl *A.* 9 [*mgl. B, C.* 10 munt *B, C.* 11 *Saal. efter lat.* Novem; *i A.* iv, *da som sædvanlig den store Begyndelsesbogstav mangler;* tiu *B*, þiu (!) *C.* 12 *tilf. B. C.* 13 [ecki enn *B;* eigi *C.* 14 villunni *B, C.*

hann enn fara sem hann vill, bið þo[1] iafnnan fyrir honum til guðs, þvi at sialfr man hann finna, þaa er hann less bækrnar[2], hvilik hans villa er, eða hverssu mikit illt henne fylgir. Hon villdi eigi [samþyckiazt hans þessum orðum[3], helldr bað hun myklu framarr, at byskup skylldi seaa[4] son hennar ok nockut við hann tala. Honum leiddizt, er hon bat[5] sva miok hins sama ok svaraði nockut styggligha: »Far brutt[6] fra mer ok halltt goðum lifnaði þinum, eigi maa þat verða, at son þinn fyrir uthelling þinna tara fyrirfariz.« Þessi orð hans tok hon sva, sem af himne hefði hun þau heyrtt.

**Um bokagerd Augustini byskups.**

4. A þessum timum[7] helltt Augustinus skola i Kartagine ok kendi rethorikam, þat er malsnilldar list. Hann villdi hafva ok valði ser goða lærisveina ok lærði þaa falslausliga. Þaa dictaði hann .iii.[8] bækr de pulchro[9] et apto ok sendi einum snillingi[10] i Romaborg, er Heritus er nefndr. Þenna mann hafði hann eigi sét, en elskaði hann af goðri frægð ok aagiætri kenning. Augustinus hafði þaa .vi. vetr ok .xx. eða .vii., er hann ritaði þessar bækr. Allar þær bækr, er i ser hafa .vii. haufutiðrottir ok[11] liberales ero kallaðar, hafði hann þaa lesit, ok skilði allar þær, sem hann las. Hvat[12] sem hann saa eða las af list rettliga at tala eða skynsamliga at greina, af mæling iarðar eða annarra luta, af musica iðrott, af taulu list, skilði hann utan alla talman eða torvelldi, sva at engi maðr kendi honum. Heyrðu, guð drottinn, segir saa, er sauguna[13] hefir dictat, þu veiztt, at skiot skilning ok hvass[14] næmleikr[15] er þin giof.

**Augustinus sigradi Faustum villumann.**

5. Þa er Augustinus hafði .ix. vetr ok .xx., kom i borgina Kartaginem einn byskup Manicheorum, þeira villumanna er sva eru kallaðir, saa er Faustus het at nafnni, mykil diofuls snara, þvi at hann var hinn nafnnfrægasti millum villumanna af mykilli kunnosto[16] ok froðleik, ok[17] hann hafði yfvirlesit allar hofutiðrotter. En þvi

1 *saal.* *B*, *C;* þv *A*. 2 *saaledes* *B*, *C;* bækvrnnar *A*. 3 [samþyckia þessum ordum hans *B*. 4 sia *B*, *C*. 5 bad *B*, *C*. 6 braut *B*, *C*. 7 tima *B*, *C*. 8 þriar *B*, *C*. 9 *saal.* *B*, *C;* sepulchro *A*. 10 spekingi *B*, *C*. 11 er *C*. 12 hvart *C*. 13 þessa sögu *B*. 14 hvers *C*. 15 *saal.* *C*; mæmlækr *A*; namleikr *B*. 16 kunnattu *B*. 17 er *B*, *C*.

at Augustinus hafði lesit margar bækr spekinga ok helltt þaðan af i minni marga luti, þaa bar hann samtt sliktt, sem hann hafði lesit, við orð ok kenning þessa villumanz, er martt hafði saman ritat af ymisligum lutum, ok skilði, at haðulig var hans kenning ok villa ok utan allà skynsemð. Ok er þeir taka[1] tal sin i millum, fann Augustinus þenna mann bliðan i mali ok með skemtiligu viðrtali, þvi at bækr þessa villumanna eru fullar af skrauksaugum, ok[2] þeir tala með falsi af himni ok stiornumorkum, af sol ok tungli. En er Augustinus bað hann [rannsaka ok gera sanna[3] sina kenning, þorði villumaðrinn þat eigi at gera, ok skammaðiz nu eigi þat at iata, at kenning hans var eigi saunn, ok sva sigraðr fór hann i brutt[4].

**Augustinus skildi vid modur sina med væl.**

6. Eptir þetta hugsaði Augustinus at fara hegat[5] um hafit til Romaborgar, ok fystiz helldr þar skola at hallda slikan, sem hann hafði aðr halldit i Cartagine, einna mest fyrir þvi at hann hafði heyrtt, at ungir menn mætti þar hafa frialsligtt[6] studium, þvi at i Cartagine var þaa nokkurr okyrleikr. En þessi hans hugsan var sannligha guðlig skipan. Ok er hann hof upp þessa ferð, fylgði honum moðir hans alltt til hafs miok biðiandi, at hann færi eigi þessa ferð, eða leyfði, at hon færi með honum. Hann let eigi alhuga sinn uppi fyrir henni, ok sagðizt eigi mundu fyrr skilia við vini sina, en byrr kiæmi[7]. Moðir hans villdi með honum til herbergis fara um kvelldit, en hann eggiaði hana, ok feck þo varla, at hon væri um nottina i þeim stað, er nalægstr var skipi þeira, ok gior var minning hins heilaga Cipriani byskups, er pindr var við Cartaginem. En, þegar þau voru skilit[8], steig hann a skip ok ferðaðizt brutt[9] um nottina leyniliga. Moðir hans[10] var a bænum[11] þaa nott biðiandi guð, at talmaðiz brautferð sonar hennar. En guð gaf Augustino beinan ok bliðan byr, sva at skipit bar skiott fra landi or augsyn, en varðveitti hann fra[12] aullum siovar[13] haska. Moðir hans kom snemma til strandar um morguninn i þann stað, er þau haufðu skilit[14] um kvelldit, ok saa nu, hvat giorstz[15] hafði; tok nu at grata með æsiligum harmi brautferð sonar sins, ok bað

1 toku *B*, *C*. 2 er *B*. 3 [kanna ok rannsaka *C*. 4 a braut *B*. 5 hingat nordr *B*, *C*. 6 frialsliga *B*, *C*. 7 gæfi *C*. 8 skilin *B*, *C*. 9 a brott *B*. 10 *tilf.* *B*, *C*. 11 alla *tilf.* *B*, *C*. 12 af *B*. 13 siavar *B*. 14 skiliz *B*. 15 gerzt *B*, *C*.

guð heyra sik i sinne nauðsyn. En fyrir þvi gret hun ok sytti, at hon vissi eigi, hveria fagnaði guð mundi [gera i brautferð sonar hennar.[1] Ok eptir mikinn grat fór hun til þeira staða, sem[2] aðr hafði hon[3] verit, tok þa af nyiu at biðia [til guðs[4] fyrir syni sinum.

**Augustinus kom i Rom.**

*7.* En er Augustinus kom i Romam, fell hann litlu siðar i mikinn siukleik, ok ef guðs[5] miskunn hefði eigi dvalit [hans likamligan[6] dauða, hefði hann farit til helvitis berandi með ser syndir sinar. En þetta vissi moðir hans eigi, ok bað fyrir honum fraveranda[7] ok fæddi hann nu með meiri mæði andligha en fyrre likamliga. Hon gerði hversdagliga olmusur fatækum maunnum, þeim litilatliga þionandi. Ongan dag gleymði hon fornir fyrir honum at færa, kvelld ok morgin an aflate kom hon til kirkiu, eigi til þess at heyra hegomligar saugur, helldr at heyra[8] guð i sinum orðum, ok guð heyrði hana i sinum bænum fyrir hialpp sonar sins. Þaa er Augustinus varð heill af þeiri mikilli[9] sott, er hann hafði feingit, tok hann nu at kenna[10] rethoricam, er ver kaullum malsnilldar list, þvi at hann hafði fyrir þat efnni þangat sott, ok safnaðizt[11] hverssdagligha martt manna til hans herbergis.

**Fra þvi er þeir funduz Augustinus ok Ambrosius byskup.**

**8.** Siðan var sentt af Melans borg til Romaborgar greifva, at hann sendi þeim meistara þann, er þar mætti kenna rethoricam. En Simacus greifvi sendi Augustinum vel profaðan meistara aa þaa list sem allar aðrar. Ok er hann kom i Melans borg, fann hann þar fyrir Ambrosium aagiætan byskup, er um allan heim var frægr af hinum beztum lutum. Ambrosius byskup tok við honum fauðurligha ok elskaði hann byskuplega kominn i ukunniktt land. Augustinus tok hann ok miok at elska ok gefva gaum at orðum hans með athugha, ok gladdizt af sætleik hans malshattar[12]. Eigi hirði hann sva miok at nema þaa luti, er hann sagðe, helldr var honum þat faaheyrtt ok dasamligtt, hverssu hann sagði. Þaa

1 [henni gera i bruttferd sonar sins *C.* 2 er *C.* 3 hann *C.* 4 [*mgl. B, C.* 5 gudlig *B, C.* 6 [*saal. B;* hann likamligan *C* hann likams *A.* 7 *saal. B, C;* fraveranði *A.* 8 heidra *C.* 9 enni miklu *B.* 10 i Roma *tilf. B.* 11 samnadizt *C.* 12 *saal. B, C;* malhattar *A.*

sva i Cartagine, ok elskaði mikiliga Augustinum. Alippius hafði ok verit til Roms. Nebridius hafði ok fyrirlatið sina fostriorð ok hina beztu eignn, er hann atti hiaa Cartagine, ok sva sialfva Kartaginem, ok for til Melansborgar at finna Augustinum.. Ok er þeir funduzt, voru þessir .iii. samtt miok[1] efandi i raðagerðum, hverr hattr lifsins væri halldandi. En þvi at guð villdi[2] hneckia ostyrkri hiartans skilning Augustini, er hann hafði til truarinnar, let hann ser soma með sinu miskunnar liosi miok at birta hans briost. Tok hann nu at skelfazt bæði af ast ok ræzlu til guðs ok fann sik vera langt fra guði sem i fiarlægri halfu, sva sem hann heyrði sialfs hans raudd af himni talandi: »Ek em fæzla þeira, er myklir eru, leita at vaxa, ok mant þu bergia mer; eigi mant þu mer skipta i þig sem fæzlu likams þins, helldr mant þu skiptaz i mik.« Nu skilði Augustinus, at fyrir illzku sina hirti guð manninn ok let ond hans af tæmaz illum lutum, sem aranea þat kvikvendi af[3] tæmiz sinum iðrum lutum. Hann skilði ok hafði reyntt, at þat er ecki undarligtt, at sarum munni er pina brauðsins berging, en heilum harðla sæt, ok siukum augum er liosit at hatri[4], þat sem heilum augum er elskuligtt[5]. Tok hann[6] ok þaa at lita osyniligha luti guðs fyrir þaa luti, er hann skilðe en matti eigi staðfesta i[7] þeim sialldrit, þvi at ustyrkleikr rak hann aptr ok veik honum aa fyrri veniu, sva at ecki flutti hann með ser nema elskanlegtt minne girniligrar ilmkenningar, þeirar er hann matti eigi enn bergia.[8] Leitaði hann þvi at finna styrktarveg, þann er hæfiligr[9] væri at niota sialfs guðs, ok fann eigi, þar til er hann faðmaði með andlegri skilning meðalgaungumann guðs ok manna Jesum Krist - er [bæði er guð ok[10] maðr, saa er blezaðr umfram alla luti um alldir - aa sik kallanda ok segianda: »Ek em gata, sannleikr ok lif.« Saa hinn sami blandaði við holld þaa fæzlu, er Augustinus var enn vanmegnn at taka, þvi at orð guðs fauður[11] holldgaðizt, til þess at hans spekð væri leynd fyrir varri bernsligri skilning, fyrir þaa saumu speki, þat er fyrir son sinn, skapaði[12] hann alla luti. Eigi hellt hann enn eða skilði drottin varnn Jesum Kristum sva sem lagr litilatan, ok eigi vissi hann enn, hvilika lute hans ostyrkleikr lærði hann sialfan. Ok eigi matti hann ætlan aa

1 iamsnemma *tilf.* *C.* 2 birta ok *tilf.* *C.* 3 *tilf.* *B.* 4 *saal.* *B*, *C*; hattri *A.* 5 elskanligt *B*, *C.* 6 *tilf.* *B*, *C.* 7 aa *B*, *C.* 8 *saal.* *B*, *C;* bera *A.* 9 ævinligr *B*, *C.* 10 [*saal.* *B*; guð *A.* 11 *mgl.* *C.* 12 skipadi *B*, *C.*

koma, hverssu mykla helgan þat mundi hafa með ser, er guðs orð holldgaðiz.

Þessu næst tok Augustinus með hinum mesta athuga yfir at lesa helgar bækr fyrir guðs anda saman ritaðar, ok umfram aðrar orð[1] hins heilaga Pals postola, ok brutuz nu niðr þær greinir, er honum hafði[2] fyrr meirr virðzt, sem eigi kiæmi samtt[3] hans orð ok vitni Moyses laga eða spamanna boka; honum birtizt ok þaa ein asiona hvarratveggiu laga nuverandi ok hinna fyrri, ok tok at fagna með guðligri ræzlu.

### Augustinus kom a fund Simpliciani.

9. Eptir þetta sendi guð honum i hiarta harðla gott rað, at hann færi aa fund guðs þionostumanz, þess er Simplicianus het, þvi at hann hafði heyrtt, at Simplicianus hafði guði þionat alltt fra bernsku, en tok nu at elldazt, syndizt honum sem var, at hann mundi vera vel reyndr af laungum alldri ok goðu lifvi ok sannprofvaðr uruggliga[4] at fylgia guðs vilia ok hans gautur at ganga ok auðrum þær at visa, en lærðr harðla vel. I fyrstu villdi Augustinus bera upp fyrir hann hiartnæman hita sins alhugha eptir frettandi, hverr haattr lifsins honum væri hellz halldandi, þvi at hann hafði nu fullan vilia til með astuð at ganga guðs gautu. Hann saa kristnina saman safnaz[5] af miklu fiolmenni, ok geck vel hverr þann veg, [sem sialfum[6] likaði. Mislikaði honum, hvat sem hann giorði i verolldunni, sem honum sneriz þat til þyngsla; eigi fyrir þaa sauk at hann hefði akafliga fysi til veralldligrar vegsemðar eða fiaraflanar, sem margr er vanr, þvi at þetta girntizt hann hvarki fyrir sakir sætleika guðs astar ok fegrðar hans hus, er hann elskaði harðla miok. For hann[7] siðan aa fund þessa fauður Simpliciani ok sagði honum fra margfalldri villu, er hann hafði verit i vafðr. Ok þar með minntizt hann aa honum segiandi, at hann hafði lesit nockurar bækr Platonis spekings, þær er Victorinus snillingr, er fyrr var i Roma, hafði snuit i latinu, ok Augustinus hafði heyrtt, at kristinn hefði andazt. Nu gladdiz hinn gamli Simplicianus af þvi, at Augustinus hafði eigi i vafviz oðrum flærðarfullum sognum annarra meistara, þeira er villzt hafa i rongum ætrunaði við hofutskepnur heims þessa. Eptir þat tok Simplicianus at biðia Augustinum snuaz til litilætis Jesus Kriz ok retrar truar,

1 ordsendingar *B.* 2 *tilf.* *B*, *C.* 3 a samt *B*, *C.* 4 örugliga *B*, *C.* 5 safnada *B*, *C.* 6 [er honum *C.* 7 *tilf.* *B*, *C.*

ok minntiz a þenna sama Victorinum, sem ver gatum, er honum var harðla vel kunnr, þaa er hann var i Roma, hverssu mikla virðing hann hafði fengit fyrir sinn aagiætan meistaradóm, þaa er hann var enn heiðinn, er likneskia var gior honum til tignar i[1] romversku torgi, þat er þeim, er verolldina elskuðu, syndiz harðla haleitt, eða hverssu hann hafði i fyrstu skammazt kristinn at geraz, eða með hverssu mikilli aastundan hann hafði ranzakat heilaga ritning ok allar kristnar bœkr, ok hverssu hann sagði [um siðir[2] leyniliga Simpliciano, at nu væri hann kristinn. En Simplicianus sagði til hans: »Eigi man ek þvi fyrr trua, en ek se þik i heilagri kirkiu.« Þaa svaraði Victorinus hlæiandi: »Giora nockut veggir mennina kristna?« Victorinus sagði opttliga Simpliciano, at hann væri kristinn, en Simplicianus svaraði iafnan hinu sama. En reyndar bar þat eina þaa við, at Victorinus væri skirðr, at hann ottaðiz misþocka vina sinna, en siðan hann feck styrkleik ok staðfestu[3] af lesning heilagra boka, þaa sigraði Kristz ast[4] með Victorino ast hans vina, ok skiotliga sagði hann sva Simpliciano: »Forum[5] til kirkiu, vil ek verða kristinn ok taka heilaga skirn.« En Simplicianus varð fegnari, en fra meghi segia, ok fór með honum ok, er at þvi kom, er Victorinus skylldi iata tru sina. Minnumz ek [þessa af þvi,[6] segir sá er saugana hefir samit aa latinu, at saa var þá siðr i Roma, at þeir er til skirnar gengu, skylldu stiga upp aa hafan stað ok iata tru sina fyrir folkinu, en prestar lofuðu Victorino at gera þat leyniligarr, þvi at hann var [þaa enn[7] hinn udiarfazti en kunnr aullum. Hann villdi þetta eigi, steig siðan upp i malstaðinn. Þetta undruðuz vantruir[8] Romveriar, en rettkristnir menn toku með fagnaði. Allir þeir, er við voru ok hann var kunnr, leku ser at hans nafnni með skemtan, ok sva skiott sem nefndr var hlioðliga af allra munni Victorinus, sva faugnuðu þeir opinberliga, er þeir saa hann i hafum stað, ok skiotliga gafu allir gott hlioð harðla fusir hann at heyra. Þvi næst boðaði hann ok iataði sanna tru með fullu trausti, sva at allir elskuðu hann með fagnaði af aullu hiarta. Ok er hinn gamli Simplicianus hafði slika luti sagtt Augustino af meistara Victorino, þaa hitnaði hans hiarta miok til eptir honum at likia. Sagði ok til þess Simplicianus þessa saugu. Augustinus tok þaa sarliga at andvarpa.

1 a *B*, *C*. 2 [*tilf.* *B*, *C*. 3 stadfesti *C*. 4 *tilf.* *B*, *C*. 5 vid *tilf.* *B*, *C*. 6 [*mgl.* *C*. 7 [*mgl.* *B*, *C*. 8 vantruadir *B*, *C*.

**Um taar ok trega Augustini.**

10. Ok er þeir voru baðir samtt i einu herbergi Augustinus ok Alippius, en Nebridius var brutt farinn, þaa kom til þeira nockurr samborgarmaðr þeim kunnr, saa er Pontianus het, ættaðr or Affrica, framarligha virðr af hofðingium ok beztum monnum. En þat er eigi vitat, hvat hann villdi af þeim fretta, settuz siðan allir samtt ok tauluðuz við. Pontianus tok siðan upp bok, er laa yfvir einu leikborði, er stoð fyrir þeim, ok lauk upp, ok fann þat, sem[1] hann varði eigi, at þar voru Pals pislar, þvi at hann hugði, at þeir mundi[2] hafa þess hattar bækr, sem sið þeira heyrði til. Pontianus tok þaa at hlægia[4] ok leit við Augustino glaðliga, sva sem hann undraðis[5], er hann hafði þess hattar ritningar fyrir ser en eigi veralldligar eða heiðnar bækr[6]. Pontianus þessi var guðhræddr maðr ok sannkristinn. Augustinus sagði honum þaa, at hann lagði mestan hugþocka ok ræktt aa þess hattar ritningar. Eptir þetta tok Pontianus at segia Augustino af hinum agiæta Antonio egipzkum munk, þess nafn er þaa birtiz með mikilli frægð viða um heiminn með guðs þionostumaunnum, en þeir Augustinus haufðu þar aðr ecki af heyrtt. En er Pontianus vissi þat, helltt hann fram saugunni ok gerði þeim i kunnleika aagiæti ok heilagleik Antonij[7] furðandi þeira faafræði af þessum merkium[8]. Þeir undruðu ok miok þau[9] dyrðarfull takn, er hann flutti fra Antonio sva faaheyrð fyrri. Augustinus tok nu, þaa er hann heyrði þvilict tal Pontiani, at syta sarligha ok skammaz með hræðiligum otta af þeiri villu, er hann hafði leingi blindat. Geck siðan Pontianus a braut, er hann hafði lyctat sinum erendum ok tali. Augustinus með sorgmoðum hug ok yfirbragði kallaði Alippium: »Se hvat við þolum, hygg at þvi, er við heyrðum. Ofroðir menn risa nu upp ok taka hondum himin, en ver með froðleik vorum[10] dreckiumz i helviti.« Ok þaa er hann hafði þetta mælt, hugði Alippius at honum vandliga, þvi at hann hafði eigi sva fyrr talat. Ennit, augun, kinnr, litr ok mynd raddarennar syndu nu framarr hans hug en orðin, þau er hann bar fram. Grasgarðr nockurr var hia herberginu, þvi er þeir haufðu, ok þvi at herra hussins var annars staðar, haufðu þeir frialsliga garðinn með husunum. Augustinus geck nu[11] i grasgarðinn, ok Alippius þegar eptir honum, satu

1 hvers *B*. 2 er *C*. 3 myndi *C*. 4 hlæia *B*, *C*. 5 undradizt *B*, *C*. 6 fyrir ser *tilf*. *A*; *mgl*. *B*, *C*. 7 ok *tilf*. *A*. 8 stormerkium *B*, *C*. 9 *saal*. *B*, *C*; þann *A*. 10 vorn *B*, *C*. 11 ut *tilf*. *B*, inn *C*.

siðan sem þeir mattu first husunum. Augustinus komz nu við af aullu briosti[1], var hann miok sorgmoðr[2] ok aasakaði sialfan sik. En Alippius sat nær honum ok hugsaði þegiandi hann harmanda, þar til er milli asakanarorða feck Augustinus eigi halldit sik, spratt hann nu[3] upp ok geck skiotliga brutt fra Alippio, þvi at honum þotti viðkvæmiligra at grata i þeim stað, er hann væri einn saman staddr. En Alippius var eptir i þeim stað, sem þeir haufðu aðr[4] setið, með mikilli aahyggiu. Augustinus kastaði ser niðr undir einu fiktre ok leysti nu tauma[5] treganum; flutu þaa fram æsilig tár af augunum. Þessi hans iðran var harðla þægilig fornn [fyrir guði[6]. Hann talaði þaa martt aa þenna hatt[7]: »Heyrðu, drottinn, hverssu lengi skalltt þu dvelia mer at hialpa? ver þu mer eigi æfinliga reiðr, ver þu eigi minnigr hinna fyrri misgiorða[8] varra.« Slikum eymðarorðum kastaði hann fram ok gret með hinni beiskuztu iðran sins hiarta.« Þaa heyrði hann skiotliga af nalægu husi eina raust til sin sva segiandi: »Tak þu, tak þu ok les,« ok þegar stoðvaðiz hans gratr, ok tok at hugsa vandliga, hvart skolasveinar væri vanir at syngia eða segia i leik sinum nockut þess hattar, ok hafði hann þat eigi heyrtt. Reis hann upp þvi næst ok þerði tár af augum ser ok þyddi eigi annan veg, en þetta væri honum boðit af sialfum guði at luka upp bokina ok lesa þann kapitula, sem hann fyndi fyrstan. Hvarf þvi aptr skiott i þann stað, er Alippius sat, þvi at hann hafði þar eptir latit Pals pisla[9], aðr hann reis upp. Lykr nu upp bokina ok less þann kapitula, er honum bar fyrstan fyrir augu, en þann hefr sva: Non in commessacionibus etc. Þat maa sva vera sagtt: Leiðit eigi fram lif yðartt við ofát ok ofdryckiu, ureinsanir eða saurlifi, þrætur eða aufundsemi, helldr skryðit yðr drotni Jesu Kristo, ok gerit eigi geymslu hollzins i raungum girnðum. Þaa villdi hann eigi lengra lesa, þvi at eigi þyrpti. Flyðu þaa þegar aull efanarmyrkr i brott af hans hiarta, en i staðinn kom urugðarlios postuligrar aminningar. Lauk hann siðan aptr bokina ok let i millum fingrinn eða eitthvat annat mark, sagði siðan Alippio atburðinn. En hann sagðe, hvat með honum hafði giorz, þat er Augustinus vissi eigi, beiddizt siðan at sia, hvat hann hafði lesit. En Augustinus syndi honum. Alippius hugði at ok las enn lengra, en Augustinus hafði lesit ok vissi eigi hvat fylgði. En þessi orð oru[10] næst þeim, er Augustinus hafði lesit: Infirmum

1 hiarta *C*. 2 sorgmodigr *B*, *C*. 3 þa *B*, *C*. 4 *tilf.* *B*, *C*. 5 *tilf.* *B*, *C*. 6 [*mgl.* *B*, *C*. 7 þott eigi væri þessi somu ord *tilf.* *B*, *C*. 8 misverka *C*. 9 pistla *B*; pistila *C*. 10 voru *B*, *C*.

in fide recipite; þau orð segia sva: Takit miskunnsamliga við þeim, er ostyrkr er i trunni. Nu tok Alippius sva upp fyrir Augustino, sem þetta væri til hans mæltt. Af þessi aaminning var Alippius sva auruggr i goðri fyriræetlan ok þeckiligri ok hinu viðrkvæmiligzta sinu siðferði, at hann batz þaa einkanliga aa hendi Augustino utan[1] dvaul ok umgroftt truarinnar. Siðan ganga þeir inn i herbergi, þar sem fyrir var moðir Augustini, ok saugðu henni alltt af sinu efni, sem[2] vorðit var. Hun gladdiz miok ok fagnaði ok gerði guði þackir, þeim er mattugr er framarr at veita, en ver kunnum biðia eða skilia; sneri nu guð harmi[3] hennar i fagnat, hvervetna[4] framarr en hun vænti, at verða mætti. Augustino likaði nu helldr með hofsemi en skiotliga at taka sik fra þvi starfvi, er hann hafði þar[5] fram haftt i kenzlu ok læringu við þaa, er i hans skola haufðu verit; voru þaa ok fair dagar til þeirar stundar, er avextir takaz af vingaurðum[6], villdi hann þvi þess tima biða; at[7] hann mætti opinberligha ok með fullri sæmð við skiliaz skolann. Þat rað kom ok nu samtt milli þeira, at guð einn en eigi nockurr maðr skylldi vita þeira fyriræetlan.

**Um þat er Augustinus var kvalldr af tanna verk.**

11. At liðnum .xx. daugum, er Augustino þottu margir ok langir fyrir ast frelsis, er hann var fuss at faa, varð hann lauss ok frials af þvi starfi, er hann hafði iattat skolann at hallda, er hann var laungu aðr i huginum fra raðinn. For hann nu siðan fagnandi i herat með allt sitt goðz ok las primsignaðr psalma Davið með Alippio, er þaa var ok primsignaðr. Moðir hans var iamnan með honum i kvensligum bunaði, en með karllmanligri tru ok fullkomnum auruggleik, en moðurligri ast ok kristiligri milldi. Hann las þaa með mikilli ast ymisligar guðligar ritningar milskaðar með himneskum sætleik en af guðs liosi lystar. A þessum tima varð hann miok kvalðr af tanna verk, sva at um siðir matti hann eigi mæla. Þaa kom honum i hug aa at minna alla þaa menn, er við voru, at biðia fyrir ser til guðs, ok ritaði þetta a vaxi til þeira. En iamskiott sem þeir fellu aa kne til bænar með honum með mikilli astuð, hvarf þegar af taunnum hans allr verkr ok sarleikr. Hann furðaði þaa miok bæði snarpleik meinsins ok sva dasamliga ok skiota guðs miskunnsemð, þvi at hann hafði eigi aa sinum

1 alla *tilf.* *B*, *C*. 2 hversu *B*, *C*. 3 *saal.* *B*, *C*; hiarta *A*. 4 hvarvitna *B*. 5 *tilf.* *B*, *C*. 6 vingiördum *B*; vintreiam(!) *C*. 7 er *B*, *C*.

alldri nockut fyrr þolat þess hattar mein iamnsartt, ok fagnandi lofaði hann þaa með sannre tru nafnn drottins. Hann gerði þaa ok opinbertt af sinni fyriraetlan ok bað Mediolans borgarmenn faa ser annan skolameistara, þvi at hann sagðiz hafa heitit guði at þiona. Hann sendi þaa ok bref Ambrosio byskupi ok gerði honum[1] i kunnleika hinar fyrri villur sinar, ok hveriu hann hafði nyliga heitit, ok bað hann syna ser ok aa minna, hvat hann villdi hellz, at hann læsi heilagra ritninga, at hann yrði þaðan af bunari ok hæfiligri guðs miskunn at þiggia. En Ambrosius byskup bauð honum at lesa bok Ysaie spamanz, þvi at honum þotti hann opinberligar en aðrir hafa fyrir sagtt[2] af hingatburð vars herra Jesus Kristz ok rettsnuning heiðinna þioða. Ok i fyrstu er hann tok[3] lesa Ysaiam, þaa skildi hann eigi ok hugði, at aull mundi bokin slik vera, ok fyrir þvi dvalði hann at studia meirr i hinu sama en giarnari at lesa sialfs drottins orð. En er sa timi kom, er Augustinus skylldi[4] skrá nafnn sitt til skirnar, sem þaa var siðr til, ok skirn taka i[5] akveðinni stund, for hann aptr til Melansborgar; tok Alippius ok þat rað ok ætlaði skirnn at taka. Þeir haufðu i i fylgð[6] með ser likamligan sun Augustini, honum af guði gefinn, þann er þaa var .xv. vetra, hann' var þaa þegar fremre i skilning en margir froðir fullkomnir meistarar, sva at faðir hans undraðizt miok sva hvassa hans skilning. Er su boc hofð ok lesin, er hann dictaði þann tima, rubrica fyrir þaa bok er de magistro. En er þessi sveinn var .xvi.[7] vetra, hafði hann tal ok disputan við [sialfan feðr[8] sinn Augustinum. En litlu siðarr tok guð hann skiott or þessum heimi.

**Dictadr Tedeum af Ambrosio ok Augustino ok um skirn Augustini.**

12. Sva bar at aa einum hatiðardegi, at Augustinus var vit staddr predican hins heilaga Ambrosius byskups, sem moðir hans [beðit hafði[9], þaa er byskup greindi um almenniliga tru ok braut saman fagrligha hit forna ok hit nyia laugmal. En við hans predican vitiar kraptr ok miskunn heilags anda hiarta Augustini. Ambrosius ser ok skilr, at hans var[10] vitiat af guði, verðr hann miok feginn ok lofar guð með þessum orðum: Te deum laudamus, te dominum confitemur. Augustinus svaraði: Te eternum patrem

1 *tilf.* *B*, *C*. 2 spad *C*. 3 at *tilf.* *B*, *C*. 4 lata *tilf.* *B*, *C*. 5 aa *C*. 6 ferd *B*. 7 sextan *B*, *C*. 8 [fodur *B*, *C*. 9 [hafdi bedit *B*, *C*. 10 nu *tilf.* *B*.

omnis terra veneratur. Sva annstefnaz[1] þeir við með versaskipti allan þenna lofsaung til lycta, sem hann er siðan[2] sunginn i heilagri kristni. Siðan voru þeir baðir skirðir Augustinus ok Alippius af hinum heilaga Ambrosio, ok flyði þaa fra þeim oll aahyggia umliðins lifs af myklum alhuga til guðs ok heilagrar truar; saddizt Augustinus eigi þenna tima af dasamligum sætleik, er hann hugleiddi hæð ok miskunnsemð guðligs raðs yfir hialpp ok heilsu mankynsins. Þat var ok harðla fagrligtt, hverssu sætliga hann grét með mikilli viðrkomning hiartans hrærðr af hlioðum þeim, er sætliga [sunguz psalmar[3] eða aðrir lofsaungvar i heilagri kirkiu. Ok er þess hattar raustir lioðuðu at hans eyrum, þaa samteingðiz sannleikrinn sva hans hiarta, at þaðan af hitnaði[4] astuð sannrar goðfysi með honum, sva at hann elskaði sialf tarin, er af augunum flutu fram. Augustinus var þaa nockuru meirr en þritugr, er hann tok heilaga skirnn. Moðir hans Monika lifði þaa enn ok fylgði honum iafnan. Þat var nær þessum stundum, er Justina drottning moðir Valentiniani keisara, er hinn yngri var kallaðr, striddi upp aa [hinn heilaga[5] Ambrosium byskup fyrir sakir villu sinnar, er hun hafði vorðit svikin af Arrius villumaunnum. En i þenna tima kristninnar ottaðiz folk ufrið villumanna, ok heimti sik undan at veria byskup sinn Ambrosium eða fyrir hans skylld dauða þola. Nu saa guðs ambatt Monika moðir Augustini borgina alla skelfða af miklum ukyrleik ok ufriði villumanna, hafði hun þa alla sina aastundan ok aahyggiu til þess at vera sem lengztum aa skynsamligri voku með heilugu[6] bænahalldi guðs kristni til friðar. Þenna tima var þat skipat, sem enn hellzt ok eptir likiz nær um allan heiminn, at ymnar ok psalmar se sungnir við tón, sem aðr var vandi til i austrhalfu heimsins, at leikfolkit skylldi þvi minnr mæðaz eða leiðaz framflutning heilagrar tiðagiorðar. A þessum dogum kom til motz við Augustinum einn ungr maðr honum samlendr ok gerðiz hans samfelagi, þessi het Evodius at nafne, hann hafði fyrr verit skirðr en Augustinus. Þeir voru siðan baðir samt halldandi sin aa milli heilaga ast, ferðuðuzt nu braðliga heim aptr ut i Affricam, iafnnan hugsandi ok eptirleitandi, hverr staðr þeim mætti nytsamligaztr vera guði at þiona. Ok er þeir lagu við Tifrar os sva sem til byriar, tok moðir Augustini nockurnn siukleika, er nalgaðizt saa dagr, er hun mundi liða af þessum heimi. Þaa bar sva til af guðs tilskipan, at þau stoðu bæði samtt ok son hennar

1 andæfazt *B.* 2 *tilf.* *B*, *C.* 3 [syngiaz salmar *B.* 4 hans *tilf.* *A.*
5 [*mgl.* *B*, *C.* 6 helgu *B*, *C.*

Augustinus ok studdu sig við einn glugg ok saa ut i garðinn, er þar var fyrir herberginu, þvi er þau haufðu tekit ser til hvilldar eptir erfviði langs vegar, en skylldu nu buaz til siglingar, var þetta hus ok nockut i brutt fra alþyðu þys. Þaa tauluðuz þau við ein samt harðla sætliga gleymandi liðnum lutum, en herðu sik fram til hinna, er fyrir hondum voru, eptirleitandi sin i milli, hvertt eða hvilict vera mundi ovorðit lif heilagra manna, þat sem eigi saa auga ok eigi heyrði eyra ok eigi kom i nockurs manz hiarta, ok hugsa, hvilikir þeir lutir ero, er guð hefir fyrirbuit þeim, er hann elska. Ok er þau tauluðu slikt með ser, girntuz þau með allri hiartans fysi a himneska fagnaði ok eilift lif sva framarliga, at allr þessi heimr virðiz þeim auðgiætligr ok herfviligr með sinni skemtan ok raungum girnðum. Monika leit þaa við Augustino ok sagði sva: »Heyr nu, son minn! eingi hlutr er nu saa i þessu lifi, er fyrir þann fysi mik lengr at lifa, ok eigi veit ek, til hvers ek em her nu eða hvat ek geri, þvi at ek hefi þat nu auðlaz, er ek girntumzt einna mest af guði at þiggia, þat at ek mætta þig sia kristinn með almenniligri tru, aðr ek færa af heiminum. En nu hefir guð enn framarr veitt mer en ek [kynna biðia, at[1] ek se þig hans þionostumann at haufnuðu iarðligu eptirlifi ok stundligri sælu.«

### Andlat Monice modur Augustini.

13. A niunda degi sins siukleika andaðizt hin goðfusa ok hin guðrædda Monika moðir Augustini a setta ari hins setta tigar alldrs sins, en Augustinus hafði þaa .iii. vetr ok þritugtt[2]. Hann fysti nu at grata i guðs augliti fyrir hennar sal ok af hennar dauða, ok gaf nu rum tarunum gnogliga fram at fliota. Siðan hof hann upp bæn sina til guðs ok sagði: »Heyr þu, drottinn minn, ek offra þer bænir fyrir þessi þinni þionostukonu; heyr þu guð mins hiarta, verandi mitt lof ok mitt lif! Þer geri ek þackir fagnandi fyrir oll þau goð verk, er hun framði i þessu lifvi. En nu bið ek fyrir synðum moður minnar, heyrðu mik fyrir lækning sara þinna[3], þat er fyrir son þinn, er a krossinum heck ok sitr nu þer til hægri handar ok biðr fyrir oss. Veit ek, at hun vann morg miskunnarverk, ok af aullu hiarta fyrirgaf hon þeim, er við hana haufðu misgert. Gef þu nu ok upp henni sinar syndir, þær er hun gerði a sinum alldri, siðan hun var skirð. Fyrirgef

1 [kunna at bidia, er *B*, *C*. 2 þriatigi *B*, *C*. 3 vorra *B*, *C*.

þu henni, drottinn minn, ek bið þig, fyrirgef þu henni, lat þu hana eigi fara i fyrirdæming. Ok sannligha trui ek, at þu hefvir þat nu gert, sem ek bið þik, en vilianliga bæn munz mins bið þik at þu virðir. Heyrðu, drottinn, taki engi hana i braut af þinu skioli, komiz eigi milli yckar með afle eða umsat leon eða dreki ok[1] se hun halldin af slægum rogbera, helldr se hun i friði með þeim manni, er hun giptiz aungum[2] aðr. Fyrir þeirra holld leiddir þu mik til þessa lifs, en ek veit eigi, til hverrar endalyctar þu hyggr mitt lif at leiða.«

### Augustinus for heim ut i Affricam.

14. Eptir andlat moður sinnar for Augustinus ut um haf i Affricam ok heim til eigna sinna, þionaði[3] guði i faustum ok heilugu[4] bænahalldi ok goðum verkum hugsandi nott ok dag guðs laugmal. Hann tok þaa ok at dicta bækr ok læra þaa, er ofroðir[5] voru. Þenna tima styrði guðs kristni Valerius byskup i þeiri borg er Yppon heitir. En er menn vissu fyrirætlan Augustini ok agiæta kunnostu, sva kallaði ok at auðrum megin nauðsyn kristninnar, at saa prestr væri vigðr, er predicaði guðs orð fyrir borgarlyðnum, ok þvi toku þeir Augustinum uvaranda með valldi, þvi at hann sagði oss sialfr, segir saa er sauguna hefir dictat, at fyrir þessi sauk forðaðizt hann aðr[6] allra mest þær borgir til bygðar, er byskupslausar voru. Þeir helldu hann[7] ok leiddu[8] siðan til byskups, at hann væri vigðr til prez[9]; var þar til eitt allra samþycki ok ein fysi, at þetta gerðiz sem skiotazt. En Augustinus komz þa við af aullu hiarta, er þetta bar sva skiotliga til. Voru þeir ok, er þyddu hans tár til metnaðar ok saugðu sva til hans sem með hugganarorðum, at prestzins vigslupallr var harðla sæmiligr, þo at hann væri enn meiri tignar verðr, saugðu ok, at sva mætti gerazt, at hann væri þa nalægri byskupligri tign. En hans hugsan var aull diupsettari ok með meiri skynsemð, þvi at hann sagði oss sialfr, at hann sytti þat, hverssu mykinn[10] saluhaska hann mundi hafva af ahyggiu stiornarinnar, ok þat[11] gret þessi guðs maðr, er þeira girnð gerðiz i þessu.

1 eigi *tilf.* *C.* 2 audrum *tilf.* *B*, *C.* 3 þionandi *B*, *C.* 4 helgu *B*, *C.* 5 fafrodir *B*, *C.* 6 *mgl.* *B*, *C.* 7 honum *B*, *C.* 8 hann *tilf.* *B.* 9 prestz *B*, *C.* 10 mikinn *B*, *C.* 11 þvi *B*, *C.*

### Um þat er Augustinus setti klaustr.

15. En er Augustinus var prestr vorðinn, þaa setti hann klaustr við sialfva kirkiuna ok tok at lifa þar með guðs þionostumaunnum eptir hætti ok þeiri regulu[1], er af heilugum[2] guðs postolum var i fyrstu sett ok skiput. Allra mest var þat boðit, at eingi hefði nockut eiginligtt i þeira safnaði, helldr væri þeim allir lutir sameignir, ok skiptizt hverium til handa, sem þaurf beiddi; hafði hann ok sva giortt fyrri sialfr, aðr hann færi heim ut um hafit. Heilagr Valerius vigslufaðir hans, með þvi at hann var bæði milldr, goðfuss ok guðrædr, fagnaði miok ok gerði guði þackir, er þær hans bænir voru heyrðar, er hann hafði optligha beðit, at guð giæfi þvilikan mann, er með guðs orði ok heilsamligri[3] kenning mætti upptimbra ok endrbæta guðs kristni, saa hann ok, sem var, at Augustinus var þvi aullu nytsamligri þar til en[4] aðrir þeir menn, er mikit haufðu numit af girðzkri tungu, sem hann kunni meira ok hafði lesit af latinu tungu, ok þvi gaf hann hinum heilaga[5] Augustino til þess valld at predica guðs orð i heilagri kirkiu at ser hiaveranda ok þat sem optaz frammi at hafa i moti þvi, sem aðr var vandi kristninnar ut i Affrica. Ok þvi leitauðu nockurir byskupar aa þetta með nockuru hallmæli ok afþockan. En siaa hinn virðuligi byskup Valerius geymði ecki at þeira aaleitni, helldr saa hann fyrir nytsemð kirkiunnar þat vitandi, at þetta gerðu margir um austrhalfu heimsins; saa hann ok þat, at Augustinus prestr fylldi[6] þat nu fullkomliga, er hann vissi sig miok vanfæran til, þo at hann hefði meiri vigslu, ok þvi hirði hann ecki[7] um þeira aleitni ok hallmæli. Nu er þetta hit biartazta lios var kveiktt ok uppsett yfir kertistikuna, þaa tendraðizt þat sva biartliga, at [þat lysti þeim ollum[8], er i guðs husi voru. Ok þegar er þessi frægð[9] for ok fluttiz viða[10], þaa gafu hvervetna[11] byskupar valld prestum at predica guðs orð eptir þessa goða manz dæmi.

### Um þat er Augustinus braut nidr skadsamliga villu.

16. A þessum stundum sveik marga menn i borginni Yppon skaðsamlig villa þeira manna, er Manichei eru kallaðir. Einn prestr

1 reglu *B*, *C*. 2 helgum *B*, *C*. 3 hialpsamligri *B*, *C*. 4 *saal.* *B*, *C*: er *A*. 5 helga *B*, *C*. 6 *saal.* *B*, *C.;* flutti *A*. 7 *saal.* *B*, *C;* eigi *A*. 8 [*saal.* *B*, *C.*; þeim lysti þat sva aullum biartliga *A*. 9 *saal.* *B*, *C*; fegrð *A*. 10 um allan heim *B*. 11 i kristninni *tilf.* *B*, *C*.

þeira, sa er Fortunatus het, spillti mest folkinu fylgiandi þessi[1] villu. En heilagr prestr Augustinus disputaði við hann ok sigraði[2] opinberliga, sva at allt folkit heyrði. En Fortunatus hneyktr ok makligha svivirðr flyði brutt af þeiri saumu borg ok var þar eigi siðan senn. Siðan flaut fagrliga frægð[3] kenningar hins heilaga Augustini sem hinn sætazti guðs ilmr um aull herut Affrica sva opinberliga, at þaðan af fagnaði aull kristni, þvi at sva sem allir limirnir harma ok hryggvaz[4], ef einn sykiz, sva fagna ok allir hans heilsu. En þo fagnaði enn framarr Valerius byskup ok gerði guði þackir fyrir andligan velgiorning ser af honum[5] veittan; tok nu, sem mannligr hugr er vanr, at ottazt, at Augustinus mundi verða tekinn fra honum ok kosinn til byskups nockurri annarri kirkiu, er hofðingialaus var. Ok sva hefði tekiz, nema hann hefði komit honum undan i nockurn leyniligan stað, sva at hann fanz eigi, þa er hans var leitat. Ottaðizt þessi enn virðulegi byskup þetta sama þvi meirr, er hann vissi sig bæði revrnaðan[6] fyrir alldrs sakir ok vanmegns[7], ok þvi sendi hann leyniliga bref sitt til erkibyskups i Cartagine ok giorði [hvortveggia honum kunnigtt[8] alldr sinn mikinn ok likamliga vanheilsu, þess biðiandi, at Augustinus væri vigðr til byskups i borginni Yppon til fulltings við sik ok kristninni til styrktar, en eigi þa þegar[9] til valldzens viðtoku eða byskupsstolsins, ok þetta[10] feck hann með innsigli erkibyskups. Eptir þetta bað Valerius byskup Melagium[11] erkibyskup Kalamensis borgar þess heraðs, er Numidia er kallat, at hann skylldi koma at vitia Ypponensis kristni. Ok er hann var þar kominn, birti Valerius byskup sinn vilia þeim byskupum, sem[12] þar voru við staddir, ok aullum klerkum i Yppon ok þar með aullu folki. Ok þo at [aullu folki[13] kiæmi þetta sa uvartt, þeim[14] er heyrðu, toku allir með fagnaði ok fysi ok baðu með myklu atkalli, at þetta skylldi skiott fullgiorazt, at Augustinus væri til byskups vigðr. En hann talðizt undan ok [kallaðizt eigi[15] byskups vigslu vilia taka at sinum byskupi lifanda i mot sið ok vanda kirkiunnar. Ok þa er hann var þess eggiaðr af aullum, at hann skylldi vigslu taka, ok saunnuðu þat vera siðveniu bæði i Affrica ok viða annarstaðar i kristninni ok sogðu þar til morg

1 *saal.* B; þessu A, C. 2 hann *tilf.* B, C. 3 *saal.* B, C.; ok *tilf.* A. 4 hryggiazt B, C. 5 gudi B. 6 hrörnadan B, C. 7 vanmegnis B. 8 [honum kunnikt hvarttveggia B, C. 9 med ollu *tilf.* B, C. 10 sama *tilf.* B, C. 11 Megalium B, C. 12 er B, C. 13 [aullum C; þeim B. 14 *myl* B. 15 [*saal.* B; taldizt eigi C; eigi eigi (!) A.

dæmi. Ok sva tilskylldaðr eða nær nauðgaðr, varð hann undir at ganga þenna vanda ok tok byskups vigslu. En þo sagði hann sva siðan, at eigi skylldi þetta giorðzt hafa, at hann væri vigðr, meðan hans byskup lifði, ok ritaði þat, sem hann nam, siðan hann var vigðr, at þetta var i moti skipan almenniligs þings, þvi at eigi villdi hann, at þat væri auðrum giortt, er hann harmaði við sialfan sig gertt hafva verit. Heðan af lagði hann mikinn hug aa, at þat skylldi skipat vera aa byskupa þingum, at þeir, er vigslur gerði, [skylldi kunnar[1] gera þeim, er vigiaz skylldu, eða þeim, er aðr voru vigðir, laugligar setningar allra lærðra manna.

**Um hversdagliga sidu Augustini byskups.**

17. Þaa er heilagr Augustinus hafði tekit byskups vigslu[2], predicaði hann guðs orð enn berligar ok staðfastligar[3] ok með meiri rauksemð en aðr, eigi at eins um eit herat, helldr ok hvervetna þar sem hann var beðinn til at[4] koma, bæði glaðliga ok sætligha buinn iafnan at giallda skynsamlig andsvaur þeim, er beiddu, af heilagri tru ok von þeiri, er til guðs er. Tok nu bratt miok at vaxa ok styrkiaz guðs kristni um alltt Affricam af hans predican. Þvi [fylgði hann um[5] vigslugerðir við presta ok klerka, sem meiri [samþykt er[6] til kristinna manna eða siðligr vandi kristninnar. Igangsklæði hans ok skoklæði ok reckiuklæði voru með stillingu[7] ok viðrkvæmiligum hætti, hvarki miok vaundut ok eigi miok afleitlig; þvi at honum syndiz, sem af þessu auðru hvaru villdu sumir synaz haleitligir en sumir auðgiætligir, sva leitandi sinna luta en eigi þeira, er Jesus Kristz eru[8]. En hann helltt i þessu mitt hóf ok hneigði hvarki til hægri handar ne vinstri. Borð helltt hann hofsamliga ok athugasamliga sparligtt, let hann frammi vera kal ok graus ok stundum kiot fyrir sakir gesta ok þeira manna, er ustyrkri[9] voru. Hann drak iafnan vin[10], þvi at hann vissi ok kendi sva auðrum, at aull skepna guðs er goð ok ecki afvirðandi[11], þat er með þauckum er neytt við guð, þvi at þat helgaz alltt fyrir guðs orð ok helga bæn. Spanu at eins hafði hann af silfri, en aunnur ker eða borðbunaðr voru af tre eða marmara eða steypt af elltu leiri, sva sem grytnr eða pottar. Þetta var þo eptir hans vilia, en eigi sakir aureigðar eða fatægðar(!)[12].

1 [*saal.* *B*, *C*; skylldu kunna *A*. 2 tign *B*, *C*. 3 *saal.* *B*, *C*; staðfestaligar *A*. 4 *tilf.* *B*, *C*. 5 [*saal.* *B*; fylgðu honum *A*; fylldi hann um *C*. 6 [*saal.* *B*, *C*; samþycr var *A*. 7 stilliligum *B*. 8 *saal.* *B*, *C*.; voru *A*. 9 ostyrkari *B*, *C*. 10 *mgl.* *B*, *C*. 11 afvirdanda *B*. 12 fatækis *B*, *C*.

margar bækr hafa diktad, sigrar enn helgi Augustinus med sinu mannviti ok snilld, þvi at hann diktadi ok ritadi svo marga ok mikla hluti, at þvi sidr fær nóckurr madr ritad hans bækr allar aa[1] sinum alldri, at engi vinzt til þær allar at lesa. Augustinus þessi kallaz ok Aurelius ab aura, þat er af lofsamligu eptirmæli allz folks, fyrir þat er hann aukaði almenniligan rett i sinni bokagiorð. Nafnn Augustini þyðiz ok augmentatus[2], þvi at hann lagði marga hluti við til nytsemðar, þa er hann sneri girðzkum bokum i latinuliga snilld.

### Fra riti heilags Jeronimi.

20. Sæll Jeronimus prestr tulkr heilagrar biblie[3], þaa er hann var miok vanmegnn af mycklum alldri, ritaði hann sva milli annarra hluta til Augustinum: «Ver[4] haufum nu miok fylltt vora lifsdaga ok starfat sliktt, sem ver haufum matt kristninni til styrktar; en fyrir þvi at þu vartt lengi syslulauss af þessu erfviði, hæfir þer nu at starfa, en oss at hvilaz.« Merkit, hinir kiæruztu bræðr, at hinn sæli Jeronimus hit biartazta lios heimsins dæmði ongum [odrum vidrkvæmiligra[5] aa hendi at fela vanda ok aahyggiu at bera fyrir heilagri kristni almenniligri en þessum hinum sæla Augustino[6].

### Af einum meistara.

21. Prosper einn agætr meistari talar þessum ordum af Augustino i sinni bok: Heilagr Augustinus var hvass i hugviti, blidr i mali, frodr a þessa heims ritningar, starfsfullr i erfvidum fyrir kristninni, biartr i hversdagligri disputan, forsiall i allri sinni athófn[7], sannkristinn i skyringu truar varrar, glóggr i losan vandra[8] spurninga, athugasamr i sigran villumanna, viss ok varr i þydingu laugsamligra ritninga.

### Fra einum virduligum meistara.

22. Sva talar enn einn virduligr ok viss meistari: Heilagr Augustinus byskup, er kallazt rettliga skinanda lios spekinnar,

1 *Med dette Ord begynder förste Spalte i a.* 2 *saal. B, C;* aumentatus *a.* 3 biflie *B.* 4 *saal. B, C;* var *A.* 5 [*saal. B, C;* þeira viðkvælmligha(!) *a.* 6 *Her ender første Spalte i a.* 7 atferd *C.* 8 *saal. C;* vondra *B.*

[illegible] [illegible] verdi [illegible], sigrar bædi at bokfrædi ok [illegible] alla [illegible] heilagrar kristni: blomgadiz hann fagrliga [illegible] at verkum kraptanna ok framdreging heilagra kenninga.

### Fra einni godri konu.

23. Ein god kona ok þarftug reyndi þat, hversu stadfasta syn hiartans enn sæli Augustinus hafdi til heilagrar þrenningar, þa er hann predicadi[2] fyrir folkinu af sialfri guds þrenning, er hun kom ok fell til fota honum ok bad hann hialpar fyrir sinni naudsyn. En hann miskunnadi henne eigi, þvi at hann sa hana eigi. Hvarf hon sidan med hrygd a braut. En a næstu nott, er hun sofnadi, syndiz henne sem hun væri uppnumin til gudligs hasætis, ok þar sa hun sælan Augustinum standa a kniam fyrir heilagri þrenningu, ok hellt upp hondum ok sa upp a þrenningina med[3] hinni hvassuztu syn. Þaa heyrði hun raudd af guðligu hasæti, þaa er sva sagði: »Heyrðu kona! þessi Augustinus festi sva[4] giærdags sa mer augu sins hiarta, þa er hann hafði likamlig augu byrgð til þin, er þu fellt [at fotum[5] honum, þvi at hann matti eigi vikia synina[6] fra mer ok til þin. En nu kom þu a myrgin[7] snemma til hans, ok mantu þaa reyna giæzku hans.« Sva gerði [hun, ok[8] kom um morguninn a fund guðs þionostumanz Augustini, en hann tok við henni með hinni mestu miskunnsemð, þvi at hann kendi þaa ena saumu vera, sem[9] hann hafði sa himni set um nottina.

### Fra þeim er soguna hefir dictad.

24. Eigi er þat vartt, segir saa er sauguna hefir dictat, at greina með skaummu mali, hvilikan ofrið ok umsatir. þessi enn virðuligi byskup Augustinus hefir þoltt af villumaunnum Donatistis, Manicheis ok Arrianis. Þvi at einn dag, er hann for veg sinn at telia tru fyrir[10] maunnum heilagri kristni til styrktar, þaa haufðu þeir villumenn, er ok nefnnda fyrr, er[11] Donatiste eru kallaðir, sottz[12] fyrir honum fiolmennir[13] með alvæpni a þeim veg, er hann

1 vegr *C.* 2 guds ordum *tilf. C.* 3 *Med dette Ord begynder anden Spalte i a.* 4 i *tilf. C.* 5 [til fota *C.* 6 *saal. a, B, C.* 7 morgin *B, C.* 8 [konan, at hun *B, C.* 9 er *B, C.* 10 kristnum *tilf. B.* 11 ok *B, C.* 12 *rettet*; setter *a*; setid *B, C.* 13 fiolment *B, C.*

skylldi[1] fara, ok ætludu at hafa lif hans, ef þeir hefdi hann fundit. En hann veik sa annan veg, en hann hafdi adr ætlat, ok forđadiz sva lifshaska hlifdr med guds miskunn.

### Fra enum helgum Augustino.

25. Heilagr byskup Augustinus let til sin bera, nockuru adr en hann tok hina efstu sott, bækr þær, er hann hafdi dicta(t)[2], at hann mætti þær glogliga skynia ok ranzsaka ok retta, þar sem honum þotti þurfa, bædi þær er hann hafdi i fyrstu dictad a tima sinnar rettsnuningar, þa er hann var ovigdr, ok svo ok þær, er hann dictadi, þa er hann var prestr edr byskup; ok hvat sem hann þekti sig annan veg dictad hafa eda ritad, en kristilig regla hefir ok helldr, þa er hann vissi minnr ok skildi almenniliga tru, færdi hann þat i lag ok gerdi rett. Ok þvi ritadi hann tvær bækr, þær er þess hattar titull er fyrir de recensione librorum, þat er sem boka rannsakan eda retting. Hann harmadi ok nockurar bækr fra ser teknar ok braut bornar af nockurum brædrum, adr [en hann hefdi þelat eda emendat[3], þott[4] hann hefdi þær sidan rettar gervar. Þær voru ok nockurar hans bækr, er eigi voru algiörvar, adr hann andadiz. En þar sem hann villdi öllum stoda, þeim er bækr mattu lesa, ok þeim er eigi mattu, þa diktadi hann eina bok af gudligu lögmali bædi af hinu nyia ok hinu forna, ok las þar saman bædi boðit[5] ok bannat, at i þeiri bok kendi hverr sialfan sik, hvartt hann væri hlyðinn eða uhlyðinn guðs boðorðum, ok nefndi hann þetta sitt verk speculum, þat er [kallat skuggsio[6].

### Fra enum helga Augustino.

26. Heilagr Augustinus predicaði guðs erendi alltt fram til sialfrar banasottar sinnar an aflati glaðliga með styrku ok heilu hugskoti ok heilsamligu raði i heilagri kirkiu, alheill at aullum likam ok sva at syn ok heyrn. Þessi hinn heilagi byskup lifði .lxx. ara ok .vi. ar, [en i klerkdomi ok byskupsdomi[7] sinum nær .xl. ara[8]. En i banasott sinni bauð hann, at honum skylldi rita þaa faa psalma af Daviðs psalltara, sem einkanliga eru af sannri

1 *Her ender anden Spalte i a.* 2 *tilf. C.* 3 þelat eda emendat *saal. rettet*; þela æmenda *C.* 4 [*tilf. C.* 5 *Med dette Ord begynder tredie Spalte i a.* 6 [kollud skuggsea *B*; skughsio kaullud *C.* 7 klerkdomi ok byskupsdomi *saal. B*; klerkdæmi ok byskupsdæmi a. 8 [*mgl. C.*

synða iðran; setti hann þessi kvaterni við vegginn hia hvilunni, ok las þar af psalmana opttliga, meðan hann laa i þessi sott, ok felldi iafnan noglig[1] iðrunar tar. Nockurir diofuloðir menn voru leiddir til hans, er hann laa i sottinni, ok með heilagri bæn rak hann diofla fra þeim ok gerði þaa alheila. Þaa[2] kom til hans einn siukr madr ok bad hann leggia hendr yfir hofud ser ok gefa ser heilsu. En byskup svaradi: »Ef ek mætta nockut, þa munda ek fyrri veita mer þat, er þu beidiz.« Þa sagdiz enn siuki madr heyrt hafa rodd af gudi sva til sin mælandi: »Far a fund Augustini byskups ok bid hann leggia hônd yfir þik, ok muntu heill verda.« En er heilagr byskup hafdi þetta heyrt, lagdi hann med sinni blezan hônd yfir enn siuka ok let hann iafnskiott heilan heim fara. Ecki gerdi hann testamentum, þvi at hann hafdi sig fatækan gert fyrir Kristz ast ok hafdi af[3] eingu ath giôra. Heilaga bok kirkiunnar bibliotecam ok adrar helgar bækr bad hann, at iafnan væri vandliga geymdar eptir hans dag; hvat sem kirkian atti i skrudi eda fiarmunum feck hann i hendr trulyndum presti, þeim er geymt hafdi kirkiunnar goz um hans daga. Eigi audgadi hann i sinu lifi edr vid daudann, svo sem margir giôra, sina nafrændr, hvort sem þeir voru klæddir eda eigi, helldr veitti hann þeim sem odrum, medan hann lifdi, þat sem þurft beiddi, eigi at þeir audgadiz, helldr at þeir þyrfti þa eigi eda væri minnr þurfandi. Klerka ok klaustr karla ok kvenna, er hreinlifi helldu med sinum formonnum, gaf hann fullkomliga i kirkiunnar valld, svo ok þær bækr, er hann hafdi dictat eda adrir helgir menn, med sinum hirdzlum.

### Andlat heilags Augustini.

27. En til þess at af engum manni mætti[4] bæn hans talmazt þaðan af, bað hann nær .x. daugum, aðr ond hans skilðiz[5] við likamann, at engi maðr gengi inn til hans nema þær stundir at eins, er læknar komu at sia sottarfar hans, eða fæzla var honum færð, ok sva var geymtt ok giort. En hann let alldregi af heilagri bæn aa þeim aullum tima, ok milli bænarorða sofnaði hann með feðrum sinum i goðri elli til himinrikis af þessum heimi. Ok at oss hiaverandum ok siandum ok biðiandum[6], segir saa er sauguna hefir

1 gnoglig *B*, *C*. 2 *Her ender tredie Spalte i a*. 3 *saal. C;* at *B*. 4 *Her begynder fjerde Spalte i a*. 5 *saal. B*, *C;* skiliz *A*. 6 fyrir sal hans *tilf. B*, *C*.

dictat, var fyrir honum guði fornn færð i heilugum messusaung, ok siðan var eptir sið likamr i iorð grafvinn. Af þessum lutum, sem nu hafva ritaðir verit, maa kunnicktt verða[1], hverssu mikill upphalldzmaðr hinn sæli Augustinus hefir verit með guðs giof heilagri ok almenniligri kristni, ok er iafnnan, sem hann siaiz[2] lifandi i sinum kenningum rettruaðum maunnum. Sva finzt ritat, at einn veralldar spekingr hafði boðit[3] at hann skylldi vera grafvinn við almenniligan veg, siðan hann var dauðr, ok dictaði þessi tvau[4] vers[5]:

Vivere post obitum vatem vis nosse, viator,
Quod legis ecce loquor, vox tua nempe mea est.

Þat maa sva vera skilit: Ef þu, farandi maðr, villtt vita, at skalldit lifir eptir dauðann, hygg at, þat eru min orð, er þu less, ok þvi eru þin orð min. Þessi dæmisaga maa vel heyra hinum heilaga Augustino i þann stað, er[6] sialfr sannleikrinn giorir þat aullum augliost[7], er yfir lesa þær ritningar, er þessi guðs astvinr hefir dictat af tru ok von ok heilagri ast kristninni til nytsemðar ok þeim til styrktar, er lesa, hverssu heilagliga ok rettliga hann lifði ok lifir enn eptir likamligan dauða. En ek hygg, segir saa er sauguna hefvir dictat aa latinu, at enn mætti meira lesa af honum ser til nytsemðar hverr, er hann sá ok heyrði predica[8] i heilagri kirkiu, ok kunnig var hans meðferð[9] milli manna, þvi at hann var eigi at eins frægr[10] ritari i himnariki, þat er i nuverandi kristni, saa er fram bar af sinni fehirðzlu nyia luti ok fornna, þat eru visendi hvarstveggia laugmals, eða saa kaupmaðr, er selldi alla hluti, þaa er hann atti, ok keypti einn agiætan gimstein, er hann hafði fundit, heldr var hann ok einn af þeim, er sva er af ritað: »Giorit sva sem þer talit,« ok einn[11] af þeim, er lausnarinn segir, at sa man mykill vera kallaðr i himinriki, er bæði gerir ok kennir. Nu bið ek mykiliga yðra astsemð, er þessa saugu lesit, segir saa er dictaði, at þer giorit almattkum guði þackir með mer ok lofit drottin, er mer veitti skilning, at ek mætta ok villda þessa hluti i kunnleika giora hiaverandum ok fraverandum, þeim er nu eru ok vera munu, ok biðit með mer ok fyrir mer, at ek hafa her fyrir þessa[12] heilags manz hylli, er ek lifða með af guðs giof nær

1 hvilikr eda *tilf.* *B*, *C*. 2 syniz *B*. 3 *Her ender a, og nu begynder atter A*. 4 *saal.* *B*; tva *A*, tvo *C*. 5 ok bad rita yfir leidinu *tilf.* *B*; ok skrifadi yfir leidinu *C*. 6 at *B*, *C*. 7 liost *B*, *C*. 8 *saal.* *B*, *C*; predicat *A*. 9 her *tilf.* *B*, *C*. 10 frodr *B*, *C*. 11 enn *B*, *C*. 12 *saal.* *B*, *C*; þess A.

.xl. ara sætliga ok frialsliga utan nockura mykla misþockan, at ek mega guði lika bæði her ok i ukomnu lifvi.

### Fra Augustino.

28. Heilagr Augustinus var a daugum konunganna Archadij ok Honorij sona Theodosij keisara hins goða miok frægr i guðs kristni af kenningum sinum ok speki ok bokagiorð. Þessi heilagr byskup af guðs anda lærðr dictaði i heilagri kristne maunnonum til siðbotar bækr, skyringar ok pisla þusund ok .xxx., at frateknum þeim lutum[1] er eigi maa taulu a koma. Virðuligr hans likami var i fyrstu fluttr or sinni[2] borg Yppon fyrir sakir ufriðar i Sardinarey, er liggr fyrir Affrica, en siðan var hann fluttr af Leobrando Langbarða konungi i þaa borg, er Papia heitir, ok Ticinum kallaz oðru nafne, ok vegsamliga varðveittr i Petrs kirkiu með micklum fekostnaði, aðr konungrinn fengi helgan dominn.

### Af Vilhelmo[3].

29. Broðir Gilhelmus lector af sið berfættra bræðra i Marsil sagði sik lesit hafa i sententijs af hiarta hins sæla Augustini, þat er varðveitt er i þeiri borg[4], er Vercellis heitir, ok synizt i fyrstu visit, sem von er, en þaa er fyrir þessum helgum domi er lesit af þeiri bok, er hann sialfr hugsaði ok settis[5] af hinni hæstu guðs þrenning i mot villumaunnum, þrutnar hiartat þvi meirr, sem leingr er lesit af þeiri saumu bok.

### Lof heilags Augustini.

30. Heilagr Augustinus byskup er hinn styrkazti[6] stolpi almenniligrar truar; hann kallaz ok himneskr luðr, herralict lios, malsnilldar ker, fehirðzla vizkunnar, vernðarmaðr kristninnar, uruggr[7] bardagamaðr i mot villumaunnum, en sannr elskari heilagrar þrenningar. Nu biðium, kiæruztu bræðr, at oss veitizt fyrir þessa byskups bæn at batna af hans kenning ok hana[8] at fulgiora, ok

1 *mgl.* *B*, *C*. 2 þeiri *C*. 3 *Saal.* *C*; fra brodur einum *B*. 4 Italie *tilf.* *B*. 5 samsetti *B*, *C*. 6 sterkasti *B*, *C*. 7 auruggr *B*, *C*. 8 *saal.* *B*, *C*; hafa *A*.

þangat at koma, er heilug þrenning ok almattr þeirar þrenningar rikir ok dyrkar i sifellu sina helga menn, þeire saumu þrenning se vegr ok lof ok dyrð um allar alldir. Amen.

---

# APPENDIX.

*(Fragment af en ældre tospaltet Pergamentcodex, 221 folio. Nederst paa et Blad i denne Codex, hvilket indeholder Slutningen af Biskop Jons Saga, jvf. Bp. Sögur I. 202, findes en Overskrift med røde Bogstaver til Augustinus Saga, hvorefter første Blad af selve Sagaen mangler, det andet derimod er tilbage. Overskriften og det tiloversblevne Blad meddeles her, jvf. ovenfor S. $125^{21}$—$128^{22}$.)*

**Her hefr saugu hins mykla Augustini sva sem herra Runolfr aboti Sigmund[arson] af Veri snaraði af latino. prolog[us].**

engi maðr kennde honum. Heyr þv gvð drottinn segir sa er þessa savgv hefir dictat. þv veizt at skiot skilning oc hvass næmleikr er þin giof.

**Af Fausto villvmanni.**

Þa er Avg' hafði ix vetr oc xx. kom i borgina Kartaginem einn b'p Manic[he]orum þeirra villvmanna er sva ero kallaðir sa er F[au]stus hét at namne mykil diof[v]ls snara þvi at hann var hinn nafn frægasti millvm villvmanna af mykille kunnasto oc froðleic oc hann hafði yfir lesit allar hǫfuð iþrottir. En þvi at Avg' hafði lesit margar bókr spekinga oc hellt þaðan af i minne marga lute þa bar hann samt slict sem hann hafði lesit við orð oc kenning þessa villvmannz er mart hafði saman ritat af ymislegum lutum oc skilði at haðuleg var hans kenning oc villa oc vtan alla skynsemd. Oc er þeir taka tal sin i millvm fann Avg' þenna mann bliðan i mali oc með skemtilegu viðrtali. þui at bókr þessa villvmanna ero fullar af skravcsavgum oc þeir tala með falsi af himne oc stiornv mórkum. af sol oc tvngli. Enn er Avg' bað hann rannsaka oc gera sanna sina kenning þorði villvmaðrinn eigi þat

gera oc skammaðiz nv eigi þat at iata at kenning hans var eigi sann oc sva sigraðr fór hann i brott.

Avg' skilði við moður sina.

Eptir þetta hugsaði Avg' at fara hegat norðr vm hafit til Roma borgar oc fystiz helldr þar skola at hallda slikan sem hann hafði aðr halldit í Cartagine. einna mest firi þvi at hann hafði heyrt at vngir menn mætti þar hafa frialslegra studium. Þvi at i Cartagine var þa nockorr vkyrrleikr, enn þessi hans hugsan var sannlega guðlig skipan. Oc er hann hóf vpp þessa ferð fylgði honum moðir hans allt til hafs mioc biðianndi at hann fôri eigi þessa ferð. eða leyfði at hon fôri með honum. hann let eigi alhuga sinn vppi firi henne oc sagðiz eigi mynndv fyrr skilia við vini sina enn byrr kiæmi. Moðir hans villdi með honum fara til herbergis vm kuelldit. enn hann eggiaði hana oc feck þo varla at hon væri vm nottina i þeim stað er nalægstr var skipi þeirra oc giðr var minning hins heilaga Cipriani b'ps er pinndr var við Kartaginem. Enn þegar þav voru skilit steig hann a skip oc ferðaðiz brott vm nottina leynilega. Moðir hans var a bônum þa nótt biðianndi guð at talmaðiz brautferð sunar hennar. •Enn gvð gaf Avg• beinan oc bliðan byr sva at skipit bar skiótt fra landi ór augsyn enn varðveitti hann af allum sioar haska. Moðir hans kom snemma til stranndar vm morgoninn i þann stað er þau hafðv skilit vm quelldit oc sa nv huat gôrz hafði. toc nv at grata meðr ôsilegum harme bra/tferð sunar sins. oc bað guð heyra sic i sinne na/ðsyn. enn firi þui gret hon oc sytti at hon vissi eigi hueria fagnaði guð munndi gera i brautferð sunar hennar. Oc eptir mykinn grat for hon til þeirra staða sem aðr hafði hon verit. toc þa af nyio at biðia til gvðs firi syne sinum.

Avg' kom . . . .

Enn er Avg' kom i Romam fell hann litlv siðarr i mykinn sivkleik oc ef guðs miskunn hefði eigi dualit hans lichamlegan dauða hefði hann farit til helvitis beranndi með ser synðir sinar. Enn þetta visse moðir hans eigi oc bað firi honum fraveranda oc fôddi hann nv meðr meire môði anndlega en fyrre lichamlega. hon gerðe huers daglegar olmvsvr fatôkum monnvm þeim litillatlega þionanndi. Engan dag gleymði hon firi honum fornir at fôra kuelld

oc morgin an aflate kom hon til kirkiv eigi til þess at heyra hegomlegar saugur helldr at heyra guð i sinvm orðum oc guð heyrði hana i sinum bônum firi hialp sunar sins. Þa er Avg' varð heill af þeirre mykille sott er hann hafðe fengit. toc hann nv at kenna rethoricam er vær kallum malsnilldar list. þui at hann hafði firir þat emni þangat sott oc samnaðiz huersdaglega m[art] manna til hans herbergis.

**fra Avg' oc moður hans.**

Siðan var sent af Meilans borg til Roma borgar greiva at hann senndi þeim meistara þann er þar mætti kenna rethoricam. Enn Simacus greifi senndi Augustinvm vel profaðan meistara a þa list sem allar aðrar. Oc er hann kom i Meilans borg fann hann þar firir Ambrosivm agætan b'p er vm allan heim var frægr af hinum bæztum lutum. Ambrosius b'p toc við honum fauðurlega oc elskaði hann b'pliga kominn i okunnigt land. Avg' toc hann oc mioc at elska oc gefa gavm orðum hans með athuga oc gladdiz af sôtleik hans malshattar. Eigi hirði hann sva mioc at nema þa lute er hann sagðe helldr var honum þat faheyrt oc dasamlict huersv hann sagði. þa er þessir lutir giorðuz kom a funnd Avgvstini moðir hans milld oc mattug i goðum verkum er honum fylgði bæði a sio oc a landi treystanndi gvðs miskunn i vel hveriom haska. þa er hon for hingat vm hafit varð hon oc hennar skiparar staudd i myklum haska enn hon huggaði þa alla þeim heitanndi bæði hofn oc heilsv. þui at guð hafði henni þat birt oc með vitran firi heitit. Enn þegar Avg' fann[1] . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . hann þa Manicheus þeirrar villv maðr oc eigi sannliga cristinn. hon fagnaði þa harðla mioc er hon heyrði hann með allv fra skilðan villunne þo at hann hefði sannleikinn eigi þa enn fullkomlega ǫðlaz. hon mælti þa með myklv trausti. Ek trve at guð veiti mer at ek sea þic svn minn sanncristinn aðr ek liða af þessv lifi. Nu af nyio bað hon iamnan til gvðs með mykille tara ythellingv at skiótlega veitti hann sitt fullting at lysa hiarta myrkr Avg'. Moðir hans elskaði hinn heilaga Ambrosium sem engil guðs. þui at hon skilði at firi hann hafði þat gorz at Avg' mvndi eigi aptr huerva til hinnar fyrre efanar oc villv. hon toc nv enn at minnaz guðs heilagra manna sem fyrr hafði hon gert vt i

1 *Øverste Linie paa Spalten er her bortskaaren.*

# BARBARE SAGA.

---

(*Cd. Holm. 2 folio*, *A*; *429 octavo*, *B*)

**Her byriar upp sôgu heilagrar Barbare meyiar ok segir hversu hun endi sitt lif med storum þrautum.**

A dôgum Maximiani keisara war nockurr hôfdinghi, sa er Dioskorus[1] het, audigr hardla ok heidinn ok trudi a skurdgod, en hann atti dottur, þa er Barbara het. Fadir hennar giôrdi stôpul hafan ok lukti[2] dottur sina i stauplinum, sva at [menn mattu eigi[3] sia hana ok vænleik hennar, þviat hann var vandlatr[4]. En er hon var giafwaxin, þa badu hennar gaufgir menn. Fadir hennar geck i[5] stôpulinn ok mællti vit hana: »Storgætingar[6] bidia þin, dottir, en þu seg sialf, hvern þu will kiosa[7].« Heilaug Barbara svaradi med reidi ok mællti: »Eigi þarftu þat at ætla, fadir, ath ek [leggia þocka sa nôckurn[8] þeira.« Þa geck fadir hennar brott or stôplinum ok let fá at hallargerd ok safnadi môrgum smidum, at þetta verk mætti sem skiotaz fram fara, ok syndi hann smidum, hverso hann willdi gera lata haullina, ok gallt hann þeim i hônd allt verkkaup, ok for sidan i fiarlægt herad ok var leingi heiman. En ambatt guds Barbara kom at sia verk smida, ok sa hun tvo glugga nordan a hôllinni gerva ok mællti wit smiduna: »Fyrir hvi gerdut þer tvo at eins glugga?« Smidirnir svôrudu: »Fadir þinn baud oss[9] sva.« Barbara mællti vit þa: »Giôrit mer enn þridia glugg.« Þeir svôrudu: »Hrædumzt vær, drotning, ath fadir þinn reidiz oss, ok megum vær eigi standaz reidi hans.« Guds ambatt mællti: »Giôrit þer sem ek byd, en ek mun stôdva reidi fôdur mins um þenna hlut.« Þa gerdu smidirnir enn þridia glugg, sem hon hafde

1 *Saal. B;* Dischorius *A.* 2 lauk *B.* 3 [eingi madr mętti *B.* 4 um hana *tilf. B.* 5 a *B.* 6 storgięđingar *B.* 7 eiga *B.* 8 [felli hug minn til eins *B.* 9 at gera *tilf. B.*

mællt. Þa geck en grandvar(a)zta mær Barbara eptir[1] hôllinni, en er hun kom i austratt, þa reist hon med fingri sinum krossmark a steini, ok ma þat sia allt til þessa dags. Þa geck Barbara inn i afhus þat, er upp spratt hreint vatn, ok gerdi hun þar enn krossmark a steini, ok taka truadir[2] menn sidan margfallda hialp ok heilso i þeim stad. I þessum brunni tok Barbara skirn af nôckurum helgum manne, ok lifdi hun þar nockura tid vit skogar hunang ok likti fæzlu [sina ok lif[3] eptir Johanni baptista. Sia brunnr, er Barbara var skird i, liktizt þeim brunni, er gudspiôll segia, ath sa þó andlit sitt i, er blindr var borinn, ok tok syn sina. Sia brunnr liktiz þvi lifanda watni, er syndug kona bad Krist gefa ser at brunni. En er heilôg Barbara kom aptr i stôpul sinn, þa leit hun þar skurdgod fodur sins or malmi giôrr, ok tok traust af helgum anda ok matt af guds krapti, ok spytti hun i andlit skurdgodunum ok mællti: »Verdi ydr likir þeir, er ydr gerdu, ok allir þeir, er ydr treystaz.« En er hon hafdi þetta mællt, þa bad hun guds krapt fella skurdgodin, ok vard sem hon bad.

### Fra Dioschoro.

2. En er Dioskorus kom heim aptr fadir hennar or enni lôngu heimanfôr, þa leit hann a hôll sina algerfa ok sa þria glugga ok mællti vid smidina: »Fyrir hvi settut þer þria glugga?« En þeir svôrudu: »Dottir þin baud oss svo.« Þa kalladi hann þangat dottur sina ok mællti: »Baud þu, dottir, at gera þria glugga?« Hun svaradi: »Þat gerda ek, ok vel gerda ek þat[4], þviat þrir gluggar lysa hvern mann, er kemr i heim, en tveir gluggar mega myrkvir vera.« Fadir hennar mællti: »Hversu mega þrir framar lysa en tveir?« Barbara svaradi: »Þrir merkia fôdur ok son ok helgan anda einn sannan gud, þann er hverium manne byriar at gôfga.« Þa reiddizt fadir hennar ok bra sverdi ok villdi þegar hôggva dottur sina, en hun bad drottin ser hialpar, ok gafzt henne rum ath fara [i gegnum steinvegginn[5], ok var hun uti þvi næst a fialli. En [i þeim stad voru hirdar[6] tveir, þeir er hana sa flygia. Fadir hennar kom eptir henne ok villdi taka hana ok spurdi hirdana, ef þeir sæi hana. Annarr duldi ok kvedz eigi hana hafa sied, en annarr, sa er grimari var, retti fingr sinn ok

1 endilangri *tilf.* *B.* 2 rettruadir *B.* 3 [sinni ok lifi *B.* 4 *tilf.* *B.* 5 [ut um steinmurinn *B.* 6 [a þvi fialli voru fehirdar *B.*

visadi til hennar. Sa tok þegar þat viti, at saudir hans allir urdu at kvikendum þeim, er locuste heita, ok er minning þessarrar iarteignar môrkud yfir leidi heilagrar Barbare[1]. En fadir hennar fann hana ok bardi ok tok i haar henne ok dro hana til fiallz, ok læsti vandliga huss þat, er hann lauk hana inni, ok setti vardhalld fyrir husit, at eingi mætti hana þadan leysa[2]. Sidan sendi hann ord iarlli, ath hann kæmi ok neyddi dottur hans til blota.

### Fra iarlli ok Barbare meyiu.

3. En er iarll kom, þa leiddi Dioschorus dottur sina ut or husinu fyrir domstol iarllz ok mællti sva fyrir, at iarll skylldi lata [bana henne[3], ef hun villdi eigi blota. En er iarll sa fegrd hennar, þa mællti hann vit hana: «Hvort villtu vægia þer sialfri ok blota godum eda vera [selld til enna hôrdoztu pisla[4].» Kristz mær Barbara svaradi: «Ek aa forn at færa drottni minum Jesu Kristo, þeim er gerdi himin ok iôrd ok sæ ok allt þat er þeim fylgir. En spamadr hans mællti svo um skurdgod þau, sem[5] manna hôndum ero giôrr or gulli eda silfri: munn hafa þau ok mæla eigi, augu hafa þau ok sia eigi, eyru hafa þau ok heyra eigi, nasir hafa þau ok [ilma eigi[6], hendr hafa þau ok þreifa eigi, fætr hafa þau ok ganga eigi, ok eigi er raudd i haalsi[7] þeim ne andi i munni þeim; verdi þeim likir þeir, er þau giôra, ok allir þeir, er treystaz þeim.« Þa fylltiz iarll mikillar reidi ok let guds mey færa or fôtum ok beria hana med sinvôndum[8] ok hrifa snôrpum harklædum um hôrund hennar. En er hun var leingi þiad[9] i þessi kvôl, þa rann blod um allan hennar likama. Sidan let hann setia hana i myrkvastofu ok hugsadi, med hverri pisl hann skylldi [luka yfir hana[10].

### Fra Barbare meyiu.

4. Þa er heilog mær Barbara var i myrkvastôfu sett, skein yfir hana lios af himne aa sialfri nott midri, ok vitradizt henne sialfr grædarinn vor drottinn Jesus Kristr, ok mællti: «Vert þu

1 sva at sia ma allt til þessa dags *tilf. B.* 2 leida *B.* 3 [drepa hana *B.* 4 [pind hinum hordustum pislum *B.* 5 er *B.* 6 [kenna eigi ilm *B.* 7 barka *B.* 8 limvondum B. 9 hofd *B.* 10 [fa yfir hana lokit *B.*

styrk ok stadfôst Barbara, þviat gnogr fagnadr verdr aa himni ok aa iôrdu yfir pisl þinni. Eigi skallt þu hrædazt iarll, þviat ek em med þer, ok man ek leysa þik or ollum pislum, þeim er þer eru gervar.« Þa blezadi drottinn hana ok ste til himins, ok voru þaa groin sar hennar oll. En Kristz mær fagnadi af ollu hiarta þeirre vitran, er gud hafdi henne vitrad. En at morni let iallinn leida hana or myrkvastôfunne ok fyrir domstol sinn. En er hann sa hana grædda af ollum saarum likama, þa undradiz hann ok mællti: »Hvi gegnir þat, Barbara, er gud vor elska þik ok miskunna þer, [sva at sar þin ero groin[1].« Heilog mær svaradi ok mællti vit iarlinn: »Þer lik eru gud þin, blind ok dauf ok vitlauss; hverso mattu þau græda sar min, eda hversu megu þau ôdrum biarga, er þau mega [ôngan dugnat veita[2] sialfum ser? En Kristr son guds lifanda græddi mik, sa er þu ert overdr at sia, þviat hiarta þitt er hart ordit af diôfli.« Þa reiddizt iarll ok greniadi sem hit oarga dyr, ok let hallda [brennondum logum[3] at sidum henne ok liosta hamri i hôfut henne. En hon leit til himins ok mællti: »Þu veitz, Kristr, ath ek tek lystandi[4] þessar pislir fyrir ast heilags nafns þins, af þvi fyrirlat þu mik eigi allt til enda, þvi at ek dvalda eigi ath bera hraustliga pislir fyrir þinni ast.« Þaa reiddiz iarllinn ok let skera or henni briostin. En Kristz mær leit þa enn til himens ok mællti: »Verp þu eigi mer fra augliti þinu, drottinn, ok tak eigi fra mer helgan anda þinn; gialltu mer helldr [gledi þrifsemi[5] þinnar ok styrkiumz[6] med hofdingligum anda.« En er hun hafdi þetta mællt ok stodz hressliga þessar pislir allar af styrk heilags anda, þa baud iarlinn þionum sinum, at þeir færdi hana enn or fôtum ok drægi naukta um [aull stræti ok port fyrir augliti allz lyds[7]. Þa hof heilog Barbara enn upp augu sin til himens ok kalladi til guds ok mællti: »Drottinn gud, er hylr himin med skyium, ver þu nu hlifskiolldr minn ok hialpari a þessi stundu ok hyl nauktan likama minn[8] med þaki miskunnar þinnar, at hann verdi eigi senn[9] af vondum monnum.« En er hun bad aa þessa lund, þa sendi drottinn eingil sinn, þann er hana huldi hvitu skrudi[10]. Þa urdu riddarar iarllzins blindir, svo at þeir mattu eigi guds mey sia fyrir liosi þvi er henne fylgdi. Þa hræddiz[11] iarllinn ok let aptr leida Barbaram til handa fôdur hennar Dioscoro.

1 [*tilf.* *B.* 2 [eigi biarga *B.* 3 [logandum brondum *B.* 4 viliandi *B.* 5 [þrifsemi gledi *B.* 6 styrk mig *B.* 7 [*saal.* *B*; herat i alþydu manna *A.* 8 *tilf.* *B.* 9 litinn *B.* 10 klędi *B.* 11 *saal.* *B*; reiddiz *A.*

**Um pining Barbare.**

5. En fadir hennar [fylltiz mikilli[1] reidi ok leiddi hana enn til fiallz. En heilog Barbara skyndi fagnandi til algiorrar aumbunar sigrs sins, ok bad hun drottin, at hon tæki lok pislar sinnar i þessum stad, ok mællti: «Drottinn Jesus Kristr, er himna skopt ok iörd [smidadir ok byrgdir undirdiup[2] ok settir endimörk siavar; þu er bydr skyium at rigna yfir goda ok illa, þu geckt yfir sia ok stodvadir þiotandi bylgiur hans; þu er rettir helgar hendr þinar a krossi ok gerdir margar adrar iarteinir, [heyrdu mik ambatt þina[3], þviat allir hlutir hlyda þino bodi. Drottinn Jesus Kristr [hlifari minn i æsku minni, veittu[4] mer þa bæn, at ek luka nu þegar þraut minni med godum lokum, ok gef þu ambatt þinni, drottinn, þa miskunn, at þu gerir milldi þina [vidr þa menn[5], er af öllu hiarta gera mina minning i sinum naudsynium allra hellzt sa degi pislar minnar. Minztu eigi, drottinn, synda þeira a domsdegi, er truligha kalla a mik, ok veittu þeim likn[6] i syndum, þviat þu veizt, at [vær erum ostyrkir likamir[7].« En er hun lauk bæn sinni, þa kom rödd af himni ok mællti: «Kom þu, en fegrsta mær min, til ennar glöduztu hvilldar födur mins, er a himnum er, en allt þat er þu batt man þer veitt vera.« En er guds mær heyrdi þetta af drottni med fagnadi, þa kom hun til stadar pislar sinnar ok lauk þar dyrligri þraut, svo sem hon hafdi bedit af gudi, þviat hun var i þeim stad höggvin af födur sinum, ok endi hon lif sitt i iatningu Kristz tveim nottum fyrir Niculas messu byskups. En er fadir hennar ste ofan af fialli med sinum mönnum, þa kom elldr or lopti ok brendi hann, svo at [þatki var, at aska hans fyndiz[8]. En nockurr heilagr madr kom leyniliga ok tok a braut likam ennar helguztu meyiar Barbare ok grof i þeim stad, er kalladr er solar stadr, ok let hann þar giora bænahus i minning hennar, ok verda þar margar iarteinir til lofs ok dyrdar drottni vörum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir gud um allar alldir allda. Amen.

1 [fylldiz mikillar *B*. 2 [ok bygdir undirdiups *B*. 3 [hialptu mer ambatt þinni *B*. 4 [vertu hlifskiolldr minn ok veit *B*. 5 [*tilf*. *B*. 6 vorkynd *B*. 7 [ostyrkir eru likamir varir *B*. 8 [eingi aurmul sa, ok eigi auskuna helldr en annad *B*.

# BENEDICTUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio.*)

**Her byriar sogu ens helga Benedicti abota.**

**Saa** madr var, er gofugliga lifdi lif sitt, en hann het Benedictus, ok var hann svo sem hann het, en þat þydiz blezadr at voru mali. Hann hafdi gamals manz hiarta þegar a ungum alldri ok lifdi allan alldr sinn i godum sidum ok skildi hug sinn fra ollu munodlifi; hann var þa her i heimi, er hann matti neyta þessa fagnada, en þo fyrirlet hann heiminn med allri fegrd sinni svo sem þornadan. Hann var ættadr or heradi þvi, er Nursia heitir, ok selldr til læringar i Romaborg. En er (hann) sa, at margir foru oviliavegs, þeir sem at nami voru, þa ugdi hann ser, at veralldar speki mundi fyrirfara honum, ef hann bergdi nockut af vitro heimsins. Hann fyrirleit huss ok audæfi fodur sins ok for brott fra nami ok leitadi heilagrar atferdar ok villdi gudi einum þiona. Hann for heiman ovis visliga ok ospakr spakliga. En er hann hafdi þat fyrir ser radit at fara i eydimórk, fylgdi honum fostra hans, er honum unni mikit, ok er þau komu til stadar þess sem kalladr er Effide, þa dvolduz þau þar nockura dagha ok þionodu gudi at kirkiu Petrs postola. Þat var einn dagh, at fostra hans bad konur lia ser trog, ok villdi hon sællda miól, en hun setti þat yfir bord ok geck i brott, ok er hon kom aptr, þa var þat fallit ofan ok brotid i tvo hluti. Hon vard hrygg, er hon sa trog þat brotid, sem henne var led. En er Benedictus milldr ok sidsamr sa fostru sina (grata), þa hafdi hann brótt trogsbrotin med ser ok geck til bænar med tarum, en er hann reis upp af bæn, þa var trogit svo heillt, at eingan brest matti sa finna. Þa huggadi hann fostru sina ok selldi henne þat trog heillt, sem brotid var. En er þessi tidendi spurduz, þa toku bæiarmenn trogit ok

festu upp til synis i kirkiudyrum, ok heck þar marga vetr sidan fyrir margra manna augum, ath þa mætti allir skilia, hversu dyrliga Benedictus hafdi upp hafit atferd sina.

### Fra Benedicto.

2. En er Benedictus villdi helldr hafa vil ok erfidi fyrir guds sakir en hefiaz upp i metnadi þessa heims, þa flydi hann fostru sina ok for i eydimork til þess stadar er Sublacus heitir; hann er .xl. milna fra Romaborg, ok sprettr þar vatn upp hreint ok kallt. En er Benedictus for þángat, þa mætti honum munkr sa er Romanus het ok spurdi, hvert hann færi. En hann sagdi ok bad hann leyna adra menn. Sa gerdi svo ok feck honum einsetumanz buning ok þionadi honum i allar þurftir, sem hann matti. En Benedictus stadfesti sig i einum hellisskuta ok var þar þria vetr ollum monnum okunnigr nema Romano. En sia Romanus var i munklifi skamt i brott þadan. Hann for iafnan leyniliga ok færdi Benedicto braud, þat sem hann dro af fæzlu sinni, en til hellisins matti eigi gagnleid fara fra munklifinu, þvi at hamarr geck fyrir hellinn þadan, en Romanus let siga ofan til hans braud i festi. I þessu reipi hafdi hann bundit biollu litla, til þess at Benedictus vissi, þa er Romanus kæmi ath færa honum fæzlu. En hinn forni fiandi aufundadi velgerning þeira ok kastade steini a biolluna ok braut i sundr, en Romanus let eigi nidr falla þionustu sina ok miskunnarsyslu, er hann hafdi upp tekit.

### Capitulum.

3. En er gud almattigr villdi Romanum lata hvilaz af erfidi ok syna monnum lif heilags Benedicti, þa vitradiz drottinn presti nockurum i draume paskanott ena fyrstu ok mællti vit hann: »Þu lætr gera þer krasir, en þræll minn svelltr skamt fra þer.« Prestrinn reis upp þegar ok for paskhadaghinn sialfan ath leita þræls guds i hvern hellisskuta ok hitti hann um sidir. En er þeir funduz, þaa kvodduz þeir blidliga ok lofudu gud ok ræddu leingi um himneskt lif. Sidan mællti prestrinn: »Mautumz vit nu, þvi at paskar ero i dag.« Benedictus svaradi: »Veit ek, at paskar ero, þviat ek nada at finna þik.« En Benedictus var langt fra monnum kominn ok vissi eigi, ath þa var paskadaghr. Þa mællti prestrinn vit hann: »I dag er upprisutid drottins, ok samir þer

eigi at fasta, þviat ek em til þin sendr af gudi, at vit takim badir saman giafir guds.« En þeir lofudu badir gud ok mòtòduz. Sidan for prestrinn heim. En fam dògum sidar fundu fehirdar Benedictum i hellisskuta einum, ok er þeir sa hann skryddan skinnklædum, þa hugdu þeir, at þeir mundi sia dyr. En er þeir urdu visir, at guds þræll var þar i einseto, þa sneruz margir til miskunnar guds fra dyra lifi. Tok þa at kynnaz nafn hans um næstu stadi, ok komu margir menn til hans ok færdu honum likams fæzlu, en þeir toku andar fæzlu i mot af honum.

### Um freistni fianda vit Benedictum.

4. Þat var einnhvern dagh, þa er Benedictus var einn saman, ath fiandinn kom at freista hans, þviat svort fluga flaug nær andliti hans, svo at hann matti taka hana med hendi ser, en hann gerdi krossmark yfir ser, ok flaug hun þegar a braut. En þa kom til hans likams freistni, su er hann hafdi alldri slika reynt adr ne sidan. Kona var su ein, sem enn illgiarni andi leiddi fyrir hugskotz augu honum ok brendi svo hug hans med girndar elldi i alite konv þessarrar, at hann matti trautt standazt. En er hann hafdi miòg svo einradit brott at fara or einsetu ok finna konuna, þa leit guds miskunn til hans, ok hvarf hann aptr til sins sialfs, ok sa hann hia ser klungr ok þyrni. Sidan for hann or fòtum ok velltiz leingi berr i þyrninum, þar til er hann var allr saar ok blodògr, ok vo hann þa sigr a freistninni, er hann sneri henne i sarleik, ok gerdi hann þa andar sarit at likams saarum ok slokti svo synda loga, þann sem brunnit hafdi i hiarta honum; en fra þeiri stundu þa hvarf svo òll likams freistni fra honum, ath hann kendi eigi sidan likams losta i likama sinum. Sidan toku margir menn at fyrirlata heim þenna ok geraz hans lærisveinar, þviat þat var makligt, at hann yrdi lærifadir krapta, þar sem hann vo sighr a laustum.

### Fra svikrædi.

5. Da geck saga fra iarteinum hans, ok vard hann frægr monnum af gæzku sinni. Munklifi var skamt þadan, en þar var aboti andadr; munkar komu at finna Benedictum ok badu, at hann skylldi vera forradandi þeira. En hann sagdi svo, at eigi mundi sidir þeira saman koma. En er þeir badu hann miok, þa veitti

hann þeim bæn þeira, ok er hann hellt vel stiorn i munklifinu ok lofadi eingum at ganga af rettri gôtu sidsemi til hægri handar ne vinstri, þa toku munkarnir at fysaz illz hugar ok sokudu sialfa sig, er þeir skylldu þess bedit hafa, at sa væri forradandi þeira, er svo fiarri var skapi þeira ok sidum. En er þeir sá, at hann lofadi þeim ecki þess at gera, sem motstadligt var munka lôgum, þa kunnu þeir illa þvi ok villdu rada dauda hans, ok bundu þat rád saman, at þeir blondudu eitri dryck hans. En er honum var ker þat fært, sem daudadryckr var i, þa gerdi hann at vanda sinum krossmark a mot eitrinu ok blezadi, adr hann tæki vit kerino, en þa sprack i sundr kerit fyrir krossmarkino, svo sem hann lysti steini á. Þa skildi guds madr, at daudadryckr var i kerinu ok matti eigi standaz lifs mark. Hann reis þegar upp ok heimti brædr til sin ok mællti vit þa blidliga: »Miskunni gud almattigr ydr, brædr minir! hvi gerdut þer þetta vit mik? Sagda ek ydr fyrir, at eigi mundi sidir vorir saman koma, farit þer nu ok leitit ydr forradamanz þess, sem vit ydvart skap er, þviat ek mun eigi leingr her vera med ydr.« Ok er hann hafdi þetta mællt, þa for hann aptr i einsetu sina ok vardveitti hug sinn i guds augliti.

### Fra Placido ok Mauro.

6. En er heilagr Benedictus skein svo môrgum iarteinum i einsetunni, þá sôfnoduz margir til guds þionostu i þeim stad ok gerduz lærisveinar hans. Hann let þar giora .xii. munklifi med fulltingi drottins vors Jesus Kristz ok setti forradsmenn til allra ok .xii. munka i hvert munklifi. En hann hafdi med ser þa fá menn, sem hann willdi læra til guds þionostu. Þa toku gaufgir menn or Romaborg at selia honum sonu sina til læringar. Evicius het Romaborgar madr, er honum selldi son sinn til fostrs, en hann het Maurus; annarr madr het Tertullus, er honum selldi son sinn til læringar, sa het Placidus. Maurus tok þegar a unga alldri at skina i godum sidum ok likiaz lærifedr sinum; en Placidus var ungr sveinn ok þotti gott manzefni vera. En i einu munklifi af þeim .xii., er Benedictus hafdi gera latid, var munkr sá einn, er eigi matti vera á bænum, ok gerdi nockura fanyta syslu. En forradandi þeira het Pompeianus, hann avitadi munkinn opt um ostadfesti sina, en er hann batnadi eigi vit þat, þa var hann leiddr fyrir Benedictum, hann avitadi munkinn ok um heimsku sina.

En er munkrinn kom heim. þa mælti hann eigi vid Benedicti þeingat til. er hann. en enn þridia dag þa var hann ... sem adr. Þa var enn sagt Benedicto. Hann svaradi: ‹Ek man koma at bæta hann.› En þa er hann kom þangat ok tidum var lokit en munkar stodu a bænum. þa sa Benedictus at svartr sveinn tok i kirtil munksins þess er eigi matti at bænum vera ok dro hann ut. Þa mælti Benedictus vit Pompeianum abota ok Maurum lærisvein sinn. ‹Siae þit. hverr munk þenna leidir fra bænum?› Þeir kvoduz eigi sia. Hann mælti. ‹Bidium vær nu at þit megit ok sia. hverium munkrinn fylgir.› En er þeir voru at bænum tvo daga. þa sa Maurus þessa syn. en Pompeianus matti eigi sia. Ok er bæn þeira var lokit. þa geck Benedictus ut or kirkiu. ok sa hann munkinn standa uti syslulausan ok laust til hans med vendi. en fra þeim degi þordi eigi enn svarte sveinn. er fiandinn var. at teygia munkinn fra bænum. ok var hann avallt sidan stadfastr at bænum sem adrir munkar.

**Fra vatnleyse.**

7. Af þeim munklifum. sem Benedictus hafdi giôra latid. voru þriu. þau er stodu uppi i fiallzhlid. ok var torvellt at sækia vatn. af þvi er brattlendi var ok nær mannhaski. Þa komu munkar or þessum munklifum[1] ok mælltu vit Benedictum: ‹Vær eigum illt til vatz ok hôfum hvern dag erfvidi. ok er oss naudsyn. at færd se munklifin.› En hann bad þa heim fara ok huggadi þa i ordum. En ena somu nott þa geck Benedictus upp i fiallit ok Placidus sveinn med honum. ok var leingi at bæn at hamri einum. Sidan reisti hann upp steina þria. þar sem hann hafdi stadit. ok for heim eptir þat; en ongvir vissu. at hann hafdi farit. En er munkar komu enn ok baro upp vandrædi sin fyrir Benedictum. þa svaradi hann: ‹Farit þer nu ok grafit hamar þann. sem þer siait steina þria uppreista nyliga, en gud ma letta erfidi ydru ok gefa ydr vatn or hamri.› Þeir foru ok fundu hamarinn votan. þann sem Benedictus hafdi þeim til visat; en er þeir holodu hamarinn, þa fell vatn ut or biarginu, sva at þadan gerdiz lækr af fra þvi or fiallinu til siovar allt til þessa dags.

1 munkligum *Cd.*

### miraculum.

8. Þat var enn sa annarri tid, at einn madr kom til munklifis Benedicti, ok var vit honum tekit, ok gerdiz hann þar munkr. En Benedictus selldi honum snidil i hond ok bad hann hôggva upp þyrni i stad þeim, er hann villdi lata giôra apalldrsgard, en þat var a vatzbacka. En er hann hio upp þyrninn ovarliga, þa stôck snidillinn or skaptinu ok fell a vatnit, en þat var diup margra fadma, en verkmadrinn vard ogladr ok sagdi med hryggleik. En er Benedicto var saght, þa geck hann þangat ok tok snidilsskeptid ok retti þat i tiôrnina; en þegar rendi iarnit nedan af grunni til skeptisins svo sem fiskr til aunguls. Sidan seldi hann munkinum snidilinn ok mællti: «Vinn þu nu ok ver eigi ogladr.«

### Fra Benedicto ok Mauro.

9. Þat var um dagh, er Benedictus var i husi sinu, en Placidus sveinn for at taka vatn. En er hann sokti keralldinu i vatnit, þa fell hann sialfr a vatnit, ok baro straumar hann þegar langt fra lande. En er Benedictus vissi þat, þa kalladi hann Maurum lærisvein sinn ok mællti: «Renn þu, Maure brodir, ok biarg sveininum, er for at taka vatn, ok er hann nu fallinn a watnit.« Þa gerdiz þar undarligr hlutr ok oheyrdr, sidan er Petr postole for af þessum heimi. Maurus tok blezan af Benedicto ok rann þegar til vatzins ok for þar til, er hann kom at Placido, ok þottiz hann a iordu fara, er hann rann a vatninu, ok tok hann sveininn ok leiddi til landz. En er þeir komu a land, þa leit Maurus aptr ok undradiz, er hann hafdi þat giort, sem hann mundi eigi þora, ef hann vissi, ok sagdi Benedicto, hvat gerdz hafdi. En Benedictus eignadi þat hlydni hans en (eigi) sinum verdleik. En Maurus taldiz eingan hlut eiga i þvi takni, er hann gerdi ovitandi. En Placidus skildi þessa þrætu ok mællti: «Ek sa Benedictum koma til min ok leiddi hann mik til landz.«

### Fra Florencio presti.

10. Prestr sa var er Florencius het, hann fretti til iarteina Benedicti ok vard lostinn illzku diofuls ok tok at aufunda guds win ok lasta atferd hans. En er hann sa, at hann matti þvi ecki a leid koma vit adra menn at lasta Benedictum, helldr vox dag fra degi dyrd hans ok vegr vit gud ok menn, ok sneruz margir til betra lifs eptir hans dæmum ok þionodu gudi, þa tok prestrinn

[illegible] [illegible] [illegible] honum. þviat hann villdi hafa manna lof [illegible] [illegible] [illegible] [illegible]. Hann vard svo blindr af illzku sinni, at hann [illegible] [illegible] [illegible]mulleif eitri blandinn. en Benedictus tok vit [illegible] [illegible]samiliga. en þeygi leyndiz fyrir honum. hvert grandi i [illegible] [illegible]. Hrafn var vanr at koma or skogi i hvert matmal [illegible] [illegible] [illegible]mau or hendi Benedicto. en er hrafninn kom ath venio, [illegible] [illegible] Benedictus hleifinum fyrir hrafninn. þeim er prestrinn [illegible] Benedicto. ok mællti: »I nafni drottins Jesus Kristz tak [illegible] [illegible] þenna ok ber hann þangat, er einginn finni.« Þa tok hrafninn at gapa munni ok rann umhverfis leifinn. breiddi vængi [illegible] [illegible]. svo sem hann syndi. ath hann villde hlydne hallda vit Benedictum, en hann mætti eigi. Þa mællti Benedictus vit hann i annat sinn ok et þridia: Tak þu hleifinn ohræddr ok kasta þar. sem alldri megi finnaz.« Þa tok hrafninn upp leifinn ok tok i hleifinn ok var horfinn þriar stundir. ok kom aptr sidan ok tok braud or hendi honum, sem hann var vanr. En er guds madr sa vaxa illzku prestzins i mot ser, þa harmadi hann syndir hans ok bad fyrir ovin sinum. En er Florencius matti eigi deyda likam Benedicti, þa villdi hann fyrirfara ǫndum lærisveina hans ok sendi .vii. goligar meyiar at leika i apalldrsgardi fyrir augliti þeira, til þess at hugskot þeira mætti spillaz ok snuaz til lostasemi. En er Benedictus sa þat or husi sinu, þa þottiz hann vita, hvadan þetta rad var komit, ok fyrir hans sakir var giort, ok hugdi hann þat, at lærisveinar hans mundi eigi freistnina[1] standaz. Hann gaf þa rum ǫfundinni, ok kom hann til allra munklifa ok kirkna, er hann hafdi gera latid, ok skipadi ǫllu, sem hann villde. En hann hafdi fa munka med ser ok for i brott ok flydi reidi Florencij fyrir litillætis sakar. En er Florencius stod i husi sinu ok spurdi brottfǫr heilags Benedicti ok fagnadi þvi, þa fell nidr undir honum loptit, þat er hann stod a, ok kom hann daudr a iǫrd. En Maurus lærisveinn Benedicti sagdi honum þat, en Benedictus var eigi leingra farinn en .x. milor. Þa mællti Maurus vit hann: »Hverf aptr þu, fadir, þviat sa er nu daudr, er þik hatadi.« Ok er Benedictus heyrdi þat, þa vard hann hryggr ok felldi taar ok gret dauda ovinar sins ok þat annat, er lærisveinn hans fagnadi dauda hins. Hann baud ok idran ok skript lærisvein(in)um fyrir þat, er hann þordi at fagna dauda ovinar hans.

1 freistnini *Cd.*

### Fra ferd Benedicti.

11. En heilagr guds madr hellt fram fòr sinni, sem hann hafdi ætlat, en þeygi matti hann fordaz þat, er sialfr lærifadir illzku bardiz i mot honum ok freistadi hans a marga vega. Þorp þat var, sem kallat var Kassinum ok komit ofarliga i fiallzhlid, en þann stad kalla Nordmenn Montakassinn. Þar stod hof fornt, ok var blotad mannlikan þat, er kallat var solar aas, en alla vega fra hofinu voru stadir þeir, sem eignadir voru dioflum. Þar hofdu langa æfi blot verit, ok var enn fioldi þorpkalla, þeira er blotudu ok trudu aa þessa villu. En er Benedictus kom þar, þa braut hann nidr skurdgodit ok stalla þess ok brendi tre ok skoga, er blotadir voru. En hann gerdi kirkiu enum helga Martino or hofinu, en þar sem stallrinn hafdi verit, þar gerdi hann bænahuss Johanne baptiste ok sneri til tru þeim, er i nand voru. En hinn forni fiandi matti þat eigi standaz, ok kom hann fyrir augsyn Benedicti svartr ok hrædiligr, ok brann elldr or augum hans ok munne, ok hugdiz mundu skelfa hann ok kalladi, svo at allir heyrdu ord hans, en Benedictus einn matti sia hann, ok nefndi hann aa nafn þrysvar. En er Benedictus svaradi honum eigi, þa sneri hann nafni hans ok mællti: »Bolvadr en eigi blezadr, hvat sækir þu ath mer.« En er fiandinn sa, at hann mundi eigi mega skelfa hann med ognum, þa leitadi hann annarra væla, ok hafdi enn sami verr. Þat var um dag, ath munkar skylldu giora huss, en steinn var sa, er þeir villdo hafa i vegginn, en er þeir mattu eigi hræra hann or stad, ok stod hann aa iordu, þa kom til fioldi manna ok matti ecki at gera. Þa skildu allir, at fiandinn þyngdi steininn, er fioldi manna mattu hann hvergi hræra. Sidan var sagt Benedicto, ok kom (hann) til ok blezadi steininn, ok var þeim þa ecki fyrir ath færa hann þangat, sem þeir villdu.

### Fra sionhverfing fianda.

12. En Benedictus[1] mællti, at þeir skylldu grafa stad steinsins ok vita, hvat þar væri undir folgit. En er þeir grofu til, þa fundu þeir þar skurdgod giort or eiri, ok var þvi kastad i elldahuss um aptaninn. En um nottina syndiz ollum, sem elldr brynni af skurdgodinu, ok logadi husit allt af þeim elldi, ok er þeir baro vatn i elldinn, þa vaknadi Benedictus[1] oc sagdi, at sionhverfinga elldr væri giòrr fyrir þeim, en hann letz eigi[2] elld þar sia. Þa geck Benedictus til bænar ok kalladi munkana til sin, ok bad hann þa

1 byskup *Cd*. 2 ein *Cd*.

signa sig. En er[1] þeir gerdu svo, þa hvarf allr elldr fiandans fra augliti þeira, en þeir sa, at husit stod heillt.

### Fra slægd fianda ok lækning munka.

13. Þat var enn um dag, ath munkar hlodu vegg hafan, en Benedictus sat inni i husi sinu, þa syndiz fiandi honum[2] ok hlo ok letz fara skylldu til brædra, þar sem þeir voru at verki sinu. Benedictus sendi þegar mann ath segia munkum þetta ok bad sva mæla: »Verit þer varir, brædr, þvi at illgiarn andi mun koma til ydvar i dag.« En er sendimadr hafdi varla lokit mali sinu, þa hristi fiandi i sundr vegginn, er þeir hlodu, ok lamdiz einn audigs manz son undir. En brædr urdu hryggvir, eigi af falli veggiarins helldr af meidingu munksins, ok sogdu Benedicto, hvat ordit var. En hann bad bera til sin enn lamda, ok sva var giort. Hann var allr lamdr ok nær hvert bein brotid, en þo var hann iendr. Benedictus vafdi hann i mautli sinum ok lagdi hann nidr i rum sitt ok sendi ut adra munka, sidan fell hann til iardar ok bad fyrir enum siuka. En a somu stundu vard sa heill, ok sendi Benedictus hann til syslu sinnar. Þa for sa til verks sins, ok nadi fiandi eigi at fagna dauda hans. Benedictus hafdi spaleiksanda ok vissi fyrir oordna hluti, ok sa hann þat, sem hann væri hia sialfr, er hann var hvergi nær staddr.

### Fra Benedicto ok brædrum.

14. Sa var sidr munka, er þeir voru sendir a bæi eda til borga, at þeir skylldu hvergi mataz nema heima, ok hafdi vandi sia leingi halldiz. Þa voru munkar sendir um dag, ok hôfdo þeir dvalizt i husum einnar[3] sidsamrar konu, en adr þeir foru þadan, þa motôduz þeir, ok er þeir komu heim, baduz þeir blezanar af Benedicto. En hann mællti vit þa: »Hvar môtuduz þer?« En þeir kvoduz hvergi mataz hafa. Hann mællti: »Hvi l(i)ugit þer? þa er þer komut til husa konunnar, þa atud þer ok druckut.« Hann kvad a, hvat þeir hôfdu at verdi ok svo hversu marga vindrycki þeir drucku. Ok er þeir sa, ath þeir mattu hann þess(u) eigi leyna, þa fellu þeir til fota honum ok badu ser liknar, en hann fyrirgaf þeim þessa afgerd ok ætladi svo, at þeir mundi sidr þora

1 Bn (*d. e.* Benedictus) *tilf. Cd.* 2 þeim *Cd.* 3 einnrar *Cd.*

at misgera i annat sinn, er þeir mattu sia, ath þeir mattu eigi leyna hann þvi, sem þeir giordu.

### Fra munk einum.

15. Valentinianus het munkr einn, sa var lærisveinn heilags Benedicti, en hann atti brodur þann, er sidsamr var ok olærdr madr. Hann var vanr a hverium misserum at koma til munklifis ok finna brodur sinn, ok þann dag fastadi hann iafnan. En er hann for um dag til munklifissins, þa kom annarr madr i fôr hans, ok hafdi sa fæzlu med ser, ok er þeir hôfdu leingi geingit, þa mællti fôrunautr hans vit hann: »Mautumz vit nu, at eigi mædimzt vit a gôtunni.« Hann svaradi: »Eigi mun ek þat giora, brodir, þviat ek em vanr at fasta, þa (er) ek fer at finna Benedictum.« Þa foru þeir enn, ok sidan bad sa, er fæzluna hafdi, ath þeir mundi matazt. En hinn gerdi eigi bragd a fostu sina. Þa foru þeir badir, en hiti var mikill, ok mædduz þeir, ok þa fundu þeir[1] fyrir ser vôll fagran ok vatn hreint. Þa mællti sa enn, er fæzluna hafdi: »Her er vatn hreint ok vollr fagr, ok er ockr vel fallit ath mataz her ok hvilaz nockut, at eigi þrioti ockr a leidinni.« Munks brodir sa hvilldarstad fagran ok heyrdi fôgur ord, ok settiz hann þa nidr, ok môtuduz þeir. At kvelldi kom hann til munklifissins ok geck fyrir Benedictum ok beiddi blezanar; en hann bar a bryn honum þat, sem hann gerdi a gôtunni, ok mællti: »Hvat er nu, brodir, enn illgiarni andi, sa er mællti vit þik fyrir munn forunautz þins, hann teygdi þik um sinn ok annat ok matti eigi tæla þik, en ed þridia sinn gat hann þik teygdan til þess sem hann villdi.« Þa kannadiz hinn vit ostyrkt hugar sins ok fell til fota Benedicto ok idradiz syndar sinnar.

### Fra konungi ok Riggo.

16. Konungr þiodar þeirar, sem Gothi ero kalladir, het Totila, hann var grimmr madr ok forvitinn; hann fretti þat, at Benedictus hafdi spaleiksanda, ok villdi hann reyna þat ok sendi þau ord, at hann mundi koma til munklifis Benedicti, ok kvad a dagh um. Einn skutilsveinn hans het Riggo, konungrinn feck honum klædi sin ok skryddi hann konungs gerve ok sendi med honum þria

[1] ser *Cd.*

[illegible] sem honum [illegible] [illegible] ok [illegible] ok sendi med [illegible] [illegible] [illegible] þa [illegible] konungr [illegible] þinna. En er [illegible] sem til munklifis Benedicti [illegible] [illegible] ok [illegible] allri [illegible] [illegible] þa sat Benedictus [illegible] ok [illegible] fyrir þeim. En þegar [illegible] hann sem nær voru þegar at þeir [illegible] [illegible] [illegible]. þa kalladi Benedictus a hann ok mællti: »Legg nidr þu, sonr, buning þann, sem þu berr, þviat eigi er þinn eigin.« En Riggo fell þegar til iardar ok idradiz, er hann hafdi gert [illegible] þessa guds præli, ok allir gerdu þeir idran, er honum fylgdo, þessa [illegible]. Sidan risu þeir upp ok foru aptr þegar ok sogdu konungi med hræzlu, hve bratt þeir voru fundnir ath freistni sinni.

### Fra konungi.

17. Eptir þat for konungr sialfr til munklifissins. En þa er hann sa Benedictum guds præl sitianda, þordi hann eigi nær honum ath koma, ok fell hann til iardar. En guds madr mællti vit hann tysvar eda þrysvar, at hann skylldi upp risa. En hann þordi eigi, adr Benedictus tok i hond honum ok reisti hann upp ok asakadi hann um grimmleik sinn ok sagdi honum i fam ordum, hvat verda mundi vm hagh hans, ok mællti hann: »Mart illt hefir þu giort ok giorir, stilltu þik nu um sidir at illzku þinni[1]. Þu munt koma til Romaborgar ok heria ut um haf, ok muntu .ix. vetr hafa velldi þar en deyia sa enum .x.da.« Ok er konungr heyrdi þetta, þa ottadiz hann miok ok bad Benedictum bidia fyrir ser. Þa for hann i brott ok var alldregi sidan iafngrimmr sem adr. En þat sannadiz allt, sem Benedictus hafdi um hann spaad, hann kom til Romaborgar ok for allt til Sikileyiar ok do a tiunda vetri þadan fra.

### Benedictus rak dioful fra odum klerk.

18. A þeiri tid var klerkr einn ordinn odr af diofli i borg þeiri, sem kollut er Aqvinensis, en Constancius byskup leiddi hann til margra helgra stada, at hann mætti þar heilsu fa. En guds vottar villdu honum eigi af þvi heilsu gefa, at kraptr Benedicti skylldi ollum auglios verda. Þa var enn odi klerkr leiddr fyrir Benedictum; en hann bad fyrir honum til guds ok rak i brott enn forna fianda. En er hann var heill, þa mællti Bene-

[1] sinni *Cd.*

dictus vit hann: »Far þu nu ok et eigi kiot sidan, ok tak eigi vigslur fleiri, en nu hefir þu; en aa þeim degi, sem þu dirfiz þess, þa muntu odr verda i annat sinn.« Klerkrinn for heim heill ok vardveitti nockura stund þat, er Benedictus baud honum. En þa er margir vetr voru lidnir, þa sa klerkrinn, at þeir hofdu fleiri vigslur en hann, sem yngri voru, en andadir voru enir ellre, ok gleymdi hann ordum Benedicti, þviat langt var þadan lidit, ok tok þa vigslur fleiri. En þegar vard hann gripinn af enum sama diofli ok var odr, medan hann lifdi sidan.

### Fra Benedicto ok Theoprobus.

19. Theoprobus het einn gôfugr madr, er til tru hafdi horfit af kenningum Benedicti, ok var vinr hans mikill, þviat hann var radvandr madr. Hann hafdi komit til husa Benedictus um dag, ok sa hann guds vin hardla hryggvan; þat sa hann ok, at hann felldi taar, ok var hann þo eigi aa bænum. Þa spurdi Theoprobus, hver sok væri til hrygdar hans. En Benedictus svaradi: »Munklifi þetta mun allt eydaz, er ek hefi gera latit, ok sa audr allr, sem her er til lagdr, mun koma i hendr utlendum monnum at rettum guds domi, ok mætta ek trautt geta af gudi, at hann veitti mer andir brædra.« Þessi ord Benedicti heyrdi Theoprobus. En su spasaga kom fram miklu sidarr, þviat Langbarda herr kom um nott, þa er munkar voru i svefni, ok toku allt þat, er femætt var, en gud hlifdi svo þrælum sinum, at þeim sialfum var ecki mein gert, ok fylltiz þa fyrirheit, þat er gud het Benedicto, ath hann mundi vardveita andir brædra, þo at hann selldi audæfi þeira heidnum monnum.

### Fra sendimanne til Benedictum.

20. Madr var sendr um dag til munklifiss Benedicti ath færa honum tunnur tvær fullar vins. En sa, er sendr var, færdi Benedicto adra tunnuna, en adra fal hann a gôtu sinni. Benedictus vissi, hvat hann hafdi giort ok tok vit tunnunni þacksamliga. En adr sendimadrinn færi a braut, þa mællti hann vit hann: »Hygg attu, sonr, ath eigi dreckir þu or tunnunni þeiri, sem þu falt aa gotunni, helldr halladu, ok sia hvat i byr.« En saa for i brôtt ok villdi reyna, hvat þat væri, sem honum var sagt, ok halladi tunn-

unni. En þar skreid or [illegible]. Þa idradizt hann illzku sinnar, ok hræddiz hann þa grand [illegible] er hann sa grand i vinino.

### Fra Benedicto ok munk hans

21. Bær var skamt fra munklifi Benedicti. I þeim stad var mikill fioldi þeira manna, sem tru hofdu tekit af ordum Benedicti. Þar voru ok nunnur, ok sendi Benedictus opt munka þangat ath telia tru fyrir monnum. Hann sendi einn dag þangat munk ath vanda sinum, ok taldi sa tru fyrir monnum. En adr hann for heim, þa gafu nunnur honum duka, en hann stack i serk ser ok villdi ser nyta. Þar voru laug munka, at allir skyllldu eiga saman þat, er þangat var sent, þo at einum væri fyrst gefit. Ok er hann kom heim, þa atsakadi Benedictus hann ok mællti: »Fyrir hvi geck ilzka i serk þer?« En sa dulldiz vit ok let, ath hann vissi eigi, um hvat hann var avitadr. Benedictus mællti: »Wissir þu eigi, at ek var þar i hia, er nunnurnar gafu þer dukana ok þu letz þa i serk þer?« En sa fell til fota Benedicto ok tok dukana or serk ser ok gerdi idran fyrir heimsku sina.

### Fra kertisveini Benedicti.

22. Þa er Benedictus sat at bordi einnhvern aptan, ok skylldi halllda kerti fyrir honum eins riks manz son, er hann matadizt; en ofmetnadar andi kom i briost honum, ok hugsadi hann þetta: »Hvat manna er sia þess, at ek skal honum þionа ok hallda liosi fyrir honum?« Benedictus leit til hans ok mællti: »Hvat er nu, brodir? sign þu þik ok hiarta þitt.« Þa kalladi hann þangat munka ok mællti, ath kertit skylldi taka fra þeim er hellt, ok bad hann sitia kyrran fra þeiri stundu. En þa var hann spurdr af brædrum, hvat honum væri, en hann sagdi, hversu hann hafdi drambat i hugskotinu i gegn guds þræli. Þa var þat ollum liost, at ecki matti leynaz fyrir Benedicto, þat sem hann villdi vita, er eigi mattu hugrenningar leynazt fyrir honum.

### Fra Benedicto oc særan(!).

23. Þat var enn sa einni tid, at osæran gerdi mikit, ok margir menn urdu matþrota. Þat osæran kom ok i munklifi Benedicti, ok var þar svo giorla matr þrotinn, at .v. braudleifar voru eptir

til nattverdar. En (er) Benedictus sa munka oglada, þa leitadi hann at hugga þa med blidum ordum ok mællti. »I dag er oss vant fæzlu, en a morgin munum vær gnótt hafa.« Ok enn næsta dag eptir þa funduz .cc. mæla hveitis i seckum fyrir husdyrum hans. En þat vissi eingi sidan, hvadan su fæzla var komin. Ok er brædr saa þetta, þa gerdu þeir gudi þackir ok efudu alldregi sidan um fyrirheit heilags Benedicti.

### Fra Benedicto ok brædrum.

24. Einn gofugr madr var sa, er gera villdi lata munklifi i landi sinu; en hann bad enn helga Benedictum, at hann sendi þangat lærisveina sina, þa sem hefdi forrad þess stadar. Benedictus sendi þangat brædr ok kvad a, hverr aboti skylldi vera eda hverr prior, ok mællti, adr þeir færi: »Fari þer nu, en ek mun koma at nefndum deghi ok syna ydr, hvar kirkiu skal giora, ok sva hversu þer skulut hvert huss setia at þeim stad.« Þeir toku blezan af Benedicto ok foru sidan, ok biugguz vit þangatkomu hans at ollu eptir megni, sem makligt var. En a þeiri nott, sem næst var fyrir þann dag, er Benedictus het at koma, þa syndiz hann i draume tveimr munkum, þeim sem hann hafdi til forrads ætlada at munklifinu, ok sagdi þeim glôgliga ok syndi, hvar þeir skylldu hvert huss lata gera. En er þeir voknodu, þa sagdi hvor brodirinn odrum, hvat dreymt hafdi, ok trudu ecki a drauminn, helldr væntu þeir, at Benedictus mundi koma um daginn eptir. En er hann kom eigi, þa foru þeir til fundar vit hann ogladir ok mællto: »Vær bidum þin, fadir, ok væntum, at þu mundir koma ok syna oss, hversu vær skylldim gera þann stad, sem þu hetz, ok komtu eigi.« Hann svaradi: »Fyrir hvi mælit þit þetta, þviat ek kom, sem ek het yckr.« En þeir mællto: »Hvenar komtu?« Hann svaradi: »Fyrir hvi munit þit eigi, þar sem þit sôgdut badir, ath ek kom til yckar, ok synda ek yckr alla husaskipan; farit þit nu ok giorit svo, sem þa var yckr sagt.« En þeir foru heim ok undruduz þenna atburd ok gerdu, sem þeim var kent i drauminum, alla husaskipan.

### Fra nunnum tveimr.

25. Nunnur tvær voru skamt fra munklifi Benedicti, en þessar konur voru ættgaufgar at þessa heims virding. Einn sid-

[illegible] færdi þeim likams fæzlu. En iardligh tign giorir opt [illegible] andar. ok mega þeir menn sidr lægia sig fyrir gudi, sem at nockuru hafa odrum monnum ædri verit. Þat vard ok þessum konum. þviat þær stilltu eigi vel tungu sina ok voru [illegible] vit þann mann, sem þeim þionadi med gæzku, ok gerdu hann opt reidan. En er svo hafdi leingi verit, þa for sa madr ok sagdi Benedicto, hversu ohægar konur þær voru vit hann. Ok er Benedictus heyrdi þetta, þa for hann ok hitti þær ok mællti svo: »Stillit þit betr tungu yckra, ella mun ek setia yckr i bann.« Þessi bannsetningu ægdi hann þeim, en gerdi eige. Þær blotnodu ecki vit ord hans. Þær lifdu skamma stund sidan ok voru grafnar i kirkiu. En er messur voru sungnar i þeiri kirkiu, þa syndizt sva konu þeirri, sem þær hafdi fæddar ok þar fornadi gudi, ath þær risu upp or grofum sinum ok gengo or kirkiu ævallt ath upphafi messu. En er hon sa þat opt, þa kom henne i hug, hvat Benedictus hafdi mællt vit þær, er hann het þeim bannsetningu, ef þær stillti eigi betr tungu sina. Þa var madr sendr til guds vinar, ok var honum þetta sagt med ahyggiu. En hann gerdi oflatu ok mællti: »Fari þer nu ok færit oflatu þessa gudi fyrir ǫndum þeira, ok munu þær eigi sidan vera i banni.« Þa var su oflata gudi færd fyrir þeim, ok voru þær eigi senar sidan ganga[1] or grofum sinum, þott messur væri sungnar, þviat Benedictus hafdi sættar þær vit gud.

**miraculum.**

26. Munkr einn var sa ungr ath alldri, sem of mikit unni fǫdur sinum ok modur, ok for sva um dag til þeirra, ath hann hafdi eigi tekit blezan af Benedicto ne leyfi til at fara. Ok enn sama dagh, sem hann kom til þeirra, þa vard hann braddaudr. En er hann var grafinn, þa war liki hans kastat or grofinni annan dagh. Þa rann fadir hans ok modir til fundar vit Benedictum ok fellu til fota honum ok badu med tarum, ath hann veitti þeim miskunn. En hann sendi hlut af holldi drottins ok mællti: »Farit þer nu ok leggit þetta corpus domini yfir briost sveininum ok grafit hann.« En er þat var giort, þa tok vit likama hans iord.

1 þær gengu *Cd.*

**Enn fra odrum munk.**

27. Sa var annarr munkr, er hugr hans var ostadfastr ok undi hann eigi i munklifi Benedicti, en guds madr talde opt fyrir honum med blidum ordum, at hann skylldi þar una, en munkrinn let eigi at ordum hans ok bad hann leyfis til brautfarar. En guds þræli vard hermt vit ounatsemd hans ok mællti, ath hann skylldi brott fara, ef hann villdi. En þegar sem hann geck or klaustragardzhlidi, þa sa hann dreka standa fyrir ser med gapanda munni ok let, sem gleypa hann mundi. Þa tok munkrinn ath hrædazt ok banda hondum, svo sem hann verdiz nockuru, ok kalladi hatt ok mællti: »Rennit hingat þer, þviat dreki sia vill svelgia mik.« En brædr foru til ok mattu eigi drekann sia, en þeir leiddu heim munkinn skialfanda. Þa het hann þvi, at hann mundi alldregi sidan fysaz brott or munklife, ok þat efndi hann.

**miraculum.**

28. Ðat var enn wm dagh, at leiddr var fyrir Benedictum sweinn sa, er hina verstu likþra hafdi, svo at haar fell af hôfdi honum, ok allt hôrond hans var fullt vogs ok hriuft. En fadir hans leiddi hann fyrir enn sæla Benedictum, ok gaf hann honum þegar heilsu i nafne Jesus Cristz.

**Fra manne einum.**

29. Saa madr kom til mals vit Benedictum, er giallda atti .xii. skillinga, ok hafdi eigi til. Hann sagdi Benedicto til vandrædis sins, at hann matti eigi giallda þat, sem hinn heimti at honum. En Benedictus hafdi þa eigi silfr til at gefa honum, en kvaddi þo hinn blidliga ok mællti: »Kom þu hingat aa tveggia natta fresti, þviat nu er ecki til i dagh ath gefa.« En a þeim dôgum .ii. var Benedictus aa bænum þraasamliga. Hinn kom enn þridia daghinn, ok þa funduz þrettan skillingar silfrs aa aurk þeiri, sem full var hveitis. Benedictus bad selia silfrit enum volada manne ok mællti, at hann skylldi giallda .xii. skillinga ok hafa sialfr enn þrettanda til þurftar sinnar.

**miraculum.**

30. Sa madr var enn einn, sem ovinr hans villdi fyrirkoma ok blandadi eitri dryck hans. En sa dryckr matti eigi fyrirfara

honum, en þo gerdiz honum sott af þvi, ok vard margr litr aa likama hans. Þessi madr var leiddr fyrir Benedictum, en þegar er hann tok hendi aa honum, þa vard hann heill, svo sem alldregi hefdi hann siukr verit.

### Um oaran.

31. A þeirri tid sem oaaran gerdi i heradi þvi, er Kampania heitir, þa hafdi Benedictus gefit aumum monnum alla fæzlu, þa sem i munklifinu var, nema vitsmiðr litit i einu keri. Þa kom subdiakn, sa er Agapitus het, ok bad gefa ser vidsmiðr, en guds madr Benedictus, er allt villdi gefa fyrir guds sakir, til þess ath hann mætti eignazt aa himne allt med gude, þa mællti hann, at gefa skylldi þat et litla vitsmiðr, sem eptir var. En sa sem eptir var sendr villdi eigi framm selia. Benedictus spurdi litlu sidar, ef hann gerdi, sem mællt var. En hann kvedz eigi giort hafa, ok sagdi, at ecki væri eptir, ef hann gæfi þetta. Þa vard Benedictus reidr ok mællti wit annan mann, ath hann skylldi kasta ut glerkerinu i glugg, þviat hann villdi eigi þat nyta lata, sem med singirni ok ohlydni var vardveitt. En undir glugginum var borit saman griot mart, ok er kerinu var utkastad, þa kom þat aa steina, ok brotnadi eigi ok eigi slagnadiz nidr vidsmiðrit. Þa mællti Benedictus, at kerit skylldi taka ok gefa þurfamonnum þat, sem i var. Sidan heimti hann munka til sin ok avitadi enn ohlydna mann um otru sina ok singirni. Ok er þvi var lokit, þa geck Benedictus til bænar med brædrum.

### miraculum.

32. En i þeim stad, sem þeir voru a bænum, stod ketill tomr ok breitt klædi yfir, ok er þeir hofdu leingi stadit, þa tok ath lyptaz klædit,. þat sem yfir ketilinn var breitt. En er þat var af tekit, þa var ketillinn fullr vidsmiors, svo at þa rann alla vega yfir. Ok er Benedictus saa þat, þa let hann falla bæn sina, ok þa let af at ganga yfir ketilinn. Þa tok enn ohlydni madr ath skammazt otru sinnar, er hann sa, ath Benedictus sannadi med iarteinum þat, sem hann kendi med ordum, ok var eingi saa sidan, er efadi um fyrirheit hans, þviat hann hafdi aa einu augabragdi ketil fullan vidsmiors golldit þeim i stad glerkers, þess er miðg sva var tomt.

### Fra Benedicto ok odum manni.

33. Þat var enn um dag, at Benedictus for til kirkiu til bænar, ok þa kom enn forni fiandi ꝏ mot honum i asionu illz læknis ok hafdi horn i hendi. Benedictus spurdi, hvert hann færi. Fiandinn svaradi: «Ek fer til brædra at gefa þeim dryck.« Benedictus for til bænar. En hinn illgiarni ande slo ædi ꝏ munk þann, er taka skylldi vatn, ok velltiz hann ꝏ iôrdu ok mællti orar. Ok er Benedictus geck fra bæn sinni ok sa enn oda munk, þa laust hann a kinn honum ok rak svo fiandann fra honum, at hann þordi eigi sidan til hans at koma.

### Fra rikismanni einum.

34. Rikismadr var sa, er Zalla het, grimmr madr ok vafdr i villu þeiri, sem Arrius hafdi bodit. Hann var svo illr vit kristna menn, at kennimenn eda munkar nadu trautt med fiôrvi ath fara, þeir sem honum mættu. Þat var um dagh, at hann neyddi þorpkarll nockurn med kvolum til, at hann selldi honum fe sitt allt. En þorpkarlinum vard þat a munne, at hann kvedz allt fe sitt sellt hafa enum helga Benedicto. En sia enn grimme madr Zalla let þa af at kvelia hann, helldr batt hann hendr hans ꝏ bak aptr ok rak hann fyrir ser, til þess at hann syndi honum, hverr sia Benedictus væri, er vit fenu hafdi tekit at hans sôgn. Þorpkallinn for fyrir, en Zalla reid eptir, þar til er þeir komu til munklifissins. Þa sat Benedictus uti fyrir husdyrum sinum ok sa a bok. Þa mællti þorpkallinn vit Zallam: «Her er sa Benedictus, er ek gat fyrir þer.« Þa leit Zella reiduliga til Benedictum ok ætladi, at hann mundi skelfa hann i ognum sinum sem adra menn, ok mællti med akalli vit hann: «Ris upp þu skiott ok giallt mer aura manz þessa, er þu hefir vit tekit.« Þa heyrdi Benedictus kallit ok leit til hans fra bokinni, er hann hellt ꝏ. «Tak þu feit, kvad Zalla, ok sel oss.« Benedictus svaradi ôngu ok sa, hvar þorpkallinn stod bundinn. En vit þat losnudu ôll bond af honum, ok er hann stod laus, þa hræddiz enn grimme Zalla vit takn þetta ok fell til fota Benedicto ok bad ser liknar. En guds madr leit eigi til hans, helldr kalladi hann brædr, at þeir leiddi hann til blezanar. En er þat var giort, þa asakadi Benedictus hann miok um grimleik sinn ok bad, at hann batnadi. En Zalla for a braut ok gerdi ecki mein þorpkarlli, ok var eigi iafngrimmr sidan.

### Fra einum þorpkarle.

35. Annar þorpkarll kom um dag med lik sonar sins til munklifis Benedicti ok spurdi, hvar hann væri. En Benedictus var aa akri med brædrum. Ok er þorpkallinn vissi þat, þa kastadi hann liki sonar sins fyrir kirkiudyr. En hann rann a mot Benedicto, er hann geck af akri med brædrum. En þorpkallinn kalladi þegar a Benedictum, er hann sa hann: «Gialltu mer son minn! Gialltu mer son minn!» Benedictus svaradi: «Weiztu, ath eigi tok ek son þinn fra þer.» Þorpkarllinn mællti: «Daudr er hann, en þu kom ok reis hann af dauda.» Benedictus vard hryggr ok mællti: «Farit brott þer, farit brott þer, þviat þetta er vort verk eigi, helldr postola guds almattigs; til hvers bindit þer oss byrdar, þær sem vær megum eigi bera.» En kall var þraar a bæn sinni ok sor þess vit gud, at hann mundi eigi brott fara, fyrr en Benedictus gæfi lif syni hans. Benedictus spurdi, hvar likit var. Hann sagdi ok kvad vera fyrir kirkiudyrum. En er guds þræll kom þangat, þa fell hann a kne hia likinu til bænar ok hellt hôndum til himins ok mællti: «Drottinn! littu eigi syndir minar, helldr tru þessa manz, er lifs bidr syni sinum, ok gialltu likama hans ônd, þa sem þu tokt aa braut.» En er hann lauk bæn sinni, þa hrærdiz likit ok hof sveinninn upp augu sin. Benedictus tok i hônd honum ok selldi hann lifanda ok heilan fedr sinum.

### Fra syskinum Benedicti.

36. Benedictus atti systur, ok var hun nunna ok þionadi gudi, en hun het Scolastica. Hun var von ath koma aa hverium misserum til brodur sins, en þau funduzt a bæ þeim, sem skamt var fra munklifi Benedicti, þviat þar skylldi eingin kona koma. En er þau funduz um dagh, þa ræddu þau um himneskar dyrdir þann dag til nætr, ok motoduz bædi saman. Þa mællti Skolastica: «Ek bid þik, brodir, at þu farir eigi a brôtt i nott, ok rædum vid enn um dyrd guds.» Hann svaradi: «Mer er eigi lofat at vera annars stadar en heima.» Þa var svo vedri farit, at heid var um allan himin. Ok er Skolastica heyrdi svôr hans, þa laut hun a bordit i gaupnir ser ok bad til guds, ok er hun hof upp hofdi sino, þa var regn svo mikit ok elldingar ok reidarþrumur, at Benedictus matte eigi ut ganga ne fôrunautar hans. En heilug mær hafdi svo bedit af ollum hug, at taralækirnir fellu af bordinu, ok kom þat allt senn a iord ok regn or lopti. En er Benedictus

sa, at hann matti eigi a brott fara fyrir vedrs sakir, þa mællti hann vit systur sina: »Miskunne gud þer, systir, hvi gegnir þat sem þu gerdir?« Hon svaradi: »Ek bad þik, ok villdir þu eigi hlyda mer, bad ek gud, ok hlyddi hann mer. Far þu heim nu, ef þu villt, ok gack ut.« En engum manne þotte fært, ok var Benedictus þar naudigr, sem hann villdi eigi verit hafa. En þau voktu þa nott alla ok ræddu um himneska hluti.

### Fra helgum Benedicto.

37. Annan dag eptir for hvort þeira til heimilis sins, ok er .ii. dagar voru þadan lidnir, þa sat Benedictus i husi sinu ok leit upp til himins, ok þa sa hann ônd systur sinnar fara til himins i dufu liki. Hann fagnadi dyrd hennar ok gerdi þackir gudi ok sagdi munkum andlat hennar ok sendi munka eptir likinu, ok var hon lagin i grof þa, sem Benedictus hafdi ser gera latit, ok var þat makligt, at þau færi i eina grof, er bædi hôfdu eina ast til guds.

### Fra Servando diakna.

38. Diakn ok aboti munklifis þess, er Liberius hafdi gera latit, var vanr at koma a hverium misserum til munklifis Benedicti, en hann het Servandus. Ok er hann var kominn til fundar vit Benedictum, ræddu þeir dag þann allan um fagnat himinrikis, þann sem þeir lôngudu badir miok til. Ok er svefntid kom, var Benedictus ofarla i stôpli nockurum, en Servandus var nedarr, ok matti ganga milli þeira. En undir nidri var hus þat, sem hvilldu i lærisveinar þeira, ok voru sofnadir, en Benedictus vakti ok stod a bæn wit glugg. Þa leit hann ut ok sa lioss svo mikit koma af himni, at ôll foruzt myrkr nætrinnar, ok vard svo liost sem um midian dagh. En med liosinu sa Benedictus allan heiminn senn svo sem undir einum solargeisla, þat sa hann ok med, at einglar guds baro aund Germani byskups i elldligri asionu til himins. Þa kalladi Benedictus a Servandum tysvar eda þrysvar. En Servandus stod upp þegar, er hann heyrdi, ok leit ut ok sa liosit, ok þotti mikils um vert takn þetta. Þa sagdi Benedictus honum alla syn, þa sem fylgt hafdi liosinu. Sidan sendi Benedictus mann ena sômu nott til borgar þeirar, er Kampania heitir, ok bad hann spyria at Germano byskupi, ok er sendimadr kom þangat, þa var

byskup andadr, ok hafdi sa þeiri stundu andaz, sem Benedictus saa ond hans fara til himins.

### Andlat Benedicti.

39. Eñ a þeim vetri adr Benedictus andadiz, þa sagdi hann fyrir nockurum lærisveinum sinum andlatzdag sinn. Hann baud þat ok þeim, at þeir segdi eigi odrum, en þeir bædi þess alla munka, at þeir leiddi athuga, ef nockur takn birtiz i andlati hans. Sex dogum fyrir andlat sitt let hann luka upp grôf sinni. Þa tok hann ridosott mikla, ok vox sottin miok, ok enn setta dag let hann lærisveina sina bera sig til kirkiu ok tok corpus domini ok let munka ganga undir hendr ser, ok stod hann sva ok hellt hôndum til himens, ok andadiz, þa er hann var a bæn. En sa þeim degi vitradiz enn undarlig syn tveimr munkum, odrum þeim er var heima i husi sinu, en odrum þeim er var fiarre þangat. Þeir saa badir gôtu fagra skinandi mikilli dyrd ok liose; hun laa i austr fra husi Benedicti til himins; sa þeirri gotu stod madr biartr i dyrlighum buningi ok spurdi, hverr gôtu þessa ætti, en munkarnir letuz eigi vita. Þa mællti hann vit þa: «Þessa gôtu stigr Benedictus guds vinr til himens.« En af vitran þesse vissu þeir andlat Benedicti iafnvist, er fiarri voru, sem þeir, er þar voru hia. Hann var grafinn i kirkiu Johannes baptiste, þeiri sem hann hafdi gera latid or heidnu hofi, ok synir hann þar margar iarteiner ok svo i helli þeim, er Sublacus heitir, er hann bygdi fyrst i einsetu.

### Miraculum.

40. Kona nockur var vitlaus, reikadi nætr ok daga um fioll ok heidar, skoga ok vôllu, ok hafdi hun þat eitt hvilldar, er mædi eda svefn neyddi hana til. Hun kom a nockurum degi til hellis Benedicti ok hvildiz þar fyrir þreytleika sakir ok sofnadi þar, en hun vaknadi heilvita, ok var svo heil alla æfi sina sidan, sem hun hefdi alldregi verit vitlaus. Vær skulum bidia Benedictum guds vin, at hann arne oss miskunnar, er svo hefir i sinu lifi greida gôtu geingit ok gefit dæmi ollum sinum sporgôngumonnum, at hann mun marga eptir ser leida til himinrikis, ok arnat fae þess vit gud, ath af hans bænum batnim vær ok bætt faim til fullz vor vond verk, ok vær lifim til batnadar, þat sem

eptir er lifdaga vorra, ok ath þeim lidnum mætim vær fyrir þeim fagnadi, sem vinnz um allar alldir. Amen.

---

## APPENDIX.

*Da Sagaen om Benedictus af Nursia ogsaa indeholdes i anden Bog af Pave Gregors Dialoger, meddeles paa dette Sted, hvad der er os levnet af disse.*

(*Cd. 677 qvorto, A; Cd. 239 folio, B*; *Fragm. i Norske Rigsarkiv, C*)

**Incipit primus liber dialogorum quem fecit beatus Gregorius papa**[1].

A nockurum degi þa er Gregorius var hryggr af optligum fiôlskylldum þessa heims, þa for hann at sitia einn saman i nockurum leyndum stad ok hafdi i hug ser ôll vandrędi, þau er at hendi honum baruz af heimi þessum. Enn er hann hafdi þar lengi setit ogladr af miklum harmi, þa kom þangat enn vitrasti diakn hans ok fostri Petrus. Enn er hann sa Gregorium mędazt af harmi, þa męllti hann: «Hefir nockut þat nytt at hendi þer borit, er ek se þik ogladara enn vant er?« Gregorius svaradi: «Harmr sa, er ek þoli hvern dag, er mer forn fyrir vanda enn nyr fyrir auka: þviat vesall hugr minn sęrdr af môrgum fiôlskylldum minniz a þat, hvilikr hann var fyrr i munklifi, þa er hann var upphafidr yfir alla hluti, þa er her i heimi velltaz, ok girntiz engiss nema himneska hluti eina, ok hann elskadi daudann sialfan sva sem inngôngu lifs ok ômbun erfidis sins. Enn nu þolir hann hvern dag fiolskylldi veralldligra hluta af hirdis ahyggiu ok saurgaz af dusti iardligrar syslu eptir fagra asionu hvilldar sinnar. Ok þa er hugr dreifir sik til inna ytri hluta, þeira er hann vill vorkynna, þa kemr hann[2] minni aptr til inna idri hluta, þott hann girniz þangat. Virdi ek, hvat ek hefi tekit eda hveriu ok hefi tynt. Enn þa er ek lít, hveriu ek tynda, þa verdr mer þung byrdr, su er ek ber. Nu reida mik storar bylgiur mikils siofar ok margar hridir a hugar skipi. Enn (er) ek minnumz ens fyrra lifs, þa er sem ek lita aptr til strandar þeirrar, er ek fyrirlet. Ok þa er mik reida miklar barur, þa ma ek traut hôfn sia, þa

1 *Begyndelsen mangler i A, der først tager fat i første Bogs Cap. 10; indtil da lægges B til Grund.* 2 *rettet*; hans *B*; minor redit *lat.*

er ek hvarf fra; þviat su er nattura hugar, at hann [tynir fyrst þvi godu er hann helldr, ok minniz[1] þess, at hann hefir þvi tynt; ok er hann hverfr þadan langt a brott, þa gleymir hann þvi godu, er (hann) tyndi, ok tekr eigi at muna þat, er hann elskadi fyrr, medan hann hellt þvi. Þviat þa er ver siglum langt i haf, þa megum ver eigi sea hvilldarhôfn, þa er ver fyrirletum. Þat geriz ėnn til auka harms mins, er mer kemr i hug lif þeira nockurra, er af ollum hug fyrirlitu heim þenna. Ok þa er ek lit hęd þeira, þa skil ek, hve lagt ek ligg. En þeir likudu margir sva skapara sinum vel i leyndu lifi, at almattigr gud villdi eigi þrongva þa i fiôlskylldum þessa heims. Enn þa ma ek þat betr skyra, er ek sagda, ef ek greini þa at nafni, þa er ek vil fra segia.«

Petrus. Eigi ero mer ęrid kunnir þeir menn, er her skina i kraptalifi þvi, er þu megir af þeira samvirþingu hitna til guds astar. Eigi efa ek marga goda vera a þvi landi, enn eigi ętla ek þa iarteinir gera, eda ella er þvi sva leynt, at ver vitum eigi iarteinir þeirra.

Gregorius. Þott ek segia þa hluti eina, er ek nam af enum skynsômuztum mônnum eda ek matta sia eda heyra, þa ętla ek fyrr munu dag þenna þriota enn dęmisôgur.

Petrus. Þat villda ek, at þu segdir mer nockut fra þeim, þviat iôfn kenning geriz af skyringu ok af minningu krapta. I skyringu ritninganna kennum ver, hversu finna skal ok hallda krôptum, en i minningu iarteina vitum ver, hversu lukaz fundnir kraptar ok halldnir; ok ero þeir sumir, er betr styrkiaz til astar guds af dęmum enn af kenningum. Opt geriz tvifôlld hialp i hugskoti heyranda af dęmum heilagra fedra, þviat hugr kyndiz til astar ovordins lifs af samvirþingu þeira, ok lęgiz hann, þa er hann heyrir sagt fra ôdrum ser betrum, ef hann þottiz adr nockurr fyrir ser vera.

Gregorius. Þa eina hluti mun ek segia, er ek heyrda af skynsômum mônnum, eptir þeim dęmum sem Marcus ok Lucas ritudu gudspiôll, meir af heyrn enn at syn.

1. [2]Bęr mikill er i heradi þvi er Samnia heitir. A þeim bę bio madr, sa er son atti, þann er Honoratus het. Enn sa sneriz þegar a unga alldri til himneskrar astar ok męddi likam sinn i fôstum. Enn er hann skein af godri atferd ok sa miok

1 [*rettet*; fysti gott ok minnaz *B*; ita sunt casus mentis, ut prius quidem perdat bonum, quod tenet, si tamen se perdidisse meminerit. *lat.*
2 af Honorato *Overskrift.*

vid onytum hlutum ok męddi holld sitt i meinlętum, þa gerþu fręndr hans mannbod a nockurum degi, ok var kiôt buit til bordz. Enn er honum var eigi hugr a þvi at eta kiot, þa hlogu frendr hans at honum: «Ettu þessa fędzlu, sôgdu þeir, þviat ver megum eigi fa þer her fisk a fialli.« Þviat sa bęr var sva upplegr, at þar hafdi alldri fiskr sén verit. Enn er Honoratus var hlegiu i slikum malum, þa for þręll til brunnz at taka vatn. Enn er (hann) sôkti fôtunni i brunninn, þa var þar i fiskr, ok matti sa fiskr þôrf vinna Honorato þann dag til fęzlu. Þa undruduz allir, ok letu frendr hans af at hlęgia at honum, ok lofudu tru hans, þa er þeir hlogu adr at. Enn er Honoratus vóx i krôptum, þa setti hann munklifi i stad þeim er Fundis heitir, ok var hann aboti yfir .cc. munka, ok gaf môrgum god demi i sínu lifi. A nockurum degi lostnadi steinn mikill ur fialli upp fra munklifinu, enn er steinn hliop ofan, þa horfir hann a klaustrid ok ęgdi bana ôllum brędrum. Enn er heilagr Honoratus sa þat, þa kalladi hann a nafn Kristz ok gerdi krossmark i mot steininum. Enn steinnin nam þar stadar i midri fiallzhlid, þar er engum manni var von, at hann mętti festaz. Enn sa steinn stendr þar sidan fastr i þeim stad, ok þickir sem hann muni þa ok þa ofan falla.

Petrus. Hvers lęrisveinn var sia enn gôfgi madr, er sva margra lerifadir vard sidan, þa er hann red fyrir .cc. munka?

Gregorius. Engis mannz lerisveinn hefir hann verit, enn eigi ero giafir heilags anda undir manna lôgum. Þat er vandi rettrar atferdar, at engi dirfi sik at vera lerifadir, nema hann hafi fyrr verit lęrisveinn, ne bioda hlydni undirmônnum sinum, nema hann nęmi fyrr at veita hlydni ifirmônnum. Enn þo ero nockurir þeir, er lęraz af helgum anda, ok hafa þeir radning ens idra lęrifôdur, þviat þeir hafa eigi ena ytri lering af mônnum. Enn ostyrkum mônnum er eigi fallit at hafa ser at dęmum frelsi lifs þeira, at eigi verdi þeir lęrifedr villu, þa er þeir fyrirlíta at vera lerisveinar manna, ok treystaz, at þeir se lęrdir af helgum anda slikt sem hinir. En hugr, sa er fylliz af helgum anda, hefir mark a ser, þat er kraptr ok litillęti. En er þat kemr saman hvart-veggia i einu hugskoti, þa berr þat vitni navistu heilags anda. Sva sem Johannes baptista var eigi af mônnum lęrdr, sva sem Kristr sialfr lęrdi adra likamligri navistu ok var eigi likamligr lęrisveinn, sva var ok Moises i eydimôrk lęrdr af engli guds ok nam þar bodord, er eigi kendi madr honum. Enn þessir hlutir,

er ver segium, ero ostyrkum mônnum gôfgandi enn eigi eptirlikiandi.

Petrus. Hugnar mer þat er þu segir, enn þat villda ek vita, hvart sia enn helgi Honoratus let eptir sik nockurn lęrisvein ser likan.

2. Gregorius. [1]Libertinus het enn gôfgazti madr, sa er fęddr var ok lęrdr i munklifi Honoratus, ok var sidan forradsmadr munklifissins. Fra honum ero mer margar iarteinir sagdar, þott ek muna faar segia. Sia madr Libertinus atti fôr skyllda fyrir naudsynium munklifissins i Samnia herad. Enn er hann reid leidar sinnar, þa kom a mot honum hertugi þiodar þeirar, er Gothi ero kalladir, ok toku lidsmenn iarlsins hest undan Libertino. En hann bar þolinmodliga ok selldi þeim svipu, er hann keyrdi med hestin, enn sidan geck hann til bęnar. Enn lidsmenn iarlsins foru leidar sinnar skyndiliga, unz þeir komu til ár þeirar, er Wlturnus heitir, þa namu hestar þeira stadar ok gengu eigi á ána helldr enn á hit mesta forad. Enn er þeir keyrdu hestana med svipum edr sporum, þa mattu hestarnir mędaz enn eigi or stad ręraz. Enn er þeir męDduz, er hestana keyrdu, þa gat einn þeira, at þeir mundu þess at giallda, er þeir gerdu guds þręli oskil um gôtu. Þa hurfu þeir aptr ok fundu Libertinum a bęnum, ok męlltu vid hann: «Ris upp þu ok tak hest þinn!« Enn hann svaradi: «Farit er i fridi, eigi þarf ek nu hestin.« Þa stigu þeir af hestum ok hofu Libertinum sialfir a hestin, þann er þeir hôfdu af honum tekit, ok foru þa leidar sinnar. Þa foru hestar þeira sva skyndiliga yfir ána, þa er þeir mattu eigi adr yfir fara, sem eigi vęri vatn i anni, ok nutu þa allir sinna hesta, er þeir letu guds þręl hafa sinn hest.

A þeiri tid kom hôfþingi, sa er Bucellinus het, med Fracka her miklum i Campania herad. Enn (er) hann fra þat, at ôdęfi voru mikil i munklifi Libertini, þa gengu Frackar inn i kirkiu, þar er Libertinus var a bęnum, ok leitudu hans ok kôlludu akafliga. Þa vard undarligr hlutr, er þeir leitudu hans, þeir gengu a hann ok drapu fotum ok mattu eigi finna hann ne sia hann. En er þeir urdu sva tęldir af blindi sinni, þa foru þeir a brott fra munklifinu ok hôfdu ôngan eyri þadan.

A annarri tid for Libertinus til borgar þeirar, er Ravenna heitir, enn hann hafdi sendan aboti, sa er nęstr var Honorato

1 fra Libertino *Overskr.*

lęrifðdur hans. Enn fyrir elsku lerifedr sins var Libertinus vanr at hafa med ser skoleist hans, hvargi sem hann for. Enn er hann for leidar sinnar, þa mętti hann konu nockurri, er for med lik sonar sins nyandads. Enn er hon leit guds þręl, þa tok hon i tauma hesti hans ok męllti: «Eigi muntu hedan fara, nema þu reisir upp son minn.« Enn hann oadiz akafa bęnar hennar, þviat hann var eigi vanr at gera slikar iarteinir, ok villdi fordaz konuna ok matti eigi. Þa tok at beriaz i briosti hans litillęti ok miskunsemi, hrezla ok harmr: hręddiz hann at freista oreyndrar iarteinar, ok harmadi hann þo med sonlaussi konu. Enn til guds dyrdar ste milldi yfir kraptaudikt briost, þviat eigi vęri kraptaudikt, ef eigi stigi milldi yfir þat. Þa ste Libertinus af hesti ok fell a kne ok hellt hðndum til himins, ok tok skoleist lęrifðdur sins ur serk ser ok lagdi a briost enum dauda. Sidan hvarf aptr ðnd sveinsins til likams, ok tok Libertinus i hðnd honum ok selldi hann lifanda modur sinni, enn hann for leidar sinnar.

Petrus. Hvat ętlum ver, hvart þessa iartein gęti af gudi verdleikr Honorati edr bęn Libertini?

Gregorius. Slika iartein matti syna kraptr hvarstveggia þeira ok trua konunnar; ok ętla ek, at af (þvi) mętti Libertinus þetta geta, at hann treysti meirr lęrifedr sinum enn ser sialfum, þviat hann ętladi sik geta þat, er hann bad, af þess verdleikum, er hann lagdi skoleist yfir lik ens andada. Sva gerdi Heliseus fordum, er hann kom til Jordanar, at hann laust mðtli lerifðdur sins a vatnit (ok męllti): «Hvar ertu nu gud Helie?« Þa gerdiz þegar gata ifir ana. I þessum hlut megum ver virda, hversu mikit litillętis kraptr vinnr, at þa matti Heliseus vinna krapt lęrifðdur sins, er hann mintiz nafns hans.

Petrus. Er nockut enn at segia fra þessum manni, þat er oss megi stoda til kenninga?

Gregorius. Er til at segia, ef nockurr villdi eptir likia, þviat ek ętla ędri vera þolinmędi enn iartein. Aboti sa var bradlyndr, er nęst var eptir Honoratum. Enn hann var reidr um dag Libertino, sva at hann matti varlla stilla sik. Enn er hann fann eigi vðnd at liosta hann, greip hann upp fotskemmil ok laust i andlit honum, sva at allt andlit hans blanadi ok þrutnadi. Þa for Libertinus þegiandi til reckiu sinnar. Enn naudsynia fðr nockura vard annan dag at fara fra munklifinu. Enn er ottutidum var lokit, þa geck Libertinus til reckiu abota ok qvaddi litillatliga blezunar. Aboti vissi, at Libertinus var ðllum kunnr at gęzku, ok ętladi

hann, at hann mundi vilia brott fara or munklifinu fyrir oskil, þau er honum voru gior, ok męllti vid hann: «Hvert villtu fara?« Enn hann svaradi: «Skylld er fôr at fara naudsyn munklifissins, fadir, ok ma ek eigi þa fôr fordaz, þviat ek het i gęr at fara þangat i dag.« Þa komz aboti vid af enu(m) inztum rotum hiartans, er hann sa hardleik hiarta sins, enn hogvęri Libertini, ok reis upp þegar ur reckiu sinni ok fell til fota Libertini ok taldiz sekr vera ok misgert hafa, er hann gerdi slika meingerd guds þręli. Enn Libertinus fell til fota abota, ok qvad helldr þetta ordit af sinni synd enn af grimleik hans. Þa sneriz aboti til hogveris, ok var þolinmędi lerisveins lerimodir lerifôdurs. Enn er Libertinus kom þangat, er hann atti fôr or munklifinu, þa spurdu kunningiar hans ok vinir, hvi andlit hans vęre sva blatt ok þrutit. Enn hann svaradi: «Fyrir syndir minar laust ek i gęr aptan andliti minu a fotskemmil.« Sva hirdi heilagr madr i briosti ser będi sannsôgli ok gôfgun lęrifôdur, at hann leyndi synd hans ok gerdi eigi sialfr synd i lygi. Sia madr, er ver segium nu fra iarteinum, atti marga lęrisveina, þa er iarteinir gerdu, enn ek mun þo fra fám segia, þviat ek skyndi til annars. Einn hlut mun ek þann segia, er mer þickir eigi fallit at þegia yfir.

3. I þvi sama munklifi var munkr, sa er gofugt lif hafdi, enn sa vardveitti kálgard. Enn þiofr var vanr at koma iduliga i gardin ok stela. Enn er gardvôrdr fann, at stolit var or gardinum, enn sumt var spillt ok trodit, þat er eigi var a brott tekit, þa geck hann um gardin utan ok innan, ok fann um sidir stettir þęr, er þiofrin hafdi gervar. Enn er hann kom i gardin, þa fann hann þar hôggorm ok męllti vid hann: «Fylgdu mer.« Enn er hann kom þangat, er þiofrin hafdi stettirnar gert i gardinum, þa męllti hann vid orminn: «I nafni Jesus Kristz byd ek þer, at þu verir þiofinum gôtu þessa.« Þa lagdiz ormrin i hring hia stettunum, enn munkr for heim til hussins. Enn þiofr kom til gardz eptir vana sinum, þa er allir munkar svofu um middegi. Enn er hann villdi stiga inn um gardin, þa sa hann, at hôggormr la a gôtunni, ok vard hann hręddr ok fell af gardinum ut. Enn fotr hans vard fastr, þviat gardstaurr krękti i sko honum, ok heck hann þar, unnz munkr kom til gardzsins. Enn er hann kom i gardin, þa męllti hann vid ormin: «Gudi þauck, gerdir þu sem ek baud, far brott nu!« Þa for hann brott þegar. Enn er munkr kom at, þar er þiofr heck, þa męllti hann vid hann: «Hvat er nu, brodir? Gud selldi þik mer nu. Fyrir hvi þordir þu sva opt at stela fra

brędrum?« Þa leysti hann fot þiofsins ok let hann s(t)íga nidr hogliga ok bad hann fylgia ser. Þa leiddi hann hann heim til gardzhlids ok gaf honum alldin, þat er hann villdi stela, ok męllti vid hann: «Far þu nu ok stel eigi sidan, enn ef þer verdr þorf, þa kom þu til min, ok mun ek gefa þer vid godan hug þat, er þu villdir stela med syndum.« Þa for þiofr a brott ok var alldri fundinn at stulld sidan.

4. [1]Eqvicius het einn enn helgazti madr i Valeria heradi, hann var agętr at heilagleik sinum ok iarteinum, ok red hann fyrir mörgum munklifum i þvi heradi. En er hann var a ungum alldri, þa hafdi hann freistni mikla a likam sinum til munudlifis. Enn hann sotti til bęna skiols ok bad af öllum hug gud fulltings a freistunar tid. Þa syndiz honum engill guds i draumi a nöckurri nott ok braut or likam hans alla lostasemi, sva at hann kenndi alldri sidan freistni a likam sinum. Enn er hann hafdi þenna krapt fengit af gudi, þa tok hann iafnt at hafa forrad a nunnum sem a munkum. Enn hann taldi þat þo fyrir lęrisveinum sinum, at þeir treystiz eigi ser eptir hans dęmum, at eigi felli þeir i synd, ef þeir treystiz þeiri giöf guds, er þeir höfdu eigi.

A þeiri tid, er fiölkunnigir menn voru teknir i Romaborg, þa flydi einn þeira, sa er kunnigaztr var, ok het sa Basilius, ok kom i munks buningi til byskups þess, er Castorius het i Valeria heradi, ok bad hann byskup, at hann kvęmi honum til munklifis Equicij, at hann mętti leidrettaz. Þa kom byskup til munklifis ok hafdi Basilium med ser ok bad guds þręl Equicium, at hann tęki vid honum. Equicius leit vid honum ok męllti: «Sia er þu felr mer a hendi, hann syniz mer helldr diöfull enn munkr[2] . . . . . . . . . . . eigi þegar a. Þa bad Equicius Julianum dveliaz med ser nöckura daga ok . . . . . . . . . . dum . . . . [Muntu vita þ]a, i hviliku vardhalldi [guds þeir eru, er] sialfir sik fyrirlita, [ok hver]n veg þeir hafa [med ödrum mönnum, er] eigi skammaz at verda fyrirlitnir af mönnum. Enn þar i gegn liggia þeir lagt i guds ögliti, er dramba i [ögliti sinu] ok naunga sinna. Sva sem drottinn męllti vid nockura: «Er drambit fyrir mönnum, enn gud veit hiortu ydr, þviat þat er rękt fyrir gudi, er hátt er mönnum.«

Petrus. Ðat undrumz ek i þessu mali, er gofugr byskup skylldi trua lognu fra helgum manni.

1 Af hinum goda Equicio *Overskr.* 2 *Her mangler 1 Blad i B.*

Greifinn mællti: »Hvat er þat, er eigi synizt vera ok er?« Tiburcius mællti: »Oordit lif ok [piningar þær er illir menn eru kvaldir, ok vitum ver at saunnu, at þat mun fram koma, þott ver megim þat eigi likamligum augum sea[1].« Almachius mællti: [»Hygg ek, at þu segir þetta af þinu hugviti.« Tiburcius svarar: »Eigi mæli ek þat af minu hugviti, helldr af þvi er byggir i briosti mer.« Almachius spurdi:[2] »Veiztu, hvat þu mełir?« »Veit ek, sagdi Tiburcius, at sva man vera, sem ek sagda.« Almachius mællti: »Fyrir hvi ma ek eigi skilia, med hverium aahuga þu mełir þetta?« Tiburcius svarar: »Þvi at kykvenligr[3] madr skilr eigi þa hluti er guds eru, en [andligr madr dæmir alla hluti ok dęmizt af aungum sialfr[4].« Þa brosti greifinn ok let braut leida Tiburcium en þangat Valerianum, ok mællti þa vid hann:

### Capitulum.

9. »[Mattu nokkut þess mæla er afstada se, hofutærr þickir mer vera brodir þinn[5].« Valerianus mællti: »Heyrn þin villizt, þviat hon ma eigi heyra mal vart.« Almachius mællti: «Ecke mannkyn er iafnært sem þit i heiminum, er leitit þess med aullu kostgæfi, er gagnstadligast er life ok heilso, ok fyrirlatid nytsamliga hluti, ok flyit gledi alla, ok rekit allt þat er unadligt[6] er i heiminum.« Valerianus svaradi: »Ek sa um vor[7] [galausa menn leika aa velle um dag, en skamt fra þeim sa ek akrkarlla vinna erfidliga aa iordu, suma hauggva þorna upp, ok hreinsudu iordina, en sumir fagudu vingarda ok settu nidr alldintre. Þa toku leikmenn at hlæia at verkmonnum ok mælltu sva: Leggit nidr, væsalir, þetta erfidi onytt ok leikit helldr med oss, ok farid med oss til dryckiu, ok medit (ydr) eigi aa erfidi sva, ærir menn! En er þeir hofdu þetta (mællt), þa skelldu (þeir) saman hondum ok hlogu at verkmonnum. Sumar kom eptir vor þat sem hvert annat, ok toku akrar manna at friovazt, ok baru alldintre godan[8] aavoxt aa ser, ok skina allir til þessa (dags) vellir, þeir er verkmenn fagudu, med faugrum bloma ok godum ilm. Þa faugnudu þeir, sem ærir voru taldir, en hinir

1 [ eilifar pislir ranglatra; en þeir eru vesalir, er dyliaz vid þat, er þeir sia eigi likams augum *C.* 2 [ *mgl. C.* 3 oskynsamr *C.* 4 [ oevanlegr madr dęmir rett um allt *C.* 5 [ Svara þu mer hyggilegar en brodir þinn, þviat hann er hofudodr ordinn *C.* 6 blidlegt *C.* 7 *saal. C; dag B.* 8 [ ofdrykiomenn hlęgia ok glediaz, en þar stodu akrkallar hia ok skaro upp þorna ok hreinsudu akrland, en sumir settu nidr alldentre ok giordu apalldrsgard eda vingard;

þottuzt[1] heimskir vera, er sott ok hungr eyddi þeim, ok toku þeir þa at grata ok idraz inndęlis sins, ok męlltu þeir med ser: »(Ver toldum at) þessum monnum helgum, at ver ręgdum ok fyrirdęmdum ervidi þeira ok lif þeira ok toldum þa heimska vera ok valada, en þeir voru spakir, en ver vorum heimskir ok ęrir, er ver unnum eigi sialfir ok veittum eigi fullting vinnendum, helldr hlogum ver at þeim er unno, ok ętludum[2] þa ęra vera, er nu siam ver skina i fegrd.« Almachius męllti: »Vitrlega er þat męllt, en ekke kemr þat til þess er ek spurdi.« Valerianus svaradi: »Þu taldir a okr, at vit veitum aura okkra voludum monnum ok tokum vid utlendum monnum ok biorgum fodurlausum bornum ok veitum gofuglegum guds vinum groft; þu telr oss ęra vera, er ver gleymum eigi eda hlęgium med galausum monnum, ok synomz eigi prudbunir fyrir augum alþydu. En su tid mun koma, er ver munom taka laun ervidis vors, ok munom ver þa fagna, en þeir muno grata, er nu dramba i fagnadi sinum. Nu er su tid at dreifa ok at sa akrenn, ok skolu þeir fognod upp skera, er her kasta nidr fogn(o)di.« Greifenn męllti: »Segir þu þat, at ver ok konungar mune hafa eilifan grat, en þer muned hafa eilifan fognod?« Valerianus svaradi: »Hvad ero þer eda konungar ydrir nema himandi manneskiur i heime þessum um stund, ok monu deyia af stundo ok skolu giallda þa skynseme gudi fyrir verk ydur ok velldi þat er hann gaf ydr.« Almachius męllti: »Eigi þarf fleiri um þetta at hafa, bloti þid godum vorum ok farit omeiddir i braut sidan.« Valerianus svarar: »Hvern dag fęrum vit foru almatkum gudi, en eigi fleirum.« Almachius męllti: »Hverr er einn gud sa er þid þionet?« Valerianus svaradi: »Eingi er annarr gud nema sa einn.« Almachius męllti: »Segi þid nafn þess ens eina guds, er þid gofgit.« Valerianus svaradi: »Nafn guds montu eigi finna, þott þu męgir fliuga.« Almachius męllti: »Er eigi Odenn gud[3]?« Valerianus svaradi: »Hordomsmadr var hann ok manndrapsmadr ok odadamadr, at þvi er skalld ydur segia. En ek undrumz þat, af hvi þu kallar hann gud, þviat eingi ma gud kallaz, nema sa er

ok unno þeir ervidlega. Þa toku leikmennernir at hlęgia at þeim ok męlltu vid þa: Leggit nidr, vesęlir, þetta hit onyta verk ok ervidi, en etit ok drekit med oss, ok mędit ydr eigi i svo miklu ervidi. Þa ępto þeir at verkmonnum ok kvodu þa ęra vera ok skelldu lofum saman. Sumar kom eptir þann vetr, ok rann up akr a velle verkmanna med ollum fogrum bloma ok dyrlegom grosum, ok baro alldentre þeira allzkyns *C.* 1 *Her ender B.* 2 ęlltudum *C.* 3 *Lat.:* Jovis ergo nomen non est deus.

syndalaus er ok allra dada er fullr.« Almachius męllti: »Segi þid þat, at þid brędr kunnit sannan gud, en allr heimr villiz?« Valerianus svarar: »Otallegr lydr hefir vid cristne tekit, en þer erud helldr fair, er til einskis erud maklegir nema til þess at kasta ydr i elldd.« Þa reiddiz Almachius ok let beria hann stongum. En Valerianus męllti med fagnadi: »Sia dagr er mer hverri hatid gladari, þessar stunddar æskta ek mer aavallt.« Kvalamenn baurdu hann ok męllto: »Hird eigi þu at lasta god vor ok gydior.« En Valerianus kalladi aa lydinn ok męllte: »Hyggit þer ad, Romaborgar menn, ad eigi styggve ydr sia pisl min ne teygi ydr fra sannleik, helldr standi þer upp hraustlega ok fyrirlitid god þau er Almachius gofgar, þviat i eilifri kvol muno þeir vera, þeir er þau gofga.« Þa męllti radgiafi greifans, en sa het Tarqvinus: »Skynd þu pisl þeira, þviat ger er sokin, en ef þu dvelr dag fra degi, þa muno þeir veita alla aura sina, ok muntu ekce þat finna.«

Capitulum.

9. Þa mællti greifinn, at þa bada brędr skylldi leida til Odens hofs ok neyda þa til blota, en hoggva bada, ef þeir villde eigi blota. En sa het Maximus, er þa leiddi til blothofsens. En hann męllti vid þa med tarum: »Hverr kom sva grim(ri) ędi at ykr, at þid villdud glata fegrd (ok) ęsku ykkarre, ok langit sva til dauda sem solltenn madr til krasa?« Tiburcius svaradi: »Alldri munom ver fysaz at tyna þessu lifi, nema ver vissum fyrir, at annad lif er eilift eptir.« Maximus męllti: »Hvert ma annad lif vera en þetta?« Tiburcius svaradi: »Sva sem likamr skrydiz klędum, sva skrydiz onnd likam, ok ferr onnd or likam, sem madr ferr or klędum, ok ferr þa likamr i molld, sa er or molldu var skapadr, ok bidr þadan oordinnar upprisu, en ond er leidd til paradisar sęlu, ef hun er heilog, ok bidr þadan tidar upprisu sinnar.« Maximus męllti: »Fysaz munda ek at hafna þessum heime, ef ek mętti vist vita annad lif, þat er þid segit vera.« Valerianus svaradi: »Ef þer er þess eins vant at algiorre tru, at þu villt reyna, hvort vit segium satt eda eigi, þa mun drottenn luka up augo þin a þeire tid, er vid brędr leggium nidr likame okkra iardlega fyrir guds nafne, ok muntu þa reyna dyrd hins oordna lifs, ef þu heitr þvi, at þu muntt af ollum hug idraz villu þinnar.« »Synit þid mer þat er þid hetud, qvad Maximus, en ek verdi þa elldingu lostinn, ef ek iata eigi þeim gudi einum, er

annat lif gerir eptir þetta lif.« Þa męlltu badir brędr: »Fa þu þat af pislarmonnum i dag, at þeir dvele pisl ockra, ok leid okr til hus þins, ok siem vit þar vardveittir i nott; en vit munum þangat koma þeim manne, er þig mun hreinsa af synda saure a þesse nott, ok muntu þegar sia þat, er vit hetum þer.« En er Maximus leiddi þa til hus sins, þa tok hann tru af kenningum þeira ok hiu hans oll, ok biuggudz til pisla allir þeir, er þeim fylgdu til hofsens. Þa kom heilog Cecilia til þeira um nottina med kennemonnum, ok voru allir skirdir, þeir (er) tru toku. En er morgenn kom, þa męllti Cecilia vid þa: »Heilagir Kristz[1] riddarar, verpit[2] af ydr myrkra verkum ok skrydiz liosi, gott hafit þit þreytt ok lokit vel erfidi ok vardveitta tru; farit nu til dyrdarlifs, þess er rettlatr domandi gefr yckr ok ollum þeim, er elska hans tilkvomu med godum vilia.«

### Um pining brædra.

10. [Bær sa var fiorar milor fra Romaborg, er þiodgata læ fyrir framan dyr hia hofi Þors, ok var hverr pindr, er eigi villdi blota Þor[3]. En er helgir brædr komu þangat ok villdu eigi blota skurdgodinu, þa voru þeir þar[4] sverdi slegnir, ok skilduz vit likamligt lif, ok toku þeir vit[5] eilifa dyrd. Þa leit Maximus til himens ok mællti þetta: »Ek sa eingla guds skinandi sem sol a þeiri stundu, sem þeir voru hôgnir brædrnir, ok sa ek andir þeira i liking biartra meyia, þa er þær skilduz vit likami, en einglarnir toku þær i fadm ser ok flugu til himens med þær.« En er Maximus sagdi þetta med tarum, þa toku margir tru af ordum hans ok hurfu fra blotum skurdgoda. En er Almachius fann þat, at Maximus var kristinn ordinn ok hiu hans oll, þa let hann taka hann ok beria blyvondum[6] til bana, ok for hann til þess lifs, er hann trudi ok elskadi. En Cecilia [grof likam hans hia þeim Tiburcio ok Valeriano, ok er þeim ôllum saman minning halldin um vorit .xi. nottum fyrir gagndagenn eina[7].

1 *Med dette Ord begynder atter A.* 2 kastit *C.* 3 [ Stadr var kalladr Pagus, sa var fiorar milur fra Romaborg, þar la þiodgata i gegnum Odens hof, en menn voru fengnir til at pina hvern þann, er þar gekk inn, sva (at) eigi blotadi skurdgodum eda ofradi þeim nockuro *C.* 4 þegar teknir ok grimlega pindir ok sidan med *tilf. C.* 5 *mgl. C.* 6 blysvipum *C.* 7 [ tok likam hans ok lagdi hann i nygia ste(i)nþro hia þeim brędrum *C.*

alla giora hluttekendr[1] ens eilifa lifs.« En sva var gert, sem hun mællti. Þa kom Urbanus pafe ok skirdi i husi Cecilie meir en .xl.[2] manna. En sa er þeira var æztr het Gordianus, hann lagdi sina eigu a huss Cecilie, til þess at Urbanus pafe [mætti þar wera, ok kristnir menn sækti þangat leyniliga tidir hans ok kenningar. En þott þar væri leyniliga guds þionosta framin, þa sômnoduzt þar hvern drottinsdagh nockurir gudi til handa fra diôfuls velldi.[3]

### Fra Cecilie ok greifa.

12. Eptir þat let Almachius leida Ceciliam fyrir domstol sinn ok mællti vit hana: »[Hverrar kindar[4] ertu?« Cecilia svaradi: »Ek em [gôfugra manna ok tiginna[5] ath kyni.« Almachius mællti: »At tru þinni spurda ek helldr en ath kyni.« Cecilia svaradi: »Heimsliga hefzt spurning þin, er [þu ætladir i einu ordi mega lyktazt þat, er tvenn svôr liggia til[6].« Greifinn mællti: »Hvadan kom þer [svo mikil dirfd til ath svara mer svo, tignum manni[7]?« Cecilia svaradi: »Af godu [viti ok ologinni[8] tru.« Almachius mællti: »Weiztu eigi, hvert welldi ek hefi?« Cecilia svaradi: »Þu veizt eigi sialfr, hvert velldi þu hefir; en ek munda segia þer, ef þu spyrdir mik eptir velldi þinu.« Almachius mællti: »Seg þu, ef þu þickizt vita.« Heilôg Cecilia svaradi: »Allt welldi manna er sem [vin(d)bollr se blasinn, er svo syniz sem fullr se ok þrutinn[9], en hann visnar allr, þott einni nalo se stungit a honum.« Almachius mællti: »Af oskilum hoft þu maal þitt, ok helldr þu enn þeim.« Cecilia svaradi: »Þat er oskila mal, ef madr lygr; þvi finn þu sonnur a þvi, ef ek hefi logit, ella hirtu sialfan þik, ef þu mælir lygi.« Greifinn mællti: »Veiztu eigi, ath konungar vorir budu at pina þaa menn, er eigi neita sik kristna vera, en lata hina undan ganga, er þvi neita?« Heilôg Cecilia svaradi: »Konungar ydrir villazt sialfir sem þer, ok lôg, [þau sem þu kallar konunga ydra sett hafa, syna, ath þer erut grimmir, en vær saklaus; þviat ef nafnn þetta væri eigi gott, þa myndim vær

1 *saal. A og C.* 2 fioratugu *C.* 3 [ skylldi þar mega leynaz ok adrir cristnir menn med honum. En at hverium drottinsdegi somnuduz þangat leynelega nockurir, þeir er toku tru ok hurfu fra heidni *C.* 4 [ hvers kyns *C.* 5 [ gaufug ok tigin *C.* 6 [ tvenn svor liggia til einnar spurningar *C.* 7 [ sia dirfd at svara sva kynduglega *C.* 8 [ hugskoti ok sannri *C.* 9 [ belgr blasenn, sa (er) þegar slaknar ok vesnar *C,*

þrautarlaust neita þvi, en þer mundit ok eigi neyda oss til med pislum[1] at iata.« Almachius mællti: »[Lòg þessi settu þeir fyrir milldi sinnar sakir, at þer mættid vel lifa.« Cecilia svaradi: «Ecki er sidr milldlikt ok gagnstadligt enu retta[2], en læta þa undan ganga omeidda, er þer reynit ath sònnu, at sekir se, en oss, er þer vitit at saklaus erum[3], gefit þer nafn eitt ath sauk, ok þat nafn, er vær vitum vist ath heilagt er, ok maa þat med eingum kosti verda, ath vær neitim þvi, þviat betra er at deyia sælliga en at lifa vesælliga. [Vær segium satt, en þer beidit oss liuga, þvi kvelium vær ydr meir i reide, en þer oss i pislum[4].« Almachius mællti: »Kios þu nu [um tvo kosti, annattveggia at þu seg, at þu ert eigi kristin, ok skallt þu þa undan ganga, eda þu mant elligar (eigi) fordazt pislir[5].« Þa brosti en sæla Cecilia ok mællti: »[Se þar domanda berliga hneyktan fyrir ranglæti sitt; hann beidir, ath ek neita sakleysino, en ægir pislum, ef ek neita eigi. Ef þu vill mik fyrirdæma, hvi beidir þu þa, at ek neita sakleysinu? En ef þu vill mik lata undan ganga, þa matt þu reyna hit sanna[6].« Greifinn mællti: »Nær eru þeir nu, er þik rægia ok segia, at þu ert kristin. [En ef þu neitar þvi, þa skolu rogsmenn þinir giallda lygi sinnar, en ef þu villt eigi neita, þa skalltu giallda heimsku þinnar[7].« Cecilia svaradi: «Róg þeira er mer þekt, ok pisl su er þu ægir mier, hun er mer sigr. En þu [þarft eigi at ætla mik heimska, helldr ertu sialfr heimskr, er þu ætlar[8], at ek muna neita Kristi.« Almachius mællti: »Veiztu eigi, vesòl, þat, at mer er gefit valld af konunginum at lifga ok at deyda, ok mælir þu þvi af svo miklo drambi.« Cecilia svaradi: «[Annat er dramb en annat er stadfesti.[7] Ek mæli af stadfesti vit þik, en eigi af drambi, þviat [ek ræki[9] ofmetnad ok dramb; en ef þu [skammadiz eigi at heyra hit sanna, þa man ek þat syna, at þu hefir

1 [ þeira syna ydr grimma en oss saklausa, þviat ver mundum neita þessu nafne, ef þat vęri illt, en þer mundud neyda oss *C.* 2 *rettet;* ena rettu *A.* 3 [ Af milldi sinne settu þeir þessi log, sva at þeir gefi hęgrędi lifi ydru. Cecilia svaradi: Ekke er iafngrimt ne iamgagnstadlegt rettlęti sem laug ydr, er þer latit alsakada menn undan ganga, en þer fait oss sakir, er þer vitit saklausa vera *C.* 4 [ *mgl.* *C.* 5 [ annatveggia, at þu neita þik cristna vera ok fordazt sva pislir, ellegar mun ek lata pina þik morgum pislum til bana *C.* 6 [ Villtr er domande sia, er þess beidir, at ek liuga ok neita ek menn saklausa vera. Ef þu villt fyrirdęma, hvi beidir þu at ek liuga, en ef þu villt undan leysa, fyrir hvi villtu þa eigi spyria hins sanna *C.* 7 [ *tilf.* *C.* 8 [ matt eigi saka mik um heimsku helldr sialfan þik, er þu hyggr *C.* 9 [ ver orękinum miok *C.*

berliga logit, svo at alþyda maa þat reyna[1]. Greifinn [mællti: »Hvat hefi ek[2] logit?« Heilôg Cecilia svaradi: »Þu sagdir konunga þina hafa gefit þer velldi at lifga ok at deyda, þar sem þu hefir til þess eins velldi tekit, at þu megir deyda, þviat þu matt taka lif fra lifendum en gefa eigi lif daudum. Seg þu ok þa, at konungar þinir letu þik verda dauda þion, en þu lygr, ef þu segir þik nockut framarr hafa tekit valld af þeim.« Almachius mællti: »Legg nidr þu þegar dirfd þina ok blota gudum vorum.« Cecilia svaradi: »Hvar mistir þu augna þinna, er þu segir þat gud vera, er ek ok allir [heileygir menn[3] mega sia, ath steinn er ok bly eda eir.« Almachius mællti: »[Standaz matta ek þat, þott þu hneyktir mik i ordum, en þat ma ek eigi standaz, er þu fælir gudin[4].« Cecilia svaradi: »Sidan er þu laukt munn upp, þa [mælir þu ecki, nema annathvart fylgir heimska eda lygi, en nu synir þu þik blindan likams augunum sialfum[5], þar er þu kallar þat gud þin vera, er vær siaam oll, at stockr ok steinn er. [Nu man ek kenna þer raad, ef þu will, freista ok þreifa wm, ok vit, ef þu megir kenna handanna, þo at þu hafir mist synarinnar[6]; þviat usæmiligt er, ath allr lydr hlæi at þer, þviat hverr madr veit, at gud er a himnum, en þessi [mannlikan væri nytri, at brend wæri til líms, er nu eru þau at eingu nyt ok mega hvorki biarga ser ne ôdrum[7].

**Pinsler Ceciliе.**

13. Þa reiddizt Almachius ok let [heim leida Ceciliam til husa sinna ok let þar giora[8] elld mikinn. En er hun var byrgd i svo miklum hita, þa stod hun dag þann allan ok nottina osaukut svo sem i kaulldum stad, ok eigi sveittizt hun. En er Almachius fra þat, þa sendi hann mann til at hôggva hana þar þegar inni i hitanum. En sa hio til hennar þrysvar ok matti eigi hoggva

1 [ hrędiz eigi at heyra satt, þa lattu af at liuga ok hlyda sonnu *C.* 2 [ *saal. C;* svaradi, hvat hann hefdi *A.* 3 [ *rettet*; heileigir menn *A*; þeir er heil augo hafa *C.* 4 [ Bera matta ek þolinmodlega mina meingiord, en þat mun ek þer eigi sittia, at þu hallmęlir godum vorum *C.* 5 [ męlltir þu þat eitt, er heimslegt var ok onytt, en nu synir þu þig blindan at likams augum sem at hugskoti *C.* 6 [þreifa þu hondum um, er þu matt eigi sia *C.* 7 [ likneski vęri maklegri til þess, at stręti veri þiliud med þeim, er nu standa hier onyt ok mega hvorki biarga ser ne odrum, þo þeim se i elld kastad *C.* 8 [ kasta Cecilio i brennanda bal oc let kynda *C.*

hôfut af henne; en þat voru lôg þeira at hôggva eigi optar enn sama mann. En hin sæla Cecilia [lifdi þria daga i saarum ok let eigi af at styrkia meyiar þær, er hon hafdi fæddar, ok skipti hun med þeim allri eigu sinni ok fal þær sa hendi Urbano pafa, ok mællti hun vit hann: »Til þess bad ek þriggia daga frest af drotni minum, at ek fæla þer a hendi þessar meyiar, ok leta ek hus mitt til guds þionostu.« En er hin helga Cecilia andadiz, þa grof Urbanus pafe likam hennar hia lagsmonnum sinum helgum byskupum, þar sem grafnir voru margir pislarvottar guds ok iatarar; en hann let kirkiu gera or husi hennar, ok verda þar margar iarteinir i minning heilagrar Cecilie veittar af drottni vorum Jesu Kristo, þeim er (med) fedr ok helgum anda lifir ok rikir einn gud i þrenningu um allar alldir allda[1]. Amen.

### Um iarteignagerd Cecilie.[2]

14. Þorgils het madr, hann tok fotarmein mikit, ok laust verk i knelidinn, ok brendi læknir med iarni undir kneskelina innan fotar, ok fell or vogr mikill. Þa var hafdr i keri, ok giôrdizt sa hol mikit, ok laust i akafligum verk, ok bles allan fotinn; þa er hann stod sa hinn heila fot, toku tær en(s) saara fotar

1 [ hafdi margar heilaglegar kenningar fyrir meyium sinum, medan hon lifdi, ok bad będi ser ok odrum eilifrar myskunnar af allzvalldanda gudi, ok bad þęr stodugar (vera) i tru sinne ok minntiz vid þęr allar. En sidan andadizt hon af sarum þeim, er hon var hoggvin, ok toku einglar sal hennar ok fluttu til himna i eilifa dyrd. En sidan kom Urbanus pafi med kennemonnum sinum ok toku likama hennar ok smurdu med dyrum smyrslum ok grofu med mikilli dyrd, þar sem grafnir voro pislarvottar guds ok byskupar. En hann giordi kirkio or huse hennar gudi til lofs ok dyrdar ok sancte Cecilio, ok verda þar margar guds iarteignir i minning sancte Cecilio allt til þessa dags, ok hverr sem a hennar nafn kalladi ser til myskunnar ok hialpar, i hverium naudum sem hann var staddr, iamvel þo at siukir menn eda sarir eda hvad sem at meine var; sva ok ef menn kolludu a nafn sancte Cecilio ser til hialpar eda fenadi sinum eda gripum, ef siukt vard eda lama, dautt eda meitt, þa veitti allzvalldandi gud fyrir arnadarord sancte Cecilio iamskiott hialp ok myskunn þeim ollum ok reisti upp af dauda bęđi menn ok fenad, sem vida er getit i iarteignum sancte Cecilio bęđi i odrum londum ok hier, þo þęr se eigi hier sk(r)ifadar. Nu beidum ver þess allzvalldanda gud ok sancte Cecilio, at þau sendi heilags anda nad i vor hiortu bęđi heyrendum ok lesendum, svo at ver hofnum ollum illum hlutum en vegsomum gud at eilifu *C.* 2 *Capp. 14 og 15 findes kun i A.*

iafnsitt aukla. Honum var fylgt til Husafellz til Þorarins ok Brandz, þviat hann var frændi þeira. Hann kom þar faam nottum fyrir Cecilio messo. Gudrun Ospaksdottir modir Brandz hafdi mikla virding aa Ceciliu ok let heilagt dagh hennar ok fastadi fyrir. Þa var eigi lôgheilagr dagrinn. Þar skylldi syngia messu um daginn, þviat þar var þa eigi heimilisprestr. Þorgils beiddiz at fasta um daginn fyrir ok svo nottina. En menn lauttu, ath hann fastadi siukr madr. Þorarinn mællti, at hann skylldi fasta, ef hann villdi, ok kvad þat ecki mundu standa fyrir heilso hans. Hann for i hvilu um kvelldit, ok sofnudu menn, ok stundu fyrir dag voknodu menn wit þat, er Þorgils kalladi hátt ok mællti: «Gud hialpi oss ollum, ek em heill ordinn.» En fyrir voveifligan atburd ugdu menn, at witfirring mundi at honum komin. En Þorarinn mællti, at lios skylldi gera ok vita, hvat um leid. Ok er lios kom, sat Þorgils upp i reckiunni, ok laagu rettir fætr hans baadir ok voru þa iafnlangir. Þa for Brandr Þorarins(son) til at sia, ok fleiri menn, ok spurdi, ef hann vissi nôckut til, hveriu um sætti. En hann sagdi, at honum þotti .ii. illiligir menn koma at ser, tok annarr i haar honum, en annarr um fotinn sara, ok kiptu honum or reckiunni, ok var honum miok illt vit. Þeir drogu hann ut, ok var myrkt uti, baro þeir hann stundum, en drogu stundum, ok foru illa vit hann. En hann bad þa eigi kvelia sig sva miok. Þeir kvoduz honum þangat skylldu koma, sem miklu væri verra, ok saugdu hann sinn mann vera. Þa þottizt hann heita a gud almatkan til miskunnar ok aa helga menn til arnadarordz, ok þotti honum eigi skipaz vit. Sidan tok annarr þeira i briost honum ok sleit or honum hiartad, ok vard honum svo illt vit, sem þa mundi, ef þat væri at honum giôrt, ok þa aurvænti hann ser fulltings. Þvi næst brá yfir hann liosi miklu, ok syndizt honum kona ung ok frid, ok hafdi dregil um hôfud, ok fell fagrt haar aa herdar henni. Hun tok um handlegg honum, þa stucku fiandr aa brôtt, en hun tok hiarta hans or hendi annars þeira ok lagdi aptr i briost honum, ok fylgdi honum sidan til reckiu sinnar ok mællti vit hann: «Illa vartu staddr, Þorgils, sagdi hun, þer er þetta draumr, en þo er sva sem þu vakir; þu ert ordinn fyrir reidi guds af galeysi þinu, þvi vartu selldr diôflum, at þer var synt, hvers þu vart verdr. En af þvi sleit annarr þeira hiarta or þer, at þa tok hann vit fra þer, ok mundir þu vakna or svefni þessum eigi þer til nytia helldr til hadungar, ok mundir þu vitlaus vera, medan þu lifdir. En ek sa aumr aa þer, af þvi ath þu

[illegible] fyrir [illegible] ok [illegible] Nu [illegible] ok [illegible] þer [illegible] þu [illegible] fyrir Andres messu þria [illegible] ok [illegible] þer [illegible] þu [illegible] þer ok [illegible] þer ok var [illegible] þu [illegible] ok [illegible] þu [illegible] hedan af [illegible] þurfa [illegible], af þvi at þer [illegible] at [illegible] vid þat er þu [illegible] fyrir [illegible] Sidan [illegible] fyrir [illegible] ok [illegible] i [illegible] ok [illegible] þar [illegible] ok [illegible] til mikla ok [illegible] ok þa [illegible] Sidan litu menn a [illegible] ok var af [illegible] ok [illegible] þar i [illegible] en dilinn var [illegible] ok [illegible] ok var leitad. Þorgils geck [illegible] til messu [illegible] med [illegible] fætr. Hann lifdi þria vetr þadan ok [illegible] ok andadiz hinn næsta dag fyrir Andres messu.

### Iarteign gerr Hallbirne.

15. Hallbiörn het madr, er bio i Hvitarsidu i Hvammi. hann dreymdi um vetrinn eptir allra heilagra messu, at hann væri i lambahusi sino, en lambin þustu at honum, ok vard hann undir fotum þeim; þau gengu bædi a hôfud honum, ok allan hann trodu þau undir fotum, ok vard hann hræddr miok ok þotti ser vit bana bætt, ok het hann i hug ser at fasta fyrir Cecilio messo. En hann var þvi ecki vanr adr. Sidan vaknadi hann or svefni þessum ok fandi þat, er hann þottiz heitid hafa. En fimtunottina fyrsta i iolafostu vaknadi hann or svefni vit þat, at odaverkr var kominn i hôfut honum, en hann var sva daufr ordinn, at hann matti eigi heyra, þott æpt væri at honum. Þessum vanmætti hellt halfan manud. En fimtunott i ymbrodaugum dreymdi hann, at kona kom at honum ung ok frid, hun hafdi dregil um hôfut, ok fell haar fagrt aptr a herdar henne. Hon mællti: »Þunkt mattu, Hallbiorn, ok ma vera, at sia vanmattr þinn halldizt þria vetr; en ek man kenna þer raad: far þu upp til Husafellz ok lat Brand Þorarinsson gera at þer, en ek man beina at med honum, þviat ek a þar heima.« Þa vaknadi Hallbiörn ok sagdi drauminn, »ok trui ek þvi, sagdi hann, at ek man þar heilso fa, sem mer er til visat.» Þa villdi hann þegar fara, en menn lauttu

hann þess ok ætludu, ath vera mundo hôfutorar þat er hann mællti. En bædi hôfutverkir hans ok deyfi þa hellduzt. Siônda dag iola foru þau Hallbiôrn ok Vilborg upp i aas til Hrafns brodur hennar, ok voru þar um nottina. Hrafn latti, at þau færi leingra. En er Hallbiôrn fann, at dvaldizt faurin, þa mællti hann: »Fara man ek, þott ek fara einn.« Ok geck ut. Hon geck þa ut eptir honum, ok foru þau um daginn upp til Husafellz, ok er þau komu þar, þa sagdi Hallbiorn atburd meinsemdar sinnar. Þau voru þar um nottina, ok bad Vilbôrg Brand gera at meini Hallbiarnar, sagdi, at honum voro ord til send. En hann kvedz eigi kunna, en þo let hann baka hôfut hans, ok tok fiadrstaf ok setti i eyra honum ok ætladi at heimta or blod. En hann matti þat eigi nyta fyrir þeim sarleik, er i var hlustinni, ok var þa lokit atgerd Brandz. Þar dvolduz þau hinn niunda dagh iola. En um kvelldit er menn satu undir bordum, þa bad Vilborg, at Brandr mundi nockuro heita fyrir honum. Hann lagdi þat til, at þau hion fastadi .vi.dægru fyrir Cecilio messo, medan þau lifdi, ok leti heilagt um daginn, ok hiu þeira ôll, medan þau væri i bui; en þa var eigi messudagr hennar i lôg leiddr; þau skylldu gera kerti þat, er tæki um hôfut honum, ok senda til Husafellz hvern vetr at hatid hennar. Sidan foru þeir i reckiur, ok litlu fyrir dag gengu þau or rumi Hallbiorn ok Wilborg, ok spurdi madr, hversu hann mætti, en hon sagdi saman matt hans. Ok er þau komu i reckiu, sofnadi hann fast. En Brandr reis upp at hringia til tida, ok er klockan kvad vit, þa vaknadi Hallbiôrn ok for þegar i klædi sin ok geck ut til kirkiu. Þa geck kona nôckur inn i skalann ok vakti Sigvat prest ok sagdi, at Hallbiorn var heill ordinn. Sidan for hann til kirkiu, ok fagnar Hallbiorn honum vel. Prestr spurdi, hvort hann heyrdi iafnt badum eyrum, en hann letz sva heyra, sem hann hefdi alldri daufr verit; segir sidan, ath þa er hann kom i hviluna, sa hann lios mikit um skalann allan; þa kom kona upp i reckiugolfit ung ok frid ok fôgr, ok hafdi dregil um hôfut, ok haar fell aptr a herdar henne; hun mællti vit hann: »Þess skalltu at niota, er þu hetzt a mik ok fastadir fyrir dag minn.« Þaa lagdi hun hendr sinar yfir hôfud honum ok eyro, en hann vaknadi alheill. Sidan for hann heim enn tiunda dagh iola ok þackadi gudi heilsu sina ok hinni helgu mey Cecilie. per omnia secula seculorum. amen.

---

# CRUCIS LEGENDÆ.

## I.

## ORIGO CRUCIS.

*(Cd. 544 qv., Hauksbók).*

**Huadan kominn er + drottins.**

Sva er sagt siðan Adam hafði syndina gerua i paradiso ok hann var þaðan brott rekinn i einum skinnstakki firir syndina, þa bað hann guð miskunnar firir ser ok sinu afkvæmi; var honum þa heitið af guði, at við enda heimsins skylldi guð gefa honum miskunnar oleum, er allt hans kyn skylldi grœða. Var Adam siðan ok hans kona Eva sett niðr i dal þeim, er Ebron heitir ok hann var skapaðr i a Iorsalalandi, ok þoldu þau þar mikit erfiði ok iðruðuz iafnan glœps sins. Þau bygðu þar ok attu mart barna, ok var siðazti sun þeirra Seth, er guð gaf þeim i stað Abels, er Kain hafði drepið. Adam hafði lifat .ix. c. vetra ok .ii. vetr ok .xxx. i dalnum Ebron, ok einnhvern dag studdi hann sik með oxi sinni ok tok at ryggiaz ok hugleiða mart, þviat hann sa mikinn vandskap upp renna i heiminum af sinu afkvæmi, ok leiddiz honum þa lengr at lifa. Hann kallaði þa til sin Seth sun sinn ok mælti til hans: «Sun minn, ek vil senda þik til paradisum til Cherubin engils, er geymir lifstresins með loganda sverði.» Seth svaraði: «Ek vil giarna fara, hvert er þu byðr mer, ok visa mer vegenn ok seg mer, hvat ek skal englinum segia, þeim er þu sendir mik til.» Adam sagði: «Seg englinum, at mer leiðizt at lifa, ok bið hann af minni halfu kunnigt gera þer ok mer um þat miskunnar oleum, er guð het mer, þa er hann rak mik or paradiso.» Þa er Seth var til þessar ferðar buinn, sagði Adam, at hann skylldi ganga i austr, ok «mantu hitta einn dal firir þer, ok man þar upp

hefiaz vegr grœnn, ok at þu kennir þann veg giorr, þa mantu hitta fotspor min ok moður þinnar svarðlaus ok svort, þau er við gengum, þa er við vorum rekin ór paradiso ok hingat i þenna sorgardal. Enn sva voru storar syndir okrar, at alldri siðan vox þar grœnt gras, er við gengum, þa er við vorum or paradiso rekin, þar til er við komum hingat.» For þa Seth til paradisum eptir tilvisan foður sins, ok er hann kom i vegenn, þa undraði hann liosit ok skinit, er i paradiso var, ok fell til iarðar af ræzlu ok hugði, at þat væri elldz lios, er faðir hans hafði varað hann við, at hann skylldi signa sik marki þvi er Bethel heitir firir liosinu, ok komzt Seth sva með heilu fram til paradisum. Þa er engillinn sa Seth, þa spurði hann, hvi hann var þar kominn. Hann svaraði: «Faðir minn Adam moðr af elli, er nu leiðiz at lifa, sendi mik hingat ok biðr, at þu virðiz at tia honum með mér sannindi af þvi miskunnar oleo, er guð het honum.» Engillinn svaraði: «Gakk til paradis dura ok rett inn hofuðit eitt ok geym at vandliga, hverir lutir þer synaz i paradiso.» Ok hann gerði sva. Ok er hann hafði inn rett hofuðit um dyrnar, þa sa hann sva mikla fegrð, at engis mannz tunga matti or leysa, i ymsum kynum avaxtar ok blomstrs, fuglasong ok utoluligum ilmum ok sœtum þef. I miðri paradiso sa hann hina skieruztu kelldu, or þeirri kelldu runnu .iiii. ar, er sva heita Phison Geon Tigris ok Euphrates. Enn þessar .iiii. ar fylla vatni heim allan. Enn ifir kelldunni sa hann apalldr einn standa með morgum greinum ok þo barklausan. Hann undraði miok, hvi þar var barklaust, ok er hann minntiz a fotspor foður sins, er hann hafði i veginum sét svort ok graslaus firir synda hans sakir, með sama hætti þottiz hann vita, at þetta tre var svart sakir synda foður hans ok moður. Siþan veik hann aptr til engilsins ok sagði honum allt, þat er hann hafði sét. Enn engillinn bauð honum at ganga aptr annan tima, ok er hann kom aptr, þa sa hann orm einn, er skreið umhverfis apalldrinn þann nokta. Ok er hann hafði þetta undraz, þa veik hann enn aptr til engilsins. Þa bauð engillinn honum þriðia tima aptr at vikia ok geyma giorr at, hvat honum syndiz. Enn þa er hann kom aptr, þa sa hann fyrr nefndan apalldr uppvaxinn til himna, ok efst uppi i kollinum apalldrsins sa hann barn eitt gratanda ok sveipt i klæðum. Ok er hann undraði þetta, ok hann leit niðr firir sik, þa sa hann rœtr apalldrsins smiuga i gegnum iorðina allt niðr til helvitis, ok þar kendi hann salu Abels broður sins. Ok er hann hafði þessa luti sena, þa vikr hann aptr til engilsins ok segir honum allt, þat er

hann hafði sét. Þa mælti engillinn: «Sveinbarn þat er þu sátt er guðs sun, hann man af skrapa syndir foður þins ok moður, þegar fullnaðr timans er kominn; hann er þat miskunnar oleum, er þeim var heitið, hann er rett oleum ok milldleikr sannrar elsku.» Þa er Seth villdi brott ganga, ok hann þottiz val syst hafa sitt erendi, þa fekk engillinn honum .iii. korn or epli þvi, er faðir hans hafði etið, ok sagði honum: «Innan þeirra þriggia daga, er þu kemr heim, man faðir þinn andazt, skalltu þa þessur korn leggia undir tungurœtr honum dauðum. Enn þau munu vaxa i .vii. apalldra stora. Man einn verða cedrus, annarr cipressus, þriði pinus. I cedro undirstondum ver foður, i cipresso sun, i pino andann helga. I cedro undirstondum ver foður, þviat hann er vanr at vaxa ǫllum apolldrum hæra. Cipressus, er ollum apolld(r)um þefkar betr, ter oss sœtleik sunarins. Enn pinus, er marga kiarna berr, ter oss margfalldar giafir anda hins helga.» For þa Set heim ok kom heill til foður sins ok moður. Þa er Seth hafði upp tint firir foður sinum allt þat, er hann hafði sét ok heyrt af englinum, þa gladdiz faðir hans ok ló viðr. Enn a ollum lifdogum Adáms, fra þvi er hann var or paradiso rekinn, sa engi maðr hann lægia fyrr enn þa. Ok er hann var sannfroðr orðinn af miskunnar oleo, þa kallaði hann til guðs ok mælti: «Herra minn, lif mitt er nu nóg langt, tak þu nu brott sál mina». Ok innan þeirra þriggia daga er Seth kom aptr or paradiso, þa andaðiz Adam, eptir þvi sem engillinn hafði firir sagt. Seth sun hans iarðaði hann i dalnum Ebron ok lagði undir tungurœtr honum þau .iii. korn, er engillinn hafdi fengit honum, af hverium er upp runnu .iii. teinungar or munni Adams, ok stoðu með grœnu aldini bæði vetr ok sumar. Enn sva segiz, at þa er guð bauð Moisi at fara til Egipta landz at frelsa þaðan folk sitt, at hann tok af þessum viði þa .ii. vǫndu, er hann fekk Moysi, ok þeir brœðr Moyses ok Aron gerðu allar iartegnir með i eyðimorkinni a Iraels folki, ok uxu þau .ii. tre ękki siðan. Enn þa er Salomon konungr let gera templum domini, þat let hann hǫggva þat sama tre er eptir stoð, er or munni Adams var vaxit, ok ætlaði til bita nokkurs i musterit. Enn þat varð annat hvart of skamt eða of langt, hvar sem þat var til ætlat, ok þvi var þat lagt niðr hia mustarinu. Litlu siðar kom til Salomons konungs drotning su er Sibilla het, enn sumir kalla Saba, hon var or þvi landi er Ethiopia heitir, hon hefir verit allra heiðinna kvenna vitruzt i verolldinni, hon fór at reyna vitrleik Salomons ok bar upp firir hann gatur. Hann reð allar gátur hennar ok oll

hennar vandmæli. Hon sagði honum ok allt þat er hon vissi, utan einn lut leyndi hon hann, meðan hon var þar, enn siðan ritaði hon eptir til hans, at a þvi tre, er við mustarit liggr ok til bitans var ætlat, man sa maðr verða hengdr a, er allir Gyðingar munu af hans dauða hefndir taka ok at niðrfalli verða, ok allt þeira riki. Siþan lét Salomon taka þetta tre ok sokkva með blyi i eitt stórt fén, þat er hann ætlaði, at alldri skylldi upp koma siðan. Enn þat birtiz i pislartið vars drottins Jesu Kristi, ok kom upp, ok þvi toku Gyðingar þat ok gerðu þar af krossinn ok pindu þar a allzvalldanda guð. Enn eigi morgum vetrum eptir pisl drottins ok upprisu, þa vann Titus Iorsalaborg, sun Vespasiani keisara, ok selldi alla Gyðinga, þa er eigi voru drepnir, i þrældom ok anauð, .xxx. firir einn penning, ok urðu siðan sundrskila ok fóru um allan heim ok fengu hvarki valld ne riki siðan, ok sannaðiz sua spasaga drottningar[1].

---

## II.

## INVENTIO CRUCIS.

*(238 folio, A; 233 folio, B).*

**De invencione sancte Crucis.**[2]

[A ofanverðom daugom Diocletiani[3] giorðiz sva mikill ofriðr cristnum monnum, at engi hefir slikr orðit um allan heim hvarki aðr ne siðan. Riki hans hafði aðr staðet með[4] bloma, þangat til er hann toc at grimmaz[5] cristnum monnum. Enn þaðan fra glapn-

1 *Nederst paa Bladet i Hauksbok staar med en anden Haand ikke ulig den i Lovcodex No. 60 qv. Følgende:* Þesser eru .xii. heims osomar þeir er tęla allt veralldar lif þa er þeir verða framdir ok draga þa til heluitiss er þeim fylgia sva at eingi rettlétis vorn hlifir þeim. Spakr maðr ꜳn goðum verkum. Gamall maðr gꜳlauss, ungr maðr uhlyðinn, auðigr maðr ꜳn olmosu, kona vrꜳðvond, Drottinn dꜳðlauss, kristinn maðr þretinn, valaðr maðr dramblatr, konungr illgiarn, byskup urękinn, þioð kenningarlaus, lyðr lagalaus. 2 *Overskriften i B. lyder:* Her hefr upp ok seghir fra þvi, hverss(u) fanzst kross drottins vars Jesu Cristz ok fra þeim ufridi er Romveriar giordu kristnu folki um alla verolld. 3 [ I þann tima er lidit var fra higatburd Cristz .cc. vetra var Dioclecianus keisari yfir heimi. A ofanverdum dǫgum hans rikis *B.* 4 miklum *tilf. B.* 5 gremiaz *B.*

aði [1] þat allt. Þa hurfo undan honum margar þioðir, þær er langa æfi hôfðo þionat Romveriom. Af þvi giorðiz viða ofriðr mikill, oc matti Diocletianus þa með engo moti einn styra þvi veldi, sem [2] undir honum var [3]. Tok hann þann mann til samveldis oc i keisaradom með ser, er het Maximianus herculus [4]. Þeir voro siðan baðir enir grimmozsto við cristna menn. Enn sva sem þeir græmdoz cristnum monnum, sva vox ohlyðni manna við þa. Þeir gafo veldi oc konungdom þeim monnum, er annarr het Galerius en annarr Constantius. Galerius atti dottur Diocletiani, er Valeria het, Constantius atti stiupdottur Maximiani, er Theodora het, oc atti hann með henne .vi. sono. Eptir Diocletianum toc Maximus son hans keisaradom, en eptir Maximianum Maxentius son hans. Þeir voro baðir blotmenn miklir ok [5] illir [6] við cristna menn. Maximus [7] lifði scamma stund oc varð sottdauðr. England hafði lengi legit undir Romveria, oc var þar þa mart cristinna manna. A dôgom Diocletiani hurfo þeir [8] undan hlyðni við Romveria, enda eyddiz þar þa cristni aull. Þa sendo [þeir þangat [9] Constantium með liði myclo at heimta England undir Rómveria. Enn er hann com þangat, þa var þar fyrir hofðingi sa er het Kohel [10], hann sættiz við Constantium með þvi, at hann skylldi vera konungr yfir England [11], meðan hann lifði, oc giallda skatt Romveriom. Litlo eptir fest sattmal andaðiz Kohel, oc eignaðiz Constantius þa allt England. Kohel atti dottor [12], þa er het Helena, hon var allra kvenna vænst oc bezst at ser um flesta luti, hana tok Constantius frillotaki oc gat við henni son, þann er Constantinus het. [Hann var [13] callaðr konungr yfir Englande eptir fauðor sinn; honum til handa flyði fiolði Romveria, af þvi at þeir þolðo eigi illzsko þa oc grimleic, er Maxentius hafði frammi við alþyðo alla. Litlo siðarr for Constantinus með her mikinn [14] til Romaborgar oc barðiz við Maxentium. Maxentius fell, enn Constantinus varð einn keisari oc hafði þat veldi .xxx. vetra; hann bauð ofrið cristnum monnum ondverða daga rikis sins. Þa laust guð hann licðrá illre oc leiðiligre. Þvi næst com Silvester pavi a fund hans oc skirði hann oc giorði hann heilan af licðra, oc þaðan fra efldi Constantinus cristne um allan heim oc let gera kirkior margar i Romaborg oc viða annars staðar.

1 minkadiz *B*. 2 er *B*. 3 sva at hlit væri at *tilf.* *B*. 4 ok H. var kalladr ôdru nafni *B*. 5 [ *tilf.* *B*. 6 vidreignar *tilf.* *B*. 7 Maxencius *B*. 8 Englar *B*. 9 [ Romveriar *B*. 10 Koel *her og senere* *B*. 11 Englandi *B*. 12 eina barna *tilf.* *B*. 13 [ Constancius andadiz a Englandi i Jorvik. Enn þa var Constantinus son hans *B*. 14 miklum *B*.

### Fra vikingom.[1]

2. A þvi are er liðit var fra burð Cristz .cc. vetra[2] oc .xxx. oc þrir vetr, þat var a .vi^ta^. are rikis Constantini, þa com fiolði vikinga liðs [ad Danubium þeirar ár[3], oc voro bunir at ganga a Romveria riki. En er Constantinus spurði þat, þa for hann i moti[4] með her sinn. En er hann sa, hverso mikit lið vikingar hôfðo, þa ægði honum at beriaz við þa. Oc a einni nott syndiz honum maðr biartr yfirliz oc mællti við hann: «Constantine, hirð æigi þu at ottaz, littu upp i himenenn.» Oc se, þa leit hann upp til himens oc sa crossmarc Cristz[5] a himne sva biart sem elldr væri; þar sa hann oc rituð[6] þessi orð yfir: [I þesso marki mantu sigr vega[7]. Þa let Constantinus gera crossmarc[8] af gulli i liking þess cross, er hann sa a himne, oc þann[9] hafði hann fyrir merki oc let bera fyrir liði sino a mot vikingom. Þa varð orrosta mikil, oc logðo vikingar a flótta um [strandir arennar[10], oc fell af þeim mikill fiolði liðs. Enn keisari vá agætan sigr i crapti ens helga cross.

### Elena for til Iorsala.[11]

3. Þa er Constantinus keisari var orðinn algiorliga cristinn, ok hann matti skilia af guðsspiollom, hvar drottinn var crossfestr, sendi hann Elenam[12] moðor sina út um haf til Iorsala[13] borgar at leita [at crossi, þeim er drottinn var pindr á, oc ætlaði hann i þeim stað kirkio upp at reisa, sem[14] crossinn fyndiz. Helena drotning hafði með ser gipt heilags anda oc lagði allan hug til astar oc elscu við almatkan guð. Hon [hafði oc girnd mycla til þess[15] at finna enn helga cross, sva sem sonr hennar hafði henne boðit[16]. Hon com ofarliga þess manaðar er Aprilis heitir i Iorsalaborg með myclo fôroneyti oc bað safna at ser myclom fiolða Gyðinga, þeira sem a Iorsalalandi voro. Enn i þann tima [var Iorsalalorg mioc eydd at bygð oc monnom[17]. Þa somnoðoz saman þriár þusundir Gyðinga a fund[18] drotningar. Hon mællti við þa: «Þat hefi ec lesit af bokom spamanna, at hinir fyrri ættmenn[19] yðrir voru astvinir

1 Fra þvi er Elena for til Jorsala *B*. 2 tiræd *tilf.* *B*. 3 [ til Dunar *B*. 4 þeim *tilf.* *B*. 5 standa *tilf.* *B*. 6 ritin *B*. 7 [ veg þu med þessu sigr *B*. 8 kross *B*. 9 kross *tilf.* *B*. 10 [ Dunar strandir *B*. 11 *B har ikke her nyt Capitel.* 12 Helenu *B*. 13 *saal.* *B*; Roma *A*. 14 [ eftir, ef *B*. 15 [ lagdi mikla stund aa *B*. 16 en hann fannz med þersum atburd, sem her segir *tilf.* *B*. 17 [ lá Ierusalem i audn, sva at þar bygdi ecki mannfolk *B*. 18 Helene *tilf.* *B*. 19 fedr *B*.

guðs. Enn þer hafit alla speci latið at baki yðr. oc þann sem yðr vildi firra[1] bólvan þeire sem, yðr var bólvat[2], oc syndi yðr margar iartegnir [af guði[3], at þeim hæddut þer oc þann pindoð þer sarliga til bana. Nu hafit þer [lios fyrir myrkr oc satt fyrir lygi[4], oc er komin yfir yðr bólvan, su sem rituð[5] er i lǫgom yðrum. Nu er rað, at þer ætlit svðr fyrir yðr um þat [sem ek mun yðr[6] fretta.« Þa toko Gyðingar at bera saman rað sin oc leita at þeim monnom, [sem froðir[7] voro oc laug kunno vel[8], oc vǫlðo þusund þeira manna, sem margvisaztir voro, oc leiddo þa fyrir Elenam. Hon mællti við þa: »Þer skolot leitaz fyrir vandliga, at þer svarit[9] með sannendum þvi mali, sem ec vil at[10] grafa. Ek veit, hverso helgar ritningar hafa fyrir sagt Crist drottin koma myndo i þenna heim, eða hverso[11] feðr yðrir dulðoz við hann, þa er hann com. Enn yðr man nu eigi hæfa at dylia ens sanna fyrir mer, sva sem ec man eptir leita. Faeð mer nu [þa menn, er bazt kunna[12] skilia ritningar oc vel megi svara ǫllo þvi mali, sem ek man[13] upp bera.« Siðan seldi hon[14] þusund Gyðinga riddorom sinom til varðveizlu. Þa kannoðo Gyðingar enn af nyio lið sitt oc vǫlðo [fim hundroð þeira manna[15], er visazstir voro, foro þeir a fund drotningar. Þa [spurði hon, hverir þessir væri[16]. Þeir svoroðo: »Þessir menn kunna vel laug«. Hon mællti: »[Þær eroð af kyni Israel[17], at þvi sem bækr segia, ok hafit [blindleic hiarta[18] af feðrum yðrum; þer dyliz við son guðs, þann er spamenn ok laug[19] bera vitne. Gyðingar mællto: »Segðu oss, drotning, af[20] hvi þu mælir sliet við oss, eða hvar [skal þat til[21] koma?« Hon mællti: »Farit brautt þer oc velit enn meirr [menn til[22] at svara mer.

### Fra Gydingom.[23]

4. Enn er Gyðingar[24] voro a braut farnir, þa ræddo þeir með ser, hvar til koma mundi [erfiði þat sem drotningin leggr a hendr þeim[25]. Þa svaraði einn þeirra, er Judas het, ok mællti: »Ec

1 *saal. B*: fyrra *A*. 2 af gudi *tilf. B*. 3 [*mgl. B*. 4 [ myrkr fyrir lios ok lygi fyrir satt *B*. 5 skipad *B*. 6 [ mal er ek vil ydr eptir *B*. 7 [ er frodaztir *B*. 8 bezt *B*. 9 *tilf. B*. 10 eptir *B*. 11 hve *B*. 12 [ þann mann er bezt kann *B*. 13 vil *B*. 14 Helena þersa *B*. 15 [ af ser .cccc. manna þeira *B*. 16 [ mællti hon til þeira: Hverir ero þessir *B*. 17 [ þer erot kynsmenn iraels *B*. 18 [ blindleiks hiörtu *B*. 19 guds *tilf. B*. 20 *mgl. B*. 21 [ til þetta skal *B*. 22 [ lid ydvart *B*. 23 *Ikke nyt Capitel i B*. 24 þeir *B*. 25 [ þat er hon lagdi aa þa sva mikit erfidi *B*.

þickiomz vita, at hon man[1] leita at tre þvi, er frændr varir pindo Crist á. Enn mer syniz þat rað, at ver latim hana þess alldregi visa verða, fyrir þvi at ef tré þat kemr upp, þa mano eyðaz laug var aull, oc monom ver sealfir vera virðingarlausir. Ek kann at segia yðr, hvat [faðir foðor mins mællti við hann a deygianda degi[2]: Se þu sonr, kvað hann, ef leitað verðr að crossi Cristz, at þu lat hann eigi finnaz, nema þu ser pindr til. Fyrir þvi at ef[3] hann verðr upptekinn, þa man fyrirfaraz riki vart allt ebrescra manna, oc man hefiaz riki [þeira þioða, sem gôfga enn crossfesta[4], oc man þat riki alldregi þriota, þviat hinn crossfesti [er Cristr[5] sonr guðs lifanda. Ek mællta við fôðor minn: Ef frændr varir visso, at hann var Cristr, fyrir hvi logðo þeir hendr a hann? Faðir minn svaraði: True þu þvi, sonr, at mikill craptr[6] fylgir nafni hans. Ek hefi avallt[7] i móti mællt þeim monnom, er lasta enn crossfesta. En af þvi at hann avitaði hofðingia Gyðinga[8], dæmðu þeir hann oc crossfesto oc hugðoz þann drepa mundo sem odauðligr er. Siðan lagðo þeir hann i leiði, enn hann reis upp af dauða a þriðia degi epter pisl sina oc syndiz opt lærisveinom sinom. [Þaðan af[9] truði Stephanus frændi varr a hann, oc kendi kenningar i nafni hans. Fyrir þat leto Gyðingar Stephanum beria grioti[10]. En þa er hann var at kominn bana, bað hann guð þeim miskunnar oc mællti: Drottinn, lattu eigi þeim þetta at synð verða, þviat þeir vita eigi hvat þeir giora. Enn man ek segia þer, sonr, mikil merki[11] Kristz. Saulus het gyðingr, hann var husasmiðr oc ovinr mikill Cristz nafne, hann var einn[12] akafazstr at banorði Stephani, en siðan sneri Cristr honom til sin af miskunnsemi sinni oc giorði hann ser at postola. Af sliko hefi ek oc frændr minir truat, at hann er[13] sonr guðs. Nu se við, son minn, kvað hann, at [gremiaz honom[14] eða þeim monnom, sem a hann trua, oc mantu þa vel þrifaz. Þessom orðom mællti Simon faðir minn við mic i banasott[15] sinni. Nu megit þer [ætla, hver svôr[16] þér vilit hafa fyrir yðr, ef Elena drotning spyrr at cross-

1 vilia *tilf. B.* 2 [ afi minn mælti vid fedr minn aa deyianda degi, þat hit sama mælti minn fadir vid mik, adr hann andadiz *B.* 3 þa er *B.* 4 [ þeirar þiodar, er gofgar hinn heilaga kross ok þann er krossfestr var *B.* 5 [ Cristr er *B.* 6 ok mattr *tilf. B.* 7 iafnan *B.* 8 ok yfirgydinga *B.* 9 [ Sidan *B.* 10 til bana *tilf. B.* 11 stormerki *B.* 12 einna *B.* 13 se *B.* 14 [ þu gremiz honum eigi *B.* 15 helsott *B.* 16 [veita her um svôr þau sem *B.*

inom. Gyðingar svoroðo: «[Slic orð[1] heyrðom ver alldregi fyrr, enn þat viliom ver þer raða. ef [þu ert at crossinom spurðr[2], at þu latir æigi vist[3] verða, hvar hann er folginn.

### Fra vidrtali þeira Elenu ok Gydinga.[4]

5. Þa er Gyðingar ræddo þetta með ser, þa komo riddarar[5] oc mællto: «Komit a fund drotningar, þviat nu vill hon við yðr tala.» En er þeir como til mals við hana, spurði hon þa eptir crossi Cristz. Enn þeir villdo henne ecki satt til segia. Þa mællte hon, at þeim skylldi òllom kasta i elld brennanda. En þeir urðo hræddir[6] oc sælldo fram Judam oc mællto: «Þessi er spamannz son oc kann vel lòg, hann man kunna, drotning, at segia þer alla luti, þa er þu spyrr hann eptir.» Siðan let hon þa i brott fara, en Judas var epter halldinn. Þa mællti Elena við hann: «Þu mátt velia þér hvárt er þu vill lif eða dauða.» Judas svaraði: «Hverr man i eyðimòrc eta griot, ef brauð er hia.» Helena mællti: «Ef þu vill lifa, þa segðu mer, hvar cross Cristz er[7].» Hann svaraði: «At þvi sem bækr segia, þa ero nu liðin meirr en .cc. vetra fra piningo Cristz, ok er eigi vænt, at ver ungir menn megim vita, hvar cross Cristz er.» Helena mællti: «Fyrir myclo lengra var orrosta i Troia[8], oc vita þo margir menn þau tiðendi, sem þar voro, oc vitoð ero leiði [margra agætismanna þeira sem þar fello[9].» Judas svaraði: «Af þvi er þat vitat, drotning, at þat er allt a bocom skrifat[10], en þetta er ecki a bokom varom.» Hon mællti: «Hefi ek þer bækr er þat segia, hvar Kristr var crossfestr, oc eigi beiði ek þic annars, en þu visa[11] mer glægt til þess staðar, er Locus Calvarie heitir, oc man ec þar leitaz um, sva sem [verða ma[12].» Judas mællti: «Fornt heiti er þat, oc veit ek eigi nu þann mann [er vita muni[13], hvar sa staðr er.» Þa reiddiz Elena oc mællti: «Þat veit ec fyrir enn crossfesta[14], at þic man ek lata svelta [i hel[15], nema þu svarir mer meirom skilom.» Siðan let hon setia hann i gròf diupa oc þurra, oc var hann þar matlauss .vii. daga. Eptir þat callaði Judas [oc mællti[16]: «Lati mic a brot or gròfinni, en ek man segia, hvar cross Cristz er folginn.»

1 [ Slikt *B*. 2 [ nu er at krossinum spurt *B*. 3 uppvist *B*. 4 *Saal. Overskr. i B: sees ikke i A.* 5 drottningar *tilf. B*. 6 gagnhræddir *B*. 7 folginn *tilf. B*. 8 Troio *B*. 9 [ þeira manna, er þar fellu miklir agiętismenn *B*. 10 ritad *B*. 11 visir *B*. 12 [ mer likar *B*. 13 [ at þat muni vita *B*. 14 Crist *tilf. B*. 15 [ til bana *B*. 16 [ or gròfinni *B*.

### Fra enom helga +. [1]

6. Enn er hann var latinn upp or grofinni, þa for hann i þann stað sem crossinn var[2] oc mælltiz þar fyrir [a ebresca tungo[3]: «Þu guð er giorðir himin oc iorð oc allan heim lykr i [hnefa, þu sitr[4] yfir Cherubin oc Seraphin oc stiornar ǫllom engla fylkiom. Þu ert allra luta drottinn, oc þin skepna erom ver. Þu hratt villtom englom i helvitis diup með hofðingia sinom, oc muno þeir þar kveliaz at eilifo um allar alldir at boðorði þino. Nu drottinn, ef þinn vili er, at hefiz [riki sonar Marie, oc er hann[5] af þer sendr, fyrir þvi at liclict er, at hann giorði eigi slic takn, oc æigi [myndi hann risa upp af dauða[6], nema hann [se þinn eingetinn[7] son, syn þu oss nu þina dyrð. Oc sva sem þu guð heyrðær bæn Moysi vinar þins oc vitraðir fyrir honom bein Joséph fauðor várs, sva giorðu fyrir oss þǽr iarteinir, at riuki upp or iorðo sva sem ilmr dyrligra smyrsla i þeim stað, sem cross Cristz liggr, oc skal ec þa trua þvi, at Cristr enn crossfesti er konungr Israel oc hefir eilift velldi um allar alldir[8].» En er Judas lauc bǽn sinni, þa skalf[9] iorð, oc kom reykr upp or iorðo með ilm dyrligom. Þa undraðiz Judas oc hellt hondom til himens oc mællti: «At saunno ertu Cristr hialpare heimsins, oc þacka ec þer, drottinn, er þu lætr[10] mic nalgaz miskunn þina, sva omacligr[11] sem ek em; bið ek þic, drottinn, [mun þu eigi[12] synðir minar, oc tak mic i sveit með Stephano frænda minom.» Siðan toc Judas at gyrða sic, oc [þvi næst grǫf hann iorð af ǫllo afli, oc er hann hafði grafit[13] um tio faðma, þa fann hann þréa crossa folgna i iorðo. Hann tok þa upp, oc [voro bornir[14] at Eleno. Hon spurði, hverr Cristz cross væri, oc mællti: «Þat vitom ver, at .ii. muno vera crossar illvirkia þeira tveggia, sem pindir voro með drotne.»[15] Þa voro lagðir allir crossarnir, [oc biðo menn[16] iartegna af guði. At none dags var borið lic a borum nær þvi sem crossarnir lago; þa varð Judas feginn

1 *Ikke nyt Capitel i B.* 2 folginn *tilf. B.* 3 [ vid gud einn saman aa ebreska tungu, sem hann mællti þessum ordum *B.* 4 [ hnefa þer, ef þu vill, þu ert *B.* 5 [ sonr þinn almattigr gud *B.* 6 [ mætti hann af dauda risit hafa *B.* 7 [ vęri þinn enga *B* 8 *Her nyt Capitel i B med Overskr.*: Her seghir fra þvi at Judas kendi kross drottins. 9 pipradi *B.* 10 létz *B.* 11 uverdr *B.* 12 [ fyrirgef þu mer *B.* 13 [ at grafa nidr iordina *B.* 14 [ bar *B.* 15 Judas kvedz eigi vita, hverr sa kross var, sem Cristr var pindr aa *tilf. B.* 16 [ i midri borginni; þar stodu menn yfir uppi ok bidu *B.*

oc mælti við Elenam: »Nu mantu vis verða drotning, hvert er nit helgazta treið.« Þa lagði hann tva crossa a likit, oc reis eigi upp enn dauðe. Enn þa er hann lagði enn þriðia crossinn á, oc var sa cross drottins, þa lifnaði[1] enn dauði oc reis upp. [Þa toko allir at dyrka[2] gud, þeir sem hia voro. Enn [diofull aufundaði þat oc toc at calla i lofti[3]: »Hverr er sea, er nu dregr andir minna manna [fra mer oc[4] or hondom mer! Þu Jesus en naddverski heimtir alla til þin! Nu hefir þu cross þinn latið upp taka til oþyrftas[5] mer[6]. oc þu Judas gengr nu i moti mer; þat var fyrr er Judas veitti mer lið at þvi, sem [ek] vilda fram koma, enn nu kemr Judas annarr mer at myclo oliði. Raðs man ek mer leita, ok skal kveykva upp konung þann enn [, enskis virði enn crossfesta, oc fremi vilia minn. Sa man kvelia þic, Judas, þar til er[7]

---

## III.

## FLAGELLATIO CRUCIS.

(*Cd. Holm. 2 folio*, *A*; *235 folio*, *B*.

**Flagellacio crucis in Biritho.**[8]

Svo segia helgar bækr, ath ut aa Syrlandi vit borgir þær tvær nafnkunnar, er ônnur heitir Tyrus, en onnur Sydon, er borg su sem heitir i[9] Biritho. Þadan var i fyrndinni skattr golldinn til hôfutborgar þeirar, er Antiochia heitir. I Biritho bygdi fioldi Gydinga, ok þar attu þeir mikit þinghuss. Einn kristinn madr keypti þar[10] hus at einum gydingi ok bio þar um stundar sakir. Hann let giôra[11] likneski drottins aa krossi ok setti þat yfir reckiu sina. Þessum manne ox[12] fe at guds vilia, svo at hann keypti ser meiri huss ok selldi þa þessi gydingi einhverium. En er hann ferdi þadan aa braut fông sin, þa vard sva af guds fyrirhyggiu,

1 kviknadi *B*. 2 [ ok lofadu allir *B*. 3 [ aufundsiukr diofull um alla goda luti, þoldi illa ok tok at kalla i lopti med þersum ordum *B*. 4 [ *mgl. B*. 5 oþurftar *B*. 6 *Her ender B*. 7 *Her ender A*. 8 *Saal. Overskr. i B;* Eventus hverr er vard aa Syrlandi de sancta cruce. capitulum *A*. 9 *mgl. B*. 10 *tilf. B*. 11 gera *B*. 12 audr ok *tilf. B*.

ath hann gadi eigi likneskisens, er[1] stod yfir hvilu hans, ok vard þat þar eptir. Gydingrinn bio leingi i husi þesso, svo at hann sa eigi likneskit, fyrir þvi ath þar bar skugga aa, sem þat stod. Þat var einn dagh ath hann baud til sin gydinge ôdrum, ok atu þeir ok drucku badir saman. En er gestrinn litadizt um, þa saa hann likneskit ok mællti vit husbonda: »Hvi hefir þu likneski þetta i husi þino, þar sem þu ert gydingr?« Ok hann let þessi ordaslattu fylgia marga gudlastan, þvi meir sem hann horfdi leingr aa likneskit. En sa er honum hafdi heim bodit sannade med særum, ath hann hefdi eigi þat vitat þar til, ath þat likneski var þar i þvi husi. Gestrinn reis þa upp med mikilli reidi ok for til fundar vit hôfdingia Gydinga ok sagdi þeim, hvat hann hafdi sed. Þeir mællta: »Mattu þetta oss syna?« Hann svaradi: »Ek ber þetta framm i husi hans.« Þann dag hofduz þeir ecki at, fyrir þvi at þa var frammordit.

### Um iarteinagerd vors herra.

2. Ath morne sôfnuduzt saman allir hôfdingiar Gydinga oc foro med sveit mikla sinna lôgunauta i huss þat, sem likneski Kristz stod, af tilvisan þessa manz, er þeim hafdi fra sagt. Fundu þeir likneskit ok ædduz aa hendr þeim manne, er þat hafdi i husi sinu, ok giordu hann rekning or sinni sveit. Sidan toku þeir ofan krossinn med likneskinu or stad sinum ok mællto: »Svo sem vær vitum, ath fedr vorir gerdu vit Krist, svo skulum vær giôra vit likneski þetta.« Sidan toku þeir at hrækia áa likneskit ok liosta þat, ok þar med mællto þeir: »Allt þat er giôrt var til haadungar vit Krist, þa giôrum vær vit likneski hans.« Þa toku þeir at hlæia ath likneskino ok at finna [at likneskinu ok finna[2] sakir ok mæla hverskyns haadung sialfum gudi, er þeim matti i hug koma, ok enn mællto þeir: »Negldu frændr vorir hendr Kristz ok fætr, ok gall ok olyfian gafu þeir honum at drecka, gerum ok slikt vit likneski hans.« Þa er þeir hôfdu þesso slegit i munn likneskino, mællto þeir: »Lustu þeir hôfut Kristz, gerum ok svo.« Ok er þeir hôfdu slikt allt giort[3], þa mællto þeir: »Svo sem þeir lôgdu spioti aa sidu Kristz, leggium vær ok spioti a likneskinu.« En er þat var gert, þa rann or sidu likneskinu blod ok vatn, svo sem fyrr hafdi runnit or sidu drottins, þa er hann var spioti lagdr aa krossinum helga.

1 *saal. B;* ok *A.* 2 [ *tilf. B.* 3 gert *B.*

**Af blodi ok vatne likneskis.**

3. Dyrd se þer, drottinn Jesus Kristr sonr guds lifanda, þu steight[1] af himni til hialpar vorrar ok vart her i heimi fyrir vorar sakir, ok þu odaudligr villdir deyia oss til frelsis. Hverr kunni virda eda hverr megi [makligum ordum[2] lofa milldi miskunnar þinnar, svo opt sem þu lætr villta ok overda til þin snuazt ok niota þinnar gæsko[3] endrnyiadrar i slikum taknum, sem nu var fra sagt. Ok sidan er olldungar Gydinga saa blod ok vatn renna or sidu likneskinu i mot ollu edli, þa mællto þeir: »Med þvi ath um allan heim er mart sagt fra taknum ok iarteinum, þeim er Jesus enn nadverski gerdi aa siukum monnum ok vanheilum, tôkum nu blod þetta ok latum renna i ker, saufnum sidan siukum monnum, þeim sem vær hôfum til, ok reynum, hverr kraptr þvi fylgir.« Sidan letu þeir blod þetta ok vatn i eitt ker ok mællto þaa þar[4] yfir môrgum gudlastanar ordum um sialfan Jesum Krist, ok hôfdu ker þetta med ser þangat, sem laa mikill fioldi siukra manna saman safnadr. Fyrst ridu þeir þesso aa krypling, þann er kreptr var fra barnæsku, ok vard sa þegar heill af slikri atferd; fengu margir blindir menn syn, en diôfulodir vitkoduzt ok fengu heilso sina. Þessi tidendi foru bratt um alla borgina, svo at þangat sottu allir siukir menn, þeir er komazt mattu sialfir, ok þeir voru margir fluttir, er eigi mattu ganga, en allir urdu heilir, þeir sem þessum heilivog var aa ridit.

**Fra Gydingum er tru toku.**

4. En er fioldi Gydinga sa þessi takn, þa bra þeim miok vit, ok svo giordizt, at allir hôfdingiar þeira, sem vit voru staddir þessi takn, sneroz til rettrar truar, ok konur þeira ok bôrn, ok allt folk þeira tok at lofa gud med haarri rôddu ok svo mælltum ordum: »Dyrd se þer, drottinn Jesus Kristus! þik krossfestu frændr vorir ovitendr, ok vær hôfum krossfest þik i likneski þinu helgu; dyrd se þer, Kristr sonr guds lifanda, þu er med taknum maattar þins birtir blindleik hiarta[5] vorra ok heimtir oss til þinnar miskunnar. Nu wilium vær trua aa þik, ok vertu oss liknsamr ok þigg idran vora, ath eigi svelgi oss helviti, sem wær hôfum oss adr til raadit i mikilleik glæpa varra. Þu hefir môrg takn synt fedrum vorum ok mikil gædi þeim veitt i maurgu lagi. Wæg þu syndum wôrum,

1 stett *B.* 2 [ makliga *B.* 3 *Først skrevet* æsko *i A med senere tilføiet* g *over Linien*; gæzku *B.* 4 enn *B.* 5 *saal. A og B.*

drottinn, nu, ok lækna allar undir worar.« En ath grædilum aullum siukum monnum, þeim sem til komu, þa foru haufdingiar Gydinga ok aull sveit þeira med þeim til byskups þess, er yfir kristnum monnum war i borginni, ok kolludu allir einni raudddu ok mælltu: »Einn er gud fadir, einn er Jesus Kristr son guds, sa er fedr worir krossfestu, einn er gud heilagr andi.« Þeir iatudu fyrir byskupi [syndir sinar[1] ok syndu honum likneski þat, sem iarteignir haufdu at gerdz[2] ok saugdu honum allan atburd, svo sem giördz[2] hafdi. Þa baud byskup allri alþydu [ath fasta.[3] En sidan skirdi hann alla Gydinga, þa sem i borg þeira woru. Hann vigdi þinghus þeirra til kirkiu i nafni Jesus Kristz, ok mörg önnur hus þeira helgadi hann postolum guds ok pislarvottum. Tidendi þessi aull saman foru wida, ok var ollum kristnum monnum mikill fagnadr at, þeim sem heyrdu, fyrir þvi at af þessum taknum höfdu margir bot feingit likamligra meina, en þo mykla fleiri hialp anda sinna. Sidan budu forstiorar kirkiunnar ok kristninnar bædi i Roma ok Antiochia, at sa dagr, er þessi takn gerduz a, skylldi hatidliga halldinn vera af kristnu folki i minning heilags kross; en sa dagr er tveim nottum fyrir Martinus messu. Gud fadir, er ser let vera mannkynit ath, [illegible] daudn fyrir dyrligan dreyra eingetins sonar sins, [illegible] lika, at þeir sem koma til þess at dyrka ok tigna [illegible] kross, verdi leystir af böndum synda sinna fyrir þann [illegible] drottin varn, er med honum lifir ok rikir i einingu heilags anda gud um allar allder allda. Amen.[4]

1 [illegible] sif. B. 2 gerst. B. 3 [ fasta B. 4 per omnia secula seculorum amen sif. A.

# DIONYNIUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio, A; 235 folio, B.*)

**Her byriar upp sogu Dionisij byskups.**

Paulus[1] postoli sa er af himni var kalladr til postola lags, þa er hann for um allt Grickia[2] velldi ath boda tru Kristz, þa kom hann til borgar þeirar er Athenis heitir. I þeire borg var spekingr, sa er Dionisius het, ok red hann fyrir hofs blotum. En er Paulus kom um[3] dagh til hofsins, þa fann[4] hann þar mörg skurdgod ok[5] einn stalla, þann er eignadr var okunnum gudi. Þa spurdi Paulus Dionisium speking, hverr sa væri enn okunni gud. Dionisius svaradi: »Enn er saa oss eigi syndr med godum, helldr sparizt hann til ovordinnar tidar.« Paulus mællti: »Þann gud boda ek ydr, er þer kallit okunnan, en hann er sannr gud ok sannr madr, þviat hann let berazt fra[6] meyiu ok var pindr fyrir heilsu manna ok deyddr[7] ok reis upp af dauda ok ste upp til himna, ok sitr til hægri handar gudi fedr, ok mun hann koma i enda heims at dæma um alla hluti, þa er gioraz i heimi. En er postolinn hafdi þetta mællt, þa sannadi hann iarteinum kenning sina ok gaf syn þeim manne, er blindr var borinn. Þa tok Dionisius tru ok let skirazt ok giordiz lærisveinn Pals postola ok fylgdi honum þria vetr, hvert[8] sem hann for. En sidan var hann vigdr til byskups af Paali postola i Athenisborg, ok gerdiz enn mesti kennandi ok snere til tru ollum borgar lyd ok miklum hluta herads bygdar.

2. En er nockurir vetr lidu þadan, þa spurdi Dionisius, ath þeir Petr ok Pall voru hafdir[9] i böndum i Romaborg. Þa gerdi

1 Pall *B.* 2 Griklandz *B.* 3 einn *B.* 4 sa *B.* 5 fann *tilf. B.* 6 Mariu *tilf. B.* 7 daudr grafinn *B.* 8 hvar *B.* 9 halldnir *B.*

hann þangat fòr sina, þviat hann var fwss ath deyia med postolum. En guds postolar voru fyrr farnir [af heime til guds[1], en hann kæmi til Romaborgar. En er hann kom fyrir pafann, þa tok hann[2] feginsamliga vit honum, ok var hann i Romaborg nockura stund. En er almattigr gud villdi lysa med sinni miskunn otru myrkr vestrmanna, þa mællti Clemens a þessa lund vit Dionisium: »Ser þu, Dionisius brodir, at mikill er kornskurdr en faair verkmenn i[3] guds akri; en allz þu ert [vel lærdr[4], þa far þu i nafni drottins ok rek eyrendi guds um allt Frakland; svo sem drottinn Jesus Kristr gaf Petri lærifedr minum velldi at binda ok at leysa, svo set ek þer velldi at leyfi postolans, at þu færir fram gudspialligar kenningar um allt Frakland, ath fyrir þina kenning megi hvervitna kynnaz nafn Kristz, en þu megir heyra vit þik mællt þat, er sagt er i gudspiallinu: heill þu, godr þræll ok trur! þvi at þu vart trur i[5] faam hlutum, mun ek þik setia yfir marga hluti; gack inn þu i fagnad drottins þins.« En er hann hafdi þetta mællt, þa sendi hann Dionisium nordr um fiall, ok enn med honum gôfga votta kristinnar truar Saturninum, Marcellum, Lucianum, Faustinianum[6], Victoricum ok enn adra, þa er eigi eru nefndir, ath vottum væri bundin ôll kenning þeira. En er þeir komu til borgar þeirar, er Arelatensis heitir, þa sendi Dionisius Marcellum til Spanialandz ath efla þar kristinn dom, þviat Philippus byskup Spanialandz[7] hafdi andaz litlu adr; en hann sendi Saturninum til herads þess, er Aquitania heitir[, er vær kôllum Aqvitanialand[8], Lucianum vigdi hann til prestz ok sendi hann til borgar þeirar, er Beluacensis heitir, en Faustinianum ok Victorikum sendi hann til herads þess, er Tervacensis[9] heitir, ath þeir bodadi tru heidnum mônnum. En sialfr Dionisius med Rustico presti ok Eleutherio diakni for til hofudborgar þeirar, er Parisius heitir, ok færdi þar fram helgar kenningar, þær er hann hafdi numit af Paali postola[10], ok sotti hann þangat med hita sadrar[11] truar, er hann vissi mesta villu fyrir[12] heidinna manna, þviat hann hræddiz eigi ognir ne pisler heidenna manna. [Aminning lidenna meistara[13] styrkti hann til ovordinna pisla, þviat hann vissi sik hafa mundu eilift lif fyrir[14] stundligan dauda, ok var hann fuss at verda pislarvottr Kristz. En þo var borg sia[15] Parisius agæt

1 [ til handa gudi *B*. 2 Clemens pafi *B*. 3 aa *B*. 4 [*saal.* *B*; vestverskr *A*. 5 *tilf.* *B*. 6 Fustianum *B*. 7 Hyspanie *B*. 8 [*mgl.* *B*. 9 Tarnesensis *B*. 10 i Athenisborg *tilf.* *B*. 11 sanrar *B*. 12 vera *tilf.* *B*. 13 [Minningh lidinna meinlæta *B*. 14 eptir *B*. 15 þessi *B*.

af fiolda gôfugra manna, audig ath aurum ok at ôllum kaupskap, þeim er vida var þangat færdr, [gnog at ôkrum ok god[1] at vingordum ok at alldinskogum. Þar var ok margr veidiskapr til fridenda, dyr ǫk alldin, en fiskar i sa þeiri, er fellr hia borginne. Þenna stad valdi ser heilagr Dionisius til kenninga, ok hafdi hann þvi meiri[2] kostgæfi til at leidretta andir manna, sem torvelldra var at snua þeim fra heims elsku, þviat þvi traudari er hverr at fyrirlita heiminn, sem [fleira hefir[3] af fridendum hans.

3. En er margr lydr hafdi tru tekit af kenningum Dionisius[4], þa mællti hann vidr einn gôfgan mann, þann er Lisbius het, þann er fystr hafde gôfugra manna skirn tekit i borgenni: »Allz[5] nu tekr fioldi manna tru[6], ok safnazt hvern dag marger til skirnar, þa litzt mer vel fallit at kaupa akr at þer ok lata gera þar kirkiu, at þangat safnizt allir til kenningar ok skirnar, þeir er tru vilia taka.« Lisbius svaradi: »Kauplaust mun ek þer veita akr þann, er þu falar.« Dionisius mællti: »Eigi skal sia kaupskapr sa þa lund fara, þviat drottenn Jesus Kristr, er berazt let fra meyiu til heilsu manna, þa var hann i leigdu husi borenn, en eigi sa eigenligum bæ frænda sinna, af þvi syniz mer eigi rett at gera a okeyptri[7] iôrdu hus, þat[8] er endrgetaz [inni astvinir[9] guds; af þvi er skynsamligt, at þu takir verd fyrir þenna stad, at sa let sik vid verdi selia, er alla leysti fra eilifum dauda fyrir skirn ok tru, en þu gef aumum[10] verdit, ef þu vill þat Kristi færa.« En er þeir ræddduzt þetta vid, þa keypti Dionisius akrinn, ok var þar þvi næst [kirkia ger[11] ok kennimanna til feingit, þeira er adr voru at godum sidum kendir[12]. En Dionisius kendi tru Kristz hvern dag heidnum mônnum ǫk sneri þeim fra blotum til truar, ok spandi hann gudi til handa þa, er diôfull hafdi villta fra skapara sinum, ok gerdi hann þa himinrikis verda[13], er hann spandi fra þessa heims elsku[14]. En sva mikinn krapt vann drottenn fyrir þræl sinn Dionisium, at hann sneri hiortum otruadra manna eigi midr af iarteinum en af kenningum. En er blotmenn leitudu margra væla i gegn honum ok drogu saman lid mikit ok biugguz til ǫrrostu i gegn Dionisio ok lidi hans, þa skein sva mikit lios himneskrar miskunnar yfir honum, at þegar er enir

1 [ gnęgd at aukrum ok gædd *B.* 2 meira *B.* 3 [ hann hefir fleira *B.* 4 hans hins heilaga Dionisij *B.* 5 þar sem *B.* 6 i borginni tru drottins mins Jesus Kristz *B.* 7 *saal. B;* keypti *A.* 8 þar *B.* 9 [ mune oskmægir *B.* 10 monnum *tilf. B.* 11 [ *saal. B;* kk˙ bær *A.* 12 reyndir *B.* 13 menn *B.* 14 villu *B.*

grimmo hermenn sa hann, þa var annattveggia ath þeir lôgdu nidr grimmleik sinn ok vopn ok fellu til fota honum, eda ella urdu þeir hræddir ok flydu fra augliti hans, ef þeir villdu eigi til truar snuaz. Þat gerdiz med undarligum hætti, at vopnadr lydr matti eigi rônd reisa vit vopnlausum manne, helldr brutu þeir sialfir skurdgod sin, þeir er smida letu, ok fognodu nidrfalli godanna, þa er þeir risu upp[1] til andar heilsu. Diofull harmadi yfirstigning[2] med sinni sveit, en kristni guds fagnadi sigri sinum. En er hinn forni fiandi sa eydaz sina sveit en [aukaz guds lyd[3], þa leitadi hann rada[4] þeira, er hann matti, ok eggiadi hann sina menn at gera þaa ofrid þeiri sveit[5], er þa var nôckut efld af Dionisio byskupi.

4. Blotmenn kunno[6] illa, er þeir saa brotin skurdgodin, en þeir mattu ecki velldi hafa i gegn fiolda kristinna manna þeira, er aa einn gud trudu; ok er þeir mattu eigi fram koma þeiri illzku, er þeir fystuz at giôra til oþurftar kristnum monnum, þa foru þeir til fundar vit Domicianum konung[7], er næstr var eptir Neronem, hann gerdi ofrid Kristz iatôrum, ok sôgdu þeir konungi[8], ath fiolkunnigr madr, er Dionisius het, eyddi allri gôfgan godanna. En er enn grimmasti konungr[9] heyrdi þetta, þa fylldiz hann upp svo mikillar reidi, at hann let þegar taka hvern kristinn mann, er hann matti finna, ok neyda[10] til blota eda selia til pisla. Þa var sendr nordr til Fraklandz greifi, sa er het Fescenninus Sisinnius, med [mikilli reidi ok[11] miklu lidi, at hann leti taka Dionisium enn gamla kennimann, er agætr var vordinn af iarteinum ok kenningum, ok neyda til blota eptir bodordum konungs, eda leti pina hann ath lôghum þeira, ef hann villdi eigi blota. En þau voru lôg þeira, at þann mann skyllde vondum beria edr hôfud af hôggva, ef[12] gerdi i gegn Romaborgar lôgum. En er greifinn[13] for nordr med lidi sinu at leita Dionisius[14], þa vard honum bratt heyrinnkunnikt[15] nafn hans ok iarteinir. Þeir skundudu þess at meir ferd sinni, unz þeir komu tll Parisius borgar, þar er þeir fundu Dionisium teliandi[16] tru fyrir otalligum lyd ok med honum Rusticum prest ok Eleutherium diakn; þviat þessir helgir menn villdu alldri skiliaz vit Dionisium, þeir fylgdu honum i ast guds ok skilduz eigi vit [hann aa[17] pislartid. En er sogd var tilkvoma greifans med

1 sioltir *tilf. B.* 2 sik yfirstiginn *B.* 3 [fiôlgadizt Kristz lydr *B.* 4 væla *B.* 5 kristni *B.* 6 þvi *tilf. B.* 7 keisara *B.* 8 honum *B.* 9 Domitianus *tilf. B.* 10 *saal. B*; nefndi *A.* 11 [ *mgl. B.* 12 er berligha *B.* 13 Fescenninus Sisinnius greifi *B.* 14 Dionisij *B.* 15 kunnict gert *B.* 16 *saal. A og B.* 17 [ *saal. B;* hans *A.*

Romaborgar lidi ok nyium bodordum konungs, þa runnu a mot honum heradsmenn ok hôfdingiar borga ok baru upp tidendi þau, at menn voru sendir til hofuds Dionisij[1] byskups.

5. En er drottinn Jesus Kristr villdi þa sinn pislarvott kalla fra þessa heims meinum til eilifrar dyrdar fyrir uthelling blods, þa þusti at honum fiôldi heidinna manna, ok var hann gripinn af þeim ok bundinn ok hleginn ok [hrækt i andlit[2], ok med honum Rusticus prestr ok Eleutherius diakn, ok voru þeir leiddir fyrir greifann. Sisinnius greifi mællti: »Ertu enn forni karl, sa er Dionisius heitir, er kalladr ert ôdru nafni Makarius, er[3] menn segia, at þu briotir bodord ens gôfgazta keisara ok eydir blotum allra goda?« Dionisius svaradi: »Gamall em ek at likams alldri, en [aavallt ungr ok alroskinn[4] i tru ok aast drottens mins Jesu Kristz, ok safna ek fyrir kenningar þionustu nyium sonum til handa gudi, [er endrgetazt let[5] fyrir skirnar vatn ok helgan anda, ok helld ek med hreinu hiarta bodordum ens æzta[6] konungs.« Greifinn mællti: »Segdu mer, hvern gud þu gôfgar.« Þa svorudu þeir allir [.iii. fostbrædr[7] Dionisius Rusticus ok Eleutherius, sva sem einn madr mællti, þviat þeir voru af einum anda allir lærdir: »I þvi er synt, at vær erum sannliga kristnir, at vær truum af ôllu hiarta ok iatum med munni ok gôfgum[8] i verki fôdur ok son ok anda helgan, einn gud i algiôrri þrenningu, einn i guddoms velldi, drottin vorn Jesum Krist, sannan gud af fedr getinn fyrir tidir ok sannan mann aa tid borinn fyrir heilsu vora[9] fra meyiu, þann er pindr var deyddr[10] ok grafinn ok reis upp af grôf ok ste til himna, ok sitr til hægri handar gudi fedr aa himnum ok rædr ôllu velldi himnesku ok iardligu, hann mun koma at dæma um lifendr[11] ok dauda fyrir ogn elldz.« Greifinn mællti: »Ecki þarft þu, enn forni karl, at segia mer fra þessum hlutum, ærid[12] margt heyrdi[13] ek sagt i Romaborg fra þessi villu þinni ok fiôlkynghi; segdu mer, ef þer vilit lyda bodordum konungs vors ok blota godum odaudligum; en ef þer gerit þat eigi, þa mun ek eigi [deila vid ydr ord helldr[14] bardaga.« En er þeir rædduz þetta vid, þa kom til ein gôfug husfreyia, su er Larcia het, med frændlidi sinu, hon kvaddi greifann ok sagdi Lisbium bonda sinn svikinn vera af

1 *saal. B*; Dionisio *A*. 2 [i andlit hræcktr *B*. 3 en *B*. 4 [*saal. B*; um allt allroskinn *A*. 5 [þeim er endrgetazt *B*. 6 oyfirstigligsta *B*. 7 [senn *B*. 8 *saal. B*; gôfgan *A*. 9 várre *B*. 10 ok daudr *B*. 11 kvika *B*. 12 yfrit *B*. 13 heyrda *B*. 14 [dvelia ydr pislir ok *B*.

fiolkyngi Makarij Dionisij ok hafnat hafa lôgum konunga. Þa var Lisbius tekenn ok leiddr fyrir Sisinnium, ok iatti hann sik kristinn vera, ok var hann þegar hôggvinn, ok for hann til guds.

6[1]. En enn styrkzti[2] guds kappi Dionisius var færdr or fôtum ok bardr svipum af .ix. ridderum, sva at [sumir gengu til en sumir[3] fra, en þeir Rusticus prestr ok Eleuterius diakn voru latnir standa i hia ok sia pisl hans, at þeir [hræddiz ok hyrfi[4] til blota. En er Dionisius var leingi bardr, þa styrkti hann i kenningum sinum samriddara sina, at þeir hræddiz eigi pisler, helldr eggiadi [hann þa til[5] at standaz slikar þrautir fyrir tru Kristz, ok lofadi hann dyrd Kristz[6] ok mællti: «Lof drottens mæler munnr[7] minn, ok lofi hverr madr nafn hans, þess er mik giôrdi verdan at bera pislarmark Kristz aa likam minum, en þat er dyrd ydr, enir kærstu brædr; af þvi [se þer[8], at þer mædizt eigi i [pisl minni[9], helldr styrkiz hiarta ydvart i ast drottins Jesus Kristz.» Þa voru þeir gripnir Rusticus prestr ok Eleuterius diakn ok bardir, en sidan allir saman settir i myrkvastofu. En annan dag eptir voru þeir festir i stagl ok kvaldir; en þeir gerdu þackir gudi. Þa var heilagr Dionisius lagdr aa[10] iarnreckiu berr[11] ok kyndr elldr undir; en hann sông lof gudi ok mællti: «Elldligt er maal þitt, drottinn, en þræll þinn elskar þat. En þu, drottinn Jesus Kristr, er mælltir fyrir spamann[12], þa er þu ferr yfir[13] elld, ok mun logi eigi granda þer, sva sem þu gaft mer krapt ath stiga yfir haskasamligan elld i likams girndum, svo lattu mik nu yfirstiga þenna hita til dyrdar nafns þins.» En er elldr matti eigi granda ônd Dionisius, þa let greifinn beita hann grimmum dyrum. En er Dionisius sa en grimmu dyr fara ath ser, þa giordi hann krossmark[14] aa mot þeim ok leit til himins ok mællti: «Þu gud, er aavallt ert enn same, ver þu nær mer ok syn [mer þann[15] enn sama maatt, sem þu syndir þræli þinum Daniele.» En er dyrin komu at honum, þa fellu þau til fota honum. Þa let greifinn kynda ofn gloanda[16] ok kastadi þangat Dionisio; en hann gerdi krossmark fyrir ser ok mællti: «Gef þu mer, drottinn Jesus Kristr, at ek ganga omeiddr ut or þessum bruna, er likneski er eilifrar kvalar, ok slokk þu med dôggu[17] heilags anda þenna elld, svo sem þu

1 Um pining Dionisij *Overkr. A.* 2 sterki *B.* 3 [ ymisir gengu til ok *B.* 4 [ *saal. B*; hrædduz ok hyrfdi *A.* 5 [ þeir sik *B.* 6 guds *B.* 7 mudr *B.* 8 [ siaid vid *B.* 9 [ pislinni *B.* 10 i *B.* 11 ok naucktr *tilf. B.* 12 munn spamanzins *B.* 13 manligan *tilf. B.* 14 fyrir ser *tilf. B.* 15 [ *saal. B*; merktan *A.* 16 loganda *B.* 17 daugg *B.*

skiptir[1] i uthellingu blods þins loga þann er nokkurr vard i inngangu paradisar. En þeir Rusticus prestr ok Eleutherius diakn studdu[2] hia bundnir ok voru buinir at taka slikar pislir. En elldr slokknadi vit komu Dionisij ok gekk sa enn dyrligi byskup ur ofne brennanda gulli biartare. Þa var hann enn festr a tre ok leingi kvalidr ok do hann þo eigi at[3] helldr iatti hann avallt drottne Jesu Kristo.

7. Eptir þat voru þeir allir[4] þrir settir i myrkvastofu med miklum fiolda kristinna manna: þviat margir truadir[5] menn villdu fylgia Dionisio ok þesta[6] inn i myrkvastofuna. Þa veitti hann[7] nytsamligar ok naudsynligar kenningar þeim. er þangat komo, ok söng þar messu; sidan vigdi hann hold ok blod drottins vars Jesu Kristz til launar[8] lidi sinu. En a þeiri stundu er hann sialfr ok allr lydr, sa er inni var. skylldi taka corpus domini. þa skein svo mikit lios af himni i myrkvastofuna. at eingi hafdi slikt lios fyrr sed. I þvi liosi vitradiz drottinn Jesus Kristr med fiolda eingla. svo at margir sa ok tok hann et helgada braud ok selldi Dionisio ok mællti: «Tak þu. vinr minn. þetta takn. er skiott mun fylla þina dyrd med fedr minum, þviat verkkaup þitt er mikit fyrir mer, ok heilsa i riki minu ollum þeim, er þer hlyda: vinn[9] þu nu hraustliga. ok mun vera minning þin ævallt i dyrd, þviat gætzka su ok elska. er þu hefir, mun arnat geta[10] hialpar þeim, er þu bidr fyrir.

8[11]. Vit þessa ena gôfgu iartein var stôdd Larcia, su er nefnd var fyrr adan[12]; þott hun [væri heidin, þa var hun þo forviten[13] at sia iartein heilagra. Sidan voru guds vinir leiddir or myrkvastofunne fyrir domstol Sisinnij greifa, ok mællti hann vid þa: «Ef þer vilit vitkazt nôckut um sider ok [hafa lifit, þa blotid þer godum ok lifit[14], en ef er vilit [eigi lifa[15], þa litit þer hræ þeira, er nu liggia umyldir ok af ydarri fiôlkyngi gerduzt dauda verdir, ok skulud er hafva slikan dauda, ef þer vilit eigi vitkazt[16].» En er guds[17] vottar Dionisius, Rusticus ok Eleutherius helldu stadfastri iatningu tru sinnar ok kiôru at fylla pislarvætti guds, þa voru þeir leiddir or[18] augliti greifans ok synd þeim hræ pislar-

1 hita *tilf. A.* 2 *saal. B*; voru *A.* 3 *mgl. B.* 4 [ *saal. B*; Þa voru þeir *A.* 5 rettruadir *B.* 6 gengu *B.* 7 heilagr Dionisius byskup *B* 8 styrktar *B.* 9 *saal. B*; giordz *A.* 10 fa *B.* 11 lifla(t) Dionisij byskups *Overskr. A.* 12 *mgl. B.* 13 [ hefdi ath eins forvitni *B.* 14 [ *saal. B*; blotit godum vorum ok lifa *A.* 15 [ helldr deyia *B.* 16 blota *B.* 17 Kristz *B.* 18 fra *B.*

votta guds til ognar; en þeir lofudu leyndan dom guds, þess er lægir fyrir litillæti[1] her [i heimi þa, er[2] hann vill miskunnsamliga dyrka med ser [aa himni[3]. Morgum pislum voru þeir[4] pindir en i eingri yfirstignir; þeir runnu fyrir kveliurum[5] sinum til pislar, at eigi yrdi þeir seinir til dyrdar; þeir eggiudu kveliarana sialfir aa hendr ser, at vaxa mætti dyrd þeira, sva sem pisler oxu.

9. En er þeir voru leiddir til hôgs eptir margar pisler ok bardaga, þaa hellt heilagr Dionisius hôndum til himins ok mællti: «Þu gud minn, er [mik skapadir ok leiddir mik til lifs fyrir þina miskunn, ok[6] kendir mer þina[7] speki, ok falt eigi fyrir mer leynda hluti rads þins, helldr huggadir þu mik aavallt i miskunn þinni ok vart med mer i ôllum þrautum, þackir geri ek þer i ôllum hlutum, drottinn minn, þeim er þu syndir mer ok gerdir vid mik, allra hellzt i þvi er þu vitiadir min sialfr ok huggadir elli mina til þin leingi fusa, þviat þu visser, at ek var langa tid fuss at sia þik; en nu taktu mik, drottenn, fyrir pislarsigr medr brædrum minum þrælum þinum; en ek fel aa hendi þer þina menn, þa er þu leystir med þinu blodi ok leidrettir fyrir mina kenning; heyrdu þa alla, sem þu hezt sialfr, er aa þitt nafn kalla fyrir tru ok vora minning, þviat þitt riki er med fedr ok helgum anda fyrir[8] allar alldir.» En er allir truadir[9] ok nôckverir af heidnum mônnum svorudu ok sôgdu amen, þa fellu guds vottar a kne ok rettu hals sinn, ok voru allir senn bolôxum hôgnér, sem greifinn hafdi bodit, ok gulldu þeir likami sina iôrdu en andir himne, þviat þeir helldu stadfastri tru, sva at enn þottu [bladrandi tungur Kristi iata[10], þa er hofud voru[11] hôggvin af bolinum. Eingi þeira var ôdrum skiotari eda[12] seinni, aller [voru þeir senn hôgner[13], ok foru aller senn .iii. til guds, þviat þeir iattu aller þrenningu guds medr iafnri ast. En sva mikill fioldi kristenna manna var þann dag drepinn, at þat þotti fyllazt i Parisius borg, er David spadi um Iorsala borg ok mællti: «Kôstudu þeir hræum þræla þinna, drottenn, umhverfis Hierusalem, ok var eingi til ath grafva.» En ath ôllum mætti vitrazt dyrd ens helgazta kennimanz Dionisius[14] byskups, þa kom lios mikit af himne ok hræzla yfir alla, þa er hia stodu. Þa reis upp [heilagr Dionisius[15] ok tok hôfud sitt i

1 sik *tilf.* *A*. 2 [ sinn i þessum heimi, þann sem *B*. 3 [ *tilf.* *B*. 4 guds vinir *tilf.* *B*. 5 kvalurum *B*. 6 [ *tilf.* *B*. 7 *saal.* *B*; mina *A*. 8 um *B*. 9 rettruadir *B*. 10 [ bladra tungurnar iatandi Cristi *B*. 11 *tilf.* *B*. 12 ne *B*. 13 [ do þeir senn *B*. 14 Dionisij *B*. 15 [ bolr Dionisij byskups *B*.

þat, er þa sa, at þeir starfadi at verki[1]. En þeir merktu vandliga stadenn, at kristnum mönnum mætti skyrt vera, hvar leita skyldi likama þeira. En er sa akr var saenn sidan, þa gaf hann hundratfalldan aavöxt. Þat giordizt kononni at fevexti en mörgum at andar heilsu. En er Katula[2] sa þverra ufrid i gegn kristnum monnum, þa syndi hun[3] stad þann, er hon hafdi fela latid likami þeira Rusticus ok Eleutherius. Sidan voru bein þeira upptekin af kristnum monnum ok færd þangat, er grafenn var Dionisius byskup, aa þeim sama degi, sem þeir letu önd sina ok toku sigrlaun af gudi aa himnum, ok er þar nu sidan giör göfgan[4] þeira af öllum kristnum lyd allt til þersa dags. En af þeira verdleikum ok bænum tok[5] en göfgazta huspreyia tru ok skirn, ok gaf hun alla eigu sina drottni Jesu Kristo ok helgum monnum hans ok þionadi pislarvottum guds i heilagri atferd, medan hun lifdi sidan.

11. En er fiöldi kristinna manna ox ok fridr gerdizt, þa var uppreist kirkia göfug i dyrd heilagra guds votta Dionisius Rusticus Eleutherius, ok verda þar margar iarteinir til dyrdar þeira[6], at eingi madr ma [telia ne hugum af segia[7]: blindir menn taka þar syn, en daufir feingu[8] heyrn, en halltir göngu, ok flyia diöflar fra odum monnum, ok fa siukir heilsu, þeir er af [öllum hug[9] kalla a guds pislarvotta i naudsyniar sinar, [hvatki er[10] þeim er at meini. En þeir voru pindir skamt fra Parisius borg a fialli þvi, er kallad var fordum [Odins fiall[11], þviat likneski Odins[12] var þar mest göfgat, en nu er [þar kallat heilagra fiall[13], sidan er guds vottar voru þar pindir. En Dionisius var pindr .x.[14] nottum eptir Michaels messu aa enu [fiorda aari ens siönda[15] tigar fra pisl drottins vors en aa enu [sextanda ari rikis Domiciani konungs[16], en þa var Dionisius byskup nirædr[17] at alldri. En sva sem [Nero konungr[18] tok brada hefnd eptir pisl postola[19], sva tok ok Domicianus bratt bana eptir liflat Dionisij; þa var hann skiott ræntr lifi sinu ok riki, sem hann var verdr. En [nu þa bidium[20] Kristz votta, at þeir [Dionisius Rusticus ok Eleutherius[21]

1 akrverki *B*. 2 Jatula *B*. 3 kennimonnum *tilf*. *B*. 4 virding *B*. 5 Catula *tilf*. *B*. 6 þeim *B*. 7 [tolu aa koma *B*. 8 *mgl*. *B*. 9 [ aullu hiarta *B*. 10 [ hvat sem *B*. 11 [ mons Merkurij *B*. 12 hans *B*. 13 [ þat kallat mons martirum *B*. 14 .ix. *B*. 15 [ þridia aari ens .lxx. *B*. 16 [ setta ens tiunda tigar fra burd hans ok aa enu fimtanda aari rikis Domitiani keisara *B*. 17 nær sexnredr(!) *B*. 18 [ Hierodes *B*. 19 guds Petri ok Pauli *tilf*. *B*. 20 [ vær skulum bidia *B*. 21 [*mgl*. *B*.

**se arnendr vorir vid drotten varn Jesum Crist, þann er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir [nu ok æ um odaudligar alldir allda[1]. Amen.**

---

# DOROTHEU SAGA.

(*Cd. 429 octavo*).

**Þetta er Dorateu saga meyar.**

I þann tima sem heidner menn hofdu valld yfir Romaborg ok ollu romversku rike, ok þann sem þa var keisare yfer þeim let pina ok drepa alla cristna menn, þa sem a gud truþu ok hans nafn lofudo ok eigi villdu blota skurdgodum, var i fyr nefndri Romaborg einn godr madr, sa er Dorathus er nefndr, hans kona het Theodora. Þau voru bęđi vel cristin ok þionudo drottni vorum med miklum kięrleika; rik voru þau at audęfum, bęđi at borgum ok steinhusum, vingordum, gulli ok silfri ok gimsteinum, sva at (þau) vissu eigi aura sinna tal. En sva sem þau voru vafin i þessum ofridar storme, þa foru þau i brutt or þeim herudum ok yfirgafu allt, þat er þau attu, fyrir guds skylld. Tvęr dętr attu þau, het aunnur Krist(i)na en aunnur Kalextina, þau hofdu þęr med ser. Sidan gengu þau i þat herad er Kapadocia heitir, i þann stad (er) Cesaria heitir, ok fengu ser þar herbergi, sem þau ętludo[2] sig hellz med nadum vera mega.

2. En þegar þat frettu blotmenn þess sama stadar, þa foru þeir til husa þeira, sem Dorathus hafdi ser herbergi tekit, ok var hann þa eigi heima, en dętr hans badar. Toku þeir ok hetu þeim audęfum, ef þęr villdu blota ok fęra fornir godunum, en at audrum kosti sogduz þeir mundo pina þęr morgum pislum, ok gatu þeir sva snuit þeim til blota ok heidins atrunadar[3], þvi ad þęr voru hręddar fyrir pislum þeim, er lagdar voru a adra cristna menn.

3. En litlum tima her eptir attu þau enn dottur sin a millum, þa sem gud gaf þeim til hugganar ok morgum odrum, sva at hon snori morgum heidnum monnum bęđi konum ok kollum

1 [ gud um allar alldir verallda *B*. 2 ęlltudo *Cd.* 3 aturnadar *Cd.*

til rettrar truar fra skurgoda villu. Hon var skird af einum byskupi i hans herber(g)i ok þat nafn gefit, at hon skylldi heita Dorathea; var henne af þvi þat nafn gefit, at fadir hennar ok modir villdu, at þat vęri dregit af beggia þeira nofnum, ok hafdir hinir fystir stafir or hvorstveggia[1] þeira nafne. Þegar a ungum[2] alldri var hon full af helgum anda ok þionadi gudi almatkum ok hans modur iumfru sancta Mariu umfram alla hluti. Hon var svo fogr ok frid skopud af gudi, at aungann fann hennar lika hvarki mey ne konu i þvi landi, ok þo at vidar vęri leitad.

4. Nu sva sem manzens ovinr diofullinn sialfur, sem iafnan er vanr um at sitia at svikia þann, er gud elskar, ok hann ser godvilia þessarar meyiar til sins skapara ok trulega þionustu ok stoduga honum veitandi, þvi fre(i)star hann þess grefa, er yfir þau hierud var settr, hann het Fabricius. Fiandinn bruggar diofuligt eitr med honum ok kveikti lostasemisgirnd til þessarar meyiar, ok let hann senda eptir henne. En þegar sem hon kemr fyrir hann, talar hann blidlega til hennar, at hon skoli fylgia hans vilia ok bydr[3] henne borgir ok kastala, gull ok gimsteina, ok at hann vill fa hennar ser til eiginkonu, ef hon vill hans radum fram fara. Heilog Dorathea svarar sva mali grefans: »Herra, sagdi hon, yd(r)ar borgir ok kastala, gull ok gimsteina skoli þer bioda þeim, er þat vilia hafa, ok þeiri, sem ydr fru vill vera, en ecki mer, þvi at ek a mer annan bidil, þann er ek ann af aullu hiarta.« Grefenn spurdi, hvar sa bidill vęri, er hon elskadi sva miog. Hon svarar: »Sa bidill er Jesus Cristr son iu(m)fru Mario, ok hans audęfa vil ek niota, en ek fyrirlit oll iardnesk audęfe ok alla villu ok otru svivirdlegra goda ydara.«

5. En þa er Fabricius heyrdi, at hon villdi ecce hlyda fortaulum hans, ok at hon var cristin ok stodug i guds þionustu, þvi vard hann akaflega reidr ok sagdi sva: »Medan þu villt ecke gera minn vilia ok trua[4] a god vor almattig, þa skalltu þola sva ferliga pino ok naud, at alldri fyrre þiner fręndr þolldu slika pinu.« Ok i þessum grimleika let hann taka meyna, svo at hon kom aungo ordi fyrir sig, ok let sioda hana i einum katli[5] storum fullu(m) af oleum. En hon bad (gud) ser myskunnar af ollu hiarta. Heyrdi hann ok hennar bęn ok sa hennar pino ok omak, er hon þolldi fyrir hans nafne, ok hialpade henne svo, ad þa er kvalar(ar)nir letu af at sioda hana, þa ste hon ut af katlenum sva kat ok glod, sem hon hefdi setit i kalldri daugg, ok sva (var) hennar likamr,

1 horusteggia *Cd.* 2 aungum *Cd.* 3 bidr *Cd.* 4 tura Cd. 5 kaltli Cd.

sem hon hefdi verit strokenn med hit bezta balsamum. Þar var mart heidit folk vid ok sa a þessa iarteign ok snoriz til rettra(r) truar fra skurgoda villu fyrir fortolur heilagra(r) Doratheo meygiar, ok lofudu gud i himiriki, sem verdugt var.

6. En sem Fabricius sa þessa iarteign, þa sagdi hann, at þetta vęri vordet af golldrum ok fiolkyngi hennar, ok let taka meyna ok kasta i myrkvastofu, ok let hana þa liggia .vii. daga, ok at hon hafdi hvarki at eta ne drekka, ok einginn skylldi til hennar koma at veita henne nockura hialp. Ok er þessi vika var lidin, þa let hann taka hana or myrkvastofunni ok leida fyrir sik. Hann spurdi hana: »Hverso hefir þu nu hugsat þitt mal, ę(t)lar þu nu at bidia til goda vorra liknar ok luta þeim, er þer mega allt gott giora?« Hon svarar: »Til almattigs guds vil ek bidia myskunar, þan er mer veitir gott ok ollum þeim, er hans leita, en eigi dioflar þeir, er þer truit a.«

7. Þa let Fabricius tak(a) eina stora sulu eda trestolpa ok grafa nidr i iord ok let þar up a setia eitt stort skurgod, þvi at hann villdi, at hon felle a hne fyrir þvi ok gau(f)ga(di) þat. Heilog Doratea fell þa oll til iardar ok lagdi badar henndr sinar i kross ok bad til guds med þessum ordum: »Styrktu mik, drottinn minn allzvalldandi, sva at ec þola vel allar þęr pinur, sem þeir vilia a mik leggia fyrir þitt nafn, ok þeir spari mik ecki, þvi at þu veizt, at ek truir a þik, minn signadi skapari Jesus Cristr, ok sent mer þina hialp, svo at ek gaufga eigi skurdgod þeira blind ok dauf.«

8. En er Fabricius heyrdi, hversu (hon) badz fyrir, þa var lokit at bua um stopulen, er skurdgodet stod a, ok ętlad at leida hana þangat til at gaufga ok luta godenu. A þeiri somu stundu komu guds einglar af himne eptir bode guds ok hans vilia ok brutu stopulinn ok godit, svo ad eingenn sa þar sva mik(it) af, ad ein flis eda spann vęre eptir. Upp i loptit heyrdu menn, ad dioflarnir greniudu ok sogdu sva: »Heilog Dorathea, þu hefir oss alla hrakt ok yfirunned ok eytt ollum vorum vilia, sva ad ver komum aungu fram fyrir þinum bęnum.

9. A þeiri stundu snoruz til rett(r)ar truar otal heidinna manna ok lofudu gud fyrir þessa iarteign, sem verdugt var, ok þolldu gladlega allar þęr pinur ok kvalir, sem greifenn villdi a þa legia fyrir guds nafn; let hann suma pina en (suma) drepa, en heilaga mey Doratheam let hann taka ok beria med svipum vęgdar-

laust, sva at blod fell [1] um allan hennar likama, ok med iarnkombum let hann slita holld af beinum hennar; eptir þetta allt saman let hann taka stor blys logandi ok brenna af henne briosten. En þa er þeir hofdu lokit at pina hana þessum pislum, sem nu hefir verit fra sagt med stuttum ordum ok skiotu mali, þa var hon þo enn ei alþingis daud; let þa greifenn kasta henne i myrkvastofu. En um nottina hafdi hon þar skamma stund verit, adr enn gud sialfr med sinne myskunn grędi aull hennar sar, sem hon hafdi fengit a sinum likama, sva sem hon hefdi alldri sar fengit eda annan kraŋkleika.

10. Um morgenenn snemma var hon leidd fyrir greifann, ok sem hann sa hana, ad hon var heilbrigd ordenn allra sinna sara, þa undradiz hann miog ok talade sva til hennar: »Þu hin fagra mey ok hin innelega, fylg minum radum ok vilia, ef þu ert klok, þvi at þu hefir noga pinu þolad; skal ek gera þig rika med mer, ef þu villt elska god vor.« En heilog męr svarar: »Drottinn minn vil ek elska ok hans signudu modur, en ek neita dioflum ydrum ok allri skurdgoda villu, þeiri sem þer heidnir menn truit a.« Þa let greifenn taka hana i samri stund ok fęra þangad, sem hann fann systr hennar, þęr sem fyrr segir fra, at snunar voru fra rettri tru ok til skurdgoda villu, ok ętladi [2] þęr sva geta talat fyrir henne, ad hon blotadi med þeim, ok greifenn het þeim miklum audęfum til, ef þęr gęti snuit henne fra retri tru med nockuru radi. En þegar i samri stund er hon sa systr sinar, þa taldi hon fyrir þeim reta tru, ok sva kom, at þęr logdu allt a hennar valld; snori hon þeim fra allri villu ok vantru, sva at þęr neitudo dioflum en iatudu gudi sinum skapara.

11. En þegar Fabricius vard þessa varr, þa ęrdiz hann af mikilli grimd ok reidi ok bad taka systr hennar badar ok binda saman at bokunum ok kasta i elld brennanda, ok geck ei fyr ifra, en þeira likamir voru allir brunnir upp at kolum. Sidan let hann kalla helga Dorateam fyrir sig ok taladi til hennar mikilli reidi: »Þu hin illa ok hin hei(m)ska męr, hversu leingi villtu halldaz i þinu hardlyndi ok illzku i moti godum vorum, ok gior anadhvortt, ef þu villt lifa, ad ofra [3] godum vorum, ok bren reykelsi fyrir þeim, ellegar dęmi ek þik til dauda ok til hardare [4] pisla, en þu hefir adr haft.« Heilog Dorathea svarar þa med stodugu hiarta: »Ek fyrirsmar þig ok þin god dumb ok dauf ok alla þina sęmd ok hegoma, en ek vil þola fyrir minn signada skapara Jesum

1 fioll *Cd.* 2 ad *tilf. Cd.* 3 opra *Cd.* 4 hardara *Cd.*

Crist allar þęr pinur, sem þu villt a mig leggia, þvi at i hans gardi ma ek lesa lystug epli ok margar rosir a þessum tima, ok med honum vil ekglediaz ęfenlega ok hans helgum monnum a himnum.»

12. En þegar Fabricius heyrdi, at hann gat eigi snuit henne til blota, þa brann hans lif allt af grimd ok reidi, ok let kvalara sla hana med morgum hoggum storum, będe hennar signada anlit ok likama, þar til er (þeir) voru svo modir, at þeir þoldi eigi leingr fyrir męđi. Ok svo hofdu þeir slegit hennar anlit ok likama, at eingenn kendi hana fyrir sarum ok blodras. Sidan let hann taka hana ok geyma um nottina, en um morgenenn let hann leida hana fyrir sig ok dęma til dauda. Sidan (let) hann leida hana til þess stadar, sem hana skylldi hoggva, ok er hon var leidd fyrir stadenn, þa var konungsens skrifari gengenn up i konungsins pallaz i hino hęstu turna borgarinnar, ok sa, at heilog męr Doratea var leid fyrir stadenn. Þa kalladi hann a hana svo sem med nockuro spotti eda dramskap ok bad, at hon skylldi senda ser af þeim eplum ok iurtum ok rosum, sem hon sagdi at yxi i gardi unnanda sins. En hon lofadi honum þvi ok sagdiz þat skylldu gera. Ok þa er hon kom i þann stad, er hana skylldi hoggva, þa bad hon sier orlofs, svo at hon mętti bidia fyrir sier til guds, ok þat var henne veitt; þa fell hon a sin hne ok bad til guds med þessum ordum:

13. «Hinn signadi skapari drottinn Jesu Cristi, styrktu alla cristna menn, hvernn i sinne stet, ok serliga þa, sem kalla a mitt nafn fyrir þig ok minnar þinu minniz med godum ordum eda verkum, hvort sem þat eru kallar eda konur. Gef þeim vilia til at bęta þat, sem þeir eda þęr hafa þer i moti giort, svo at eptir lifit mege þeir audlaz inngongu himirikis med þer ok þinum volldum monnom a domsdegi, ok serlega geym þu alla mina þionuztumenn fra ollum vondum verkum ok vilia. Drottinn minn, enn meira vil ek bidia þig, a hvern sem nockvat fals verdr logit, ok a mitt[1] nafn kallar, frels þu hann þa þar af. En(n) bidr ek þig, almattigr gud minn skapare, at þu gefir ollum cristnum monnum retta idran ok aflat sinna synda a seinazta tima sins lifs; ok ef nockur kona kvelz i barnburd ok kallar hon a mitt nafn, a hverri stundu sem þat er, þa frels þu hana, drottinn minn, af sinum krankleika.»

14. Þegar hon hafdi talat þessi ord, þa var heyrd rodd af himnum svo męlandi: «Kom hin innelegazta ok hin kięrazta brudr,

1 minnt *Cd.*

allt þat er þu hefir bedit mig, þat skal ek giarna veita þer, ok ertu vel vird af mer fyrir þa miklu pinu, er þu þoldir fyrir mig.» Ok sem allir hofdu heyrt þessa gudlegu rodd, ok heilog męr Dorathea reis upp af bęn sinne, þa sa hon standa nęr sier eina litla fagra mey, ok allr lydr sa, sem vid var hana; hon var berfętt sinum fottum, en yfir sier hafdi hon eitt purpuraklędi, sva at eingenn þottiz hafa sied annat þvilikt fyr; hafdi hon i sinum hondum eina litla korf med þrimr eplum[1] ok morgum rosum, ok baud heilagri Dorateu[2] þessa korf. Hon svaradi henne svo: «Ber hana, min kięra systir, i borgina til konungsins skrifara Teopholo, þvi at ek lofadi honum þvi i giar, þa er ek var leidd fyrir stadenn.» Þegar hon hafdi þetta mællt, þa hvarf meyen i burt, svo at enginn visse, hvad af henne vard. En heilog Dorathea var þa hoggvin i samri stund ok for med þessum pislarsigri til almattigs guds i eilifa himerikis fagnadi, sem nu hafi þer heyrtt fra sagt.

15. Nu er at segia fra konungsins skrifara Theopholo, sem fyrr var getit, at hann var genginn upp i konungsins turna, ok svo sem hann hafdi setit þar eina litla stund, kom þar inn eitt fagurt meybarn ganganda ok hafdi i sinum hondum eina litla kòrf. Hann þottiz ei hafa sed annad þvilikt fyr. Theopholus bad hana sitia ner sier[3], en hun svaradi honum gladlega med fogrum ordum ok sagdi svo: «Tak hier vid þeim eplum ok rosum, sem ek hefi i minne hendi, er Dorathea systir min hefir ydr senntt, eptir þvi sem hon sagdiz hafa lofat ydr.» Ok þegar hon hafdi þetta talat, þa hvarf hon fra hans augliti, svo at hann vissi eigi, hvad af henni vard.

16. En sva sem Theophelus sa þessa miklu iarteign, þa kalladi hann hæri roddu ok sagdi sva: «Einn er gud allzvalldandi, sa er Dorathea truir a ok bodar, en vor gud er ekke utan diofuls spott ok hans daraskapr. En hon hefir þat af sinum gudi, at i þann tima sem vetrinn er kall(d)aztur ok oll iordin frosen ok eingi vidr hefir lauf nockurt eda grodr, þa gefr hann henni nygiar rosir ok epli, sva (at) hon ma þat gefa hverium sem hon vill, ok upp a þenna gud vil ek trua, þvi at ek sier, at hann hefir valld yfir alla adra guda.» Ok a hinne somu stundd for hann þangat, er hann fann cristna menn, ok let skira sig i nafni Jesus Cristz ok bad gefa sier guds likama til hialpar ok tr(a)ustz i moti fiandans velum ok prettum, ok predickadi sidan guds erendi ok reta tru

[1] eptlum *Cd.* [2] Doratea *Cd.* [3] seir *Cd.*

Þa baꜹþ Maximianus at taka enn sęla Herasmom oc fora hann i eirkvrtil gloanda . . . . . .» Þat høfir, sagþi inn omilldi keisari, at harþr licami mvqvisc af . . . . . . . . . . . . svaraþi sell Herasmus: «Hvart bvþr þv keisari at ek scv . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . ek sagþi konungrenn, at þu gaꜹfgir . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . stir þria sveina i Babilon, at allir uiti, at tu ert almattigr dro[ttinn u]arr Jesus Cristr.» Þa uarp hann af ser gloanda kvrtle, enn hvergi sa bruna a haurundi hans. Þa toco allir at kalla hatt oc mellto: «Sannliga er mikill gvþ cristinna manna.» Keisarenn callaþi oc mellti a mot: «Þetta er eigi goþligr mǫtr, helldr [diofo-]ligr kraptr.» Oc þegar baꜹþ hann at uella i katli bik oc uiþsmior, oc þar i setia selan Herasmum, «[oc] scal blevta steinhiarta hans,» sagþi Maximianus. Þa toc at retta henndr sinar til himins enn se[le] byscop, er hann uar i uello þesse, oc baþ drottin ser miscunnar. Enn sua scylldi vin sinom bruþr mi[ll]dinnar, at hverge kenndi hann hita af vello þesse oc gek hell oc obrunninn or katlinom. Þa tok [tru] fiolþi heiþinna manna oc hafnaþi blotom. Þa bauþ ceisarenn at bvrgia enn dvrliga bvscop i [mvr]quastouo oc binnda a hals honom mikinn þvnga iarns. Enn a miþre nott skein lios mik[it] i myrqvastouona, oc com engill drottins oc mellte, at sell Herasmus scvldi nv risa oc honom a br[aut] fylgia. Þa foro þeir i Campaniam heraþ til borgar þeirar, er Formiana heitir. Þar uar enn h[el]gi Herasmus siaꜹ daga oc kenndi ollom borgar lvþ trv retta. Þa callaþi drottinn af himni a enn helga vin sinn: «Heill oc sęll, goþr þręll, hell oc sell, trvr vinr! com þu oc hvilsc i himnescri dvrþ, sv var þer fvrir bven fra uphaue heims.» Enn þa er enn selste maþr hevrþi þesse orþ drottens, þa let hann til himins. Þa sa hann himnesca dvrþ oc sveitir heilagra manna skina i allre dvrþ eilifs fagnaþar oc hevrþi sęla flocka heilagra engla sotliga songva. Þa tok af ǫllom hvg enn helgi Herasmus at gora þackir gvþi drotne oc mellte sva: «Dvrcanndi dvrca ec þic, groþari heimsens! þui at þu letr þer soma at laþa mic sva miscunnsamliga til eilifrar selo; þu toþir mer, drottinn minn, oc hvgaþir mik. Dvrþ se þer, Cristr drottinn, of allar alldir.» Þa hof með himnescom krapti enn dvrligsti drottinn ꜵnd uinar sins, oc for enn selste bvscop Herasmus agetligr pislaruotr af heime þessom sex notom fvrir Columba messo. Nu gleþsc sia enn dyrligi meþ helgom monnom a himnescri dvrþ, þar er rikir varr drottinn Jesus Cristr meþ feþr oc helgom annda of allar alldir verallda.

---

# FIDES SPES CARITAS.

(*Holm.* 2, *A*; *233 folio*, *B*; *235 folio*, *C*; *429 octavo*, *D*).

**Prologus in tres virgines Fides, Spes, Karitas.** [1]

Þaa er um allan heim hafdi [heilugh kenning gudligs sads runnit med vaxandi milldi kraptaverkanna [2] fra blotum skurðgoða til guðs kenningar ok heilagrar skirnar, [sva at allir þangat flyendr yrði heilir [3], þa matti þat eigi standaz [4] ovinr allz mannkyns hinn forni fiandi, spillari sannz froðleiks, at sea svo marga fagra bloma [mannkostanna skina med aavegsti truarinnar i hiðrtum manna, en sik ræntan sinum monnum. Kvaldiz hann þa akafliga af ogurligri ofund ok illgirnd ok eggiaði einn sinn vin til grimdar ok agangs við guðs menn [5] at briota niðr alt kristiligt siðlæti; en sa het Adrianus ok var þa keisari yfvir ollu Rómaborgar riki.

1. En aa þeiri tið kom kona su til Rómaborgar, tigin at kyni en myklu tignari at goðum siðum, er Sophia [6] het, ok þriar dætr hennar Fides, Spes ok Karitas. Hun gat snuit með fðgrum dæmum sins siðlætis mðrgum gðfgum konum [7] til truar. Ok fyrir þat kom einn greifi til Romaborgar, sa er Antiochus het, til fundar við Adrianum ok mælti sva: »Kona ein er komin i borg vara, ok þriar dętr hennar, ok skilr fra oss konur vorar, ok kennir monnum at trua aa einn guð, þann er Jesus heitir, ok segir [med þeiri tru alla skulu fyrirlata [9] feðr ok mæðr, vini ok frændr, ok konur

1 *Saal. Overskr. i C; mgl. B, D; Begyndelsen af Sagaen mgl. i A*; *her lægges B til Grund.* 2 [ runnit saad gudligrar kenningar, ok margir menn hofdu brutt snuizt *C*; heilog kenning ok sad guds orda runnit ok vaxandi milldi kraptaverkanna hafdi dregit *D*. 3 [ *mgl. C.* 4 ne þola *tilf. C, D.* 5 [ skina ok margfallda aavðxtu i hiortum manna af heilagri tru ok sik sviptan sino ranfeingi. Ok þvi kveykti hann upp hiarta sins vinar til grimdar vid kristna menn, ok eptir þat for hann *C*. 6 Sapientia *C*. 7 *saal. C, D*; monnum *B*. 8 [ *saal. C, D*; lata skulu faraz hans *B*.

ok [allar girndir[1] þessa heims ok oll audæfvi; ok fyrir [hennar kenning ganga fra oss konur varar ok gora skilit við oss bændr sina[2]. Þa reiddiz keisarinn ok bauð þær allar mæðgur inn at leiða i sina holl. En þo at þessar meyiar væri harðla ungar at alldri, þa voru þær af giðf gudligrar milldi lystar af helgum anda ok lærþar af spámanna orðum ok [postoligri predikan[3] ok dyrðligar i al'ri sinni atferð. En aðr þær gengi inn i hollina, þa gerðu þær i enni ser ok fyrir briosti [hins heilaga[4] kross mark. En er Adrianus sa þær, þaa óaðiz[5] hann sva fegrd þeira, ok bra honum sva við, at hann mátti ekki mæla. En er hann tok mal sitt, þa spurdi hann, hvaðan þær væri ok hverrar tignar, ok sagði þær miklu sundrþykki komit hafa i borgina. Heilog Sophia svaraði: »Hit æðzsta nafn ok hit vegsamligzta aa ek, allz ek er[6] kristin, en Sophia heiti ek hinu oæðra nafni, sva sem frændr minir gafu mer; gðfug er[6] ek at kyni ok ættud aa[7] Langbarða landi, þar alin ok uppfædd, en hingat kom ek til þess at færa dætr minar i forn Kristi.« Adrianus mællti: »Þer hafit hrelldan allan borgarlyð ok konur fra bondum sinum skildar ok [sono fra feðrum, en hafit illyrðt Oðin en lastat Þor ok Balldr, en skammat Frigg ok Freyiu ok Gefion i ordum, ok lastat oll goð vór, ok segit þau onyt, ok eyðit allri vegsemð þeira[8], ok sier ek giðrla, at þer munit vera þrár aa tru yðra, ok nenni ek ekki at standa i orðaþófvi við konur, en [varla munum ver enn skilia[9].«

2. Þa let hann setia þær fiorar mæðgur i myrkvastofu hia husum Palladius[10] ølldungs. En meþan þær voru þar, eggiaði Sophia þær aa stadfasta tru ok ast við guð ok at standaz vel pislir fyrir guðs nafni ok mælti svo: »Heyrit þer, dætr minar, lærdar i guðligum ritningum, varðveitið þer nu tru þa aa þessi kvalatið, er þer namut fyrr. Sa mun vinna allar þrautir ok yfir lata yðr stiga allar kvalar, er þer [elskudut fra barnæsku, ok sönn vón ok hialp er allra kristinna manna, ok hann mun med yðr vera einn almattigr guð Jesus Kristr[11]. Engan fagnat megit þer moður yðvarri

1 [ allt eptirlifi *C;* allar krasir ok allan losta *D.* 2 [ þvi svivirda konur vorar oss nu ok ganga eptir hennar fortolum (ganga henni i spor *D*) ok vilia eigi koma til rekna med oss ne til borz eda dryckiar ok vilia eigi sia oss (um saurgan gard *tilf. D*) *C, D.* 3 [ gudligum bokum *C, D.* 4 [ *mgl. C, D* 5 ottadiz *C.* 6 em *C.* 7 af *C.* 8 [ ok eydit veg goda vorra med nidran, þeir sem skopudu himininn *C.* 9 [ þo erum ver eigi skilin at sva bunu *C.* 10 Paldarij *C;* Palladij *D.* 11 [ logdut vid ast ok yndi ok van fra barnæsku *D.*

meira gora þessa heims en þann, at þer standiz virðuliga pislir ok alla freistni diôfla ok vælar manna.« Meyiarnar svôrudu sva: »Ver þu ôrugg, modir ok drotning vór, ok send oss framm fyrir þik at domstoli þessa iarðligs hôfðingia, ok munt þu þa fagna, er þu sier þrek varn ok hreysti i [þurft vorri[1]. Grædari varr Jesus Kristr mun oss styrkia ok gefa oss orðagnótt, þolinmǫði ok styrk at svara þessum keisara ok sigra hann; lifandi guð skal af himnum sia mega með oss sanna ast ok staðfesti truarinnar, þviat med hans hreinu orði erum ver, en sæla modir, fyrir þik lærdar ok bunar allar pislir at þola fyrir hans nafni.« Moþir þeira mælti: »Gorit sem þer mælit nu, at ek mega koma eptir ydr i guðs trausti at enda yðvarrar pislar.« En er þær hofðu .iii. daga i myrkvastofu verit ok þriar nætr, bauð keisarinn þęr at leiða fyrir domstol sinn inn i hôll sina, ok mælti sva til þeira meyianna: »Miskunnit þer æsku yðvarri ok fegrð, sva ung bôrn at alldri, ok elli moþur yðvarrar, ok blotit haleit ok itarlig goð vór synilig, ok dyrðkit drotna vara Þor ok Oðin, skal ek þa velia yðr hin beztu sæti i minni hirð[2] ok gipta yðr hinum tignuztum hôfdingium i minu riki, sem þer eigut burði til ok ætt. En ef þer hafnit þessu ollu, þa sver ek þess vid gud min heilog, at hvarki skal ek vægia[3] æsku yðvarri ne elli, eigi tign yðvarri ne vænleik, helldr skal ek yðr með ymissum pislum til heliar færa ok saxa hræ yður ok kasta þeim fyrir dyr ok hunda ok hræfugla[4] himins.« Þa svorudu þær allar sem einum munni mælti þær: »Heyr þu, keisari, þat man þer [þikkia kynligt ok brosligt, at oss þikkir ekki undir[5], hvart þu heitr oss goðu eða illu, vid hvorki munum ver skipaz ne skialfva. Ver eigum oss føður, þann er oss leidir til eilifrar dyrdar, þess ognir ok reiði uggum ver, þvi at þa erum ver kvaldar ok pindar, ef ver fyrirlatum hann en fylgium[6] þinum fagrgala [ok veilrædum(!)[7]. Spari þu ekki af at lata[8] frammi vid oss nu allar pislir, þær er þu mátt til fa at sigra vara tru, ok munt þu varr við verða, at mikill er kraptr, sa er guð gefr sinum monnum i pislum.« Þa varð keisarinn fullr af æði ok reiði, ok mælti vid moþur þeira: »Seg þu nafn[9] meyianna ok alldr þeira.« Heilog Sophia svaradi: »Hin ellzta þeira heitir Fides .xii. vetra gômul, en ônnur Spes .x. vetra, en hin þriðia Karitas .ix. vetra.

3. Þa kallaði keisarinn Fidem til sin ok mælti: »Fęr fornir

1 [ vorri iatningu ok þraut *C.* 2 sva sem dętr minar sialfs *tilf.* *C.* 3 hlifa *C.* 4 hrafna *D.* 5 [ undarligt þickia, at oss þikir aungu varda *C.* 6 iatum *C*, *D.* 7 [ *mgl.* *C*, *D.* 8 hafa *C.* 9 nofn *C*, *D.*

hinni helguztu Gefion, ok lit, hversu fögr hun er, eða hversu virðuligt sæti hun aa ok dyrdligt, þar er sem drotning vor byggvir.« Fides svaradi sva: »Ek hefir alldri slika folsku heyrða eða slika blindi [siena sem þu segir[1], at ek skula fyrirlata almatkan guþ minn, þann sem alla luti skapadi or engu, en göfga stokka ok steina prydda ok [gerva manna hondum[2].« En er keisarinn heyrði þetta, þa let hann flaa hana af klæðum ok beria hana nær allan dag med vöndum. En er hon hafdi barin verit tolf sinnum af [tolf hundradshofðingium[3] ser hverium þeira .xii. sinnum[4], þa sa engi merki sarleiks aa likam hennar. Eptir þat liet hann slita af henni bædi briostin med iarnkrokum[4]. En allir, þeir er hia voru ok sa þessar pislir ok grimð, gretu sarliga ok mælto med harmi: »[Hvat gerðu þessar meyiar þess endima, at þęr skylldu verdar vera at hafa slika pinsl[5]; hardla illr er dómr þinn, konungr, ok raung eru þessi boðorð þin.« En or sárum[6] hennar rann miolk en eigi blod. Þa męllti heilog Fides: »Hvilikar litaz[7] þer, konungr, ognir þinar þessar, þviat .xii. hundradshofdingiar baurdu mik, ok urdu þeir allir modir, en mik sakadi ecki. Þa leztu[8] briost af mer slita, ok kom miolk ur saarum minum en eigi blod. En þu hugsadir heimsliga, at þu mundir mik mega skilia fra gudi minum i pislum þessum, en þat fær þu alldregi gert.« Þa let keisarinn setia hana aa brandreid, ok var gorr[9] undir elldr mikill, en su reckia var henne sva hęg, sem hun væri aa skipi i[10] logni[11]. Hun bad til guds ok mællti: »Heyrdu, drottinn minn, littu yfir ambatt þina, at ek mega i mot standa þessum vikingi ok leysa i sundr allan stundlighan krapt hans.« En þriaar stundir dags var hun aa [gloanda iarni[12], ok hafdi hvergi elldr runnit a hana. Sidan let hann setia hana i [ker mikit[13] ok hella yfir hana wellanda biki[14]. En er bikit tok akafliga at vella i kerino, þa leit heilög mær til himens ok mællti: »Grædari allra hluta, aa þik kalla ek i þessum elldligum·pislum. Drottinn minn Jesus Kristr, gæṭtu min.« Sidan kastadi hun ser nidr aptr i hituna, ok var henne þar svo hægt,

1 [ vitat sem þu hefir, er þu bydr *C*. 2 [ smidada af manna iþrottum *C*. 3 [ ser hverium hundrads sinnum hofdingium *C*; ser hverium hundradshofdingium .xii. *D*. 4 iarntaungum *D*. 5 [ Hvat illt gerdu meyiar þessar (at mikil endęmi vęri gior vit meyiar þessar *D*), er þær skulu undir slikri anaud ok kvalum liggia *C*, *D*. 6 *Her ender B*; *nu lægges C til Grund*. 7 synaz *D*. 8 *saal*. *D*; lestu *C*. 9 kyndr *D*. 10 *Her beg*. *A*, *som herefter lægges til Grund*. 11 blidu vedri, þvi er ecki vere vindr ne stormr *D*. 12 [ loganda(!) brandreid ok iarne *D*. 13 [ no mikinn *D*. 14 *Her ender D*.

sem hon lægi i godri laug. En er keisarinn saa hana osakada eptir slikar pislir, þa vard hann fullr af reidi, er hann matti eigi neyda hana til blota. Ok eptir þat baud keisarinn, at meyna skylldi sverdi höggva. En er en sæla mær heyrdi þetta, fagnadi hon miok ok gerdi gudi þackir ok kalladi aa modur sina, er þar stod hia henne, ok bad, ath hun skylldi bidia fyrir henne, at hon mætti sina framför med sigri ok iatningu lykta. Sidan kalladi hun aa systr sinar ok bad þær vel standaz pislir eptir þeim dæmum, sem hun hafdi adr fyrir giört: »ok megit þit nu sia, hversu ek hefir yfirstigit pislir[1] ok konung sialfan, þviat hann kvelst nu, er hann matti mik i öngum lut kuga.« Sidan retti hun höfut sitt ok haals undir sverdzeggiar ok hafdi adr kysta modur sina, ok bad þær allar heilar wera. Eptir þat hio skialldzsveinn keisara höfut af henne. En aund hennar baru einglar guds til himna, ok færdi hon svo Kristi sigr sins pislarvættiss.

4. [2]Eptir þat heimti keisarinn til maals vit sig Spem systur hennar ok mællti vit hana blidliga: »Heyrdu dottir, ok hlyd mer sem födur þinum, ok blota Gefion drotningh vora til lifs þer ok heilso, at þu megir fordazt[3] pislir.« Heilog mær svaradi: »Vita skalltu þat, konungr, at ecki skulu stoda ord þin hegomlig. Systir min lærdi mik med dæmi godrar atferdar ok aaminning, at ek skyllda slikan farveg fara sem hon milldrar iatningar til drottins mins i pislarmarki systur minnar ok henne lik wera. Gior þu þat sem þu vill vit mik, ok mantu þa vita, at ek em systir hennar.« En er konungr saa, ath hann matti ecki med blidum ordum teygia hana til blota, þa let hann færa hana or klædum ok beria med sinvöndum[4]. En þa er .x. c. höfdingiar höfdu barit hana sitt sinn hverr, þa villdi hun mæla vit modur sina, ok matti fyrir þvi eigi, ath hun stod yfir andadri dottur sinni ok badz fyrir ok mællti sva: »Drottinn, gef þu þessi enni ungu ambatt þinne þrek, at hun megi standaz pislir i oskaddri iatninghu þinni, svo sem enne fyrri dottur minni.« En þa er modirin bad fyrir dottur sinne, þa kalladi en unga[5] mær ok mællti svo: Heyrdu, drottinn gud minn, gef þu mer sigr ok þrott.« Sidan snerizt hon til keisarans [ok mællti:[6] »Heyrdu, nidingr ok ovinr milldinnar, faa þu [til, ef enn er nockut eptir kvalanna[7], ok mant þu at sannre raun um koma, ath guds kraptr er med mer.« Þaa vard keisarinn

1 *saal.* *C*; pilsir *A*. 2 Fra keisara ok Spem *Overskr*. *A*. 3 hardar *tilf*. *C*. 4 limvönnudum *C*. 5 yngri *C*. 6 [ *tilf*. *C*. 7 [ enn til, ef eptir er nokut kvala kyn *C*.

reidr miog ok baud, at henne skylldi kasta lifandi i gloanda[1] ofn; ok er henne war i ofninn kastad, þa sloknadi allr elldrinn, en hun tok at syngia lof gudi. En er Adrianus heyrdi ord hennar syngiandi ok bidiandi ser gud miskunnar, þa baud hann at leida hana i brott þadan ok kvelia hana aa annan vegh. En er hon var kvalin[2], þa varp enum sætazta ilm af saarum hennar, ok mællti hun hlæiandi: »Heyrdu, vikingr, eigi kenni ek pisla þinna, þviat drottinn minn fulltingir mer ok skylir.« Þa tok keisari ath ædaz af ordum hennar ok let setia hana i eirnauckva[3] ok hella yfir hana biki vellanda. Ok er þeir villdu steypa hôfdi hennar nidr i velluna, þaa sprack i sundr þetta pislarfæri, en hitan ok vellan hliop aa þaa, er hana kvôldu, ok brunnu þeir, en hon var heil. Keisarinn myktiz ecki vit slikar iarteinir ok baud, at meyna skylldi hôggva. Vit þetta atkvædi keisarans vard mærin glôd ok kysti modur sina ok mællti: »Fridr se þer, modir.« Svo et sama kvaddi hon systur sina ok mintiz til hennar, ok bad hana at dæmi systra sinna oskialfandi ganga undir pislir ok minnaz aa þat, at eingi missir traustz ok hugganar af gudi, sa er allt þolir fyrir hans sakir. Sidan hof hon hendr sinar til himens ok rendi augum til guds ok mællti: »Drottinn, tak þu nu ônd mina, þviat ek treystumz i þer ok vænti i þer.« Sidan var hun hôggvin ok for sva til guds. Þa kalladi modir hennar ok mællti: »Se her nu, drottinn minn, dætr minar tvær, hefi ek þer[4] signdar; bid ek, at sva fari en þridia, attu samteingir þer hana.« Sidan sa hun Caritatem dottur sina albuna til pisla ok mællti med fagnadi: Giorzt[5] þu, dottir min, karllmannlig, þott þu sert[6] ung mær, vertu eigi þvi afhuga, at gud fyrirlætr ôngvan, þann er haunum treystizt.

5. [7] Sidan let keisarinn meyna leida til sin ok villdi svikia hana med fagrmælum, en heilaug mær svo sem algiôr ok saunn ast svaradi: «Ert þu svo vitstolinn, ath þu veizt eigi nu ætt mina, eda mant þu eigi systr minar, eda ætlar þu mik i annarri tru eda i annarri læringu verit hafa en þær, svo at ek skula svo herfilig vera ordin ok ætlera[8] ok olik systrum minum, þar sem ek em þeim samborin i allar kynkvislir, ok eigi mun ek ein vor[9] systra lata kugazt fyrir hundi þinum.« En er Adrianus keisari heyrde ord meyiarinnar, þa tok hann at ædaz af logha reidinnar ok baud, ath meyna skylldi festa i stagl, ok ætladi ymsum braugdum at

1 brennanda *C*. 2 kvalit *C*. 3 eiroxa *C*. 4 *saal.* *C*; þær *A*.
5 *saal.* *C;* Girzt *A*. 6 ser *C*. 7 Fra Karitate virgine *Oversk.* *A*.
8 *saal.* *C*; ætlara *A*. 9 varra *C*.

beita hana i pislum, af þvi ath hun var þeira yngst. En þa er hann ser litit stoda sin braugd eda vælar, þꜳ let hann hana naukta med hꜳri upp festa i staglinum. En i þessi kvol hof hun upp augu sin til himens ok mællti svo: »Fulltingdu mer, drottinn minn Jesus Kristr!« Þa sneriz hun til keisarans ok mællti: »Ecki mattu, vesall, tomt er allt þat sem þu dæmir. Ek kenni einskis ꜳ mer, þess er þu þickiz mik pina.« Þa mællti konungr med ogurligri rôdd vit meyna: »Blota þu Gefion drottning vora, þottu vilir eigi ônnur gud, ok man ek þa þo allt fyrirgefa þer.« Hon svaradi: »Fyrir hvi gremstu svo miôk æsku minni eda ônd? Giôr þu þat sem þu vill, ecki færdu þetta af mier.« Ok eptir þessi svor hennar, þa baud hann þionostumonnum sinum at kynda ofn gloanda ok kasta þar i meynni. Þeir voru þess traudir, þviat þeir sa guds krapt mikinn med henne. Þa geck hun sialf inn i ofninn gloanda ok signdi sik med guds pislarmarki, ok er hun hafdi i logann gengit, þa springr i sundr allr ofninn ok hlaupa[1] sior gloandi or ofninum[2] ok yfir [mikinn flock[3] manna, ok brendi þa alla til bana voveifliga. En heilôg mær geck i elldinum osaukut syngiandi ok lofandi gud. Þa vard keisarinn okveda vit ok skammadizt miog ok sendi menn til ath leida meyna or elldinum. En er þeir gengu ath[4] ofninum, þa sa þeir þria menn ganga med meyiunni i loganum solu biartare ath yfirliti. Þeir urdu svo hræddir vid þessa syn, at þeir fellu þegar nidr til iardar ok vissu ecki til manna. En er þeir vitkoduz ok stodu upp, þa badu þeir hana litillatliga, at hun skylldi ganga ut til þeira. Hun gerdi svo, ok komo[5] þau ôll saman aptr til konungs. En þegar er hann sa meyna, þa mællti hann skiott, at hana skylldi hôggva. Ok er heilôg mær heyrdi þetta, þa kalladi hun ꜳ modur sina ok mællti: »Minztu min, modir.« En hon svaradi: »Bid þu fyrir mer, dottir, med systrum þinum, ath Kristr biodi mer til ydvar ath koma med fagnadi.« En eptir þessa vitrædu þeira var mærin skiott hôggvin. En heilog Sophia lagdi i vagn likami þeira dætra sinna ok reid ꜳ dyrligum smyrslum ok ók sidan .xviii. milor fra borginni i brôtt, ok grof þær þar ok bio um virduliga, ok hvarf sidan til borgarinnar ok gerdi gudi þackir fyrir pislarsigr dætra sinna.

*6.* [6] Litlu sidar vitiar heilôg Sophia þangat, sem helgar meyiar voru grafnar, ok margar konur med henne, ok hôfdu mikil smyrsl med ser ok reykelsi, ok dyrkudu þar gud ok þessar enu

1 *saal. C;* hleypr *A.* 2 loganum *C.* 3 [ mikit folk *C.* 4 elldinum ok *tilf. C.* 5 kvamu *C.* 6 andlat Sophie *Overskr. A.*

helgu meyiar. Ėn adr þessi kvennaflockr for aa braut, sem þangat hôfdu sott, þa fell en helga Sophia yfir helga domana ok mællti med tærum: »Komit þer nu eptir mer, dætr minar!« Þa syndiz ollum, sem hon sofnadi hogliga, ok var þat andlat hennar sottarlaust ok i fridi. Sidan grofu þær hana þar hia dætrum sinum lofandi ok dyrkandi gud af þesso agæta mannvali. En eptir þetta vard Adrianus keisare lostinn sva illre sott, at hann vard fyrst blindr, en sidan vall hann maudkum, ok blodspyia mikil gaus or honum med holldfua; ok sidan slo aa hann opi ok ædi, ok sprack hann i sundr i midiu, ok draufnudu i sundr allir lidir hans ok likami, svo at trautt helldo saman, er grafa skylldi. En messudagr þessa þriggia meyia er kal. Augusti gudi almatkum til lofs ok dyrdar, þeim er lifir ok rikir um allar alldir allda. Amen.

---

# GREGORIUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio*),

**Her hefr upp sögu ens helga Gregorij pava.**

Gregorius atti allt kyn i Romaborg, ok het Gordianus fadir hans, hann var enn gôfgazti madr, en Silvia het modir hans. Frændr Gregorij voru gôfgir at virdingu, en þo voru þeir enn gôfgari fyrir gudi af godlifi sinu ok sidsemi ok trufesti. Felix pafe hardla dyrligr madr, sa er giora let kirkiu guds pislarvottum Kosme ok Damiani i Romaborg, hann var afi[1] Gregorij, en Tharsilla heilug mær ok meynunna, su en sama er Krist sialfan sa koma til sin, adr hun andadiz, var fôdursystir hans. Þat er at getnadi giôrt um hana Tharsillam, sem nu var int, at hun heyrdi himneska rôdd vid andlat sitt, ok þat med at hun sa sialfan drottin vorn Jesum Krist koma eptir ser; ônnur fôdursystir hans er nefnd Gordiana, en en þridia het Emiliana. Þær voru badar helgar meyiar Tharsilla ok Emiliana, at þvi er Gregorius sialfr berr vitni um nu sidan i bok sinni einni.

En þat er at segia fra þeim systrum med faam ordum, at þær þionudu allar gudi i lifi. En þa er þvi hafdi leingi fram farit, þa er sagt, at Gordiana[2] systir þeira mæddiz miôg i sinni tru, ok vard eigi betr en svaa um hennar raad, at hun gleymdi til miôg guds bodordum, ok gat fiandinn sva lockad hennar hug, ath hun lagdi meira hug aa þersa heims gaman helldr en aa sina þurft. Tharsilla hellt vel sinni veniu i astud vid almattkan gud. Þat var opt er hun harmadi ok ræddi um fyrir Emiliane systur sinne, hvern skada þær hôfdu bedit um þat, er Gordiana systir þeira giôrdiz ohlydin gudi ok þeira fyrirtôlum. Tharsilla styrkti sva tru Emiliane systur sinnar ok bad, at hun skylldi leida sinn hag

1 aa fe *Cd.* 2 Cordiana *Cd.*

ok sitt rad miklum athugha; hon mællti vid hana þessum ordum opt sinnum: »Ek se Gordianam systur ockra, kvad hun, eigi af vorri haalfvu vera.« Eitthvert sinn þa er Emiliana heyrdi þersi ord, þa sneriz hun til bænar vid systur sina Gordianam, ok sva et sama Tharsilla; stundum badu þær hana, sem þær kunnu, til samþyckis vid sik, en stundum aavitudu þær Gordianam. En aavallt sidan er mille vard hirtingarorda þeira, þa sneriz Gordiana þegar til leikmeyia sinna ok til þessa heims skemtunar. En er þersu for framm miög leinge af hennar hendi, þa vard systrum hennar at miklum harmi hennar orækt, er þær mattu eigi aleidis snua hennar atferdi, sem þær villdu. Fra þvi er sagt, at aa einhverri nott giordiz þat til tiþinda, þar er Tharsilla svaf, at þa vitradiz henni Felix pafi ok þackadi henni sitt godlifi, bædi þat er hun hafdi framit vid Gordianam systur sina[1] i sinni aaminningu ok sva önnur miskunnarverk mörg, þau er hon hafdi giört fyrir guds sakir. Hann sagdi henne sva pafinn, at hun mundi skamma stund uverit hafva i þessum heime, enda lofv(ad)i þat litt vid, at þegar er hun vaknadi or þeim draumi, þa kendi hun ser sottar. En er sottin ok ath henne fast, þa let hun giöra eptir frændum sinum ok vinum, sva sem þa var venia Romveria til, þa er nalgadiz göfgra manna andlat, ok let hun alla alþydu manna, þa er þar var komin, gudi lof syngia ok hans helgum mönnum. Þar var þa komin modir Gregorij Silvia ok margir adrir göfger menn at þiona Tharsille. En er þeim var minz von[2], þa tok hun at kalla hatt Tharsilla ok mællti: »Hverfi þer nu aa braut fra mer, sagdi hun, þviat Jesus kom nu ath vitia[3] min.« En er Tharsilla hafdi þetta mællt, þa andadizt hun. En er þessi tidindi voru, þa vard þar sva mikill hilmr, at eingi þottiz slikan kent hafva þeira, er þar voru vid staddir. En er hun var öndud, þa var buit um lik hennar vel ok vegliga, sem verdugt var, ok eptir slikum hætti, sem sidr Romveria var til at bua um gröft göfugra manna. Þat er ok vid getit, at litlu eptir andlat Tharsille aa einhverri mikilli hatid, at þa vitradiz Tharsilla Emiliane systur sinne i draumi, ok for hun med fagrligu ladordi i mot henni af guds halfu ok mællti sva vid hana: »Kom þu, systir Emiliana, sagdi hun, ok giör helga samkundu med mer.« Emiliana svaradi henni aahyggiusamliga: »Ef ek kem ein[4], sagde hun, hvat verdr þa um Gordianam systur vora?« Þa svaradi Tharsilla med hryggum hug ok mællti: »Kom þu, sva sem ek mæli, kvad hun,

1 *sinni Cd.* 2 voner *Cd.* 3 vilia *Cd.* 4 eigi *Cd.*

Gordiana systir ockur er ætlut i sveit med leikmeyium, ok mun hun her taka laun sins erfidis i þessum heimi.« En er þær hôfdu þetta vid ræzt, þa vaknadi Emilia(na) ok tok sott ok lifdi litla stund sidan ok for til himna med veg ok dyrd, sem henni var heitid fyrir sitt godlifi. En bratt eptir andlat þeira systranna, þa tok Gordiana systir þeira ser bonda ok giôrdi þa mart þat i gegn skapara sinum, er þa treystiz hun varla, medan þær lifdu allar systr. Nu vard þat sva um þenna hag, sem sagt er, at þær hofu upp med einni astud sina æfi vid almattkan gud, en þo endu þær sina atferd med mikilli misleiti. En þessir hlutir, er nu eru sagdir med skômmu maale, megu afla mer mikillar astudar vid gud af dæmum ok af lifi Tharsille ok Emiliane, ef madr færer ser i nyt, en i ôdru lagi ma ok sia mikillar aahyggiu ok varudar lif Gordiane systur þeirra.

2. En þat er at segia fra Gordiano fôdur Gregorius, er getit var i ôndverdu þessu mali, at hann var spekingr enn mesti at ôllu mannviti, hann var rikr ok gôfugmenne mikit ok audigr at fiarhlutum, hann var ættstor ok stiornarmadr mikill, sidlatr ok sidvandr i alla stadi. Hann var kvongadr hardla vel, en sva sem fra honum er sagth, þa var þat þo maal manna, at i eingan stad þætti Silvia[1] kona hans, er adan var nefnd, minni skôrungr at sinu hofi helldr en hann þotti. En er sonr þeira ox upp Gregorius, sa er nefndr var i upphafi þersa mals, þa giôrdiz hann sva hlydinn fedr sinum ok modur, at hann villdi eingan hlut i moti þeim gera. Ok þegar aa unga alldri var hann settr til nams af fôdur ok af modur. Hann bra þa þegar mikit af veniu annars ungmennis, ok var hann at ser framar giorr en adrir ungir menn, þeir er þa væri i Romaborg i þann tima. En sva sem Gregorius var ættstor ok kyngôfugr, þa giôrdiz hann þo enn mesti ættarbætir i alla stadi, ok þa kynslod pryddi Gregorius godum sidum ok dyrligri atferd sinni. Þat þikir verit hafa med miklum taknum, er Gregorius hlaut þat nafn, sem hann hafdi. Gregorius þydiz vakr til vors maals at færa, enda var hann ok sannliga vakr at sia vandliga bædi um sina þurft ok sva annarra; þa var hann vakr af sialfum ser, er hann fylldi þat i godum verkum, er hann nam edr kende, en þa vackti hann ôdrum til þurftar, er hann kende i ordum god verk, þau er hann giordi[2]. Hann vard sva bokfrodr ok sva algiôrr at ser um allar lærdomslistir þegar aa unga alldri ok at ôllu mannviti, at i þann tid, er i Romaborg var mestr lærdomr, geck

[1] *Silvilia Cd.* [2] *kendi Cd.*

honum einge hærra i öllu boknami. Hann hafdiz þegar miög i æsku sinni a mali vid alldrada menn ok kostgefdi ath muna þat allt eptir, er þeir kendu honum til mannviz. Hann safnadi þa frodleik miklum i sinu brioste, þeim er hann bar sidan upp fyrir alþydu aa þeiri tid, sem hæfdi, ok sva kvedr at i heilagri bok, at þa er Gregorius kom aa gatnamot lærdomsins, at þa fyrirlet hann vinstri götu lærdomsins, þat er veralldlig speke ok þessa heims virding. Hann lagdi þegar aa unga alldri allan hug til guds þionustu ok at audlazt himneskan fagnad ok sanna vitro, ok villdi hann at nafni einu þiona þessa heims virding. En þa er hann dvaldi miog leingi at skiliazt berindis med þessa heims lif, þott þar væri hugr hans allr, er gud var, þa toku sva at hladazt aa hendr honum þessa heims abyrgiur, at hann þottizt einkis annars fyrir gaa.

En þa er (at) andlati födur hans bar erfd undir hann, ok hann atti sialfr forrad fiar sins, þa let hann bratt þat bert verda fyrir monnum, hvilikr hann hafdi leingi verit i gud(s) augliti. Þa hugdi hann at þvi bædi nott ok dag, hversu hann skylldi astsamligaz gudi þiona med sinum audæfum, ok gaf hann þa fe þat allt til guds þacka, er hann atti, ok fylgdi sva i eptirlikingu fatækis Kristi fatækum ordnum fyrir vorar sakir. Þa reisti hann upp sex munklifi i Sikileyiu ok lagdi þar til slika aura, sem þeir munkar þurftu, er þar voru, en et siaunda munklifi let hann setia hia kirkiu þeira Pals ok Jons piningarvotta guds i Romaborg til dyrdar Andree postola, þat er hann var sialfr munkr i leingi sidan med mörgum brædrum ödrum, ok lifdi hann þar sidsamliga ok dyrliga. Til þeira munklifa allra lagdi Gregorius sva iardir ok audæfi, at vel matte þörf vinna til allra[1] atvinnu, er þar skylldu gudi þiona. Sidan gaf hann þat fe allt, er eptir var, þurfamönnum, ok þat er af geck þeira naudzsynium, ok fyrirleit hann allt þessa heims skraut ok sneri þeiri tign allri, er hann hafde i verölldu, til þess at eignazt hæsta dyrd i himnum; ok sa er litlu adr geck um borgina skryddr gudvefium ok gimsteinum, sa þionadi af skömmu bragdi öreigi stafkörlum.

Þa giördizt hann munkr, ok var hann sva algiörr bratt i þeiri atferd, at honum matti vel iafna vid þa menn, er leingi höfdu reyndir verit at allri gæzsku. Hann var kostgæfr til i sifellu at lesa helgar bækr; hann hafdi sva mikit meinlæti i föstum ok vökum ok i bænahalldi, at þar kom um sidir, at hann matti trautt

1 allrar *Cd.*

of standa einn saman af þvi ok af kvidvælindi, þvi er hann hafdi. Sva er sagt, at kvidvælindit ok þesskonar meinsemi, sem þar fylger, sotti hann miog sva, at stundum var hann at bana kominn, nema hann matadizt opt aa hverium degi. Fra þvi er sagt, at þat var einu sinni, þa er kvidvælendi sotti hann i mesta lagi, at hann matti einga stund aan vera berging matar. Þa var komit at paskum, þvattdag fyrir paska, þa er hvert barn fastadi, en hann matti sialfr eigi fasta, þa fell honum þat nærr en sotten, er hann skylldi eigi fasta mega. Þa heimti hann til sin hardla helgan mann þann, er Eleutherius het ok þa var munkr i munklifi hans, ok sa enn sami reisti mann af dauda. Hann beiddi þa Gregorius þess, at þeir skylldi badir saman bidia þess gud med tarum, at honum gæfizt megn til fôstu þann dag. En er þeir hôfdu skamma stund þess bedit, þa tok Gregorius at hafa sva mikit briostmegn, at hann þottizt eigi þurfa at bergia mat a þann dag, ok sva vard brad bot aa meinsemi hans, at hann undradizt sialfr i hug ser, hvi hann tok sva bratt sva mikit megin, sem þa þottizt hann hafa af iafnlitlum mætti, sem hann hafdi adr haft. En er ath kvelldi kom, þa var hann sva hress madr, at hann matti vel hallda fôstu sinni til morgins, ef hann villdi. En þott Gregorius kendi ser hvern dag vanheilsu, þa afladi hann þo eigi sva hvilldar likama sinum, at eigi giôrdi hann aavallt annat tveggia, at hann badzt fyrir, edr las helgar bækr edr skrifade, edr orkti nyiar bækr, ok mæddi hann sva likam sinn aavallt i hversdaghligu erfvidi, at su var eingi stund, er eigi væri hann i nôckverri guds þionustu.

3. [1] I þann tid hafdi Gregorius ertr ok alldin miôg til fæzlu ser, sva sem Silvia modir hans sendi til handa honum. Hann hafdizt þa at riti lôngum hia hlidi þvi, er kent er Pali postola. Þar kom eingill guds um dag ath honum med yfirlitum þeim, sem madr væri voladr kominn af skipsbroti, ok bad hann gefa ser nackvad. Þaa let Gregorius gefa honum sex penninga ok hugd(i) honum miskunn, af þvi at honum fell nær fatæki hans, ok bad hann i brott fara sidan. En litilli stundu sidar aa sama dege kom sa auminge aptr ok taldizt litid þegid hafva en mikit latid ok bad enn forkunnliga giafar. Þa voru enn gefnir honum sex penninghar, ok for hann þa gladr a brott. Enn kom hann ed þridia sinni ok bad allra forkunnligazt giafvar. Gregorius bad enn taka sex penninga ok gefa enum volada. Þa vard Gregorius þess viss af fehirdi [2] þeira munka, ath eingi penningr war til, sa er hann

1 Fra enum helga Gregorio pava *Overskr. Cd.* 2 fehirdir *Cd.*

matti gefva enum volada. Þa þottizt hann eigi vita, hvat hann skylldi til taka, honum fell nær, ef hann skylldi einga miskunn mega weita enum volada manni. En þa spurdi hann fehirdinn, ef hann hefdi ker nôckvert edr klædi, þat er til giafar wæri fallit, eda annarsskonar grip nockurn þann, er enum fatæka manni mætti at halldi koma. Þa war honum sagt, ath ecke var til wtan silfvrdiskr einn, sa er Silvia modir hans var won at færa honum aa allden. Þa ward hann allgleymr wid ok mællti: »Færdu mer hann skiott, brodir, at eigi fari sia wesalingr huggunarlauss aa brott.« Sidan gaf Gregorius gladliga diskinn þeim manni, er hann hugdi fatækan wera, ok hvarf sa a braut; ok war þat fyrir hôndum, at hann munde veita Gregorio helldr en þiggia þadan ifra. Fra þvi upp vard Gregorius kunnr at taknum ok ath iarteinum, ath eighi þotte hann einn saman styra munklifve sinu, helldr þotti berligha Andreas postoli sia um med honum. Einnhvern dag sende Gregorius munka .ii. ath kaupa þat, er hafa þurfti i munklifinw, annan ellra en annan yngra. En er þeir foru, þa stal sa er ellri var af fe þvi, er þeir foru medr, sva ath enn yngri vissi eighi. En er þeir kvomu heim ok villdu[1] ganga i kirkiu, þa vard sa þeira diôfulodr, er stolit hafdi, ok fell hann til iardar. Honum bættizt bratt, ok war hann spurdr at bodordi abota, ef hann hefdi misfarit medr fe þvi, er honum var i hônd sellt. Hann syniadi, en þaa æddizt hann. Hann var .viii. sinnum spurdr, ok syniadi hann aavallt; en þegar er hann syniade, þa vard hann odr. Þa kom Gregorius ok spurde, hve morgum penningum hann hefdi stolit. Þa fell hann til fota Gregorio ok geck i gegn þvi, er hann hafdi giôrt. Sidan tok hann skript, enda matti þa eigi diôfull æda hann þadan ifra.

4. [2]A hatidardegi Andreas postola þa er brædr hvilldu um middegi, þa setti at einum þeira skialfta med hareysti miklu, sva at synt matti þickia, at þat nôckud bar fyrir hann, er hann atti eigi stad vid. En er brædr fundu, at honum var ollum brugdit, þa toku þeir hann at bodordi Gregorij[3] ok logdu nidr fyrir allteri Andree postola ok badu honum miskunnar. Hann witkadizt bratt ok sagdi sidan, at honum hafdi synzt alldradr madr, sa er visadi at honum hundi svôrtum ok mællti vid hann: »Hvi villdir þu flyia or munklifi þessu.« Þvi næst komu framm munkar ok badu honum liknar enn alldrada mann. Þa visadi hann hundinum a brott, enda vitkadizt þa munkrinn skiott. Hann sagdi þa, at hann

1 villdi *Cd.* 2 Fra brædrum *Overskr. Cd.* 3 Gregorio *Cd*

hefdi þat fyrir borizt, at hann mundi hlaupaz sa braut ur munklifinu, ef hann hefdi þat matt. Enn var sa annarr munkr, er hlaupaz villde sa braut ur munklifinu, ok villdi þa ganga i kirkiu, er hann hafdi þat radit i hug ser; þa [eirdi diôfull honum[1], er hann villdi eigi i kirkiu ganga, en þegar er hann villdi i kirkiuna ganga, þa vard hann odr. En er sva hafdi mörgum sinnum (farit), þa kom Gregorius til. Þa sagdi hann honum, hvat hann hefdi fyrir borizt, ok þadan af batnadi honum, sva at hann vard alheill af bænum Gregorij ok annarra brædra. Enn voru .ii. brædr, þeir er hliopuzt or munklifvi ok foru leid þa, er Appia heitir, en at þeir mætti eigi fundnir verda, þa viku þeir af gotunni ok leynduzt i iardhusi nockuru. Þeira var saknat at kvelldi i munklifinu, þa sendi Gregorius brædr at leita þeira. Þeir ridu ut borgarhlid þat, er Metrosum heitir, ok leitudu þeir vida ok fundu þa eigi; þeir ridu þa aptr til borgar götu þa, er Flaminea heitir. En er þeir kvomu nærri þvi, er þeir voru folgner, þa namu hestarnir stad undir þeim, sva at þeir giôrdo hvergi at ganga; þa lituduzt þeir um vandliga ok saa leyni þat, er þeir leynduz i; þeir stigu af hestum sinum ok leitudu þeira, unzt[2] þeir funduzt. Sidan voru þeir hafdir i munklifvi, en af atburd þeim, er ordinn var, ok af fyrirtolum Gregorij, þa hurfu þeir af þvi, at þeir villdu eigi sidan flyia or munklifinu.

5. [3]Justus het munkr ok læknir, sa er opt var vanr at giôra at meinsemi Gregorij, hann tok banasott. En brodir hans sat yfvir honum, sa er Copiosus het. En er at honum tok at lida, þa sagdi hann brǫdr sinum til, at hann hafdi gullpenninga .iii. i vitum sinum. En hann sagdi brædrum til. Þeir leitudu sidan ok fundu gullpenninga i lækningartolum hans. Þa giôrdu þeir Gregorius varan vid, en honum þotti mikit at, fyrir þvi at honum þotti læknirinn allz hugar godr, en þat var miog giôrt i moti reglu þeiri, er Gregorius hafdi sett, at eingi munkr skylldi einn ser fe eiga. Hann hugdi at, hversu þess mætti haga, er mest hirting mætti at sliku verda, enda væri þo lækninum minzt mein at. Hann heimti til sin profast munklifisins, þann er Preciosus het, ok mællti vid hann: »Se þu nu, at eingi brædra komi til mals vid hann ne veiti honum huggan einga. En þa er at honum lidr ok hann vill, at brædr komi til hans, þa skal Copiosus brodir hans segia honum, at eingi brædra vill sia hann, ok allir rækia

1 [ *rettet;* ærdi diôfull hann *Cd.* 2 at *tilf. Cd.* 3 Fra einum munk *Overskr. Cd.*

hann fyrir gullpenninga þria, þa er hann hefir haft a laun. Sidan vil ek, kvad Gregorius, at hann andizt i hryggleik ok i idrun þess, er hann hefir misgiört, til þerss at þa megi önd hans hialpazt. En þa er hann andazt, þa skal hann eigi grafa med brædrum, helldr skal kasta liki i saur nöckurn, ok þar med gullpenningum hans. Sidan skal hylia hann i iördu.« Þat for allt sva framm, sem Gregorius baud, ok andadizt sa munkr med miklum harmi. Vid þenna atburd urdu munkar sva klöckvir, at hverr bar framm allt, þat er hann hafdi i vitum sinum, þott einkis væri vert at fiarmagni.

En er þrir tigir daga voru lidnir fra andlati munksins, þa mællti Gregorius hardla vid Preciosum prest: »Leingi hefir Justus brodir vor verit illa halldinn, sagdi hann. Nu verdum mer at leita honum nöckurrar miskunnar. Fardu nu ok se um, at .xxx. daga se sungin messa fyrir sal hans hvern dag fra ödrum.« Hann giördi sva profastrinn, sem honum var bodit. En er Gregorius atti mart at annazt, ok hafdi hann eigi at dagatale um þat, þa vitradizt Justus munkr um nott i svefne Copioso brodur sinum. En Copiosus spurde hann ok mællti: »Hvat er hags þins, brodir?« Justus svaradi: »Hingat til hefi ek illa verid halldenn, en nu hefir ek gott, fyrir þvi at i dag tok ek holld ok blod drottins mins.« Þa vitron sagdi Copiosus brædrum. En er þeir hugdu at giörla, þa taldizt sva til, at þa var iafnt .xxx. mesna sungnir fyrir sal hans, er hann taldiz miskunn hafva feingit.[1]

6. A einum hverium degi bar sva at, at Gregorius geck a torg i Romaborg, þa er þar var mart falt latid; hann sa þar sveina nöckura hardla hvita a hars lit ok væna at aliti ok dreingiliga i vexti, ok voru sveinarnir latnir falir. Gregorius spurdi, af hveriu landi þeir voru kyniadir. Honum var sagt, at þeir væri af Einglandi æzskadir, ok slikir væri flestir menn at aliti a þvi landi sem sveinar þessir. Þa spurdi hann, hvort folk væri heidit edr kristid; ok var honum sagt, at þat folk var heidit. Þa komzt Gregorius vid af öllu hiarta ok felldi thaar ok mællti: »Þat er harmr mikill, kvad hann, at höfdingi myrkra skal hafa valld yfvir sva biortum monnum, ok skuli þeir menn eigi niota megha guds miskunnar, er sva gozligir eru.« Ok enn spurdi hann, hversu þiod su heti. Honum var sagt, at þeir hetu Angli. Þa mællti Gregorius: »Vel vel heita þeir angli, þviat þeir hafa eingiliga asionu, ok hæfir at þeir hverfi i sveit med einglum a himnum

1 *geingit Cd.*

ok giörizt þeir [1] samvistumenn almattkum gudi, ok mun gud lata sina miskunn skina yfir hugskoti þeira, er einglar heita ok hafa eingla fegrd.« Enn spurdi Gregorius, hversu herads menn þeir hetu; ok var sagt, at þeir kalladizt Deiri. Gregorius mællti: »Makliga heita þeir Deiri, heimtir undan reidi ok kallader til miskunnar Kriz.« Ok enn spurdi Gregorius: »Hversu heitir konungr þeira?« Svarad war ok sagt, at hann hete Aelli. Þa brosti Gregorius ok vard feginn ok mællti: »Makliga heitir konungr sa Alle, nær sem heiti Alleluia, ok ed hæsta lof guds alleluia (mun) sidar sungid verda gude til lofs i þeim herudum.« Sidan for Gregorius til fundar vid Benedictum pafa ok bad, at hann skylldi senda nockurn kennimann til Einglandz ok kristna þat ok boda þar [2] guds nafn, ok lezt hann buenn sialfr til þeirar syslu, ef pafinn lofadi, ath hann færi. Þess varnadi Benedictus pafve fyst, en þo lofadi hann Gregorio litlu sidar at fara, er Gregorius bad akafligar, ok bad pafvinn fyrir Gregorio, at gud sialfr skylldi greida hans ferd. Þaa biozt Gregorius skyndiliga ok leyniliga til fararennar ok for med blezan pafa, þa er hann war buenn. En er Romveriar urdu visir, at Gregorius var aa brautu farenn, þa söfnuduz þeir saman aa götu fyrir Benedictum pafa ok foru flockum aa mot honum, þa er hann for til Petrs kirkiu, ok kölludu a hendr honum ödliga ok mællto: »Ho ho pafve, sögdu þeir, hvad hefir þu gert? Reidan hefir þu giort enn helga Petr, eydda hefir þu Romaborg, i þvi er þu hefir Gregorium aa brautu sendan.« Þa oadizt pafvinn atkall alþydu ok sendi menn skyndiliga eptir Gregorio ok mællti mikit um, at hann skylldi aptr hverfa sem skiotazt. En fyrr en sendimenn pafva kæmi eptir Gregorio, þa hafdi hann farit þriar dagleidir, ok var þa aa aefanga um middagsskeid. Þa var Gregorius horfvinn nöckut sinn fra förunautum sinum ok sat einn saman ok saa aa bok, þa flo fugl sa aa bokina, er locustus heitir, ok nam ser þar stad. En er Gregorius sa þat, þa mælltizt hann vid einn saman ok hugdi at nafne kvikendis þess: »Sia fugl stödvar ferd vora, þviat locusta þydizt, sem mællt se: nem þu stadar.« Þa kalladi Gregorius at förunautum sinum ok mællti: »Standit upp þer skiott, ok buumzt aa brautu hedan, en þeygi munum ver na at fara leingra.« I þvi bili kvomu sendimenn pafva ok höfdu miog mædda hesta [3] sina. Þeir syndu Gregorio rit pafva, er þeir höfdu med at fara. En er Gregorius hafdi þat yfir lesit, þa hvarf hann aptr til Romaborgar, sva sem pafvinn baud. Enda dvaldizt

1 þeira *Cd.* 2 þat *Cd.* 3 hestina *Cd.*

þat allt sidan, at Eingland yrdi kristnad, þar til sem Gregorius vard pafvi, þa endadi hann þessa sina ena dyrliga fyrirætlan ok sendi lærisvein þann, er Augustinus heitir, til Einglandz, ok kom hann þa kristni aa landit, sva sem sidan hefvir halldizt.

7[1]. I þann tid sa Benedictus pafve, at Gregorius þroadizt miốg at heilagleik ok at ollum mannkostum, ok vard honum þat i kunnleika, hversu Gregorius skein i forkunnligum iarteinum. Þa heimti pafvinn Gregorium ut af munklifinu ok vigdi hann ok valdi enn siaunda erkidiakn til fulltings med ser. I þeiri syslu þionadi Gregorius litillatligha, ok var hann hlydinn yfirboda sinum, ok hann var sva dyrligr madr, at hann þotti helldr hafa eingla lif en manna. Ok litlu sidar eptir andlat Benedicti pafva, þa sendi Pelagius pafvi Gregorium til Miklagardz ath fylla syslu heilagrar kristni vid Tiberium keisara. Þa fylgdu margir brædr Gregorio or munklifinu, þeir er studdu hann i bænahalldi ok i vidrmæli trufastligu i ốllum vandyrdum, þeim er honum baruz at hendi i hốll keisara. I þann tid bad Leandir byskup gốfugr af Spanialandi, sa er þa var ok staddr i Miklagardi af naudsyniasyslu, at Gregorius skylldi skyra bok Jobs ens gamla, er hardla torskilit þikir vera. Sidan giốrdi Gregorius bok þa, er menn kalla Moralia Job, ok skyrdi i halfum fiorda tigi boka ốll takn, þau er hann þottizt finna, at folgen væri i bok Jobs. En þa er Gregorius var i Miklagardi, þa geck villa su hatt þar, er Eutychius[2] patriarcha var upphafsmadr ath. Hann sagdi sva, at menn skylldi eigi sanna likami hafa aa domsdeghi, helldr þa, er sva væri andligir, at eigi mundi mega þreifa um helldr en um lopt edr vind. Þeiri villu stod Gregorius i mote ok sannadi med vitnum heilagra ritninga, at hverr madr skal sannan likama hafa aa domsdegi, þann sem hann hefir haft i þessum heimi, ok sva braut hann villu þa nidr, at eingi madr hefir þess kyns villu upptekit sidan, ok þar veitti Tiberius keisari honum mikit samsinni i þvi mali. Þat var fam dốgum sidar, at Eutychius[2] patriarcha laa i sott ok var hættr, þa tok hann hendi sinni hud annarrar handar ok hellt aa ok mællti: »Þvi iate ek, at med þersu holldi skal ek upp risa.« Eptir þa iatning sannrar truar andadizt hann bratt. En rit þau er Pelagius pafvi sende Gregorio, þa er hann var i Miklagardi, bera vitni um þat, af hve miklum skốrungsskap Gregorius rak eyrindi þat, er honum var bodit vid keisarann, ok hve vel hann kom at halldi Romverium um marga hluti i fốr þeiri.

1 Fra Benedicto pava *Overskr. Cd.* 2 Kutices *Cd.* 3 Eucius *Cd.*

8[1]. Nôckverri stundu sidar (er) Gregorius kom aptr i Romaborg, þa tok aa su er Tiberis heitir vôxt sva mikinn, at hun flæddi ok braut nidr morg hus ok spillti ôckrum manna um alla Romaborg, ok hun giordi borgarmonnum margfalldan skada. Þa flaut fioldi hôggorma eptir aanni ofan, þa er skolat hafdi ur urdum her ok hvar, ok þar var dreki einn sva mikill, sem ass digr væri; þat fylgdi allt aarvextinum i sio. En er ormarner kvomu i sioenn, þa do þeir allir þar. Sidan giôrdi aa hafvidri, ok rak þa alla aa land. En er þeir funudu, þa giôrdi þar af odaunan mikit. Þa kom sott mikil i Romaborg, ok feingu menn bradan dauda, þeir er forvindis urdu. Sva er sagt, at nôckurum monnum syndizt sva, sem ôrvar flygi aa menn or lopti. En er þessi tidinde urdu, þa red pafvi sa fyrir Romaborg, er Pelagius het. En er sia sott kom sva akôf aa hendr mônnum, þa andadizt Pelagius pafvi fystr allra manna i sott þeiri. En eptir andlat hans þa geck sottin sva hart aa hendr mônnum, at môrg hus i borginni urdu aleydd. En fyrir þvi at kristnen matti eigi vera leingi an stiornarmanninn, þa þotti ôllum einsætt at velia Gregorium til pafva i Romaborg, ok urdu aa þat sattir bædi lærdir menn ok olærdir. Þa kaus ôll alþyda Gregorium til pafva. Hann mællti vidr þvi allmiogh ok kalladizt at eingu vel til fallinn, ok fyrir þvi mælltizt hann sva undan þessu, at hann ræddizt at taka i annat sinn veralldar virding, þa er hann hafdi fyrr latid, ok taldizt hann alskostar overdr at taka slik metord. En er hann var akafliga sottr at þvi mali, þa þottiz Gregorius eigi mega mæla i moti alþydu manna domi, ok kom þa sva þvi mali um sidir, at hann lagdi leyfi sitt til þess, sem keisari villdi at væri. Mauricius var þa keisari yfir heiminum[2] ok var hann mikill vinr Gregorij. Þa sendi hann rit Mauricio keisara leyniliga af þeim kunnleikum, er hann hafdi halldit syni hans undir skirn ok veitt honum gudzsifiar, ok bad þess akafliga, at hann skylldi eigi samþyckiazt vidr Romveria um þat, at Gregorius væri til pafva tekenn. Þa let Germanus borgargreife verda tekinn sendimann Gregorij ok breytti ritum þeim ollum, er Gregorius hafdi giôrr. Sidan sendi hann þat rit keisara, at Gregorius var valdr til pafva af ollum Romverium, ef honum likadi at sva væri. En er keisari hafdi radit rit þetta, þa þackadi hann þat gudi ok vard þvi feghinn, er vinr hans slikr, sem Gregorius var, skylldi koma til slikra metorda. Keisarinn let giôra rit ok baud

1 Fra Gregorio pafva *Overskr. Cd.* 2 h'm *d. e.* honum *Cd.*

rikiliga, at Gregorius skylldi pafvi vera. Medan orda keisara var at bedit, þa var sott sem akofuz i Romaborg.

9. Þa tok Gregorius erkidiakn at telia fyrir alþydu, ok hof hann a þersa lund maal sitt: ›Þat hæfir oss, enir kærstu brædr, um bardaga guds, þa er vær skulum oazt okomna, ok vær skiptumz vid, þa er þeir koma at hendi, ok hrædumzt þa, ok latum vær sva radning hans snua oss aleidis til guds, at bardagi, sa er vær þolum, myki hardleik hiartans til iþranar ok leidrettingar. Nu verdr her ôll alþyda fyrir mikilli guds reidi, ok er eingen sa, er eigi muni þess sarliga kennazt. Sott su er ferr er sva brad, at hverr er tekr deyr, fyrr en hann kenni ser sottar, ok er sem eingum gefi tom til idronar edr skriptargangs, fyrr en hann andazt. Hyggid er at, hvilikr sa mun koma fyrir glogdæman domara, er eigi naer her at grata þat, er hann (hefir misgiort), ok giôra idran sina. I husum þeim, er sott su kemr inn, er eigi sem stundar audn verdi aa um mennina, þa er fyrir bua, fyrir þvi at þat er margstadar, at allir deyia. Fedrner grafa sonuna nidr, ok deyia erfingiar enna ellri manna fyrr en þeir sialfver. Snuizt nu hverr sem einn vor til iþranar, medan hann er heill ok tom er at; leidum vær þat fram fyrir hugskotz augu vor, er vær hofum misgiôrt, ok idrumzt þess med grati, er wær drygdum medr munudlife ok hlatri. Komum fyrir andlit drottens i iatningu, ok sva sem spamadr minner ydr aa, hefium upp hiôrtu med hondum til guds, er vær eflum kostgæfvi verka vorra med bænum vorum. En sa gefr styrkleik mikinn hiôrtum vorum, er i ordum spamanz sins eins sialfr drottenn kallar ok mælir sva: Eigi vil ek dauda syndugs manz, helldr vil ek, at hann lifi ok leidrettizt. Aurvilnizt ok eingi madr fyrir saker illzku sinnar akafligrar. Ein sexdægro fasta eyddi gômlum glæpum Ninive bua, ok illvirki krossfestr odladizt af einu iatningarordi lif eilift, þa er hann rettizt aa enu efzta dægri lifs sins. Snuum vær aaleidis hug vorum ok hiôrtum ok atferd, ok treystumzt þa, at vær munum þiggia þat, sem vær beidum. Werum vær þrabænir vid gud, til þess at hann leysi oss fra ogurligum dauda ok haska. Þrabæni su, er mônnum verdr opt leid, likar vel domara vorum, þviat gud er[1] milldr ok sams will þraliga vera bedinn af oss, ok vill hann veita oss miskunn ok eigi sva miog reidazt oss, sem vær giôrum til. Af þvi mælir David salmari guds roddu: Kalladu aa mik aa deghi hrellingar þinnar, ok mun ek hialpa þer, en þu munt gôfga mik. Sa berr

[1] var *Cd.*

ser vitni sialfr, at hann er giarn at miskunna, er sa minner, ath hann skuli bedinn vera. Fyrir þvi ok, enir kærstu brædr, gôngum sa morgin sa medal kirkna fastandi berfættir, ok syngium siaufallt letania af ôllum hugh ok medr tarum, til þers at domari vor nemi af oss alla reidi sina, þa er hann ser, at vær giôlldum oss sialfver glæpi vora ok idrumzt synda vorra.« En er allr mannfiôldi kom i nefndum degi til bæna, eptir þvi sem Gregorius diakn baud, þa hofu kennimenn upp fyst gôngu sina med letanie fra kirkiu Johannis baptista eptir tilskipun Gregorij. En þar næst hofu munkar upp gôngu sina fra kirkiu þeira Jons ok Pals pislarvotta guds. En olærdir menn gengu fra kirkiu Marcelli pape martiris, en nunnur ok meyiar gengu fra kirkiu Cosme ok Damiane; sidan manna konur fra kirkiu Stephanus diakns, en þar næst eckiur fra Vitalis kirkiu, en sidarst gengu voladir menn ok bôrn fra Ceciliu kirkiu. Sidan gengu allir med þersi tilskipun ok atferle aptr til Mariu kirkiu, ok badu allir med litillatum hiortum ok sannri sidsemi almattkan gùd, at hann nemi af þeim sina reidi[1] ok þersa illingarsott. Af þersi saminning ok tilskipun Gregorius i Romaborg hófz halld gagndags ens eina, ok er nu halldinn savallt sidan sa dagr um alla kristnina i þa minning, er sva var sottin akôf, at i gôngu þeiri, er alþyda geck med krossum ok lydrinn var sa bænum, þa fellu .lxxx. manna daudir nidr. En þeygi let hann af at telia fyrir þeim ok at eggia bænahalldz ok godlifis, til þers unzt af guds miskunn ok arnan Gregorij hvarf sott su af ôll.

10.[2] I þann tid er þessir atburder urdu, er nu var fra sagt um hrid, þa kvomu aptr sendimenn Gregorij, þeir er med brefum foru sa fund keisarans, ok konungs bref kvomu þau i moti, at hann villdi ser ecki lata annat lika, en Gregorius væri vigdr til pafa. Þa ætladizt Gregorius þat fyrir ser at hlaupazt i brott or Romaborg, eptir þat er hann var til pafa kosinn, fyrir þvi at hann var þa ordinn viss þers, at keisarinn hafdi eigi þau ord send um vixlu hans, sem hann villdi, ok villdi konungr helldr vikia[3] eptir alþydu þocka um þetta mal en eptir vilia Gregorij, ok ætladi þetta bædi ser ok ôdrum til mikillar farsælu, er Gregorius var til þessa velldis kosinn. En er menn urdu varer vidr, at Gregorius villdi þetta fordazt, er fyrir var ætlat, þa var halldinn vôrdr yfir borgarhlidum ôllum, at Gregorius skylldi eigi mega fordazt þat, er hann var til validr. Þat er sagt, at Gregorius leitadi ser fylsknes[4] ok falz sidan i nôckurum leyniligum stad, þviat hann matti eigi

1 reida *Cd.* 2 Fra Gregorio pava *Cd.* 3 mykia *Cd.* 4 fylsknsnes *Cd.*

[illegible] at [illegible]. [illegible] ok [illegible] [illegible]. En [illegible] Gregorius [illegible] ok [illegible] var [illegible]. [illegible] Gregorius [illegible] Gregorius [illegible] einga [illegible] upp ok [illegible] i þeim geisla, þar sem Gregorius var [illegible]. Þa tok til þeira [illegible] er enn helgi Jacob sa stiga standa til himins upp ok kvad þar vera hus guds. at undir [illegible] þvi mundi vera folgin [illegible] hans guds edr sialft hus guds er sidan. Þegar þa vard einvaldsmadr drottins fundinn ok tekinn ok sæliga dreginn helldr en leiddr til Petrs kirkiu. Eigi var þat giört sakir hadungar vid Gregorium, helldr fyrir þvi at borgarlydnum var sva titt til, at þat færi fram, er ætlat var, at Gregorius være vigdr til pafva. En sidan var hann vigdr til byskups ok til pafva yfir Romaborg, ok er þat audvitad, at Gregorius stod þvi eigi meir i moti þessi tign, at hann sa, at þetta var einkanliga guds vile. Gregorius giördizt sva milldr ok miskunnsamr i pafvadomi sinum, at hann hugdi hverium manni hialp, sem þurfti at honum at þiggia.

11.[1] I pafvadomi sinum giördi Gregorius margar bækr helgar. Cura pastoralis heitir bok, er hann giördi um þat, hve mikil vandrædi fylgdu byskupsdomi. Gregorius giördi homiliobækr .ii. ok eru i þeim skyrdar .xl. gudzspialla. Enn giördi hann þa bok er Dialogus heitir; i þeiri bok er sagt fra lifi ok fra iarteinum margra heilagra manna af Italialandi; þa bok giordi Gregorius at bæn Petrs diakns sins. Gregorius skyrdi ok upphaf ok nidrlag bocar Ezechielis spamanz, ok eru þat omiliur .ii. ok .xx., er þar eru um giorvar. A þat ofan giordi hann mörg rit önnur, er hann sendi vida um heiminn til stiornar heilagri kristni. I þvi hafdi hann ok mikla ahyggiu at skipa vardhalld i Romaborg, fyrir þvi at þa var sva mikill ofridr af Langbordum i þann tid, at aavallt þotti hernadar von, ef eigi væri vordr halldinn. Gregorius var ok sva litt heill, medan hann var pafvi, at rida geck alldri af höndum honum, ok þo var hann hardla hrumr aa fotum optliga. En hvergi sem hann var mæddr af vanheilsu edr af aahyggiu, þa var þo su

1 Fra enum helga Gregorio pava *Overskr. Cd.*

stund eingi, at eigi hefdiz hann þat nöckud at, er til nytsemi kom. Gregorius var ok sva miskunsamr, at naliga veitti hann hverium hialp er þurfti. Hann var sem fadir væri öllum fatækum mönnum, eigi at eins þeim er innan borgar woru, helldr ok mörgum þeim er langt voru i braut. Þat var til merkia um þat, at hann veitti þeim mikinn stoda munkum, þeim er fatækir voru a utlondum i fialli þvi, er Synai heitir, þat var ok vida, er hann lagdi fe til þerss at leysa herfeingna menn or aanaud ok or myrkvastofum.

12.[1] Gregorius hafdi skamma stund verit pafve, þa er hann sendi menn til at kristna Eingland, Augustinum, Mellictum ok Johannem ok marga adra guds vini med þeim. En þeir færdu þa syslu fram med sva miklum guds krapti, at þat landzfolk snerizt allt til tru, ok eigi midr af iarteinum þeim, er þeir giordu, helldr en af kenningum þeim, er þeir kendu. Þadan af er þat, er Gregorius er kalladr Eingla postoli, at þat var berliga af hans tilsyslu, er kristni magnadizt a Einglandi. Gregorius baud þat skylldiliga, at i munklifi þvi hveriu, er hann reisti upp, skylldi eingi munkr hafa fe neitt i eigu sinni.

I munklifi Gregorij var munkr ok prestr at vixlu, sa er atti ser brodur i veralldligu verki. Þat var optliga at broder munksins for at finna hann fyrir sakir þeira frændsemi, ok einu hveriu sinni er þeir brædr funduzt, þa mællti munkrinn vid brodur sinn: »Höcul hefver ek eingan, segir hann, nu giördu af ast vid mik ok kaup til handa mer.« Hann svarar: »Taktu vit þrimr penningum ok kaup þat sem þu villt.« Þa tok munkrinn widr penningunum ok hafdi i vitum sinum. Þat sa munkr annarr ok sagde abota þeim til, er yfir munklifinu var, en hann sagdi Gregorio pafva. Þa skildi Gregorius þann munk fra samneyti brædra, fyrir þat er hann hafdi brugdit af munka regulo, en sa munkr andadiz faam dögum sidar, sva at Gregorius vissi eigi. Þa sagdi aboti andlat hans Gregorio, en þa þotti honum mikit at, er hann hafdi eigi tekit munkinn af banni, adr hann andadizt. Þa ritadi Gregorius nöckur ord a bladi ok selldi diakni sinum ok bad hann fara at lesa ord þessi yfir leidi ens andada. En þau ord voru a bladinu, er sva sögdu, at Gregorius tok enn andada or banni. Þa for diakn ok giördi þat, er honum var bodit. Nott þa ena næstu eptir sa aboti brodur enn andada ok mællti vidr hann ok spurdi: »Ertu broder daudr?« Hann svaradi: »Wist em ek andadr.« Pa mællti aboti ok spurdi: »Hvar hefir þu verit her til?« Hann svaradi:

1 Fra brædrum tveimr *Overskr. Cd.*

»I vardhalldi var ek, fadir, allt her til, en i giær vard ek frials.« Þadan af vard ollum kunnigt, at sa þeiri stundu var ǫnd hans numin or saanaud, er diaknenn hafdi lesit bref Gregorij yfver leidi hans.

Þa veniu hafdi Gregorius i pafvadomi sinum, at hann let bioda .xii. fatækum monnum til bordz med ser umfram um þat, er hann fæddi marga fatækia annars stadar. Þat var einnhvern dagh þa er Gregorius villdi af litillæti þiona ok hella vatni a hendr utlendum manni[1] pilagrimi einum, at[2] þvi er hann hugdi at væri, en þa er hann hafdi snuizt fra honum at taka vatnit ok hann leit til hans, þa var hann horfinn allr, er Gregorius villdi þiona. Þa undradizt Gregorius miǫg, hvi sva hafdi farid. Þa vitradizt drottinn honum ena næstu nott eptir ok mællti vid hann: »A ǫdrum dǫgum toktu vid mer i lidum minum, en i gær toktu vid mer sialfum i minu edli.«

A annarri tid baud Gregorius syslumanni sinum at lada .xii. utlenda pilagrima til bordz med ser. Sa giǫrdi, sem honum var bodit. En er Gregorius kom til, taldi hann .xiii. menn, þa er til bordz voru settir. Hann spurdi syslumann sinn ok diakn þann, er þa hafdi inn leidda, hve hann hefdi .xiii. mǫnnum þangat bodit, þar sem hann hafdi .xii. til nefnda. Sa taldi vandliga ok fann eige meir en .xii. ok mællti sidan ǫruggr: »Trudu, gǫfugr fadir, þviat ek segir þer satt, eigi eru fleiri en .xii. mennerner, sem þu mælltir.« Diakninn taldi þa opt ok fann eigi enn þrettanda, þann er Gregorius sa. En er þeir hǫfdu opt talit, ok taldizt þeim alldregi a einn veg, þa fann Gregorius ok skildi, at hann sa þann mann, er syslumadrinn matti eigi sia. Sa madr er næst honum sat, syndizt[3] honum stundum ungligr en stundum haar fyrir elli. En þa er lokit var matmali þvi, þa foru .xii. menn a braut, en enn þrettanda mann dvaldi hann eptir, þann er Gregorius einn matti sia, ok leiddi hann i kamra sinn, þann sem hann var opt vanr at sitia, ok særdi hann akafliga, at hann skylldi satt segia til sin ok til nafns sins. Sa svaradi ok mællti: »Af hvi spyrr þu at nafni minu, þat er undarligt hardla; minztu a hitt, at ek em skipsbrotzmadr, sa er kom til þin, at (þvi) er þer syndizt, þa er þu satz at riti i munklifvi þinu. Mer gaftu .xii. penninga ok silfrdisk, þann er sæl Silvia modir þin hafdi þer sendan med alldini. Þat skalltu vist vita, at a þeim degi, er þu gaft mer giafir af glǫdu hiarta, red gud þik til þerss, at þu skylldir vera hǫfdingi

1 mm (*d. e.* monnum) *Cd.* 2 af *Cd.* 3 Greg. *tilf. Cd.*

heilagrar kristne ok sitia i stoli Petrs postola ok vera hans sporgôngumadr, fyrir þvi at þu lifder eptir hans dæmum, ok hans eptirlikingarmadr giordizt þu i ôrleik þinum. Hann midladi þat hverium, er hafa þurfti, ok skipti hann ôllum aurum sinum medr þurfamonnum.« Þa mællti Gregorius ok spurdi: »Hvadan af veiztu þat, at gud setti mik til hôfdingia yfir kristni sinni?« Hann svaradi: »Þvi at ek em eingill guds, ok var ek þa sendr til þers ath reyna þik ok styrkia rad þitt.« Þa oadizt Gregorius, þvi at hann hafdi eigi berliga eingil guds fyrr senan. Þa mællti eingillinn vid Gregorium: »Eigi skalltu oazt, sagdi hann, nu hefir drottinn sialfr sendan mik til þin, til þess at ek skylldi vera vordr þinn, medan þw ert i þessu lifi, ok med minni aarnan skalltu þiggia þat allt af gudi, er þu villt þiggia.« Þa fell Gregorius aa iord nidr ok mællti: »Ef fyrir litla giôf mina selldi gud mik til hofdingia kristni sinni ok veitti mer sva mikit, at hann sendi mer eingil sinn til vardhallz vid migh, þa ma ek eigi ætla, hve mikil laun hann mun mer ætla, ok hversu marga goda hluti hann mun veita mer, ef ek fylgi nu bodordum hans af ollu afli, ok em ek nu þeim mun ôrvare, sem ek hefir fleira[1] med hôndum, ok veiti ek mart af môrgum hlutum.« Þadan af var Gregorius ôlmusugiarnari, sem hann var ôruggari vordinn um þat, hver laun hann munde fyrir taka.

I þann tid hafdi einn fatækr madr fundizt i Romaborg, sa er af matleysi hafdi dait; en þvi kunni Gregorius sva illa, at hann sông leingi eigi messur epter, ok nær virdi hann sva, sem hann hefdi þeim banat, er af fatæki hafdi i hans syslu fared.

13[2]. Kirkia su er villumenn hôfdu haft i Romaborg vard byrgd, til þess unzt Gregorius var pafvi, þa var hun ok lokin upp, ok voru þar bornir inn helgir domar Sebastiani ok Agathe, ok sidan var hun vigd, sva sem þar til heyrdi, ok þa kom Gregorius þangat med mikinn mannfiolda ok sông þar messu. En at messu þeiri kendu menn þess, þeir er þrôngt stodu fyrir utan sônghus, at gôlltr nockurr boradizt i milli þeira, til þers unzt sva þotti, sem hann færi ut or kirkiu. Þess kendu margir menn, en eingi matti svin þat sia, en ôllum þotte kynlikt. Þat let gud til þess verda, at ôllum skylldi synt þikia, at fyrir Gregorio ok fyrir helgum domum flydi þadan ohreinn ibue, sa er þar hafdi aadr mikit velldi haft. Eptir messu for Gregorius aa braut þadan, ok ôll alþyda med honum. Nætr þær .ii. enar næstu eptir vard þar

1 fleirum *Cd.* 2 Fra kirkiu villumanna ok Gregorio pava *Overskr. Cd.*

i kirkiu þeiri okyrrleikr mikill, ok var enn meira um enn sidarr nottina, en þadan fra vard þar ekki til bysna, helldr urdu þar mørg takn af gudi: bædi var þar kendr godr hilmr ok lios kveiktuzt þar sialft, sva ath þat war ekki af manna völldum.

14[1]. Husprevia einhver göfug i Romaborg var þvi vön at lata taka sem vandligazt oflætr, ok færdi hun þær til kirkiu ok allteris hvern drottinsdagh, þangat sem Gregorius veitti tidir ok sialfr pafvinn söng messu. Einnhvern dag þa er hun geck til at taka þionustu, ok Gregorius villdi gefa henni corpus domini, ok hann mællti sva: »Holld ok blod drottins vors Jesus Kristz stodi þer til fyrirgefningar allra synda ok til lifs eilifs«, þa hlo hun. En er Gregorius sa þat, þa gaf hann henne eigi corpus domini, helldr lagdi hann þann hlut ser einn nidr a allteri ok baud diakni at vardveita, unzt alþyda hefdi tekit hunsl. Eptir þat er tidum var lokit, spurdi Gregorius husfru ok mællti: »Seg mer, hvi vartu sva diörf, edr hvad kom þer i hugh, er þu hlott, þa er þu skylldir taka corpus domini?« Hun svaradi: »Ek kenda hlut af oflatu þeiri, er ek hafdi bakad siölf ok giört med minni hendi, en er ek heyrdi þik þad kalla corpus domini, þa hlo ek.« Þa taldi Gregorius um þat mal fyrir alþydu ok eggiadi, at allir skylldi bidia þess gud med honum, ok til trubotar mörgum mönnum syndi hann likamliga, hvat þat var raunar, er husfruen trudi eigi vera holld ok blod drottens. Þa reis Gregorius upp af bæn ok lydrinn med honum, ok alþyda þreyngdizt at allterinu at sia himneskt takn. Þa er hann letti af corporale af þeim hlut, sem hann hafdi lagt a allteri, ok hann hafdi ætlat at gefa husfreyiu, þa fanzt þar hlutr af minzta fingri manz blodugr, ok syndizt þa sva alþydu. Þa mællti Gregorius vid husfreyiu: »Trudu nu fra þvisa þvi, er drottinn sagdi, at braud þat sem ek gef er sannlig(a) holld mitt, ok dryckr sa er fylgir er blod. En skapari vor, er veit ostyrkleik vorn, snyr braudi ok vini vatni blöndnu i holld sitt ok i blod af helgan anda sins, sva at þat helldr þo asionu sinni, ok giörir hann þat af þeim enum sama mætti, sem hann skapadi allt or einugi fyrir öndverdu, ok hann samdi ser likama af holldi heilagrar Mariu i krapti heilaghs anda.« Sidan beiddi Gregorius þers, ath lydrinn skylldi bidia med honum, at su en sama þionusta tæki enn sina asionu, sva at þa mætti hun vera gefin husfreyiu, sem adr var ætlat. Enda vard þat ok sva, at þa snerizt sa fingrar hlutr i brauds asionu, sva at allir saa þat, þeir er wid woru staddir, ok

[1] Fra husfreyiu einne *Overskr. Cd.*

styrktuzt allir i tru sinni af sva itarlighum iarteinum. Þa idradizt husfreyia miog otru sinnar i guds augliti ok allrar alþydu, en Gregorius huggadi hana med mörgum fagrligum ordum ok bad, at hun skylldi wera gætin um sitt rad þadan i fra. En sidan eptir þat tok husfreyia corpus domini, ok ward henni mikil trubot at þersum iarteighnum sva sem morgum ödrum.

15[1]. Fra þvi er enn sagt, þa er kristnin hafdi magnazt miog a Einglandi, at einnhverr kynstor madr ok rikr komzt i vinfeingi wid Gregorium. Sa sendi menn sina til Gregorium pafva med giafir miklar ok giorsemar ok beiddi þess at moti, at Gregorius skylldi senda honum helga doma postola edr pindra manna guds. Gregorius weitte þeim monnum yfirlæti gott, ok er hann war wiss, hveria helga doma þeir willdu þiggia, þa hafdi hann þa med ser i þa stadi, er þeim mönnum woru helgadir, er þeir willdu af helgum domum þiggia. Gregorius söng messur at þeim allterum, en sidan skar hann af linskauta sma af lindukum þeim edr corporalum, er hann hafdi messur yfir sungit, ok let þar fylgia nöfn þeira heilagra manna, er þeir stadir woru helgadir[2].

---

*(Membranbladsfragment i norske Rigsarkiv).*

Licame hans var fyrst gravenn i vtscote af Petrs kirkiv, þar sem helger pavar hvila: Leo, Simplicius, Gelasius oc Simacus. En fimtogom vetra siþarr let Gregorius en fiorðe pave með þvi nafne bua um helgan dom Gregorius i Petrs kirkio under alltera þeim[3] er nv er Gregorius helge a, oc er þar hvalf ifer.

A þvi are er en helge Gregorius andaðez, gorðe varan mikit, sva at menn ondvðvz af matleyse viða of heim. En þott halleri syndi ollvm heimi, hve mikils hꜹfðingia var þa við mist i Roma, þa rꜹknꜹðv þvegi(!) ꜹvondarmenn Gregorius við at helldr, þeir tꜹlldv hann hꜹa verit felogsmann mikin oc hꜹa mioc eytt ꜹðreþvm þeim, er lago til sto(l)s Petrs postvla. Oc er þeir mattv hanvm eigi gremiaz livanda, þa egivðvsc þeir a ðat at brenna bekr þer er hann hafði gorvar. Oc ða er þeir hꜹfðv brendar svmar oc villdv en brenna fleiri, þa toc Petrs(!) diacn at standa a mot þeim, hann taldi þeim þat mvnðv ekki stoða til þess at eyða ageti Gregorius, þott þeir brendi bekr hans, þvi at þo erv margar aðrar

1 Fra einum kynstorum manni *Overskr. Cd.* 2 *Her ender Sagaen i Cd. Holm.* 3 þ[l]eim (*d. e.* þvi *rettet til* þeim, *eller omvendt*) *Cd.*

epter. þer er epter erv ritnar oc erv viða of heim bornar; hann taldi þat harfudlaust at brenna bøkr þviliks lerifødvr þer er hann hafði sialfr sed enn . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

---

## HALLVARDS SAGA.

*(Begyndelsen, 238 b folio: Slutningen, 235 folio: alt det øvrige af Sagaen er gaaet tabt.)*

Madr er nefndr Vebiorn, hann bio i Hlidum a Vestfolld i Vik austr a bæ þeim, er heitir Husabær. Hann atti konu þa er Þorny het. Segia sumir menn hana verit hafa dottur, enn sumir dotturdottur Gudbrandz kulu hersis a Upplondum. Hann var fadir Astu modur ens helga Olafs konungs ok Haralldz konungs Sigurdarsonar. Þau Vebiorn attu tvo sono, het annar Hallvardr, enn annar Ormr. Vebiorn var vinsæll madr ok audigr. Annar madr bio þadan skamt i brot er Kolbiorn het, þar heitir a Velli sem hann bio . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

var nockurum trufôstum monnum i Hlidum, er hird var h[el]la hans ok þær vidiar or viði snunar, er honum hafdi [sô]kt verit med; ok er þat sôgn sumra manna, at þær blom[gud]uz margan tima sidan. Enn stundu sidar var en helgi H. færdr i Oslo, ok þa enn med heilu liki, ok hvilir sidan þar i hofutkirkiu þess kaupstadar, ok vegsamadr sidan af ôllu folki, sem verdugt er. Veitaz þar ok sva vida annarstadar fyrir (hans) verdleika ok arnardarord margfalldligir velgerningar þeim monnum, er þess bidia med rettri tru af drottni vorum Jesu Kristo, þeim er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir einn gud i þrenningu um allar alldir verallda. Amen.

---

## II.

*(Den latinske Legende om Sanct Hallvard, saaledes som den meddeles i Acta Sanctorum, Mai Tom. III, S. 401, efter et Haandskrift i Utrecht; Jfr. Munchs Norske Folks Historie III, S. 197 f.).*

Sanctus Halwardus ex nobilibus ortus natalibus claruit, cuius pater Vebron(!) mater vero Thorni dicebatur. Cuius videlicet Thorni mater, ut fertur, filia fuit Gutbrandi comitis, qui etiam Gutbrandus genuit Ascham(!) Sancti Olavi matrem. Puer autem Halwardus crevit in domo paterna cunctis prædilectus. Erat autem primo religioni deditus christianæ, obediens parentibus, erga propinquos benevolus, corpore castus, honestate præpollens, iustitiæ cultor. Cumque Sanctus Halwardus in adolescentiam devenisset, cœpit in re familiari procuranda patris adiutor existere. Fertur etiam, quod apud cunctos habetur, quod a primævo duo pondera fecerat sibi, quo, ne aliquando fraudem faceret, sibi minus, fratri autem maius pensaret.

Cumque mercandi gratia Gotlandiam veniret, et sua ibidem negotia exercere cœpissit, venit quidam terræ illius indigena vir prædives, Botwidus nomine. Hic cum viros ignotos vidissit, ad eos accedens, qui essent et unde, requisivit. Cui illi cuncta per ordinem indicabant. Hic vero, cum Sanctum Halwardum conspexisset, ait: Quis est adolescens iste? At illi nomen et genus indicabant. Quod cum vir prædictus audisset, ait: Video vultum tuum singularem, et præ cunctis hic stantibus honorabilem. Certe scio, quod magni prodigii lucet in te futurum aliquid, unde te cum tuis contribulibus ad refectionem invito. Quod Sanctus Halwardus gratanter acceptavit. Ille vero suscipiens, omni humanitate exhibita, convivium præparavit, et cuncta, quæ in venalibus habebat, comparavit, et multo plura redonavit; et tempore navigandi adveniente, omnia necessaria ei tribuit, et in pace abire permisit. Sicque sanctus salvis omnibus cum sociis est reversus ad patriam.

Post modicum vero temporis, verno instante tempore, egressus Sanctus Halwardus de domo patris, ut pro suis negotiis agendis partes vicinas visitaret, venit ad stagnum Dram nomine, per quod iturus erat, extrahensque modicam lintrem de alga, ascendit eam. Et subito venit mulier prægnans, tremens ac palpitans, rogitans, ut eam secum ferret. Et interrogata, quæ esset, et quo vellet, indicato nomine, se transituram per mare velle, affirmavit: et ideo cum videret hominem eo itinere properantem, ne tardior periret,

ideo celeriter accurrisse. Jussaque mulier sedit in puppi. Ille vero iter arripuit navigando. Et subito vidit ad littus, quo mulier venerat, tres viros velociter accurrentes, qui statim aliam cymbam accipientes, post eos velocius navigant. Tunc Sanctus Halwardus ait: Agnoscis hos? Ait illa: Agnosco. Et ille: Ut video, te requirunt; dic mihi, quid feceris? Respondit illa: Verum est, quod me persequuntur, sed quod mihi imputant, non feci; imponunt enim super me causam furti. At ille: Potes te ex hoc purgare ferro ardente? At illa: Possum et parata sum, si mihi parcere velint.

Viri autem illi, ipsos velociter insequentes, dixerunt: Cur tu, Halwarde, talis adolescens, tam generosis editus parentibus, tam malam feminam tuendam suscepisti? Redde eam, ut moriatur, quoniam digna. Quibus Halwardus dixit: Quid enim mali fecit? Qui dixerunt: Furata est res fratris nostri, infringens domum eius. Quibus ille ait: Et quomodo domum infregit? Dicunt ei: Extraxit ansulam de poste, quæ tenebat seram. Et ille: Hoc opus non est mulieris, sed fortissimi viri. An aliquis invenitur, qui eam viderat hoc fecisse, vel in eius domo sublata invenistis? Sin autem incertum est, cur morietur? Nonne magis iustum, si potest, purget se a crimine? Sin autem, quod legibus iustum est, de ea fiat, aut redemptionem pro ea dabo, tantum ut impraegnantem et infantem in utero habentem ne occidatis. Oportet igitur vos sedari, nec temere quid agere. Tunc illi econtra hoc furentes vociferabant. Unus autem quisquam eorum arcum eripiens tetendit. Et sagitta fortiter emissa pectori martyris infigitur. Quo perempto etiam mulierem occidunt, et in littore sepelierunt. Ipsi vero saxum ad collum eius ligaverunt, et in mare demerserunt: sed per divinam gratiam et merita martyris, corpus eius longe post cum saxo super mare natans repertum est.

---

## III.

### Lectiones de S. Halvardo.

(*Ex Breviario Nidrosiensi*).

1. Sanctus Haluardus ex nobilioribus ortus natalibus, cuius pater Vebiorn, mater vero Thorni dicebatur. Mater vero Thorni fuit filia Gudbrandi comitis, qui Gudbrandus genuit etiam Ostam

sancti Olaui matrem. Erat corpore castus, honestate prepollens, iusticie cultor. Factus adolescens, cepit in re familiari procuranda patris adiutor existere. Duo pondera sibi fecerat, ne fraudem faceret, sibi minus, fratri vero maius pensabat.

2. Instante verno tempore partes vicinas visitauit, venit ad stagnum Dram nomine, per quod iturus erat, extraxit modicam lintrem de alga et ascendit eam. Et subito aduenit mulier pregnans, rogabat, vt eam secum ferret. Jussa sedit in puppi, et sic iter arripuit. Et subito vidit tres viros itinere, quo mulier venerat, ad littus accurrentes. Qui statim aliam cimbam arripientes, post eos velocius nauigabant.

3. Tunc sanctus Haluardus mulieri ait: Agnoscis hos? Ait: Agnosco. Ut video, te querunt, quid fecisti? Ait: Imponunt super me causam furti. Potes te purgare? Ait: Possum, si michi parcere velint. Uenientes viri predicti dixerunt: Cur tu, Haluarde, talis adolescens, tam malam mulierem tuendam suscepisti, que digna est morte. Sanctus pro ea multis modis respondit. Inter alia dixit: Redemptionem pro ea dabo, tantum impregnantem et infantem in vtero habentem ne occidatis. Illi vero contra eum furentes, vnus eorum arcum arripiens tetendit,. et sagitta fortiter emissa pectori martyris infigitur. Etiam mulierem occiderunt, et in littore sepelierunt. Ad collum sancti saxum ligauerunt, et in profundum submerserunt, sed per diuinam gratiam et merita martyris corpus eius longe post cum saxo super mare natans repertum est.

---

# KATERINE SAGA.

(*Cd. 233 folio, A*; *Cd. Holm. 2 folio, B*; *Cd. 429 octavo, C.*)

**Her hefr upp sogu heilagrar Katerine meyiar**[1].

1. A dôgum Maxencij keisara sonar Maximiani keisara, er riki hafdi halldit med Diocleciano[2] keisara, var giôrr mikill ofridr kristnum monnum, ok var allr heimr i þann tima naliga fullr af ymisligum skurdgoda villum. Vissu fair einir drottin gud vera skapara himins ok iardar, ok fyrir þvi þionudu margir skepnunni med miklum alhuga ok kollodu þat gud, er sialfir hôfdu þeir sinum hondum smidat. Sia Maxencius, er ek nefnda, villdi auka þionosto ok dyrkan vid gudin, eptir[3] þvi sem gert hôfdu fyrir honum Diocleciauus ok Maximianus fadir hans, ok fyrir þvi sendi hann bref um allt sitt riki sva mælandi: Maxencius konungr, med miskunn ok fyrirhyggiu heilagra guda skipadr yfir allt Romaborgar[4] riki, sendir kvediu ôllum hertugum ok iôrlum, baronum ok domondum ok ollum þeim, er styrkia Romaborgar riki. Þær ahyggiur, er vær berum fyrir tign ok frelsi heilags velldis nætr ok um daga, hafa þat raad stadfest i voru briosti, er vær vilium eigi upp kveda nema naverande ydvarri speki, ok fyrir þvi minnum vær aa ok til eggium ena gôfguztu menn ok ena vitroztu, at þa er bref vor koma til ydvar, stundit þer þa hvatliga aa vorn fund ath sækia ok [latit aungar vidbarur koma[5] i moti þessu voru bodi. Sidan gerdiz hardla fiolmennr hofdingia fundr i hôfutborg þeiri a Egiptalandi, er Alexandria het, ok a þeim fundi taladi Maxencius konungr ok tiadi sinar radagerdir [aulldunga sveit þeiri[6], er hann hafdi saman kallat, ok mællti svo: »Fyrir krapt ok verdleik allra guda[7] þeira

1 *Ved Sagaens Begyndelse, der mangler i A, lægges B til Grund.* 2 *saal. C*; Domiciano *B* 3 *saal. C*; af *B*. 4 Romveria *C*. 5 [ *saal. C*; setit ongur berior *B*. 6 [ aullum þeim sveitum *C*. 7 goda vorra *C*.

er vær þionum, [ok hallda[1] farsælld ok sigri ok dyrd Romaborgar rikis, er eingi su þiod i ollum heimi, er hafni at luta woru velldi, nema full metnadar[2] kristinna manna sveit i sinni ovitzku ok atrunade, su er vær hǫfum enn eigi matt eyda med ollu, þviat hun dreifiz[3] her ok hvar um heim ok leitar ser fylsna, at hon megi fordaz vorar hendr. Ok fyrir þvi biodum vær ok giǫrum þat laugtekit, at almennilig veghsemd ok einkannlig dyrd se veitt enum helguztum gudum, er mætti sinum ok milldi styrkia[4] vort riki, at þau gæti vor at eilifu, en syni oss kristna menn, at vær megim nidra þeira drambi ok hegna rækiliga[5] villu þeira, ok sialf gudin glati þeim, er vær megum eigi sa hitta. Þessi lǫg, er vær hofum sett, byriar oss sialfum fyrst at fylla. Vær skulum forna gudunum slikt, er vær megum af voru valldi, en þer ut ifra [fornit, hverr sem ma[6] giarna eptir sinum fǫngum.« Annan dag eptir var feingit at bloti miklu; bædi voru naut ok saudir, fuglar ok ǫnnur margskonar kykvendi sæfd fyrir gudunum. Borgin aull þaut af allzskonar sǫngfærum, er þeir lofudu fiandr med[7], þa er þeir hugduz gera dyrd guda sinna.

2. A þeiri tid er slik tidendi giorduz i borginni Alexandria, var þar stǫdd ein mær, su het Katerina dottir Kosti konungs; hun hafdi þa mist fodur sinn[8], ok var hun eptir hans frafall med frændum sinum i þeiri hǫll, er hann hafdi att. Þessi mær svo sem hun var ættgǫfug, svo var hun ok agæt at speki sinni, numit hafdi hun allar þær iþrottir a[9] bokum, er liberalis[10] heita. Hun kunni margar tungur at skilia[11] ok spakliga allar spurningar at leysa, þær er fyrir hana voro bornar. Ok þa er þessi mær sa svo mikinn muga[12] saman kominn ok slikan tilbuning[13] blotanna ok heyrði saungva ok simphon ok margan annan strengleik, er fram var fluttr goðunum til dyrdar[14], en kristna menn sa hun standa milli heiðingia gratandi ok eigi þorandi Kristi at iáta fyrir otta sakir ok hræðzlu, þa komz hun vid miok; en hun tok þo at hafa karlmannligan hug i kvenligu[15] briosti, ok kalladi siþan med ser þionostusveina sina nokkura ok gekk þa til hofs þess, er konungrinn[16] sialfr var inni ok blotmanna sveit med honum, sva sem rum hafði i hofinu, ok færdu þar fram blotin. Heilug Katerina var svo fǫgr

1 [ *saal. C*; helldr *B*. 2 *saal. C*; metnadr *B*. 3 *saal. C*; er *B*. 4 stydia *C*. 5 rikulega *C*. 6 [ forne einn sem einn *C*. 7 sina *C*. 8 sins *C*. 9 af *C*. 10 *Her beg. A*, *som nu læyges til Grund.* 11 mæla *B*, *C*. 12 mug *B*; mannmug *C*. 13 tilbunat *B*. 14 tignar *B*. 15 kveusligu *B*. 16 keisarinn *B*.

at aliti, at allir undruduz hennar fegrð, er hana sa. Ok er hun gekk at hofinu, þa mælti hun til þeira, er konungi þionudu: »Þvi er[1] ek her komin til hofs þessa, at ek vil tala vid sialfan konung þat, er mali vardar ok til nytsemdar ma verða.« Þeir sögdu þegar konungi ord meyiarinnar, en hann gaf henni leyfvi til inngöngu ok at tala[2] slikt, sem[3] hun villdi. Hin sæla Katerina flutti fyrst fyrir konungi sitt erendi med spakligum gátum ok vitrligum malsendum tiltekinna dæma[4], ok mælti myrkt en med mikilli snilld; um siðir sneri hun sinni ræðu til þeira ordtaka, er alþyða mátti vel skilia, ok sagði sva: »Her til hefvir[5] ek, konungr, flutt erendi mitt [einkannliga fyrir þer[6] sva sem fyrir hinum spakazta manni ok þeim, er sitr i hæstu sæti veralldligrar tignar; vil ek [mæla liost[7] hedan af, at allir megi skilia, þeir er hia ero staddir, min orð. Fyrir hveria søk [samnit þer[8] saman, konungr, sva miklum mannfiolða at stunda til ovitzku[9] eda starfa i skurðgoða villu? [Undriz þer[10] miok, sagdi hun, hof þetta gort af manna hondum. Mikit finnz þer um hagleik þann, er þar er sa, ok um dyrðligan buning, er pryþir hofit. Nu svó fagrt sem þat er alt saman at sea, þat verþr allt, er skamt liðr heðan, at dusti [ok molldo[11]. Undraz þu helldr himin ok iorð ok sióinn ok aðra þa luti, er i þeim ero; hyggit[12] at solinni ok tunglinu ok stiornunum ok at þionostu þeira, hversu þau renna fra upphafi heims ok alt til enda veralldar; þau renna dag ok nott til vestrs [ok gefa alldri hvilld[13] ok hverfa aptr til austrsins, alldri [þrytr þau ne mæðir[14]. Ok þa er þer hugleidit þetta, spyrit eptir ok nemit, hverr þessa luti alla hefir smiðat[15]. Ok þa er þer skilit med sialfs hans fultingi, hverr hann er, ok þer megit engan finna honum iafnan, þa dyrkit hann ok eggit þess alla yðra undirmenn þeim at luta ok þiona, er valld hefir at skiota i helvitis loga öndum ok likömum sinna ovina; hann er drottinn drotna ok höfdingi allra höfdingia, hann sá allan heiminn tapaðan af tál [diðfuligrar vælar ok fiandligrar[16] fortolu, ok fyrir þvi sendi hann son sinn drottin varn Jesum Krist, er getinn er af helgum anda, fæddr af[17] Mariu meyiu ok tok manndóm a sinn guðdóm ok leysti heiminn fyrir kross[18] pinsl ok fyrir uthelling sins hins [heilaga bloðs ok hans[19] dyra dreyra, en leiddi

1 em *B*, *C*. 2 mæla *B*. 3 er *B*. 4 doma *B*. 5 hefi *B*, *C*. 6 [ *tilf.* *B*, *C*. 7 [ *mgl.* *B*. 8 [ samnadir þu *B*, *C*. 9 *saal.* *B*, *C*; veitzlu *A*. 10 [ Undraz þu *B*, *C*. 11 [ einu *B*, *C*. 12 [ hygg þu *B*, *C*; *Tiltalen til Kongen er i disse ogsaa senere i Enkeltal.* 13 [ *mgl.* *B*, *C*. 14 [ þreytaz þau ne mædaz *B*, *C*. 15 smidada *B*. 16 [ fiandans ok *B*, *C*. 17 fra *B*. 18 krossins *B*, *C*. 19 [*mgl.* *B*, *C*.

til himinrikis alla sa sik truandi ok ser truliga þiónandi. Nu ef þu [truir sa[1] hann rettliga, ok [vilit þer[2] hann dyrka, þa mun hann hreinsa syndir yðrar allar ok leiða yðr siþan til eilifra fagnaða.« Keisaranum bra sva við, er hann heyrdi ord heilagrar meyiar, at i fyrstu[3] mátti hann engu svara. En er hann retti við sva sem af nøkkuru ómegni eda oviti, þa mælti hann svo: »Þu kona, lat oss [i nadum færa fornir[4] godunum, en siþan munu ver andsvara serhverium lutum, þeim er þu ræddir.« Ok þa bauð hann nokkurum sinum monnum at leiða hana til hallar sinnar. En sialfr hann undraði miok hennar speki ok malsnilld, en einna mest hennar fegrð ok kurteisi, þvi at hun var hardla frið, sem fyrr var sagt.

3. Siðan er lokit var blotinu, for keisarinn[5] heim til hallar sinnar ok let þegar leiða fyrir sik Katerinam ok mælti svo til hennar: »Heyrðum ver snilld þina [ok undrudum vær speki þina[6] ok orða frammburð þinn; en fyrir sakir þess starfs er ver fluttum fram við goðin i þeira þionostu, [þa vard oss eigi tóm til at svara þer[7]; en nu vil ek vita, hver þu ert eða hvert þitt heiti er, ok hver ætt þin er.« Heilug Katerina svaradi: »Svo er ritat, at hvarki skuli maðr[8] lofa sik ne lasta, þviat þat gera heimskir menn, þeir er ser leita hegómligrar dyrðar. En þvi at ek em eigi svo litillar ættar, at min tign megi audvelldliga leynaz, þa segir ek til frænda minna, eigi fyrir sakir hræsni eða metnadar, helldr sem elskandi sannleik ok satt litillæti. Ek em Katerina dottir Kosti konungs. Ek var upp fædd i holl feðr[9] mins, til bækr[10] var ek sett, ok nam ek yfrit mikit af bokligum listum[11] ok veralldligri speki. Ok þa er ek sa, at þat var allt engu[12] nytt ok ekki meganda til himinrikis fagnaða ok [til enskis hafanda[13] nema til glatsamligrar gledi þessa lifs, þa fyrirleit ek þat alt, ok flyða ek til drottins mins Jesus Kristz, er sva mælti vid spamann sinn: glata mun ek speki spekinga, ok lasta mun ek skilning skiliandi manna. Ok i gudspialli segir hann sva: sa er fyrirlætr foður sinn ok moður, brædr ok systr fyrir minar sakir, hann mun hundratfalt upp[14] taka ok eignaz eilift lif. Ver kristnir menn hôfum þetta fyrirheit, ok hirda þat guds prælar með ser dyrliga.

1 [ hugleidir *B*. 2 [ vilir þu *B*, *C*. 3 fystunni *B*. 4 [ luka fornir at færa *B*, *C*. 5 konungr *B*; hann *C*. 6 [ *tilf*. *B*, *C*. 7 [ mattum vær eigi hugleida vandliga alla hluti, þa er þu sagdir *B*, *C*. 8 sialfr *tilf*. *B*, *C*. 9 fodur *B*, *C*. 10 bokar *B*. 11 iþrottum *B*. 12 *Her mangle nogle Blade i C*. 13 [ eigi komanda *B*. 14 fyrir B.

En ver hirðum ekki um bækr eða kenningar þeira meistaranna Platonis Virgilij [eða Homeri[1], Sibille spakonu eða annarra spekinga, [þeira er til onytz villdo hafa sina speki ok vitro,[1] ok enn siðr um illzkufulla fiolkyngi þeira Mambres ok Jambress[2]. Þvi minni ek yðr sa þat, herra keisari, at þer tynit eigi eilifum fagnadi fyrir veralldligri[3] dyrð.« Keisarinn svaraði þa: »Jata verð ek, hversu mer virdiz þat, er til þin tekr. Malsendar þinir virðaz mer eigi framfluttir með mannligri roddu, helldr þickir mer hinu likara, sem godin sialf tali fyrir munn þer, ok af þvi er virdanda ok vegsamanda þat er þu mælir.« Heilug mær svarar: »Undrumz ek þat, at þer, hinn vitrazti keisari, talit sva, eda munit þer eigi þat, er ek sagda aðan, at þann skulum ver tigna ok dyrðka, er gerdi himin ok iorð ok alla luti aðra; en goðin megu hvarki gora ser gagn ne oðrum. Af þvi skylldut þer eigi segia svo min orð framflutt, sem godin mæli fyrir mik, helldr svo sem med lifanda guds fultingi.« »Ef svo er, sagði keisarinn, sem þu sannar, þa hefir allhegomligt verit her til vort starf, er dyrdkat hôfum almattig goð. Hvat nu þa? Villiz allr heimr, en þu ein segir satt? Med vitnum tveggia eða þriggia ma saga hver sannazt. En hversu ma þat sannligt þikkia, at þu ein segir satt, en oll veralldar bygðin liugi? Nu þo at þu værir guds engill eda nokkurr annarr himneskr kraptr ok segdir þu slikt, er svo er olikligt, þa skylldi þvi þo engin trua, en nu miklu siðr, þviat þu ert kvenmaðr blautrar natturu ok breyskrar. Ok med þvi at þat ma at engum kosti vera, at þu ein segir [satt eða[4] sannara en allir aðrir i heiminum, þa skal ek alldri trua þer ok engir þeir, er til mins rikis þiona.« En sæla Katerina svarar: »Ef þer erut hôfud lyðsins ok keisari, þat valld hafandi[5], er eigi ma sigrat verda, þa lat eigi rangsnuna reiði ok rangsyna sigra þik ok speki þina, lat ôndina meira styra en likamann, þviat spekingrinn sagdi: »Konungr ert þu, ef hugvitit styrir þer, en þræll, ef likaminn styrir þer eða ræðr.« Keisarinn svarar: »Svo syniz mer, sem þu ætlir at vega ordsigr[6] a oss með dæmum [spekinga eða[7] með nøkkurri slægd kristinna manna eða gerningum þeira ok fiolkyngi. En með þvi at ver erum eigi blindadir af heimskuþoku ok siám ver slægd þina, þa hôfum ver þær snôrur fyrir þik at setia, er þik munu sigra; munt þu þa sea[8], at oss styrir hugvit sem vitrum konungi, en eigi likamr. Ok ef oss skortir ordslægd spekinga, er eigi hôfum þess konar

1 [ *mgl. B.* 2 Jamnes *B.* 3 veralldliga *B.* 4 [ *mgl. B.* 5 *saal. Fragm. 667⁴ qv.*; hafanda *A, B.* 6 sigr *B.* 7 [en reyndar *B.* 8 skilia *B.*

[iðnir fyrir oss lagit[1], þa ero þo með oss þeir spekingar, er þik munu sigra ok þer i þögn koma með sannleik ok sinni list ok orðsnilld, þa er þeir skyra almátt goða vorra.«

4. Þa let keisarinn kalla spekinga sina ok alla hina vitruztu menn ok baud þeim at disputa vid heilaga Katerinam um truna ok um almátt goda þeira, ok at sigra hana med orðsnilld ok sannleik boka sinna. En þeir voro fimm tigir spekinga, er valdir voro til at reyna iþrottir sinar við hana. Ok þa er guðs mær var miok hugsiuk[2], hversu hun skylldi skipa sinum malsendum i moti þessum spekingum, þa vitradiz henni engill guds ok mælti vid hana: «Hirð eigi þu at óttaz, Kristz ambatt, eda vera ihugafull, ok lat ekki þrætu þessarra spekinga skelfva þik, þvi at Kristr er sönn speki, sa er iafnnan hefir verit ok æ mun vera, ok skipar øllum lutum sętliga, hann er osigranligr, ok hann sialfr mun þik sigra lata alla þa, þvi at þu ert trulynd hans ambátt. Ok þar med mun hann leida þa fyrir þina kenning ok verðleika til sannleiks götu ok himinrikis dyrdar.« Af þessi [vitran engilsins[3] styrktiz miok hin sæla mær Katerina ok beid óttalaus spekinga, buin at andsvara þeim með staðfesti ok með skynsemi þeira spurningum orlausnir at gefva. Tok hun fyrst at disputa vid meistara þeira; ok med guds miskunn fekk hun hann sigrat ok yfvirstigit hit vitrligzta i ollum [þrautum ok iþrottum, þeim er þau skylldu þreyta, sva at allir undruðuz vitro hennar ok malsnilld ok sannleiks framburd ordanna, hversu hun leiddi fram noglig vitni bædi hins forna lögmals ok hins nyia med hverium sinum malsenda af syndum dæmum ok spasogum heilagra feðra ok spamanna[4]. Ok siþan er hann var fyrirlagidr ok yfvirkominn, þa þorði engin annarra til at hætta vid hana at [þreyta nockurar iþrottir[5].

5. Keisarinn eggiadi þa fast, at þeir [skylldo nu[6] neyta sinnar speki ok vitro ok sigra hana [med sinni ordsnilld ok neyða hana med diupsettum spurningum ok sva sigraða i þögn koma[7]. En spekingarnir svorodo sva: »Heyrit, herra keisari! hversu megum ver þreyta við hana, ef meistari varr ok saa, er ollum oss er froðari, var af henni yfirstiginn? hvat munu ver þa, er miklu kunnum minna, [treysta oss[8] vid hana? þvi at ekki ero orð hennar ok vitra sem annarra manna, [helldr sem goðanna sialfra se.

1 [ idn fyrir oss lagda *B*. 2 ihugafull *B*. 3 [ eingiligri aminningu *B*. 4 [ iþrottum þeim, er þau höfdu fyrir sik lagit *B*. 5 [ þræta *B*. 6 [ skylldi *B*. 7 [ ok hneykia med sinni snilld *B*. 8 [ *treystaz at þræta B*.

Manvit meyiar þessar er langt umfram ætlan eða vit spekinga, þvi at goðdomar ok godligir kraptar styðia hana ok tala fyrir munn hennar[1].« Keisarinn þóttiz nu liotliga skemdr, er spekingar hans þorðu eigi at þreyta vid eina unga mey. Vard hann nu sva reiðr, at hann bauð, at þa skylldi alla[2] i elldi brenna. Ok þa er þeir voro leiddir til balsins, kalladi einn þeira ok mælti: »Aumir ero ver, er þorðum at [þreyta við helga mey iþrottir ok þræta i moti henni med svikum ok prettum ok slægðum, ok liuga med skurðgoda falsi i gegn sönnum gudi[3]. Hvat skulum ver nu þa gera, utan fara ok lægia oss fyrir henni. Ek trui sannliga, at miskunn guds er með henni, ok með hennar raði munum ver forðaz mega helvitis kvalar[4].« Siðan fóru þeir skiotliga a fund sællar Katerine ok fellu til fóta henni ok mælto sva: »Misgert höfum ver, illzku ok ranglæti höfum ver framit i gegn gudi, ok fyrir þvi let gud oss verda fyrir reiði keisara þessa, er fyrir þat byðr, at oss skuli alla i elldi brenna utan sanna sauk, at ver mattum eigi mæla moti þinum hinum helguztum orðum. Nu veit þu oss hugganarrað, at ver siem med þinu fultingi frelstir or snörum diöfulligra væla, ok megim ver komaz a hialpar götu fyrir þina verdleika ok kenning.« Heilug Katerina svarar lofandi gud ok vard hardla fegin þeira ræðu[5] ok mælti: »Þakkir gorir ek þer, drottinn minn Jesus Kristr, þvi at þu letz þer soma þat at fylla, er engill þinn af þer sendr vitraði mer ambatt þinni, at spekingar þessir leystir or fianda snörum skylldi fara[6] fyrir min orð til þinnar dyrdar.« Eptir þessi ord sneriz hun til spekinganna ok mælti til þeira: »Ottiz eigi [stundligan dauða[7], fagnit helldr, þvi at i dag munit þer öðlaz himinriki, þviat fyrir vidrædu vara vitraðiz mer guds engill ok mælti: Eighi skaltu hræðaz[8] spekinga þessa, þvi at [Kristr er sonn speki, ok hann[9] mun þik lata sigra þa ok siþan leida til himneskrar[10] dyrdar fyrir þina kenning. Af [þvi skulut þer ekki efaz i[11], at ek segir satt, falssamlig kenning er fiarri minum raðum[12]. En til þess eina eggia ek yðr, at þer [giorit hverr sem einn iatning sina, ok[13] truit af ollu hiarta a føður ok son ok helgan anda; truit ok sialfan drottin varn Jesum

1 [ mannvit meyiar þessar er sem nockurs af gudunum sialfum *B.* 2 kvika *tilf. B.* 3 [ ganga til þrætu vid heilaga mey med prettum ok slægdum *B.* 4 loga *B.* 5 ordum *B* 6 mega koma *B.* 7 [ *mgl. B.* 8 þrætu *tilf. B.* 9 [ spekin sialf, su er Kristr er *B.* 10 sinnar *B.* 11 [ þessi vitran skulu þer eigi efaz at trua þvi *B.* 12 rædum *B.* 13 [ *mgl. B.*

Kristum komit hafva af himni ok getinn hafva verit af helgum anda i kviði Marie meyiar fæddan af hennar likam[1], pindan oss til hialpar, hafva upp risit af dauda a þriðia deghi ok hreinsat hafa syndir heimsins fyrir sitt hit dyrdligha blod. Ef þer hafvit þessu truat, þa munut þer eigi at eins sælir vera, helldr munu allar ydrar syndir fyrirgefnar vera, ok [þer laðaðir[2] til eilifra fagnaða.« Ok er hun lauk sinni ræðu, kómuz þeir vid miok ok svórudu: »Allir truum ver, hin helgazta guds ambatt, upp fra þessi tið engan annan gud vera nema føþur ok son ok helgan anda; blezat se nafn drottins, er ser skapadi[3] slika ambatt, en bølvut se skurðgoð oll handaverk manna ok øll likneski þeira, ok allir þeir er þeim treysta[4].« En er þeir hôfðu þetta mælt, þa gerðu þeir krossmark fyrir ser staðfastir i heilagri tru. Eptir þat var þeim skotit a balit, þat sem keisarinn hafði gera latit. Letu þeir þar lif sitt fyrir guds nafni ok foru med þessum pislarsigri til eilifra fagnaða hinn þrettanda dag Novembris manadar[5]. Kristnir menn leitudu siðan at beinum[6] þeira, at þeir mætti þeim veita, sem verðugt [væri, verðugan[7] groft, ok fundu likami þeira oskadda, sva at eigi var helldr brunnit hárit af þeim en annat. Mikill fiolði [heiðingia, er vid vóro staddir[8] þessa iartegn, trudu þegar a drottin Jesum Kristum, ok toku siþan upp likami þeira [ok iorðuðu siþan i virduligum stað lofandi ok dyrdkandi sannan gud af ollu hiarta[9].

6. Eptir [þessa atburði, er nu var fra sagt[10], let keisarinn leiða fyrir sik hina helguztu mey Katerinam, þóttiz hann nu fundit hafva diupsett rad þat, er [hann hugdi at hun mundi skiott vilia vikiaz at hans raði[11]. Hann talar svo til hennar: »[Heyr þu, hin vitrazta ok hin friðazta mær, er vel matt heita hinn skiærazti gimsteinn allra kvinna i heiminum sakir vitru, kurteisi ok vænleiks, ok yfvirdrotningh allra drotninga matt þu vel vera. Hygg at þu þvi, at eigi kaullum ver þik til onytra orða eða heimtum hug þinn til oskapligra luta. Nu af þvi at goðin hafva þik svo itarliga skapat ok sva sæmiliga sett at vænleik ok vitru umfram allar kvinnur ok frur veralldarinnar, ok þar med burdum ok kynfylgium tignat þik, þa byriadi oss ok ollum oðrum ut i fra at

1 holldi *B.* 2 [ munut þer fara *B.* 3 skipade *B.* 4 treystazt *B.* 5 tveim nottum eptir Marteins messu byskups *tilf. B.* 6 likaumum *B.* 7 [ var, vegsamligan *B.* 8 [ er vid var staddr *B.* 9 [med allri vandvirkt ok iordudu i virduligum stad *B.* 10 [ þessi tidendi *B.* 11 [ hon mundi eptir vilia vikia *B.*

heidra þik i heiðr vid goðin. En[1] þat er eigi vidrkvæmiligt, at þu heitir drotningh en halldir þo adra tru, en ver hǫfum; en þat eina skortir þik. Nu ef þu villdir samþykkia varn vilia um truna, þa mundi vor tign lata ser sóma at gora bruðkaup til þin ok hallda þik fyrir drotningh, þar med munu[2] ver lata [ena hǫguztu smiði ok meistara[3] gera likneski eptir þinni fegrð, ok skal þat vera dyrðkat af ollum monnum um alt mitt riki, ef þu vill voru raði fylgia.« Guðs ambatt fyrirleit[4] þessa radaleitan ok mælti sva: »Med hverri skynsemi [megit þer, herra keisari, tia slika hluti minum eyrum eða stadfesta slik rad i yðru briosti til væla vid mik[5]; þviat i upphafvi minnar ræðu mattut þer sea ok skilia sem vitr konungr goðfysi mina til þess at rækia oll skurdgoð ok alla þeira dyrdkan. En þer telit fyrir mer, at ek skula fyrirlata drottin minn Jesum Kristum, er mik hefvir aðr ser samtengda med oleysilighu sambandi, en falla þer i fadm, ok þat annat, er enn er verra, at láta gora likneski eptir asionu minni ok vera siðan blotut, sem þer bioðit. Ogurligar ero slikar odaðir, ok langt se slik ohæfva brott fra vórum eyrum.« Keisarinn svaradi: »Hver megi meiri dyrð vera þessa heims en at eiga keisara at bonda ok geta bǫrn vid honum ok hafva þar med riki ok valld yfir ollum monnum i heiminum ok vera prydd allri fegrð ok bera drotningar nafn?« Heilug Katerina svaradi: »Hit bezta hefir þu, konungr, efni fundit til þins mals, eptir þvi sem til heyrir slekt veralldar þessarrar, ef ek leitaða þessa heims dyrdar ok glatsamligrar gledi ok fagnadar oleyfðra girnda eða annarra luta, þeira er vondum monnum drekkia til helvitis pinsla, [ok ef þer fyndit nokkut med mer, þat er dauðligt eitr andarinnar er[6], þa mundit þer mik veidda fa i þessarri snǫru, er þu egndir med þessum lutum. En þvi at ek fyrirleit alla elsku þessa heims, sidan ek kunna nokkut at skynia, [ok ek vissa grein goðs ok illz[6], en ek elskaða þann bruðguma af ollu hiarta, er alldri ma deyia fra mer, ok þa fagnadi, er allar alldir utan enda ero ok engan enda hafva, þarft þu ok ekki at lokka hug minn til med sliku. Þvi leggit nidr þessa malaleitan, en tak, ef þer syniz, aðra likari ok vitrligri, þviat þat er rækiligt ok fyrir utan skyn at fyrirláta skaparann en þiona skepnunni.« Keisarinn mælti þa enn til hennar: »Þar er þu ert

1 [ Þu en fegrsta mær, hugsadu þat, at vær heimtim þik eigi til onytra hluta eda uskapligra, þviat *B.* 2 mundim *B.* 3 [ *mgl. B.* 4 rækti *B.* 5 [ mattir þu skipa þat i þinu briosti at tia slika hluti fyrir minum eyrum; iati ek, at ek ma eigi skilia þat *B.* 6 [ *mgl. B.*

konungs barn, þa byriar þer at hafa hug þinn sa konungligri tign, glediaz af henni ok lifa við hana, ok þvi at ver gefum gaum at hógværi þeiri, er voru valldi byriar at hafva, þa gefum ver litinn gaum at, þott þu hafir her til lastat heilug goð vór. Ok þvi at ver villdim sigra þik med blidu ok þolinmædi, en vanvirða þik i engum lutum eða gera þer nockura skômm, þa haf nu þau rad, er ver gefum þer, ok drep eigi hendi vid sæmd þeiri [ok sva miklum heidr[1], sem ver biodum þer, ok hallt eigi sva lengi sa þrálæti þinu, at þu fellir þar fyrir sa þik vara reidi, þviat ver vilium goðanna hefna. Ok ef þu vill eigi þeim hlydni veita eða gofgan, þa fær þu eptir litinn tima liotar vidfarar ok langar pinur, (ok munt) eigi i sætt komaz vid oss, þo at þu vilir, helldr munum ver þa dæma þer daligan dauða.« Heilug guds ambatt svaraði: Keisari! vóndra manna dauði er hinn versti, þviat þeir munu alldri hvilld finna, en rettlatra manna dauði er hinn bezti, þviat hann er [lif ok eilif dyrd[2]. Fyrir þvi dvel þu eigi, konungr, at gora þat er þu hefvir ætlat, en lat af at heimta[3] lengr [hug minn[4] med slægligri blekkingu. Ek trui sannliga, at su dvol, er þer gorit sa minu mali, mun veita morgum manni mikla hialp, þviat mer er þat vitrat af guðs fyrirhyggiu.« Þessi orð hugsar keisarinn ok óttaz, at mærin mundi snuit fa monnum hans [fra skurdgoða blotum[1] med sinum kenningum. Ok fyrir þa søk let hann fœra hana af klæðum ok beria lengi. En siðan let hann byrgia hana i myrkvastofu ok gaf henni .xii. daga frest[5], at ef hun villdi þa eigi litillatliga godunum fornir fœra, þa skylldi hun sverði hôggin[6] vera.

7. Drotningh kona keisarans elskadi miok hina sælu guds ambátt Katerinam af morgum lutum, er hun heyrdi fra henni sagða, ok villdi giarna sea hana [eða finna, ef hun þyrdi fyrir bonda sinum. En hun treystiz þvi eigi fyrir sakir grimleiks hans[7]. Ok einnhvern dag er hun sat ok hugsadi þetta fyrir ser, hversu hun mætti ná mali meyiarinnar, þa kallar hun til sin [einn riddara, þann er Portfirius[8] het, ok mælti sva til hans: »Hird þu truliga þat, er ek vil þik einn vita láta, ok legg þar nu alla stund sa, at fyllaz megi vili minn med þinu tilstilli; heyr nu þetta. Sidan er ek heyrða, at keisarinn helt [i hôptum[9] eina konungs

1 [ *mgl. B.* 2 [ hvilld ok lif eilift *B.* 3 afleidis *tilf. B.* 4 [ hugskot ambattar Kristz *B.* 5 med þeim skildaga *tilf. B.* 6 hôggvin *B.* 7 [ ok ræda vit hana, en hun þordi þat eigi fyrir grimmleik bonda sins *B.* 8 [ nockurn riddarasvein, er Porphirius *B.* 9 [ *tilf. B.*

likama hans. En er Laurencius var andadr, þa gengu þeir Decius ok Valerianus til hallar ok letu liggia likama hans a brandreid yfir glodum. En Ypolitus tok þadan likamann ok bio um vandliga med hreinum dukum ok ilmondum smyrslum, ok gerdi hann ord Justino presti ok sagdi, hversu dyrliga Laurencius for af þessum heimi, ok sva hversu grimliga þeir Decius ok Valerianus luko vit hann ok letu liggia likama hans yfir glodum. En þeir Justinus ok Ypolitus færdu likama[1] heilags Laurencij til[2] bæiar eckiu þeirar, er Kiriaka het ok Laurencius hafdi grædda fyrrum af hofutverkium. En at kvelldi grofu þeir likama hans hia gôtu þeiri, er Tiburtina heitir, ok fostudu þria daga med miklum fiolda kristinna manna ok helldu med miklum hryggleik minning pislar heilags Laurencij. Sidan sông Justinus prestr messu, ok toku allir corpus domini, þeir sem at þeiri messu stodu.

8.[3] Eptir þetta for Ypolitus heim ok gaf frelsi ollum þrælum sinum ok ambattum. En er bord voru sett, ok fyrr en hann tok til matar, þa komu riddarar ok toku hann hondum ok leiddu fyrir Decium keisara. En er Decius sa hann, þa brosti hann ok mællti: »Ertu eigi ordinn fiolkunnigr af Laurencio, þar sem þu groft likama hans?« Ypolitus svaradi: »Þat gerda ek eigi svo sem fiolkunnigr, helldr svo sem kristinn.« Decius reiddiz þegar, ok let beria grioti i andlit honum ok let færa hann or klædum ok mællti: »Lattu at bodordi minu ok blota godum, ok lifi ok haf syslu.« Ypolitus svaradi: »Eigi nauktir þu mik, helldr klæddir þu mik.« Decius mællti: »Heimskr madr ertu ordinn, er þu skammazt eigi, at þu ert berr[4].« Ypolitus svaradi: »Spakr em ek nu[5] ok kristinn, en þa var ek ovitr, er ek truda skurdgodum.« Decius mællti: »Blotadu ok life, ef þu vill eigi fyrirfaraz i kvôl sem Laurencius.« Ypolitus svaradi: »Verdi sva vel, at ek fara eptir hans dæmum; en þer er diarflikt at nefna guds vin med saurgum munni.« Þa reiddiz Decius ok let stôngum beria Ypolitum. Ypolitus hlo at þeim, er hann bordu. Þa mællti Decius, at þeir skylldi beria hann med iarnsvipum. Kveliararnir mædduz[6], er þeir bordu Ypolitum. En Ypolitus styrktiz at meir ok mællti: »Kristinn em ek.« Þa let Decius skryda hann riddarabuningi, þeim er hann hafdi, þa er hann var heidinn, ok mællti vit hann: »Minztu riddarasyslu þinnar, þeirar sem þu hafdir, ok ver vinr vor sem fyrr ok blota.« Ypolitus svaradi: »Kristz riddari em ek, ok mun ek

1 lik *B.* 2 kirkiu ok *tilf. B.* 3 Vitræda Decij ok Ypoliti *Overskr. A.* 4 naucktr *B.* 5 ordinn *tilf. B.* 6 *saal. B*; hræddur *A.*

honum avallt þiona, ok fysumzt ek ath fara til hans med sigri.« Þa mællti Decius vid Valerianum: »Tak þu vit aurum hans ollum ok bana honum med grimmum dauda.« Þa let Valerianus leida Ypolitum fyrir domstol sinn ok oll hiu hans, er kristin voru vordin. I þvi lidi var fostra Ypoliti, en hun het Concordia. Þa mællti Valerianus vit þau: »Hyggit þer ath kosti ydrum, at eigi farizt þer med Ypolito drotne ydrum.« Concordia svaradi: »Vær fysumzt at deyia hreinliga med drotni vorum helldr en lifa uhreinliga med þer.« Valerianus mællti: »Þrælakyn ma eigi odruviss[1] heima en med bardaga ok kvolum.« Þa let hann beria Concordiam med blysvipum til bana. Ypolitus stod hia ok mællti med fagnadi: »Þackir geri ek þer, drottinn, þviat þu sendir fostru mina fyrir mer i sveit heilagra manna þinna« Walerianus mællti vit Ypolitum: »Treystiz þu enn fiolkyngi þinni ok hlydir eigi bodordum hofdingia ok gaufgar eighi godin.« Þa let Valerianus ut leida Ypolitum med ollum hium sinum a gôtu þa, er Tiburtina heitir. Þa mællti Ypolitus vit hiu sin: »Hrædizt eigi þer[2] brædr, þviat vær hôfum oll [einn drottin[3].« Þa let Walerianus hoggva oll hiun[4] Ypoliti fyrir augum honum, ok voru þar hôgnir allz .xviii. menn bædi karlar ok konur. En hann let binda fætr Ypoliti wit hals otômdum hestum ok let reka þa sidan i klungr ok þyrni. En er heilagr Ypolitus var svo dreginn, þa let hann ond sina þrim nottum sidar en Laurencius. En Justinus prestr kom ena somu nott ok grof likame þeira, sem haugnir voru, a þeim enum sama velli, sem þeir voru hôgnir. En þeir Decius ok Valerianus letu kvedia þings[5], til þess at þeir mætti taca alla kristna menn, þa er til spyrdiz. En er þeir stigu or kerrum sinum, adr þeir gengu[6] til motz, þa vard Decius gripinn af diofli, ok kalladi hann: »Þu Ypolite, bundit hefir þu mik elldligum rekendum ok herleiddan.« Valerianus kalladi ok mællti: »Ek særi þik, Laurenti, at þu lettir kvol minni nockura stund.« Þa giôrdiz gratr mikill i konungs holl. En Triphonia kona Decij var heidin, en er hun sa Decium kveliaz af diofli, þa let hun leysa alla kristna menn, þa sem i hôftum woru. Ok er Decius var daudr, þa for Triphonia kona[7] hans ok Cirilla dottir þeira, ok fellu þær til fota Justino presti ok badu hann skira sig. Hann tok feginn vit þeim ok baud þeim .vi. dægra[8] fostu ok skirdi þær sidan. Enn næsta dag eptir var Triphonia a bænum ok andadiz, en Justinus prestr grof likama

1 audruvissi *B*. 2 er *B*. 3 [ *saal. B*; ein brot *A*. 4 hiu *B*. 5 motz *B*. 6 færi ok gengi *B*. 7 drottningh *B*. 8 dagha *B*.

hennar i þvi iardhusi, sem hann hafdi grafit Ypolitum. Ok er riddarar spurdu, ath þær Triphonia ok Cirilla hôfdu tekit vit tru, þa komu þeir .vi. ok .xl. med konum sinum ok fellu til fota Justino presti ok beiddu skirnar. En hann færdi riddarana Dionisio pafa, er þa var kosinn eptir Sixtum, ok skirdi hann þa. En Klaudius konungr let taka Cirillam dottur Decij ok þessa riddara .vi. ens fimta tigar ok let hôggva þau oll, er þau hofnudu[1] blotum. En Justinus tok likame þeira ok grof Cirillam hia modur sinni Triphonia, en riddarana a gôtu þeiri, er Salaria heitir. Ok þar, sem þeir voru hôgner, verda margar iarteinir af bænum þeira allt til þessa dags i nafni drottins vors Jesu Kristi, þess er med fedr ok helgum anda lifer ok riker [einn gud i algiorri þrenningu[2] um allar allder allda. Amen.

1 neitudu *B*   2 [ gud *B*.

# LUCIE SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio*).

**Saga Lucie meyiar.**

Frægd Agathe meyiar for um alla Sikiley, ok sotti fiolmenni mikit til borgar Agathe meyiar, er Catanensis heitir. I þeiri för foru þangat til hatidarhalldz mædgur tvær göfgar Lucia mær ok modir hennar Euticia, su er fiora vetr hafdi blodsott hafda ok matti eigi læknud verda. En þa er þar var gudspiall þat lesit i messu, er kona su vard heil af atekningu trafa klæda drottins mins, er slika vanheilso hafdi haft, sem Euticia hafdi, þa mællti Lucia: »Ef þu truir, modir, gudspialli þesso, er nu var lesit, þa trui þu þvi ok, at þu munt heilso taka af arnadarordi Agathe, er pind var fyrir guds nafni. Kom þu til grafar hennar, ok mant þu leysazt.« En eptir tidir fellu þær þar til bænar badar mædgur ok baduz fyrir[1] med tarum. Þa rann höfgi a helga Luciam a bæninni, ok sa hun Agatham a milli heilagra eingla i himni standa, ok mællti hon sva: »Systir Lucia gudi godfuss, hvi bidr þu mik, er þu matt þegar veita modur þinne af tru þinni, ok er hun nu heil ordin; ok svo sem Katanensis borg vegsamaz af Kristi fyrir mik, svo mun Siracusa borg fyrir þik, þviat þu hefir unadliga bygd buit gudi i hreinlifi þino.« Þa reis Lucia upp hrædd ok mællti: »Nu ertu heil ordin, modir, fyrir Agatham, er þik grædди med bænum sinum. Bid ek, at þu gefir mik eigi manni, en fe þau, er þu ætladir mer til heimanfylgiu, gef þu mer nu til forrada, er ek giptumz gudi drotni minum Jesu Kristo.« Euticia svaradi: »Födurleifd þina, sidan fadir þinn andadizt fyrir .ix. vetrum, hefi ek helldr æxta en þverda, en þu veitzt fiareign mina, ok gior þu slikt or fe þesso sem þu villt eptir minn dagh.« Lucia mællti: »Hlyd þu radi minu, modir, gef þu svo gudi fe þitt, at þu sert

heil, eigi er þat gudi þægt, at madr vili þa fyrirlata, er hann maa eigi niota, þviat eigi mattu þat hedan fra hafa.«

2. Sidan komu þær heim, ok takaz upp fiarlôg ok ôlmosugædi mikit vit fatæka menn hvern dag, ok kemr þat til eyrna festarmanni Lucie. En sa grof at vit fostru Lucie, hvort þat væri. En hun svaradi med varud ok mællti: »Brudr þin hitti a þa eigu, er meira avoxt tekr af en hverra annarra, ok vill hun at þeiri komazt fyrir þina hônd.« Þa tok sia madr þvi helldr at beina ok at veita, ok trudi þat iardneskan kaupskap þa fyrst, en sidan er hann vissi, at fe þessi voru gefin frændlausum ok fatækum monnum ok eckium felausum ok utlendum mônnum ok gudi þionondum, þa bar hann hana i rog vit Paskasium iarll ok kvad brudi sina kristindom hallda i moti lôgum keisara. En iarllinn let hana neyda til blota. Heilôg Lucia svaradi iarllinum: »Sia forn er fyrir gudi hrein ok osaurgud at hugga eckiur ok fôdurlausa i harmi þeira; ek hefi ecki annat gert þessa þria vetr nema fært gudi þvilika forn. Nu af þvi at ecki er annat til, þa færi (ek) mik sialfa lifandi forn gudi, ok giôri hann þat af forn sinni þessi, sem honum likar.« Paskasius mællti: »Slik ord mattu mæla fyrir kristnum manni nockôrum en ecki fyrir mer, er hofdingia doma vardveiti.« Lucia mællti: »Þu hyggr sa dæmi ok lôg hôfdingia, en ek hygg a guds laug; þu hrædiz hôfdingia, en ek hrædumz gud; þu vill eigi þa þer reida, en ek vil eigi gud mer reidan; þu girnizt þeim ath lika, en ek girnumzt gudi einum at lika; þu giôrir þat, er þu ætlar þer hallkvæmt, en ek geri þat, er ek veit mer nytsamligt.« Iarllinn mællti: »Fôdurleifd þina hefir þu borit sa byrgismenn þina, ok mælir þu af þvi sem portkona.« Lucia mællti: »Fôdurleifd mina hefi ek sett i ôroggan stad, en þydz alldregi spillendr hugskotz ok likama mins.« Paskasius mællti: »Hverir eru spillendr hugskotz ok likama?« Lucia mællti: »Þer erut spillendr hugskotz ok likama, sem postolinn sagdi: spilla ill maal goda sidu; þer teygit andir manna fra skapara sinum til skurdgoda blotz. En spillendr likama eru þeir menn, er litillar stundar munud[1] taka ok missa þar fyrir eilifra fagnada.« Paskasius mællti: »Þriota mun ord þin þessi i bardogum.« Lucia mællti: »Ord guds man alldregi þriota.« Paskasius spurdi: »Ertu gud?« Lucia svaradi: »Ambatt guds em ek, ok sagda ek af þvi svo, at gud mællti svo sialfr: eigi mælit þer i augliti domanda, helldr mælir heilagr andi med ydr.« Paskasius mællti: »Er heilagr

1 munudar *Cd.*

andi med þer ok mælir fyrir þik?« Heilög mær svaradi: »Postolinn sagdi, at hreinlifismenn væri musteri heilags anda, ok byggvir heilagr andi i þeim.« Iarllinn mællti: »Ek man lata leida þik til portkvenna huss, ok fyrir saurlifi þitt, þat er þu skallt þar fremia, man flygia fraa þer heilagr andi.« Lucia mællti: »Alldri saurgazt likaminn nema af samþycki hugarins; þo at þu letir kasta aa glædr fyrir god þin reykelsi or hendi minni oviliandi, þa mundi gudi minum þat brosligt þickia, þviat gud dæmir at vilia manzins. Nu man mer verda dyrdar auki at ollu þvi, er þu naudgar mer til.« Paskasius mællti: »I þeiri osæmd skalltu lifit lata, nema þu lifir at lögum keisara.« Heilög Lucia svaradi: »Sagda ek þer adan, at þu skallt alldregi faa samþycki mitt til syndar, ok mun af þvi at öngu meini koma guds ambattu, hvat sem þu giorir likamanum.«

3. Þa selr iarlinn hana i hendr monnum þeim, er fe toku a konum til saurlifiss, ok bad hana leida til portkvenna hus ok boda þangat monnum til, ok kvad hana þar skylldu deyia. En sidan er þeir villdu hana þangat draga, þa styrkti hana sva heilagr andi, ath þeir mattu hana hvergi hræra. Þa gengu þeir ath sveittir med ollu, ok höfdu ecki þar at giöra. Þa baro þeir festar aa hendr hennar ok fætr, ok knuduz at allir at draga hana, ok stod hun svo fast sem fiall. Þa tok iarllinn illa at kunna þesso ok bad galldramenn ok allan blotmanna afla at færa hana or stad med radum sinum. En hun var svo föst, at eigi matti helldr hræra klædi hennar en sialfa hana. Þa let iarllinn steypa yfir hana hlandi, ok trudi þetta allt fiolkyngan krapt. Sidan voru öxn margir fyrir beittir, ok hafdi þo ecki at sök at hræra hana. Þa mællti Paskasius: »Hvat fiolkyngi er þetta?« Lucia mællti: »Þetta er eigi fiolkyngi min, helldr ero þetta velgiorningar guds.« Iarlinn mællte: »hvern veg maa þess vera, at ein mattlitil mær megi eigi hrærd verda af þusund manna.« Heilögh Lucia svaradi: »Þo at þu latir til koma adrar .x. þusundir, þa munt þu mega heyra fra mer sagt, at þusund manna man falla aa annan veg fra mer, en a hægra veg minn tio þusundir.« Iarll tok þa at kveliaz svo af skemd sinni, at opi slo a hann. Þa mællti en sæla mær vit hann: »Hvi kvelz þu svo miök, hvi ædiz þu svo allr? Trui þu mik vera guds musteri, ef þu hefir reynt, en lat þer nu skiliaz, ef þu hefir enn eigi reynt.« En iarlinn kunni þesso þvi verr, sem hann sa sig meir hleginn.

4. Sidan let hann kynda elld umhverfis hana ok let kasta

yfir hana adr vellanda vidsmiori ok tiöru ok bike. En hun stod i sömum sporum i nafni drottins Jesus Kristz ok mællti: »Ek bad drottin minn Jesus Krist, at elldr sia skylldi eigi granda mer, at þeir allir er treystaz gudi megi þik at hadungu hafa, iarll; ok af þvi bad ek nöckurrar dvalar a pisl minni, at ek mætta a brött taka pislar otta af trufòstum mönnum, ok þeir er eigi trua hafvi ecki at oss hlæia.« Þa veittu vinir iarlzins meyiunni sar; en hun badz þo fyrir, medan hun villdi. »Nu er sva ath segia, kvad hun, at nu er fridr gefinn kristni guds i dag, Diokleciaanus er ní rekinn af rikinu, en Maximianus er daudr; ok svo sem Agatha er formælandi þess folks vit gud, er Katanensis borg byggir, svo skal ek trufostum monnum vera i þessi borg.« En er guds ambatt mællti þessa hluti i sárum, þa var iarllinn leiddr fyrir augu henne iarne bundinn ok fluttr til Romaborgar ok þar til draps dæmdr fyrir rangsemi sina. En guds piningarvottr Lucia i þeim stad enum sama, sem hon hafdi sar feingit, let koma til sin kennimenn ok tok af þeim corpus domini, ok for sia en helgazta mær-svá hedan af heimi gudi til handa. Þa var smidut kirkia til dyrdar henne, ok helldz þar blomi bæna hennar um alla æfi.

---

# MALCUS SAGA.

---

(*Cd. 764ª qv.*).

**Her byriaz saga heil[ags] Malci.**

Þessa sogu segir heilagr Jeronimus af munk einum, er Malcus het, en hann hefir sva rædu sina: Þa er ek for um allt Egiptaland, er fullt var af hreinlifismonnum, fann eg marga goda firi. Ek hafdi ætlat, segir sæll Jeronimus, at rita um drottins vars higatkvamu ok um kristnina, er þa it fysta hafdi upp hafiz; en adr ek hefi sva aurdigt verk ok agiætt, villda ek freista min i hinum lægrum hlutum ok smærrum verkum, þat er at ræda um þenna goda mann, er Malcus het. I ferd minni, er ek for um Egiptaland, helga stadi ok heilagra manna lif at kanna, þa kom ek til eins tuns er Maronia het, naliga .xxx. milna fra Antiochia. I þvi tuni fann ek i koti nuckuru mann þann, er Malcus het, ok i sama koti med honum var kerling nuckur afgomul. Ok er heilagr Jeronimus leitadi vid marga menn gamla ok froda, hvi þau byggi sier .ii. samt, hvart til þers geingi nuckur naudsyn eda frænsemi eda hiuskaparband eda saluþurft, þa skildi hann þat af allra ansvorum, hvegi morgu hverr svarar, at fafrodr væri um þeira vidskipti. Þa reid Jeronimus til ok ræddi vid sialfan Malcum ok frietti, hvadan hann væri, eda hvert hans athæfi væri, eda hvert verid hefdi. En hann svaradi:

Fadir minn atti land vid borg þa, er Ninive hin min[ni] heitir, atti hann ok modir min goda kosti, ok var eg þeim einberni; þeim var a mer mikil ast ok virkt, ok olu þau ser um mik mikla sorg, hvat þess skilldi firi mer radaz, at hellz væri nuckurr langframi a ok stadfesta, ok villdu rada mer kvanfang. Ek neitada þvi, ok sagda ek minn vilia standa til at vera munkr. Eftir þetta vart vidrtal, med þvi at millt er modur hiarta, mætta eg oft af

henni blidum fortaulum ok miukri bæn, at ek skilldi sa(m)þyckia kvanfanginu. En þat fiekz eigi af mer, ok firiliet ek þa bædi faudur ok modur, fe ok frænndr, gull ok gersimar, ok allar eignir, er ek stod til. Nu geck ek brott felaus nema nest ok þo litid, sottag eydimork til munka nuckurra, ok beiddumz ek af þeim vidrtoku. Þeir iattu mer þvi. Giorda ek sidan sem þeir, vann ek til matar mer, ok þiadi ek likam minn ok likams fystir med starfi ok morgum odrum pislum. Þockuduz[1] mer brædr þeir, er þar voru, ok sva ek þeim ok mitt athæfi. En þa er margir vetr lidu med sliku athæfi, skiptiz skaplyndi mitt ok braz i hatt annan. Þar til hafdi mer ecki iamkiært verid sem renna ecki aftr hug til fedr eda mædr[2]; fadir min var þa dauþr, er þetta kom i briost mer. En nu kom su ætlan at mer at ræda vid sialfan mig sva: »Lit a þitt mal, Malce, vanliga ok grein giorsamliga, hvart eda hvart þu hyggr at gera, ok þo at þer se nu sem her til ecki iamskapfellt sem her at vera, er nu ertu kominn, þa hanndvæt þu vilia þinn vidr þig eda naudsyniar, er a adra hond ero[3], fær saman hvartveggi, ok sia hvarir fle(i)ri ero, ok lat þangat vellta hug þinn, sem þar firi ero fleiri ok nauþsyniar meiri. Nu er fadir þinn frafallinn, en modir þin sitr eckiulifi, hefir hon nu fe en forrædi eingi; stutt verda kvenna alit firi utan annars hialp ok asia firi at rada storum lutum, ok eigi vist, at hon fai sin sva giætt, at glæpalaust se vid gud eda hroplaust vid menn; oft fellr a konur hrop med tilverka, oft gerir ok ofund kvenna klatr, ok illzku hatr illt ordlag firi utan verdleika, ok er konum sin vannt at giæta; audfeingnir ero þeir, er a leita konur. En hvat er nu annat, en fe þat er i haska, ok þar er hon i abyrgdum, ok tyniz þar mikill fiarlutr, er til mikilla nytia mætti koma, ef heil rad kiæmi til ok forsia. Mættir þu, ef þu aftr hyrfir, heil rad leggia firi mædr þina; mikil hialp mætti geraz af þeim fiarlutum fatækum monnum ok heilogum stodum; mættir þu, ef ek aftr hyrfi, taka salubot, modir þin heilrædi, frændr[4] þinir hialp, helgir stadir ok vansamenn, sal fodr þins fagnat ok sva sialfs þins. Hvat leggr þu a mot þersu, Malce, ne(m)a þat eitt, at þu helpr þer, en hina hialpina leggr þu at baki þer, er vidara breidiz ok til fleiri manna tekr, ok er þat hætt, at þetta verdi midr at gagni, þviat her er einum vid hialpat en hinnig morgum.« Nu var slikt ætlan min, brodir, sem nu hefir þu heyrt, ok stod þo eigi i einu(m) stad fost. Oft gerda ek mer þat i hug: »Ef þu stadfestir þetta i hug þer,

1 þockudumz *Cd.* 2 sem *tilf. Cd.* 3 ert *Cd.* 4 frændi *Cd.*

Malce, mun eigi þa maal þitt med abyrgdum. Nu er geigan i hug þinum, ok hætt at sie med haska, þottiz þu firi skommu med þvi einu mega gledia sal þina at firilita þat allt, er nu villtu[1] til lita. Er eigi sva nu, sem þu kallir þer rangt þat, er þu kalladir þa riett, en þat riet, er þer þotti þa onytt? Er eigi borgid ollum, ef hverr bergr einum? Eigi[2] sa ek asia firi sal fedr mins eda modur, ok eigi þau firi mina sal, en enn sidr a ek at giæta fiar þeira, er eingis er vert hia sál mannz; oll verolld er eigi verd einnar godrar salu. Ek hefi heyrt, ef madr firilætr verolldina ok snyr vilia sinum enn aftr til hennar, þa er sem veidihundr hverfi aftr til spyu sinnar. Segir eigi sva gud i gudspiallinu: ef madr firilætr munud, ok dregr fyst hann aftr til, hann er likr manni þeim, er tekr til at eria, ok medan ardrinn gengr, litr hann aftr, en þa gengr ardrinn rangt ok gerir þar krakustig, sem hann skilldi iafna[3] for. Slikan hvern kvedr gud eigi verdan hans rikis. Er eigi nu sem þeima guds domi visa ek i gard minn, þar sem gud gefr mer satt at sia, en ek vil eigi riet, ef ek lit nu aftr til þers, sem þa firileit ek.« En var .i. lutr i fari minu, sagdi Malcus, ok var sa mestr ok vestr, salution væri mer þeim nidr at drepa, þvi at ef nuckur likn mætti i þeim lutum finnaz, sem nu hefir ek upp talt, þa dreckir þessi einn ollum hinum, ef ek kiæma fram minni ætlan. Þa hafdag ætlad at draga unndir mig nuckuru part af fienu, en sia var unyt ætlan, þviat allt var eins at gera þat ok kasta munkinum, er ecki skal ser einn eiga na. Nu sa ek, fadir, at þessi ætlan var unyt, en riettvisin matti eigi sigra rangan huginn. Sva atta ek hugum, fadir godr, sem nu heyrir þu, ok bordumz ek vid sialfan mik ok hugrenningar minar, þviat onnur dro mig aftr a leid en onnur afleidis. Af þessu fangi fiellu ymsir hugir i briost mer, ymsir voru efri, en ymsir nedri, en sa tok stad, er aftr hvatti, en hinn vard firi at lata, er fram villdi ok gods hvatti.

Tiada ek sidan ætlan mina firi abota, ok bar ek firi hann þat eitt, at mer þotti med heilu vera i minni ætlan, sagda eg, at mer þotti þat hialpsamligt at fara stundar b(ra)gd eitt at sia firi modur minni ok fiarlutum, ok snua þvi til godra luta, er nu var nytialaust, ok þvi vennda i marga stadi med salubotum, er elligar mundi faraz med syndum. Vænta ek af honum samdyckis vilia minum, leyfis ok radagiordar, en ek mætti þo odru. Hann æpti hatt moti minum vilia ok kvad fianndann reisa slika freistni i briosti mer, ok sagdi marga munka med slikum hætti svikna

1 villta *Cd.* 2 en *Cd.* 3 hina *Cd.*

hafa verid af fiandans velum; tiadi hann firi mer margar godar kenningar ok god dæmi af helgum monnum ok helgum ritningum. Tiadi hann fyrir mer of fystu vara langfedr Adam ok Evu, at þau trudu, at þau skilldu vera iamvitr sem gud; i þeiri ætlan ok ulydni urdu þau svikin, god synduz þeim heit þers, er aeggiadi, en hormulig var framkvama. Fullsatt ok fullsniallt taladi aboti minn firi mer.

En þa er þat tok eingan stad med mer, þa fiell aboti minn til fota mer ok bad mig dveliaz ok kasta unytri ætlan, ok bad mig minnar þurftar, at ek skilldi eigi svikia sialfan mig. Ok bar ek s'gr i ockru vidskipti ok mer uþarfann, hugda ek, at hann sei meirr a þessi fortaulu ser til hugganar en[1] mer til gagns. Brott fluttumz ek þa, ok aboti fylgdi mer, ok þotti honum, sem hann flytti lik eda daudan mann, en eigi þann, er salubotar væri at von, ok rœddi hann vid mik þessum ordum: »Brott ferdiz þu, son minn, ok finnr til þers sakir, þær er þu kvedr þer sannar þickia, ok ero þo rangar ok sannindalausar, hefir þu ok vorn firi mali þinu, en eigi tek ek vid þessum hlut, ok eigi mun gud taka, ennda mun þig þat hennda, sem mællt er, at vargr sætir þeim saud, er or kvium villiz.« Fylldiz ok abota mins forsogn med sannindum.

Ek fluttumz þa i brott sva langt, at ek kom til þers stadar, er Bereroina heitir, ok þadan for eg til þers stadar, er Edissa heitir. En medal þeira stada .ii. liggr audn allt, ok er langt ok haskafullt firi heidnum monnum, at þeir taki til þrældoms ok anaudar, ok sitia þar oft krisnir menn floks at bida, þviat eigi hlydir famennt yfir at fara. Ok var sidan eigi langt at bida, at sannadiz saga abota mins, at vargr sætti þeim saud, er or kvium villtiz. Þa komu at oss heidnir menn falldaþir ok harsidir, halfnauktir ok i stuttum motlum ok vidum hosum, aurvameli a baki, bogi ok langt spiot i honndum, komo þeir þo til at beria, en eigi at drepa, gulldum (ver) þa afrod .lxx. manna, karlar ok konur. Rugl giordiz þa mikid i flocki vorum, sorg ok hugsyki, veinan ok veilan, barna gratr, togan ok tuttan, flartion ok fata, þann greip greppr er gat. Idraþumz ek þa minna urada, en su idran var nytlaus, þvi at annars valld var nu a, en þa villda ek illa, er ek matta rada. Þar var ek ok annars mannz kona lypt upp a einn ulfallda, ok sa sami rekinn, sem fara matti. En vid ottadumz æ fallid, ok var sem vid heingim helldr en sætim. Matr ockar var a leidinni halfsodet slatr, en dryckr ulfallda miolk; fluttumz

1 ok *Cd.*

um sidir ifir a nuckura ok komum til he(i)milis þers mannz, er ockr hafdi hertekid, ok vorum leidd firi modur hans, ok urdum henni at knefalla. Hormuligt var skiptid, knefallid gudi at veita i munklifinu, en veita þat nu konu heidinni ok sonum hennar. Lof se þer, gud almattigr!

Sysla var mer greidd, saudasveinn var ek giorr, huggadi mig þat i þeiri minni syslu, at sialldan sa ek eymd þeira, er med mer voro herteknir. Nockvidr[1] vondumz ek nu at ganga, þviat eigi nytta ek annat firi ofrhita[2], ok ætlada ek, at þat væri hefndin þelans, er þa var i briosti mer, er aboti taldi firi mer, er hvarki villdi þidna firi guds ast nie hans fortolur. Bænir ok psalma, þa er ek hafda numid, hafda ek sva i veniu, at þeim lietta ek sialldan naudsynialaust; þackada ek gudi sinn dom ok firiskipan; en hæt væri, at ek hefdi kastad, ef ek hefda þangat komid, sem hugr minn stod til. Var nu hugr minn med godum hætti, ok vænta ek ombonar af gudi, ef svabuid stædi, ok kiæmi fianndinn enn eigi nyium pretta(m) vid. En þa gafz annan veg, eigi liet hann mig þa enn um kyrt sitia, fann hann veilar(!), hversu hann skilldi mik svikia i minni vesold. Oho gud, harmr er þat, er firi hans kvamu er eingi stadr oruggr, hvervetna ero hans snorur bunar. Ek þottumz nu vera i fylsnum, ok fann hann mik þar med þeim hætti. Ek var tryggr þeim, er ek þionadi, þo at heidnir væri, vissa ek, at sva hafdi Pall postoli bodit. Kom af trunadi minum ok giæzlu auki mikill i bu þers mannz, er ek þionada, ok firi þvi villdi hann launa mer starf mitt med nuckurri minning. En fatt er þat, at skiotara bregdi skaplyndi mannz en kona: þat sveik vit af Solomone spaka, styrk af Samsone; med þeiri snoru fiell David propheta; sva hafa margir farid, þeir er forgongumenn voru leingi i godum sidum ok dyrligu athæfi. Þetta nett reid fianndinn nu til min, ok skaut i hug huskarli einum, er var minn ifirbodi, þvi vielrædi, at hann flutti til min mannz konu, þa er hertekin var med mer, ok bad ockr saman bua ok binnda hiuskap. En ek sagdi þat eigi vera mega, þviat vid vorum kristin, en kristnin bannar at taka annars mannz konu. En hinn heidni tok eigi betr vid þersum sanníndum, en hann bra sverdi, ok hefdi mik þar vid velli lagt, ef ek hefda eigi gripid vid henni. Tok ek hana þegar feginn, ok synda ek a mer fridarmark, þott ek væra ufeginn. Oho fiandi, margfolld ero þin svik, þu teygdir mik or munklifi minu, nu geriz þin illzka berari vid mig, ætlar þu nu mik munu bregda þvi

1 Nuckud *Cd.* 2 ukiæti *Cd.*

hreinlifi, er ek hefi æfinliga her til halldit, ætlar þu mer ok konunni syndina en þer salina.

Sva leid, fadir, sa dagr til kvellz, at myrkr kom aftan, ennda til myrkra var þa stefnt, en hellir einn var he(i)mili mitt, ok var hann hriufr ok rifinn ok þo vel at dropum buinn, þangat flutta ek at kvelldi ok husfru mina[1]. Vittu gud ok vid, i hveriu skapi ek var þa; en med ockr einum hiona var sa hattr, at hvart ock(ar)t hatadi annat, ok syndi þo hvarki odru sinn vilia, ok hvarki sagdi. Nu hugleidda ek mal mitt ok naudsyn, ok þottumz ek nu id fysta hertekinn vera, þviat sa var til umsata, er illt var a valld at koma; gret ek nu rad mitt, griet ek, at ek skillda munkinum kastat hafa ok binnda mig i hiuskap synndafullan ok abyrgda. Fiell ek nu til iardar, ok mællta ek vid sal mina ok sva vid sialfan mig þersum ordum: »Hvat stodar þer nu, Malce, at hafa firilatid fe ok frænndr ok fostrn(e)yti þitt ok fostrland, lausan eyri sem fastan ok alla heims munud, munligt kvanfang ok agiætt, er fadir þinn hafdi synt þer, ok þetta allt latid, til þess at þu skilldir alldri hreinlifi þinu bregda; en nu ertu aldri orpinn ok hefir hærur i hofdi, ok skalltu þvi nu liggia unndir syndum. A ungum alldri, er þu hafdir i giæzku, þa varnadir þu vid syndir, en nu binz þu i syndum med slikum stormerkium, er alla vega aflar þu guds reidi, ef þu drygir. Illu heilli fysti þik aftr til fostrlanz þins.« Sva talada ek vid mik, en vid salina þersu(m) ordum: »Hvat þrifum vid nu til rads? sva þrongliga er nu komid malid, at annattveggia stenndr firi dyrum likams tion eda þin. Hvort skal nu drygia synnd þersa ok gremia sva gud at okr, ok bida sva hans hefndar, ok vita sva þina tapan eilifa ok vist þina æ i kvolum utan ennda ok sva likams, eda skal til þers hætta, at[2] ockart hreinlifi[3] hirdiz hreinsa(t) til eilifra ombuna. ·Nu liggr her sverd frammi, er brat ma þersu vid likaman lykta.« Tok ek þa til sverd(s)ins ok mælta ek þersum ordum vid mik: »Hafi salin hialp en likamin lyktir, en hvartveggia um sidir eilifan fagnat, ok er vist vardveitt hreinlifit til sinna ombona; liggi her nu likamin, en ek sialfr er vattr verka minna, sialfr se ek mig sakar hafa gort, ok sialfr hefni ek min a mer sialfum.« Þersum ordum ræd(d)a ek vid sialfan mig, fadir. Lagt ok leyniliga bra ek sverdinu ok visada ek oddinum at briosti mer i myrkrinu med þersu(m) ordum: »Lif heil, kona, ok haf mig helldr firi guds sakar i venium þinum en bonda firifaranda ser.« En su kona er mer var feingin hafdi skyniat min tiltæki

1 minn Cd. 2 ok Cd. 3 hreinl$^{ifi}$æti Cd.

ok ætlan, ok þa er hon vissi vilia minn, skunndadi hon, allt er hon matti, ok fiell til fota mer med felldum tarum ok þersum ordum: »Ek bid þik, hinn liufi madr, ok ek særi þig firi varnn drottin, at þu spillir eigi blodi þinu at[1] luka þersu lifi þinu, veitu mer þat, at þu tak mig fyrr af lifi, ok blondum sva blodi ockru, ok veri þat ockar hiuskapr i guds augliti, þviat gud nefni ek mer til vitniss, þott eiginbondi minn kiæmi til min, þa munda ek eigi at villd minni samþyckia honum med likams losta; ok gud veit, at helldr villda ek bana þola en vennda aftr til sliks lifs. En hvi þarftu at taka a þig lifs tion? ek hafda ætlad sialf at bana mer, ef þu leitadir samþyckis af mer; tokum annat betra rad, byggim bædi samt sem syskin .ii. en eigi sem hion, haf vid mig salu ast en eigi likams; ætli lavardr ockar, at vid sem hion, en gud viti, at vid buim saman sem syskin; ætli þeir at þu sert bonndi minn, en Kristr viti, at þu ert brodir minn; þegar þeir sia, at ast er med ockr, þa hyggia þeir, at þat se af samlagi ockru en eigi af guds halfu.« Sat vil ek ok til þers segia, fadir, at fagnadr var mer a þersum ordum, fagnada ek ok styrk þeim, er ek fann a konunni. Hlydda ek a hennar ord, ok þektumz ek hennar heilrædi, eigi þotti mer þa sem fyrr, at kolld ero kvenna rad, ok lagda ek ast a hana firi guds sakir ok giæzku hennar. Alldri kom honnd min a likam hennar beran, alldri sa ek buk hennar beran, ottudum(z) æ fallid, ef ek færda mig ofmiog i freistni. Lifdum þa med slikum hiuskap marga daga, ast var meiri vid ockr, en grunr minni af henndi lavarda ockarra. Vel var þat manad heilan, at ek sotta eigi til hus heim, ennda kom ecki af husi til min, þviat ast okr giordi þeim meira trunat, en fyrr hafdi verid.

Nu leid a sturndina langt fra þersu, þa gerdiz sva til, at ek sat dag nuckurn einsampt i eydimork, rennda ek hug minum til munklifis ok abota mins, er mig hafdi fostrad ok vel halldit; syndiz mer þa minn hagr[2] med vesold, en þeira med vizku. En þa er ek var i þessi ætlan, leit ek i iardrifu nuckura langa ok miova: vall ok udi maurum su rifa, en þeir voru allir i starfi ok undir byrdum, ok var byrdrin meiri, en sa sem bar; adrir baru frio med munni sinum, adrir fluttu molld or holum, allir hofdu einhveria syslu firi hondum; ef nuckur do, þa var þat sumra sysla at flytia likami brott med fullu skilriki; ef annar for mot odrum, þa vægdi hverr firi odrum. Fogr var mer sia syn ok nytiafull, minntumz ek a þat, er Solomon sagdi vid lata menn, hann bad þa marka af

1 ok *Cd* 2 minn *tilf. Cd.*

atfærslu maursins ok þvi fylgia; þviat hverr vann annars sýslu ok lietti annars byrdi, eingi vann sier, en hverr vann odrum, þviat allir attu allt, en eingi atti ser einn. Ok unndir sliku athæfi var aboti minn ok brædr minir, en mitt athæfi var þa meirr med eymdum, þeir unnu ser ok Kristi, en ek vann heidnum monnum. Hrygdiz nu miog hugr minn af syn þersi, ok med þersum hrygleik venda ek aftr til kerlingar minnar at kvelldi. Hon fann brat ogledi mina ok at sokum frietti, en ek sagdi ok hvatti ek hana til flotta, ok hon samþygti. Bad ek hana l(e)yna, ok hon iatti, bad ek hana at radum hyggia, en hon het at mega gott ok vilia, þviat ecki matti hon þat gott, er hon villdi eigi, en vanndi giordiz a um ok naudarhlutr mikill. Tvær milur voru til vaz nuokurs, ok eingi eykr þangat, ok eingi er ifir kemz, ok a vatninu hvarki skip nie floti ok ecki vidartre til. Hvarkis sart var þa ockart hiarta, þviat þat hvarfladi medal tveggia luta, þat var von ok otti; stundum gafu vid okr vonina, en er ottinn kom, vard vonin at aungu. Nu var af þvi ockart hugskot sart, at fyst var akauf til brotla(u)psins en framkvamu von litil, en otti hinn mesti, at vid yrdim aftr dregin til draps eda einhverrar pinu, ef vid yrdim a flottanum funndin. Aumligt var nu ifir ockr rad at lita; annat-tveggia vera allan alldr unndir ifirbodi heidinna manna ok þar bida enndadag, hyggia at eins at kristni, en litid af hafa – eingi er sa, er tidir veiti, eingi heila fortolu, eingi skript eda adra hialp, þo at naudsyn stanndi – en ella at leggia sig i lifs haska ok rekaz i braut, en fara aftr, þegar er naud kemr; hefir eigi morgum naudr ok fatæki mikid kennt at hugsa?

Kom mer i hug um sidir, at i bui lavardar mins voru .ii. hafrar; fieck ek þat rad, at ek drap bada, ok flo ek belgflætti, ok þurkada ek slatrid til nez ockr, en belgina til farskosta blasna ok vinz fulla. En þa ockr syndiz faur ockra byria, riedu vid til at kvelldi, er flestir svafu, ok allir ætludu, at vid svæfim; sottum sva til vazins, falum ockr gudi a henndi, ok badum, at hann drekti, ef hann villdi; settumz þa a sinn belg hvart ockart, ok hafdi hvartvegia ockart nuckud af slatri; fluttumz vid miog vel ifir, þot straumrinn bæri nuckud af anni, belgir firi skip, en fætr firi arar, guds miskun firi styri, en vid heliarmenn, ef hon brygdiz. Slatrid spilltiz sva miog firi ockr, at eigi mundi vera .iii. daga nest. Nu gerdiz af þvi ny kvida ockru radi, er[1] vegrinn var langr en nestid litid.[2] Lof se varum drotni, er hann pinir

1 en *Cd*. 2 latid *Cd*.

sina vini ok refsar þeim okynni. Nu stendr mikill vanndi til hannda, lifs aftak ok lima ok aftrdratt(r), ef menn sækia eftir ockr; en þo at þersa missi, þa er sulltr firi henndi, er meiri meinlæti er at þola en firi vapnum at deya, ok enn dyra haski, þott matr se nogr. Þvi næst tokum vid til matar, ok atum hvarki mikid nie gladliga, tokum sidan a ras ok hlupum, sem vid mattum mest, litum þo aftr ok sam .ii. menn hleypa eftir ockr a .ii. faraskiotum, þeim er dromedarij heita. Eigi ma annat segia, en i voxt færdiz ockarr otti; sva sortnadi firi augum, at svaurt syndiz solin, þvi at sva þotti ockr, sem þar fari bani ockar, er husbonndinn for. En sva er, sem mælt er, at þa er botin næst, er bolid er hæst: þa er otti ockarr, var mestr[1], sam vid hellisskuta .i., er langt geck i iord nidr; venndum til hellisins ok .þo med otta, þviat ormar ok edlur ok allzkyns eitrkvikvenndi sækia iafnan slikan skugga, ok var naliga, sem vid flydim annarri henndi banann, en annarri henndi sottum vid til banans, þviat bani syndiz bædi bak ok firi. Leitudum vid þo i hellinn med þeim ordum, sem trua ockr stod til: ef gud firilitr synduga menn, þa hofum vid bana. Krupum þa inn i hellinn, ok sa ecki, þviat sol ok otti tok syn fra ockr! um nuckura stund, sem þeim verdr, er i solskini ganga; komu(m) sidan i husid. Opnuduz ockr augu, en otti vox: la þar inni skampt fra ockr id oarga dyr a hvelpum, en færdiz i voxt ockar otti ok haski, annar uti firi dyrum en annar inni. Miog var þat allt senn, at vid litum dyrid ok heyrdum firi dyrum uti (kalla) med þersum ordum: »Ut, ut, drottins svikar, ut hlaupingiar, ut nidingar! lavardr yckar kallar yckr; hvi seinkit? ut þit, verdit ut, þott þit vilid eigi! þvi hardari pinu fai þid, sem þid seinkid meir.« En vid lagum eigi þvi sidr ottafull. En i dvol ockarri ste annar þeira[2] af baki med reidi ok brugdnu sverdi, ockr hion ut at draga eda mein at veita. Lof se þer, drottinn, hversu bratt þu vendir[3] þinni reidi til miskunnar. Skamt var ockar uvin inn kominn, þa fleygdi dyrid ser upp, banar þeim, er ockr villdi bana ok undir þrældom draga. Annar æpir uti ok fryr hinum megins ok hugdi, at vid mundum forstod veita; rasar þa inn med sama radi, ok vard at uradi, þvi at dyrid banadi badum þeim. Mikil er þin miskunn, drottinn! hvern mundi þers vara, at madrinn mundi mer til bana settr, en dyrid til vardveizlu. Miog aurkunnaz(!) þa madrinn, er hann firilætr miskunnina, en dyriþ stigr ifir natturuna. Slikar ero guds iartegnir bædi fornar

1 mæstr *Cd.* 2 þokʳra *Cd.* 3 væindir *Cd.*

ok nyar; en þo at gud hafi birt firir ockr þersar iartegnir, þa toku vid þo goda von, at ockart mal mætti frelsaz. En eigi mattu vid ottanum kasta, ne briost ockart eckalaust vera. Nu var sa otti eftir, at dyrid mundi ser til handa veitt hafa bradina ok mundi vilia sæta ockr kvikum en þeim dauþum. Blezaþr se gud, er bez sa firi sinum skepnum, gaf dyrinu hogværi en ockr lif. Þviat eftir fall þeira tveggia tok dyrid hvern sinn hvelp med munni sinum ok flutti sig brott, en liet ockr þar frials inni vera. Losadi þetta nuckud ockart briost af otta. Gekk ek þa ut um sidir at niosna, hvad titt var, ok sæ þo ræd(d)r um skaplyndi dyrsins, en allt lagdiz þa til hialpar: fannz þa firi dyrum uti .ii. faraskiotar hladnir vist ok dyrligum dryck.

Skyni þeir er heyra, hversu marga vega gud lætr manni, eda hversu marga vega hann huggar hann. Skommu var ockr naud, sultr ok ofrelsi ok lifs haski, en nu naudr farinn, en audr gefinn, sultr sloktr, en matr nogr, otti horfinn, en lif orugt; þvi gud liet þvi dyr dyrum eigi þyrma, at vid skilldum hafa mat ok dryck ok fararleyfi. Stigum nu þar a faraskiota, ok a tiunda degi komu vid higat i bygdir þersar. Fal ek ockr her a henndi brædrum, þvi at aboti minn var þa dauþr. En ek fal konu þersa nunnum a hendi, þot hon se nu med mer, þviat ek unna henni sem systur minni, veitta ek henni hialp; giætta ek hennar, en hon min, ok gud beggia. Nu lykr heilagr Jeronimus, segir med þersum ordum þersa sogu sannyrdi Malcus gamall madr ungum, en ek mun segia hreinlifismonnum. Gud giæti allra var nu ok iafnan. Amen.

---

# APPENDIX.

*(Cd. 544 qv., Hauksbók, Hb.; et Par Steder ere nogle Membranfragmenter i 696 qr. jævnførte. Fragm.)*

### Viðræða likams ok salar.

Bok þersa gerði meistari Valltare af sambvrð [1] tveggia manna, ok ræðir hvarr við annan, af sinv efni hvarr. Annarr skyniar heim þenna ok þa, er hann byggia: hann hefir þekt svndrþycki manna, at annarr stvndar til friðar ok giœzkv við alla menn ok

1 *Saul. efter Fragm.*: valltir af sallibu: *(utydeligt og usikkert) Hb.*

villdi vm sitt bva, vnna ollvm rettinda ok veita ollvm vingan, ok sva vill hann þiggia; annarr hefir hatt annan, fagar illzkv, elskar vfrið, vnir eigi sinv, tekr ok rænir, hvat er hann kann fa, otar ollvm grimleik ok fiandskap ok vvingan. Nv vndirstoð sa er þetta setti saman, at eigi hafa allir menn eina nattvrv: Ef einn er styrkr, annarr er breyskr; ef annarr er harðr, þa er annarr blavðr. Ok þvi skipar hann tveimr i þersa viðrœðv vm veralldlegt angr ok atbvrði, ok talaz við æðra ok hugrecki, annat með kveinan, en annað með hvggan. En siþan talar maðr við sal sina, hversu virk hon var sinvm drottni, meðan hon hellt fegrð sinni, ok hversv fogr ok frið hon var skopvð, ok hveria ast er varr drottinn hefir lagt við hana, er hann hefir þo sinni miskvnn til hennar vent, at hon hafi siolf sig savrgat, ok af þvi baki við honvm snvit, ok at hans miskvnn er henni æ heimol ok bvin. Ok birtiz þar, hversv sakir falla, mein slockvaz ok syndir fyrirdiarfaz, ef sonn iðran kemr ok hellz hon með staðfestv.

Hefr æðra kvein sina fyrst vm andlat, sem þat se heimsins anmarki, er hans ollvm anmarkvm lycter, sem er vart liflat.

Æðra gripr sva til orðs við einnhvern[1] þrekvmann með ognir ok segir sva: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Ecki er þetta nymæli, með þeim hætti geng ek i flest hvs, at ek ætla mer vt at ganga; sva var mer ok skipað i heimenn, at ek skyllda or honvm fara.

Enn mælir æðra: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Nattvra mannz er þat en eigi pinsl.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Þat erv allra landa log, at lan se golldit; með lani er mer þersi heimr en eigi með giof.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: »Þat er flestra siðr, er gongv taka, at venda heim, þa er fvllgengit er. Orlendi[2] er mannz lif a iarðriki, ok a fostrlandi at vera með fystvm en (i) vtlegð með leiðv, ok er eigi rett, at maðr kveini vm þat, at honvm se heim visað or vtlegð.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Til þers kom ek, ok til þers stvnda ek, ok þangat draga mik allir minir dagar; þenna stefnvdag setti mer nattvra, ok verð ek hann sva at hallda, sem hann se með eiðvm bvndinn, þvi at hann ma engin aflaga.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

1 ellihvern *Hb.* 2 erlending *Fraym.*

Hvgrecki svarar: Heimska er at ottaz þat, er maðr ma eigi forðaz, hversv lengi sem fyrirferst.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Eigi em ek sa enn fysti ne enn siðasti, margir hafa fyrir mer farið, ok margir mvnv eftir.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

Hvgrecki svarar: Allt þat er vpphaf hefir þat skal hafa niðrlag.

Æðra mælir: Heyri ek, at litið er þer vm nattvrv davða; nv lat sva til bera, at hofoð se af þer hoggit.

Hvgrecki svarar: Pinsl er at skemri, en andlat at skiotara.

Æðra mælir: Sva kann til bera, at margir vinni a þer, ok verðir þv fyrir margra manna sarvm.

Hvgrecki svarar: Eigi varðar, hve morg sar erv, eitt man vera banasar, enda ma ek eigi meira afla en einvm davða.

Æðra mælir: Fysiligra man þer þickia at deyia a þinv fostrlandi en a vkvnnv landi, en þv mant þo vtlegð sæta ok vtanlanz deyia.

Hvgrecki svarar: Þvi missi ek eigi fostrlanz mins, at ein er ollvm gata til himna, ein framkoma, engi er hinvm davða vheimol gata.

Æðra mælir: Utanlanz mantv deyia!

Hvgrecki svarar: Slik þicki mer sœmð min vti sem heima.

Æðra mælir: I œskv mantv deyia, ok man þer þat hormvng þickia.

Hvgrecki svarar: Samskylldv[1] a nattvra a envm vnga sem a envm gamla, hvn avkar eða vanar vetra tal eftir villd sinni, aller bva vndir einni skylldv. Enda er myklv betra vngr at deyia, en sva lengi at lifa, at þv œskir at deyia. Spekingr einn Seneca at nafne mælir sva a latinv: Meðan er bezt at deyia, er mann lystir at lifa. Hec datur pena diu uiuentibus ut renouata clare domus multis in luctibus mox perpetuo memore et nigra ueste senescat[2]. Þat er heimollt þeim er lengi lifa, at æ se hvs þeira vndir nyiv meini ok æ sorg i eilifum grat, ok at þat elldiz i svortvm klæðnaðe. Þat var siðr forðvm, at davða menn ok aðrar skapravnir skylldi grata i svortvm klæðnaði.

Æðra mælir: Deyia skalltv!

1 samskyllda *Hb.* 2 *Juvenal. Sat. X, 243–5*:
Hæc data pœna diu viventibus, ut renovata
Semper clade domus, multis in luctibus inque
Perpetuo mærore et nigra veste senescant.

Hvgrecki svarar: Þat er mer margra meina lavsn, ok væri þo mikit, at eigi væri meira, en ek þyrfti eigi elli at ottaz. Jvvenalis segir: Eigi þarf at ottaz skiotan davða ne harðan, elli þarf at ottaz, eigi davða, þvi at elli kvelr, en eigi davði, ok er betra, er vandræðvm lyktir, en þat er nœrir vandræði.

Æðra mælir: Vngr mantv deyia!

Hvgrecki segir: »Sv er min elli, er ek fæ.

Æðra mælir: Deyia skalltv ok missa graftar.

Hvgrecki segir: Virgilivs segir: Lett er graftar at missa; himinn hyl þann, er eigi hyl legsteinn; litlv varðar, hvart dyr eða elldr svndrleysa mann, þvi at allt sœkir i iorð, hon gat ok hon við tekr.

Æðra mælir: Missa mantv graftar.

Hvgrecki segir: Ef ek kenni þers ecki, þa er mer þat ecki mein.

Æðra mælir: Vgrafinn mantv liggia, dyr mvnv slita þig, eða vrð man kiœfa þig.

Hvgrecki segir: En hvat þo þv liggr iarðaðr inni byrgðr fvll[1] ok snykiaðr með fvnvm kvið, gnagaðr gagnsmoginn[2] moðkum, sva hatrsfvllr, at eigi vilia vinir sia þig.

Æðra mælir: Allt lætr þv þetta litið, hvart er davði er með nattvrv eða með vapnvm, ok hvar likame er kastað, enda mantv ok missa iarðarinnar. En hvat mantv segia, ef sott kvelr þig lengi?

Hvgrecki svarar: Þo at ek missa iarðanar, þa missi ek eigi iarðar. Snvðarlavst er hinvm framfarna groft að oðlaz; þeim er lifa er þat til gagns ok hvgganar: til gagns, at þeir dragi eigi með nosvm vþefian þar af at spilla heilsv sinni; til hvgganar, at þeir sia eigi nanvng(!) sinn svivirðlega liggia. Minkar ok harm þvi skiotara, er likamr er fyrri folginn, en langæ sott er manne freistni; eigi ma i þvi e(i)nv reyna mannenn, hversv harðr hann er i anmarka eða ravstr i bardaga, eigi reynir siðr manninn sott en orrosta; þrek manz reyna bœði vapn ok reckia.

Æðra mælir: Hvern þrek mantv þa hafa, ef riða skelfer þig?

Hvgrecki segir: Annað tveggia lætr hon mik, eða ek hana, eigi megv við eiliflega saman bva.

Æðra mælir: Litils virðir þv enn þetta. En ef sva kemr til af þrai þinv ok einlyndi, at menn tali illa til þin?

Hvgrecki segir: Engi ma orðlax missa; en hormvng er mer þat, er ek hefir til gort sva, at ek veit eigi retta vorn orðvm þeira, ef goðir menn ok staðfestvmenn tala illa til min; en vera kann, at eigi sva illa [se, ef[3] vondir, þvi at þat er svmvm hvndvm

1 fyll *Hb*. 2 gangsmogin *Hb*. 3 [ sem *Hb*.

holldgroit, at opt geygia þeir saklavst, ok er þat meirr af illri veniv en af nattvrv; sva gera ok vondir menn, af illri sinni veniv veita þeir meirr illyrði en af tilverkvm, ok er þat þeira svivirðing en eigi min.

Æðra mælir: Litils virðir þv enn þetta. En hvat ef þv verðr vtlægr gerr?

Hvgrecki svarar: Her villiz þv; hverivm dvganda manni er hvert land sem fostrland; staðr einhverr ma mer fyrirboðinn ver(a), en eigi fostrland; hvert er ek kem, þa kem ek æ i fostrland. Skipti ek fostrlondvm, en engv tyni ek; ef nockot er vel með manninvm, þa skiptiz þat eigi með staðnvm.

Æðra mælir: Æ man þer harmr vera i brottvisan þinni.

Hvgrecki segir: Hvat skiptir þat? Ef litill harmr er, þa er lett at bera, en ef mikill er, þa er sœmð at viðfrægri, en ombvn at meiri.

Æðra mælir: Margir ala[1] ser mikinn harm af slikv.

Hvgrecki segir: Eigi ener beztv ne ener vitrvztv.

Æðra mælir: Fair erv aðrir, þvi at harðr lvtr er orlending.

Hvgrecki segir: Eigi er harðr, en of fair megv bera, þa vervm i þeira tali.

Æðra mælir: Þat er eigi lett, ver ervm breyskir af sialfri nattvrv.

Hvgrecki svarar: Kennvm engan veykleik nattvrv, styrkia gerði hon oss.

Æðra mælir: Hversv þœtti þer, ef ek mætta flyia harminn?

Hvgrecki segir: Fella mattv en eigi flyia; hvgga sialfan þig, með gleði skal harme rinda.

Æðra mælir: Mer er þvngt fatœki mitt.

Hvgrecki svarar: Þyngri er(tv) fatœke, en þer fatœket; litið er þat, er nattvra kveðr ok henni vinz, ok er fyrir þvi með þer litið, en eigi með fatœkino. Hvgr þinn er fatœkr, en eigi sialfr þv, með minna komtv i heimenn, en enn hefir þv, ok minna mantv a brott bera. Ef þv hefir þat, sem nattvra beiðiz, þa erttv eigi fatœkr, en ef þat þrotar þig, þa er heimili þitt fyrir hondvm, er við þer tekr til ævens vistar. Lifa fvglar ok onnvr kvikvendi ok kvnnv engar iþrottir, ok er kynligt, er maðrenn kviðir, þar sem hann ser hin kreatyr hialpaz.

Æðra mælir: Fair erv þeir, er eigi vilia fe hafa, ok hefir margr mikit.

[1] alla *Hb.*

Hvgrecki segir: Margir hafa ser fé til mikilla meina, þvi at morgvm veitir þat dramb ok ofrhvga, syndir ok savrlifi.

Æðra mælir: Ryggir mik þat, er ek hefir eigi fe mikit ok riki.

Hvgrecki segir: Þv segir rangt, þvi at mikit fe ok riki mætti þér rikri maðr af þer taka ok margr annarr atbvrðr, ok væri þa með hinvm synd, en með þer skomm ok vanvirðing. En nv ma þig eigi sv svivirðing henda.

Æðra mælir: Enn megv mer mattvgir menn sneypv vinna.

Hvgrecki segir: Glez af þvi, at þv hafir litið megin til illz.

Æðra mælir: Mikil gleði er þeim, er feið hafa.

Hvgrecki segir: Rangt segir þv, þvi at fiargeym(s)la er með hvgsott ok ihvga; en ef geytlanarmaðr hefir, þa minkar skiott; en ef agiarn maðr hefir, þa er nytialavst, þvi at hann neytir eigi ok er æ þystr at afla, en otti at tyna.

Æðra mælir: Orlyndr maðr ma ok fe hafa, ok gleðr hann með fe hvskarla sina.

Hvgrecki segir: Ætlar þv, at menn fylgi manninvm? Eigi er sva: flvgvr fylgia hvnangi, mavrar hveite, vargar ræ; fange fylgia þersir en eigi manne.

Æðra mælir: Hvat velldr þvi, at flester menn harma fetion, ok sva harma ek?

Hvgrecki segir: »Betra er, at þv hafir fe tynt, en fe þer. Haski lifir þer nv at minni (at) vela þig, ef þv hefir tynt fe ok fiarfystvm. En ef fe er farið ok fyst lifir, kvnn þo offvssv, at efnvm er vndan kipt, þo at fegraði life. Þinn lvtr er at betri, þvi at þv hefir fe tynt, en fe hefir morgvm tynt.

Æðra mælir: Fari þat fe, sem ma; ryggir mik feleysi ok þat annað, at ek hefir eigi erfingia með fenv.

Hvgrecki segir: Ef þv harmar erfingialeysi, þa glezt af þvi, er þv þarft eigi hann at ottaz, er þv missir. Morgvm hefir erfingi otta fengit, þvi at hann er með miklvm ihvga, ok vendir þat oft til hormvngar, er menn venta ser til hvgganar. Nv virð eigi letti til skaða ne hialp til harms.

Æðra mælir: Litið vinn ek i orðrœðv við þig, en finna man ek þat, er mer þickir hormvng vera. Hvat villtv vm þat tala, ef ek hefir avgvm tynt? sva er þa, sem tynt se nytsemð allra lima annarra.

Hvgrecki segir: Mikit illrar synar efni ok mikils hegoma er snvið af þer. Slokt avgv dreckia morgv meine, en heil morgvm manne. Avgvn hafa morgvm manne a stvld visað, hordom ok annað savrlifi ok a marga aðra misverka, ok væri margr sæll(i), ef hann

elligar, farin værir þv, ef hans ræiði stigi þegar i fvlla hefnd, en þolinmœði vann freistnina, en freistnin yfirbot, en yfirbot ast hans. En þvi meiri mvnr er a ast hans, er þv stvndar lengr til yfirbota meina þinna, þvi at þegar vendir hann sinv skapi, er þv vendir þocka til hans. Ok þo at hann hati syndir þær, er með þer erv vbœttar, þa kann hann þo þers ofvssv, at þv hatar nv þat, er honvm mislikaði. Miðr litr hann nv a þat, hvat a skortir með þer, en a hitt, hvert þv stvndar nv, ok meirr geymir hann at iðran þinni, en at hversv mikil stvnd er til iðranar, ma ok a litilli stvndv lækna stor mein ok margfolld.

**Sala spyrr**[1]. Seg mer einn tima spvrdaga. Ek kenni með mer stvndvm ynði sva mikit ok hvggan, fagnað ok gleði, at mer þickir, sem ek se oll onnvr, en ek var skommv. Nv fysvmz ek allz annars en fyrr, ok nv er mer þat leitt, er aðr var livft; syniz mer, sem ek se oll skipt ok oll ny, ok mitt briost hefir tekit nyian fagnað, samvizka min er i gleði, dvenar fyst at lita til liðinna meina, i ró er nv hvgr minn, birtiz vit mitt, lysiz hiarta mitt, fyst min stvndar a giæzlv heilagrar giœzkv. En þv hefir rœtt vm faðmlag vnnasta mins, at þat skiptir mannenvm ok vender or vandskap til naða ok staðfestv. Nv veit ek eigi, með hverivm hætti þetta skipti kemr, en hvggan er mer i skiptinv, ok við þenna hatt villda ek bva alla mina lifdaga, ok þar til skal ek framleggia allt mitt megin. Nv er sem hvgr minn beriz við mik, hinn fornni við enn nyia, at hinn megi falla, en sia lifa, þvi at sva kenni ek hann nv nyian fagnað hafa tekit, sem hann venti ser nv enda allra meina ok fvllnað avmbvna, ok b[iði] hann nv eigi framarr, enkis œskir hann þersa heims meira. Nv vil ek þat vita, hvart sia . . . . . . . minn vnnasti, ef sva skiptir mer, ok þersa haleita hvgro hefir veitt mer, fellt vnytan losta, en kveykt fyst til allra goðra verka.

**Likamr talar**[2]. Sia same er þinn vnnasti, er sva hefir vitiað þin, þo at hann kome hvlþr ok vsynilegr, ok eigi með avgvm sia ne hendr hondla, hann kemr til aminningar en eigi til synar, til kenningar en eigi til handlanar, vilia þinn at teygia, en eigi alla fyst þina at gera, astarfyst ter hann þer, en eigi enn avmbvnar fvllnað. Ok þat er sa lvtr, er þer hœfir til festarfiar, at her kennir þv hans mvnvgð, ok sva vaxi fyst þin þat at hafa annars heims með fvllnaði, er her kennir þv ok bergir með fagnaði, ok at þat vitir þv með fvllri hopan, at sa skal vera þinn eilifr i

1 spvrdagar *Hb.* 2 capitvlvm *Hb.*

eign, er nv er i þinni vitian, ok se sv vitian, er nv kennir þv, styrkr til staðfestv, von til framkvomv. Ok er sv bœn min ok lykt rœðv minnar við þig, sala min: Vnn þeim, sœk eftir honvm, lett eigi fyrr, en þv tekr hann, ok eignaz hann, þegar er þv fær hann. En þersarrar tavkv ok eignar vnni þer sialfr hann vtan enda.

**Sala mælir**[1]. Sia er fyst min, til þers er oll girnd min, hengat stvnda ek með trv, flytivmz ek með hopan, renn ek með astsemð, ok vnni gvð mer her at leita en annars heims at finna. Amen.

---

Nv með þvi at vm hvgrecki er talað ok vm æðrv, ok þersv hvarvtveggia til salv vent, er annað er gagnsemda fvllt, en annað afbrigða ok byrgða, þa gefi gvð æ til hins at lita, er þvrft beiðir, en hitt fyrirlita, er til haska heyrir. En þat er salv skyllt at skynia, þvi at gvð hefir henni skyn iattað, er hann hefir avðrvm kvikvendvm syniað. Ok sem hon veitir lif likaminvm með sinni navist, fyrst at alaz i heim, þvi nest i voxt at fœraz ok eftir spena með vistum fœðaz, biargaz með atfœrslv, sva er ok hennar at skynia, at likaminn styri ser með viti, kynna honvm, at .ii. lvtir erv með manninvm, illt ok gott, lostr ok nattvra. Ok er til þers leggiandi oll ætlan, skilningr ok vizka, at lyti se vti byrgð, þvi at synd er ill iamnan, en nattvrv se holpið við, er rein var skapat, ok er þo logð vndir lyti hon lytalavs, þvi at eftir þvi sem hon er nattvra, þa er hon hvergi ill, ok eigi með envm versta manni. Ok af þvi at maðrenn kann slikt skynia, i þvi er hann gvði likr, þvi at af þersv kann hann satt at sia ok fremia sig i goðv til salvþvrfta. Ok er honvm iað likams þvrft at vita, hvat hans næringvm gegnir, sem vist mot hvngri, dryckr við þorsta, klæðnaðr við kvlþa, vorn mot alavpvm, hiolp við svttvm; ok er fyrir þvi tvefallt verk með mannenvm, annað þat er gvð vinnr, en annað þat er sialfr maðrenn vinnr, ef maðr rœker salv sina. Rœkt salvnnar erv góð verk ok forsio likamans, en manzens verk ok þo gvðs lan, þvi at þrir erv vinnendr, gvð, nattvra ok maðrinn. Gvð skapar þat, er skapað er ok i fyrstv var vskapað, sem Moyses segir: In principio fecit deus celum et terram. Gvð gerði i vpphafi himin ok iorð. En þat vpphaf er skiliandi gvðs svn. En nattvrv verk er at flytia þat i lios ok til nytia, er eigi var aðr avgliost, sem mann til bvrðar, sað ok annan iarðar afspring til

[1] capitvlvm *Hb.*

avaxtar. Sem Moyses segir með gvðs mvnni: Producat terra herbam uirentem. Flyti fram iorðin gras grœnt. En manzins verk er at annaz vm sina atvinnv, ok hof þat eftir gerfa synd, at sv atvinna varð með vilsinni. Sem segir i samv bok: Consuerunt sibi perizomatá; þav savmvðv ser hvlningar, en þvi volldv synðer; nattvra var aðr friols, en syndin varð at liða til vils ok vela, til starfs ok ahyggiv, ok verðr maðrinn nv þat at afla með vinnvm, er avnnvr dyr hafa með nattvrv. Ok hvgleiði sa er fyrsta sinni fann klæðnað, hversv flestar skepnvr hafa með nattvrv verki nockora hialp mot sinvm anmarka: næfr hyl tre, fioðr fvglinn, fiskinn reistrar, hvelivr hvalinn, vll savðinn, skogardyr ok bvfe har fyrir klæðnað; svm kreatyr hylz i skelivm, svm i kvfvngvm; ross versk með hofi, eða tonn sem hvndr, reinn með horni; ok er þersor vapn ok klæðnaðr allt veitt með nattvrv. En eigi er sva manninvm, noktr kemr hann ok vapnalavs ok varnar. Ok er þetta með mikilli ok dyrlegri fyrirætlan, er nattvra skipar þeim vorn ok þarfendi, er eigi hofþv vit til aflanar. En maðrenn aflaði, er með viti var skipaðr i heimenn, ok er hans tign at meiri, at hans aflan er með viti, en þeira með giof, ok stendr hann til meira, ef hann giætir sin i gœzkv ok i rettvisi, ok litr æ til hins, at hann se þeim mivkr ok lyðinn, er hann hvetia til eilifra þvrfta, en eigi hinvm, er draga til meins með vandvm verkvm. Þvi at maðrinn hefir .v. eggiendr, ok þo eigi alla með einvm hætti, þat er heimr ok horvnd, sal ok illzka ok enn helgi andi. Horvnd eggiar hoglifis, heimr hegoma, sal sannenda, illzka meina, gvð goðra lvta. Til þers lystir horvndit at hafa klæðnað asynilegan, mat lystilegan, drecka með ofsa, liggia hœgt, sofa nogt, firraz heims haska ser til mvnvgðar ok salvtions; en heimr eggiar hegoma, þat er at heliaz a veralld[1]

1 *Slutningen mangler.*

---

## MARGRETAR SAGA.

(*Cd. 235 fol. A*; *Cd. 233 fol. B*).

**Prologus sogunnar** [1].

Sidan er drottinn varr Jesus Kristr hafdi upp stigit til himna til guds fôdur almattigs, þa sendi hann postola sina [viða um heiminn[2] sitt eyrindi fram at bera ok hialp at veita monnum. Þa toku margir vid tru będi karlar ok konur. En truin[3] var þa þo nockut erfid, þviat þeir voru fleiri, er i moti [męlltu, en hinir er fylgdu[4]. Sa madr er nefndr Theophilus[5], er sôgu þessa hefir gert[6]. Hann segir sva fra ser: Ek heiti Theophilus[5], trui ek a gud almatkan fodur ok son ok anda helgan. Ek em skirdr i hans nafni ok lęrdr [a helgar ritningar[7]. Ek vissa, hversu heilôg Margareta bardiz i moti dioflinum ok sigradi hann ok [audgadiz eilifri prydi[8]. Ek vil þess bidia alla [þa, sem heyra þessa sôgu, at þeir vardveiti hana[9] i hiartanu ok hafi hana sem optaz millum handa, ok bidi þessa ena helgu mey Margaretam, at hon arni oss[10] vid gud heilsu będi þessa heims ok annars.

**Her hefz upp saga Margarete meyiar** [11].

1. Theodosius het madr, hann var gôfugr at virþingu þessa heims; heiþinn var hann ok blotadi[12] skurdgod. Hann atti dottur [þa sem[13] het Margareta. En þegar er hon var ung at alldri, þa

1 Prologus fyrir Margr. sogu, *B*. 2 [ *tilf.* *B*. 3 truan *B*. 4 [ stodu en hinir er fram fluttu *B*. 5 Theodimus *B*. 6 samansett *B*. 7 [ vel ok froðr at helgum ritningum *B*. 8 [ oðladiz eilifa dyrd *B*. 9 [ er heyra megu, at þeir hlydi til þessarrar sôgu med athuga ok leiti at muna *B*. 10 ydr *B*. 11 Her byriar upp soghu ennar sęlu Margretar meyghiar *B*. 12 blotmadr mikill ok trudi aa *B*. 13 [ eina frida ok fagra, en hun *B*.

trudi hon a gud almatkan, ok var hon fylld[1] af helgum anda. Þa er hon heyrdi sagt, at helgir menn voru pindir fyrir guds [sakir ok hans[2] nafni, fal hon sitt rad allt gudi a hendi. Hon var ung at alldri, þa er modir hennar andadiz, en fadir hennar unni henni litit[3] ok selldi hana til fostrs nockurri konu[. Margret var uppfędd skamt fra borg þeiri, er Anthiochia heitir[4]. Hon gętti sauda fostru sinnar med ôdrum fostsystrum sinum. Þa var hon .xv. vetra gômul[5].

2. Olibrius het iarl[6] heiþinn, hann for af Asialandi til borgarinnar Anthiochiam til þess at neyda kristna menn til blota[7]. En er iarlinn for um dag med foruneyti sinu, þa sa hann Margaretam[8], en honum rann þegar hugr til hennar. Þa męllti hann vid menn sina: »Farit er ok hittit mey þessa ok spyrit, hvart hon er frials[9] eda eigi. Ok ef hon er eigi frials, þa mun ek kaupa hana, ok skal hon vera frilla min; en ef hon er frials, skal ek ganga at eiga hana, þviat hon er vęnni en vel flestar konur adrar.« Sendimenn iarls sogdu meynni þetta.

3. Þa kalladi heilôg Margareta til guds ok męllti: »Miskunnadu mer, drottinn, at eigi glatiz ônd min med omilldum monnum, helldr lattu mik glediaz med þer i eilifum fagnadi. Lattu eigi, drottinn, fyrirfaraz[10] fegrd meydoms mins. Nu em ek sva komin sem saudr med vôrgum ok fengin sem[11] fiskr i neti. Sendu engil þinn, at hann gęti andar minnar vid ollum svikum fiandans, [ok hann styrki mik at svara þessum enum omillda greifa, ok styrki mik i moti pislum hans[12].« En er sendimenn greifans heyrdu þat, er męrin sagdi, þa foru þeir [i brott ok sôgdu Olibrio, at þessi męr trudi a Krist enn krossfesta, »ok mattu eigi, sogdu þeir, hana med þer hafa.« Þa vard hann reidr[13] ok baud, at meyna skylldi þangat leida. Ok er hon kom fyrir greifann, spurdi hann hana, hvart hon vęri frials eda eigi. Heilôg Margareta svarar:

1 full *B.* 2 [ *mgl. B.* 3 þviat þau voru oskapglik *tilf. B.* 4 [i borg þeiri er Maxima het .xv. milna fra Antiochia. I þeiri borg setti Petr postoli patriarchastol sinn *B.* 5 er saga sea gerdiz *tilf. B.* 6 greifi *B.* 7 en guds nafni at nita, ok let alla þa pina, er eigi villdo hans vilia gora *tilf. B.* 8 hvar siaa hin fagra mær sat ok giætti fiar *B.* 9 frialsborin *B.* 10 faraz *B.* 11 fugl i snôru eda *tilf. B.* 12 [ styrk þu mik til þess, at ek mega svara þessum hinum omillda greifa ok standaz allar hans þrautir *B.* 13 [ aptr ok sôgdu honum svo: »Ekki mun skap ykkat saman fara, þviat hun þionar eigi godum vórum, helldr gôfgar hun þann er Gyðingar krossfestu.« Þa vard Olibrius akafliga reidr ok skipti skiott astinni i æðina *B.*

»Frials em ek ok kristin.« Greifinn męllti: »[Hversu heitir[1] þu eda hvert er kyn þitt?« Heilog Margareta svarar: »Ek heiti Margareta ok em ek ambatt guds almattigs. Ek trui a Jesum Krist, en hann mun vera at eilifu, ok eigi mun vera endir rikis hans.« Greifinn męllti: »Truir þu a þann, er fedr[2] vorir krossfestu?« Hon svarar: »Þvi fyrirforuz fedr[3] þinir, at þeir krossfestu hann.« Þa vard greifinn reidr miok ok baud, at hana skylldi leida i myrkvastofu, ok etladi at [fa meydom[4] hennar med fiolkyngi nockurri[5].

4. Annan dag eptir let greifinn [leida meyna fyrir sik. Ok er hon kom þar, męllti greifinn[6]: »Miskunna þu ęsku þinni ok fegrd likama þins; gerdu [sem ek vil, ok[7] gôfga god min, ok mun ek þik meira virda en þa menn adra, er med mer ero, ok mun ek gefa þer nog audęfi.« Heilog Margareta svarar: »Þegi þu, sagdi hon, þviat þu matt eigi snua hug minum fra ast vid gud minn, ok honum mun ek þiona, medan ek lifi; mun ek likama minn męda i pislum, at ôndin megi glediaz med helgum monnum[8] i himinrikis dyrd. Ok sva sem Kristr let ser soma at deyia ollum til hialpar, sva vil ek ok deyia honum til dyrdar. En audrędi[9] þin veri i eilifri glatan med þer sialfum.« Þa baud Olibrius, at hana skylldi festa upp[10] ok beria med vôndum. Heilôg Margareta leit þa til himins ok męllti: »Allzvalldandi gud, þu ert allt traust mitt, littu til min ok miskunna mer, drottinn, ok lat mik eigi ottaz meinlęti.« Ok er hon hafdi þetta męllt, þa baurdu þeir hana, sva at blod fell um hana, ok gretu margir, þeir sem sa [meinlęti hennar[11]. Þa męllti greifinn: »Tru þu, Margareta, ok gôfga god min!« Sęl Margareta svaradi: »Eigi mun ek gôfga god þin dauf ok dumba[12].« Þa reiddiz greifinn ok baud, at hana skylldi upp festa[13], ok sidan let hann slita holld hennar med iarnkrokum. Ok sva miok sęrdu þeir hana, at greifinn matti eigi a sia, ok dro upp skickiuna fyrir ôgu[14] ser ok męllti: »Hvi villtu eigi hlyda bodordum minum?« Hun svaradi: »Ef ek hlyddi bodordum þinum, þa mun ônd min vera i eilifum kvôlum med þer.« Sidan baud hann, at hana skylldi enn leida til myrkvastofu.

1 [ Hvers hattar ert *B*. 2 frændr *B*. 3 ættmenn *B*. 4 [ fyrirfara meydomi *B*. 5 Þa for hinn ranglati greifi til Antiochiam borgar at blota þar godum sinum, sem vani hans var til *tilf*. *B*. 6 [ bua ser dómstol ok let þangat leida Margaretam ok mælti svo vid hana *B*. 7 [ sva vel at þu *B*. 8 meyium *B*. 9 audæfvi *B*. 10 i tre *tilf*. *B*. 11 [ likam hennar sva meiddan *B*. 12 blind *B*. 13 i annat sinn *tilf*. *B*. 14 augu *B*.

5[1]. En er guds męr kom inn i mykvastofuna, þa signdi hon sik ok męllti: »Heyrdu, gud allzvalldandi! biod þu, at ek sea ovininn ok eiga ek orrosto vid hann; en hvat muna ek mega vid honum, dęmdu millum min ok hans. I þer er oll von min, þu ser lofadr um allar alldir.« En fostra Margarete kom til myrkva-

1 *Cap. 5 lyder i B saaledes:* Ok er hun var þangat komin, þa mælti hun: »Heyrðu mik, allzvalldandi skapari himins ok iardar, bioð þu, at ek mega sea ovin, þann er berst i gegn mer; en hvat mun ek vid honum mega, dæm þu drottinn aa medal min ok hans, þvi at i þer er vón min øll. En þu einn ert lofaðr sannr guð um allar alldir.« Eptir þat kom fostra hennar til myrkvastofunnar ok færði henni fęðu ok drykk, ok heyrði hun bæn þessa. En er hun var brott farin, þa kom þar fram or einni hyrningu ógurligr dreki, hann var med ymsum litum; fax hans var hardla siðt; tenn hans voro sem gloanda iarn ok svo miklar (sem) i villigelti; augu hans voro sem gloandi siur; elldr brann or munni hans, en tunga hans vafdiz um hals honum; hann hafdi nøðru eina i munni ser hardla illiliga, en hun hafði mikit hófut. Þa reis drekinn upp um miðnætti, en elldr brann or munni hans ok nausum, sva at af þvi lysti um alla myrkvastofuna. En er heilog Margareta sa hann, þa mælti hun þessum orðum med mikilli hrædzlu: »Heyr þu, guþ allzvalldandi, sa er aa himnum er ok batt diðfulinn Belzebuþ ok allt hefir i þinu valldi, hialp þu mer nu vid þessum dreka ok miskunna mer, drottinn minn.« En er sæl Margareta hafdi þetta mælt, þa svalg drekinn hana med helgu krossmarki adr signda, þvi at hun retti hendr sinar i kross. Ok er hun kom iafngegnt hiarta hans, þa brast drekinn sundr i miðiu, þviat sa ovinr allz mannkyns mátti eigi standaz þat hit helgazta takn krossins. En sæla mær Margareta stoð heil upp ok lofaði guþ af ollu hiarta. Þa sa hun til vinstri handar ser einn svartan diðful, ok voro hendr hans bundnar vid kne ok brann elldr or augum hans ok munni. Þa gekk diðfull at henni ok tok til hennar ok mælti sva: »Mikit undr hefir þu gort aa minum broþur, þeim er Rufus het ok þik svalg. En fyrir guðs nafni drapt þu hann, ok nu veit ek, at þu mátt mik drepa, ef þu vill. Nu bið ek þik, at þu drepir mik eigi.« En er sæl Margareta heyrdi þetta, þa tok hun til fiandans ok varp honum til iardar niðr ok setti hinn hægra fót sinn a hals honum ok mælti vid hann: »Þu bannaðr fiandi, svik mik eigi, þvi at ek em ambatt guds ok lofa ek allzvalldanda guð, ok hans nafn er skrifat i minu hiarta.« En er heilug Margareta hafdi þetta mælt, þa kom lios mikit i myrkvastofuna, ok fylgdi þvi liosi kross drottins vars, ok sat dufa aa þvertre krossins ok mælti sva: »Sæl ert þu, Margareta, þvi at englar guðs biða þin vid paradisar hlid, ok þin sal mun til himinrikis koma.« Þa mælti sæl Margareta vid fiandann: »Hvert er nafn þitt?« Hann svarar: »Ek biðr þik, Kristz ambátt, at þu hefir upp fot þinn af halsi mer, at ek mætta litla stund hafa frið at mæla vid þik ok segia þer alla mina atferd.« Þa lypti sæl Margareta fæti[1].

1 *Her ender B.*

stofunnar ok fęrdi henni braud ok vatn, ok heyrdi hon bęn hennar. En er hon var i brott farin, þa kom or hyrningu einni myrkvastofunnar ogurligr dreki. Hann var med ymsum litum, hár hans var alitz sem gull, skegg hans var hart sem þyrnir, en tenn hans sem iarn ok sva storar sem i villigellti; ôgu hans voru sem blodsegar, elldr brann or ôgum hans, hôggormr lá' um hals honum, odaunan mikit ok illt stod af honum. Ok er hann kom a mitt golf, þa ôrgadiz hann upp ok bladradi tungunni. Lios gerdiz i myrkvastofunni af elldi þeim, er for or munni hans ok nausum. Þa vard Margareta sva rędd, at hon fell til iardar, ok eigi mintiz hon þa þess, er hon hafdi fyrr bedit at sia ovininn. Þa retti hon hendr sinar til himins ok męllti: »Heyrdu, gud minn almattigr, veittu mer, at eigi stigi sia enn ogurligi dreki yfir mik.« En þa er hon hafdi þetta męllt, tok drekinn enum efra kiaptinum yfir hvirfil henni, en tungunni tok hann undir tęrnar, ok svalg hana sidan. En þa er hon kom gegnt hiartanu drekans, sprack hann i .ii. hluti. En heilôg Margareta reis heil upp. Þa sa hon til vinstri handar ser annan dioful; hann sat, ok voru hendr hans bundnar vid kne honum. Þa męllti heilôg Margareta: »Lofa ek nafn þitt, drottinn minn; nu se ek fagnat andar minnar, ek se drekann daudan liggia en diôfulinn bundinn. Fyrir þvi geri ek þer þackir, heilagr gud, ok þik lofa ek, odaudligr konungr.« Þa reis sa diofull upp, er setit hafdi, ok męllti vid meyna: »Mikit mega bęnir þinar. Ek senda Rufonem brodur minn til þess, at hann fylgi þik ok glatadi fegrd þinni, en þu vant hann med krossmarki; en nu villtu mik vega fyrir bęnir þinar.« Þa tok sęl Margareta i hár dioflinum ok varp honum a iordina ok ste enum hęgra fęti sinum a hals honum, ok męllti: »Lattu af, illgiarn andi, at freista min, þviat ek em Kristz ambatt.« Þa kom kross med liosi miklu i myrkvastofuna; dufa sat a krossinum ok męllti vid Margaretam: »Þin bida helgir englar hia hlidi paradisar.« Þa þackadi en sęla męr Margareta gudi vitran þessa. Sidan męllti hon vid fiandann: »Hvert er kyn þitt?« Hann męllti: »Bid ek þik, guds ambatt, at þu lyptir fęti þinum af halsi mer, sva at ek mega segia þer fra verkum minum.« Hon hof upp fotinn. »Ek heiti Belzebub, ok hefi ek marga rettlata menn tęlda; morgum hefi ek i mot bariz, ok hefir engi fyrr yfir mik stigit, en nu hefir þu utsprengt ôga mitt ok afl mitt brotit. Matta ek svikia fodur þinn ok modur, en nu hefir þu fengit sva mikla miskunn af gudi, at ver erom allir hręddir vid þik. Ek beriumz i moti retlatum monnum nott

hôfut sęlli Margarete. Þa urdu lausar hendr hennar ok fetr, ok geck hon or kerinu ok lofadi gud. Þa kom rôdd af himni ok męllti: «Kom þu, Margareta, i hvilld Kristz, kom þu i riki himna! Sęl ertu, Margareta, þviat þu audladiz fegrd meydoms þins.» A þeiri stundu sneruz til truar .iiii. þusundir manna, ok hvarki talit konur ne bôrn.

7[1]. Eptir þetta baud greifinn, at ena helgu mey Margaretam skylldi hôggva; var hon sidan leidd ut or borginni. Þa męllti sa madr, er hana skylldi hôggva, sa het Malcus: «Eigi mun ek hoggva þik, þvi at ek se Krist hia þer med englum sinum.» Hon svaradi: «Ef þu ser Krist hia mer, þa bid ek þik, at þu bidir litla stund, medan ek bidiumz fyrir.» Hann svaradi: «Bid þu, sem þu vill.» Þa kalladi sęl Margareta til guds ok męllti: «Heyrdu bęn mina. Þess bid ek, at þvaiz syndir þess manz, er les pislarsôgu mina; ok hverr sem einn, sa er lysi fęrir til kirkiu minnar, þvaiz af syndir þess a þeiri tid; ok hverir þeir menn, sem staddir verda i nockurum haska eda þrônging, ok heiti a mik ser til fulltings, leystu þa, drottinn minn. Enn bid ek þik, drottinn minn, sa er minning gerir minnar pislar eda hefir i hendi bok, þa sem min pislarsaga er a, þvaiz af syndir hans, þviat ver erom eitt holld ok blod ok misgerdum opt. Enn bid ek, drottinn, sa er ritar pislarsôgu mina eda kaupir þa bok, fylldu þa af helgum anda. Ok i þvi husi, er bok su er inni, verdi þar eigi fędt daudt barn ne lama Fyrirgef þu þeim manni syndir, drottinn, er bok mina hefir at vardveita, ef hann bidr þik liknar.» Þa gerdiz reidarþruma mikil, ok kom dufa or lopti med krossmarki, ok var męllt vid ena helgu Margaretam, sva at allir heyrdu, þeir sem hia voru: «Sęl ertu, Margareta, þviat þu leitadir miskunnar af mer ok mintiz allra i bęnum þinum; sver ek fyrir dyrd engla minna, at allt mun þer veitt, þat sem þu villt bidia. Ok ef syndugr madr kemr til þess stadar, sem þinn heilagr domr er vardveittr, med idran synda ok litillęti, þa munu honum fyrirgefaz syndir; ok þar mun eigi fiandi inni vera, sem pislarsaga þin er, helldr mun þar vera ast ok fridr. Sęl ertu, Margareta, þviat ek em med þer, ok mun ek upp luka fyrir þer riki himna.» Þa leit heilôg Margareta til þeira manna, er þar voru vid, ok męllti: «Heyrit er, fędr ok mędr, brędr ok systr! sęri ek ydr fyrir nafn eilifs konungs allra veraldda, minniz þer min, nefnit þer nafn mitt; ok þott ek se syndug, þa mun ek þo bidia drottin minn Jesum Kristum, at hann veiti miskunn eilifa

1 Andlat Margarete *Overskr. Cd.*

þeim ǫllum, er mik dyrka.» Þa reis hon upp ok męllti: «Tak þu nu sverd þitt ok hǫgg mik!» Hann svaradi: «Eigi þori ek at hoggva þik, þviat gud męllti vid þik.» Sęl Margareta svaradi: «Eigi muntu vera med mer i paradiso, ef þu gerir eigi þetta.» Þa hio hann hofut af enni sęlu Margarete med mikilli hrędzlu. Hann fell þegar til iardar a hęgri hǫnd henni ok bad ser liknar ok męllti: «Fyrirgefdu mer þessa synd, drottinn.» Þangat komu margir menn daufir ok blindir, ok fengu allir bot meina sinna. Guds englar foru med ǫnd sęllar Margarete til himneskra fagnada ok sungu lof gudi.

En ek tok, segir Theophilus, likama heilagrar meyiar Margarete, ok grof ek hana i husum Scindecie husfreyiu. Ek kom til hennar, ok sa ek pislir þęr sem hon hafdi, ok ritada ek sogu hennar; gerda ek minning hennar; bid ek ydr, kristnir menn, ok bidit, at hon minniz ydvar i sinum bęnum vid almatkan gud, þann er lifir ok rikir um allar alldir. Amen.

# MARIU SAGA EGIPZKU.

---

## I.

(*Cd. Holm. 2 fol., A; Cd. 235 fol., B; Begyndelsen af Sagaen mangler i den sidste.*)

**Her hefr upp Mariu soghu egipzku.**

Madr gamall var a landi þvi er Palestina heitir, þat er a Serklande, hann var rettlatr ok kunni vel bok, Zosimas het hann, ok hafdi sig miog halldit fra heiminum, hann hafdi munkr verit fra barnæsku sinni ok halldit alla æfi vel munka sid. Sva var hann frægr ordinn i atferd sinni, at margir munkar, þeir sem i nand voru, ok svo þott firr væri, þa foru at finna hann ok nema at honum, hversu þeir skylldu lifa. Hann var i sifellu ahyggiufullr um ord guds ok sva þat, er mælir Pall postoli, at allir menn skylldo hafa ok lifa vid nockut erfidi, annathvort at þiona gudi edr þiona heiminum. Hann var færdr barnungr til munklifiss ok var þar fimtigi vetra, svo sem hann sagdi sialfr. En sidan er þeir vetr voru lidnir, þa kom til hans su hugrenning, at hann treystiz gæzku sinni ok hugdi, at einge madr væri honum iafngodr, ok mællti sva i hugnum: «Ek þarf einskis manz kunnandi, ok ætla ek öngan svo godan munu vera, ath mer megi kenna, hversu ek mega lifa.» En þa er hann hafdi slika[1] hugsan, sa hann mann einn vænan ok dyrligan standa hia ser, ok mællti sa wit hann: «Zosime, vel hefir þu med þinum hag farit. En eigi skalltu þat hyggia, at þat se fullwel, fleiri eru götur til guds, en þær sem þu hefir farit enn, ok ef þu vill meir freista þin i meinlætum, þa far þu fra frændum þinum ok vinum, svo sem gerdi Abraham höfutfadir, ok fylg mer til munklifiss þess, er stendr a Jordanar backa, þat er vigt Joni baptista.» Þa for Zosimas þegar þangat med honum.

1 slikan *Cd.*

2. En er þeir komu þar, þa mællti forunautr hans: «Her er nu sa stadr, er ek sagda þer fra, far þu nu i munklifit ok sia þau tidendi, sem þar eru. Sidan geck hann til klaustrahlids ok bardi þar a. En sa er gætti hlidsins spurdi, hverr þar væri. Hann svaradi: «Madr einn ukunnigr þer.» Sa for til abota ok sagdi honum. En aboti sialfr for til ok lauk upp dyrum fyrir honum, ok þegar sem aboti sa hann i munkabunadi, skildi hann gæzku med honum, ok fell aboti sialfr til fota honum ok bad fyrir ser, sem sidr þeira er til. En þa er hann reis upp, spurdi hann þann, er kominn var, hvadan hann væri edr fyrir hveria sôk hann kom þar til þeira fatækra svo gamall madr. Zosimas svaradi svo: «Eingi naudsyn er ath segia, hvadan ek em kominn, en þvi kom ek her, at ek vil bæta mik; ek hefi heyrt, ath her se godir sider ok miskunn mikil medr ydr, svat hverr madr sa, sem her vill vera, þa er hann her nær gudi en i ôdrum stodum.» Þa svaradi aboti honum: «Brodir, sagdi hann, gud einn veit hvers mannz gæzsku, kenni hann þer ok oss sva ath lifa, sem wor er þurpt til; hyggi hverr ath sinum hagh, þviat sa er næst gudi, er bezt giorir. En ef þu vill her vera med oss, þa vertu. Sa gud, er gaf sialfan sig ath leysa oss, hann hefir oss saman safnad.» Sidan fellu badir a kne til iardar ok baduz fyrir, ok sidan gengu þeir inn til annarra brædra.

3. Ok er hann hafdi verit um stund, sa hann, ath þeir voktu hveria nott ok bad(u) til guds, ok aldregi letu þeir munn sinn kyrran ath bidia ser miskunnar ok odrum. Alldri heyrdi hann þa onytt mæla, ok ecki hirdu þeir um þat, er veralldligt war, þat eitt villdu þeir sysla at deyda likama sinn fra þessa heims fystum. Mest hôfdu þeir ord guds fyrir mat. Atu þeir braud en drucku vatn, til þess at þeir hefdi megn til at þiona gudi. En af þeira verkum slikum þa þroadizt Zosimas ok mikit i krôptum. Þa kom su tid, er þeir voru vanir at fara ut i eydimerkr or munklifinu ok pina sik meir þar en heima, þat var-langafasta. Sa var þar sidr, ath klaustrid skylldi alldregi opit vera a .xii. manadum, nema gestir kæmi, en þar komu fair menn, ok fair menn vissu, hvar þessi stadr var, ok þvi visadi gud sinum erendreka ath leida Zosimam þangat.

4. Drottinsdag hvern at fostu igang þa komu þeir allir saman ok heyrdu messu ok toku corpus domini, ok mautuduz allir saman litt ok gengu sidan til bæna sinna. Sidan kystuz þeir allir, ok sidazt abota, ok badu hann bidia fyrir ser, at þeir mætti þat efla,

sem þeir willdi. Þaa luku þeir upp ollum hurdum ok gengu ut a sinn veg hverr, ok sungu salm þenna: Dominus illuminatio mea. Eptir var einn eda tveir at gæta stadarins ok at geyma tida, en eigi þurfti fiar at gæta, þviat ecki var til. Hverr þeira hafdi nockut til fæzlu, sumir litid braud, en sumir fikiur, eda þat alldin er dactil heitir, eda ertr, en sumir ecki nema klædi þat sem þeir hofdu yfir ser. En a þeim stundum sem þa hungradi, þa atu þeir grôs eda rætr. Eingi þeira villdi koma til annars ok eigi vita hvat annar gerdi. En ef nockur þeira sa annan, þa geck hann þegar af þveru fra. Svo lifdu þeir alla fostu framan til palmadags; þa komu þeir allir samt ok hugdu at hverr med ser, hvat hann hafdi aflat a þeiri enni helgu tid. Eingi þeira spurdi annan at syslu, þviat þat voru laug þeira, at gud einn skylldi vita med þeim sialfum þat, sem þeir gerdo vel, þviat þeir villdu firraz manna lof. En Zosimas munkr, er þa var þar kominn, for ok einn saman, hann hafdi ok litinn mat med ser. Hann vakti svo mikit, at hann svaf alldregi, nema þa er fell a hann svefn, ok fell hann þar nidr, sem hann var þa kominn. Nu for hann vida um merkr ok skoga at leita, ef hann mætti finna helga stadi edr einsetomenn.

5[1]. Þa er Zosimas munkr hafdi gengit .xx. daga um skoginn, nam hann stadar um middegi ok horfdi i austr, fyrir þvi at hann gerdi svo a hverri tid dagsins. En medan hann sa upp, þa for fyrir augu honum a hægri hônd þvi likaz sem skuggi manz wæri. Þa hræddizt hann ok hugdi, at vera mundi braugd diôfuls, þat kollum vær ofreskiu. Þa signdi hann sik þrim sinnum ok bad gud miskunnar. Hann sa i sudr fra ser, sem madr einn gengi nôktr ok kolsvartr at sia, þviat sol hafdi brendan allan likama hans; honum syndizt har a manni þessum hvitt sem ull ok sva stutt, at eigi tok leingra en ofan a hals. En er hann sa þetta, þa undradizt hann ok vard þo feginn ok skundadi gongu sinni eptir manninum. Sa leitadi undan eigi at midr, en munkrinn eptir; ecki gaf hann gaum at þvi þa, þott hann væri gamall eda meginlaus, þo for hann sem hann matti mest, ok þegar er hann kom i nand, þa kalladi hann a hinn gratandi ok mællti: »Þu guds þræll, fyrir hvi flyr þu mik gamlan mann ok syndugan. Ek bid þik i nafni guds, fyrir þess ast er þu pinir þik i þessum skogi, bid min ok mæl vit mik.« Þa gat hann tekit nær þenna mann i dal nockurum. Þar hafdi hun runnit utan um vatn nockut, ok

1 Hversu Zosimas fann Mariam *Overskr.*

þegar er hann kom i dalinn, þa for sa or annan weg. Munkrinn nam þa stad ok matte eigi meira renna, ok gratandi taladi hann þa enn: »Bid þu min, guds þræll!« Sa svaradi: »Fadir Zosima, hvi sækir þu svo miok eptir mer, eda hvat villtu mer? Eigi ma ek vid þik mæla fyrir skaumm, þviat ek em nokt kona. En ef þu vill vit mik mæla, þa tak þu klædi þitt nockut ok kasta til min, at ek mega hafa a, medan wid hittumzt.« Þa undradizt hann, er hun vissi nafn hans ok hafdi ecki sed hann fyrr. Þo fagnadi hann þvi ok þottizt vita, at henni fylgdi mikil miskunn guds. Þa tok hann eitt klædi af ser fornt, þviat ecki war nyiara til, ok kastadi til hennar, ok sa fra henne, medan hun tok þat ok let yfir sik ok mællti sidan wit munkinn: »Fadir Zosima, hvat er þer undir at sækia fund minn, svo syndug kona sem ek em?« Þa fell hann a kne ok bad hana blezanar. En þegar hann gerdi svo, þa fell hun a kne ok bad hann bleza sik. »Fadir, kvad hun, þat byriar þer at gera, en mer eigi, þviat ek em kona, en þu ert karllmadr ok prestr ok stadit margan dag fyrir alltari ok sungit messor.« Þa þotti honum undarligt enn, er hun vissi þat, ok sa hun hann alldri fyrr, ok eigi var henne sagt fra. Hann mællti vit hana: »Nu se ek, ath þu ert af gudligri miskunn, er þu hefir sagt bædi nafn mitt ok atferd mina.« »Guds miskunn fæz eingum manne fyrir ofriki eda metnadi heims þessa, kvad hun, helldr med litillæti ok rettvisi ok ast, þa er madrinn ann gudi.« Þa let hun at mali hans ok blezadi honum ok mællti þetta: »Blezadr ser þu, gud drottinn wor, er leysir alla menn fra diöfli.« En hann svaradi svo: »Satt er þat.« Þa risu þau upp bædi ok stodu, ok sidan mællti hun wit munkinn:

6[1]. »Fadir, kvad hun, hvi villdir þu mik finna synduga kona?« Hann svaradi: »Eigi var þat fyrir minn vilia, helldr villdi gud, ath vit fyndimzt.« »Ef svo er, kvad hun, sem þu segir, ath gud villdi fund ockarn, þa segþu mer, hvat titt er i heiminum um konunga edr byskupa edr lærda menn.« »Systir, kvad hann, gud hefir gefit kristni sinni godan frid. En nu skalltu bidia fyrir ollu folki ok fyrir mer.« Þa hof hun upp hendr yfir hofut ser ok kalladi til guds leingi. Eigi heyrdi Zosimas, hvat hun mællti, en þat sa hann, at hun hrærdi munn sinn, ok þat sa hann, at hun for upp i loptit miok langt fra iördunni. Vit þessa syn sa hann nidr til iardarinnar ok matti ecki mæla nema þetta: »Kirieeleison,« ok hann sveittiz miok af hræzlu, er hann sa þetta um hennar

1 Fra Mariu egiptzku *Overskr.*

hag, þviat hann vissi eigi, nema þetta væri villa, ok la hann nu aa iordinni. Stundu sidar for hun ofan aptr ok tok i hond honum ok reisti hann upp ok mællti: »Fadir, kvad hun, eighi skalltu mistrua, kristin em ek ok syndug kona, sem ek sagda þer fyrr.« Ok gerdi hun krossmark i enni ser ok aa briosti ok mællti svo: »Gud allzvalldandi leysi oss fra diofli, þeim er i moti oss berstz ok vakir avallt um vora oþurft.« En þa er hann heyrdi mal hennar þetta, ok hann matti skilia, ath hun vissi hug hans ok ord, skilde hann, at gud var med henne, ok fell hann þa til fota henni gratandi ok mællti þetta: »Nu bid ek þik ok byd ek þer af guds hendi, attu leynir mik eigi, hvat um þinn hag er eda hversu leingi þu hefir her verit, at ek mega heyra, hversu dasamlig er guds miskunn ok segia odrum monnum fra slikum iarteinum; þviat visdomr sa allr er folginn er eda fe liggianda, þess nytr eingi madr. Eigi bid ek þik fyrir þvi þessa, ath ek vilia eda þu taka manna lof fyrir, helldr til þess ath adrir godir menn mætte likia eptir þinum godum hlutum ok dæmum. En þat veit ek, at af þvi kom ek a fund þinn, ath gud willdi, at menn wissi, hvat þu hefir her syst.« Ok er hun heyrdi þessi ord hans, þa lauk hun upp augu sin ok sa til himna ok mællti wit hann. »Oho brodir, kvad hun, mikit er mer fyrir, þviat skaumm þicki mer ath segia fra lifi minu, fyrir þvi attu matt flyia mik sem enn versta eitrorm, ef þu heyrir atferd mina ok illzku. En ek geck alldregi til skripta, ok verd ek nu ath segia, þott mer se leitt. En þu bid gud, ath hann fyrirgefi mer syndirnar.« Hann hellt þa höndum upp til himna ok bad fyrir henne, en hun tok svo til mals:

7. Ek war uppfædd aa Egiptalande, ok war ek .xii. wetr med fodur minum ok modur. Þa girntumzt ek, sagdi hun, allz lifs ok likams losta ath fremia. En ek matta þvi eigi þar fram koma, fyrir þvi ath fedgin min woru rikir menn, ok þordi eingi mik þar ath finna til onytra luta. Þa hliop ek þadan aa brött ok til borgar þeirrar, sem Alexandria heitir, ok lifda ek þar sva ofogru lifi sem kona maa werst lifa bædi fyrir gudi ok monnum. Þat war þa mitt lif, ath ek war portkona, svo sem su er verst matti wera, .xvij. vetr edr nockuru meir. Aa þessa lund hattada ek mer, ok allt þat sem fegrst war klædakyns, þa keypti ek ok bar ek aa mik, til þess at fleiri menn skylldi til min lysta þa en adr, þviat ek var ærit frid synum. Mat ok dryck keypta ek þann sem beztr war, til þess at likami minn skylldi þa meiri glede standaz ok fleira illt lystaz en adr. Wakta ek nær bædi nætr ok

daga, ok geck ek til þess ꜳ milli ath drecka vin eda fremia likams losta med hverium manne, er þat willdi giôra. En mer þottu þeir allz offair, ok tok ek ecki fe af môrgum, þviat ek villda locka þa fleiri ok fleiri til min. Ek gerdumz leikari, ok for ek med sôngva, ok til þess eins þetta allt, ath menn lysti til min meir ok meir, ok var ek nott med deghi i illum verkum. Þa kom sumar eitt. En sꜳ var sidr ꜳ lande þvi, ath menn foru ꜳ skipum fiolment til Jorsalaborgar ath krossmessu. Ek sa þat einn dag, ath mart manna for til skipa, þa fann ek ath mꜳli einn mann, þann er fara skylldi, ok spurda ek, hwert þeir skylldu fara. En hann svaradi: »Til Jorsalaborgar til ens helga kross.« Ek sôgdumz wilia fara med þeim. En hann spurdi, hvat ek hefda til skipleigu. Ek svarada honum sva: »Ecki, nema þer vilit veita mer farit; en ef þer vilit eigi þat, þa byd ek mik sialfa.« Nu bid ek þik þess, godi munkr Zosima, ath ek segia þer nu eigi leingra, fyrir þvi ath eyru þin munu saurgazt ok lof þitt allt.« Þa komz hann vit ok bad hana stadfastligha, »fyrir guds sakir, systir, kvat hann, seg þu mer leingra, þviat þat giorir margan mann godan, ef slikt heyrir.« En hun tok þa ꜳ nyia leik ath segia honum: »Sa madr, kvad hun, er ek sagda þer adan fra ok ek villda farit hafa med til Jorsala, fann hvat konu ek var, ok for i brôtt fra mer, ok hlo at mer miok, en ek geck sem skiotaz til strandar, ok sꜳ ek þar fiolda manna, er leku ok bidu forunauta sinna. Ek bad, at þeir skylldu lata mik fara med ser ok þa giôra vit mik slikt, sem þeir villdi. En [1] þeir þago þenna kost ok leiddu mik med ser. Sidan forum vær i haf, ok þa tok ek[2] sid minn enn sama: alldri war svo illt i hafi eda gott, at ek leta eigi sem ek var won fyrr, ꜳ hveria lund sem ferligazt war. Ek hræddumz eigi a skipi sem adrar konur. Svo var mer tid illzka min, at ek lockada til min alla menn, er a þvi skipi woru, bædi goda ok illa. Ek var svo sem pyttr helvitis i ath falla ollum þeim, er vit mik attu, ok svo sem fella til musa. Þat undrudumzt ek, hvi vær suckum eigi nidr oll fyrir minar sakir ok illzsku, nema nu se ek, at svo er sem gud hefir mællt, ath hann will eigi dauda syndugs manz, helldr ath hann lifi ok bæti sik. En þa er vær komum til Jorsalaborgar, þa vorum vær þar adr nockura daga, en krossmessa kom. A þeim dôgum lifda ek svo illa, sem þa er ek hafda ferligaz med mik farit, ok for ek um borgina alla innan ok locka(da) ek til min hvern mann, þann sem ek matta, ok spanda ek svo

1 *Her begynder B.* 2 *saal B*; enn *A*.

salur þeira til helvitis sem fiskar veidaz i neti. En þa er krossmessa kom. sotti menn folment til kirkiu fyrir guds sakir. ok hans dyrd villdu allir gofga. En ek skundada gongu minni i flock þeira fyrir illzku minni ok oeru. ath sem flestir maetti mik sia. Þa komum vær til kirkiudyra. ok gengu allir menn inn. nema ek ein matta eighi inn komazt. Þa þotti mer undarligt. ok geck ek i þraungina[1], ok hugda ek, ath menn skylldu hrinda mer inn med ser, ok stodadi mer þat ecki. þviat allt folk geck inn. en ek matta eigi inn komazt.

8[2]. Ok er ek hafda svo leingi [i þesso feingizt[3] at komaz inn i kirkiuna, at ek var [svo mod, ath ek matta eigi leingr þann veg lata, þa hvarf ek hia kirkiunni i eina hyrningh fyrir utan[4], ok kom mer þa i hug, hvat vallda mundi, er ek matta eigi i kirkiu ganga sem allt kristid folk annat. Þottumzt ek þa skilia, hvat ek hafda syslat, ath af þvi hratt gud mer ut, at ek var verri hverium manni. Þa tok ek at grata af ollum hugh, ok barda ek a briost mer, ok þa sa ek þadan, sem ek stod, hvar skript ein var sett ok giôr eptir Mariu modur drottins vors. Þa kallada ek af ollum hug til skriptarinnar gratandi augum ok siuku hiarta, fyrir þvi at þa et fyrsta fann ek, [hvat ek[5] hafda aflat. Ok mællta ek svo: ‹Ek bid þik, en helga mær Maria, er bart son guds hingat i verôld þessa; weit ek, ath ek em eigi werd ath sia til þin fyrir þeiri miklu illzku, sem ek hefi giôrt, en bid ek þik. guds modir, ath þu hialpir mer, fyrir þvi ath ek weit, ath gud giordizt fyrir þvi madr her i heimi, ath hann willdi, at syndugir menn idradizt misfella[6] sinna ok bætti yfir wit hann. Nu hit þridia sinn kalla ek til þin, en dyra drottningh himens ok iardar, attu lofir mer inn ath ganga i[7] þær dyr, sem ok matta eigi adan inn komazt, til ens helga kross ath luta honum sem adrir menn. En ef þu vill mer þetta leyfa, þa heit ek þvi, at ek skal [alldregi þetta drygia slikt sem fyrr. Ok þegar sem ek kem til krossins, þa skal ek[8] af lata heiminum ok ollum hlutum þeim, sem honum fylgia, ok vil ek fara i þann stad, sem ek mega refsa mer sialf okynni min ok illzku þa er ek hræddumzt eigi gud. Enn bid ek þik et fiorda sinn, en helga Maria, fyrir þina dyrd ok hialp, er þu veitir ollu folki kristnu, attu gangir i vôrdzlu fyrir mik vit drottin worn.» Ok sidan freistada ek ok geck til kirkiudyranna med ôdrum

1 þrongdina *B.* 2 Fra Mariu drottningu *Overskr. A.* 3 [ vid fengiz *B.* 4 [ mod, þa for hon(!) i eina hyrning fyrir utan kirkiuna *B.* 5 [ *tilf. B.* 6 misgerda *B.* 7 *mgl. B.* 8 [ *mgl. B.*

monnum, ok geck ek þar[1] inn, ok var mer þa ecki ut hrundit, helldr var mer þaa inn hrundit i kirkiuna. Þa vard ek svo fegin, at ek þottumzt varla vita vitz mins, ath ek skyllda þar inn komin, sem syndir minar hôfdu mer adr wt hrundit, ok hræddumz ek þa fastliga gud. En þegar er ek kom firir krossinn, þa fell ek a kne. Þa kom ilmr svo godr i nasir mer, sem ek kenda alldreghi iafngodan fyrri, ok sa ek þar þa dyrd guds. En sidan er ek geck þadan ok aptr til skriptarinnar, þa fell ek a kne ok mællta ek sva: «Þu en helga Maria, yfirdrottning allra drottninga, hefir mer miskunnat, ok fyrir þina milldi komumz ek i helga kirkiu at sia dyrd guds. Nu vil ek fyrir þat lofa son alzvalldanda guds, er heyrir allra syndugra manna idran. Ok nu bid ek þik, at þu visir mer a þa gautu, er ek mætta sættaz vit skapara minn ok þik, en sæla mær Maria, ok alla guds helga menn.» En þegar sem ek hafda þetta mællt, þa heyrda ek rôdd eina svo mæla vid mik: «Far þu yfir Jordan, þa hittir þu goda ro saalo þinni.» Þa mællta ek vit skriptina: «Þu drottning min, afrækztu[2] mik eigi, helldr gætt þu min avallt, hvargi[3] sem ek fer.» Sidan geck ek or kirkiugardinum, ok þa kom madr i moti mer ok gaf mer þria penninga silfrs. En ek keypta þar med þria braudleifa, ok spurda ek manninn, hvar leid la til Jordanar, ok hann visadi mer þangat. Sidan geck ek gratandi or borginni. Þat var at dogurdarmali, en ek kom at solarsetri til Jordanar til munklifis þess, sem þu ert i. En þegar er ek kom, geck ek til aarennar, ok þo[4] ek andlit mitt ok fætr. Sidan geck ek i kirkiu ok tok ek corpus domini, ok þar var ek um nottina, ok at ek halfan hleif af braudi þvi, sem ek keypta i Jorsalaborg, ok drack ek þar wit vatn or Jordan.

9. Annan dag eptir þa geck ek a braut ein saman, ok for ek ut yfir aana, ok bad ek ena dyrsta[5] drottningu Mario, at hun skylldi visa mer aa þaa gôtu, sem ek mætta lifna af þeim dauda, sem syndir minar deyddu mik. Þa kom ek i skog mikinn þyckvan ok háfan. Sidan hefi ek flyd[6] ok firzt menn, sem ek matta mest, ok hefi ek her bedit miskunnar drottins mins. Þa spurdi Zosimas: «Hversu leingi hefir þu her verit.» Hun svaradi: «Sidan ek for or Jorsalaborg, þa hefi ek her verit fiorutigi[7] wetra ok .vii. vetr.» Hann spurdi: «Hvat hefir þu haft þer til matar sidan.» «Ek hafda, kvad hun, eigi meira hingat en tvo[8] hleifa brauds ok þann halfan, er ek leifda[9] i munklifinu. En þat braud hardnadi sva

1 þegar *B.* 2 fyrirlittu *B.* 3 hvar *B.* 4 þvo *B.* 5 dyrstu *B.* 6 flyit *B.* 7 .xl. *B.* 8 tva *B.* 9 *saal. B*; leyfda *A.*

fyrir mer sem steinn, ok lifda ek vit þat nockura wetr.» Zosimas mællti: «Var þer mikit fyrir þvi ath lifa odruvisi [1], en þu vart adr von.» Þa svaradi hun: «Ef ek minnumzt ꜳ pisl þꜳ alla, sem ek hefi þolat, ok lif þat et illa, sem ek lifda adr, þa uggi ek, at ek fysumzt aptr til weralldarinnar, ok skula ek þa enn ꜳ nyia leik beriazt her i heiminum.» Hann svaradi: «Systir, kvad hann, leyn mik eighi, hverr hagr þinn hefir verit.» Þa tekr hun enn svo til mꜳls [a nyia leik [2].

103. Sautian [4] vetr var ek svo i þessum skogi, ath mik lysti margs ok mer kom i hug bædi matr ok klædi ok dryckr ok oll su skemtan, er ek hafda [sidan ek kunna at monnum at hyggia [5]. En þegar er ek let mer i hug koma, hvers ek hafda bedit ena helgu Mariu, ok hversu hon hafdi miskunnad mer, þa gret ek ok idrodumzt, ok bad ek hana fastliga, ath hun skylldi eigi gleyma mer, helldr skylldi hun gæta min ok snua fra mer þeim illa huga ok minning illra verka minna. En medan ek bad þeirar bænar, þa kom lios mikit yfir mik; ok þa er stund ein var lidin, þa var mer allra mest heimrinn i hugh, ok svidda ek oll, sem elldr leki [6] a mer. En er ek sa, hversu mitt mal horfdi wodvænliga, þa fell ek til iardarinnar, ok kallada ek ꜳ ena sælu Mariu, ok la ek þa a bænum allan þann dagh ok nott, medan liosit var hia mer, fyrir [7] þvi at þar fylgdi guds miskunn ok Marie modur drottins mins ok reisti mik upp af þeim illa huga. I þeiri freistni var ek alla .xvii. vetr. En sidan þeir voru lidnir, þa var en helga Maria næst mer ath ollum hialpum, bædi er ek svaf ok vakta. Þa spurdi Zosimas: «Hvort þurftir þu sidan mat eda klædi?» Hon svaradi: «Þann halfan þridia braudleif, er ek hafda fra Jordan, þess neytta ek .xvii. vetr, en sidan hefi ek lifat vit graus ok rætr her til. En klædi, þau sem ek hafda hingat, ero farin ok fuin, ok sidan kostadi mik miok frost ok kuldi a vetrum, en hiti ꜳ sumrum. En eptir þann tima þa kom guds miskunn til min ok [hefir tekit bædi lif mitt ok salu [8] fra ollum haska; ok nu hvert sinn er ek minnumzt ꜳ lif mitt et illa, þat sem ek hafda i heiminum, þa glediumzt ek ok [fagna. Vilnumzt ek nu ok [9] treystumzt af gæzku drottins wors. Fædzla min ok klædi þat eru ord guds, svo sem hann mællti sialfr, ath madr mꜳ eigi lifa wit braud eitt, helldr vid þau ord [10] sem koma or munni guds, ok svo mæla bækr, at sa madr, sem

1 ǒdruviss *B.* 2 [ *mgl. B.* 3 Fra Marie egipzco *Overskr. A.* 4 Siǒtian *B.* 5 [ fyrr *B.* 6 lęgi *B.* 7 *mgl. B.* 8 [ gętti będi lifs mins ok salar *B.* 9 [ *mgl. B.* 10 *saal. B;* ok *A.*

ferr or klædum illzkunnar, þa ferr hann i stein ok hefir þat fyrir klædi, þat er sialfum Kristi ath samteinghiazt.

11. Ða er Zosimas heyrdi [þau hennar mal[1], ath hon tok dæmi or enum diupsettuztum[2] bokum, spurdi hann hana: »Kantu salma edr hefir þu lesit bækr?« Hon svaradi: »[Trui þu[3] mer, godr madr, at sidan ek for fra Jordan, hefir ek eigi mann sed fyrr en þik ok ecki kykvendi; a bok nam ek alldregi, ok eigi heyrda ek fra bokmali sagt. En gud heilagr lifandi[4] æ ok æ kennir hverium manne wisdom. Nu hefi ek, kvad hun, sagt þer allt [þat sem yfir mik hefir geingit[5], ok þvi bid ek þik, ath þu halldir bænum fyrir mer vid gud, medan þu lifir.« Þa fell hann a kne gratandi ok mællti: »Blezadr ser þu gud, er giorir iarteinir miklar ok dasamligar ok svo margar, ath eingin[6] fær talit[7].« Sidan tok hun i hǒnd honum ok reisti hann upp ok mællti: »Brodir, kvad hun, þess vil ek bidia, attu segir engum manne fra mer, medan ek lifi, enda fardu nu i guds fridi. Annat vor i þenna tima skulum vit finnaz, ok þess bid ek þik, attu farir eigi fra stad ydrum þa, sva sem sidr ydvar ok lǒg ero til.« En er hann heyrdi þetta, at hun vissi allt um rad[8] þeira, undradi hann þat, ok [hafdi henne þo einginn fraa sagt, þa[9] lofadi hann gud bædi med munni ok hiarta. Þa mællti hun enn vit hann: »Vertu[10] heima i munklifi, þa er fasta kemr, þviat gud vill eigi, ath þu farir [ut med brædrum, sem venia er til[9], fyrr en a skirdegi, þa fardu til Jordanar, ok haf med þer holld ok blod drottins wors, ok bid min þeim megin aarinnar, sem þu kemr at henne. Ek vil þa taka corpus domini, þviat ek [hafda þat eigi, sidan ek tok þar[11] i munklifinu. En þvi einka ek skirdag til þess, at drottinn vor gaf a þeim degi postolum sinum holld sitt ok blod. En er þu kemr heim, þa mæl þu vit abota ydvarn Johannem, ath hann gæti vel munka sinna allra ok refsi þeim misfarir[12] sinar, þviat þeir þurfa þess. Bid þu fyrir mer,« kvad hun. Ok sidan hvarf hun fra honum i skoginn, þar sem hann var þyckvaztr. Hann fell þa til bænar ok kysti þar aa iordina, sem fætr hennar hofdu stadit, ok lofadi gud. Sidan reis hann upp ok for heim [ok var heima þau misseri, ok geck hun honum alldri or hug nott ne dag[9].

1 [ þat *B.* 2 diupuztum *B.* 3 [Tru *B.* 4 *tilf. B.* 5 [ um minn hag *B.* 6 engi *B.* 7 talt *B.* 8 sid *B.* 9 [ *mgl. B.* 10 Verdu *B.* 11 [ hefi þat eigi haft, sidan ek var *B.* 12 misgerdir *B.*

þeim um sidir ógurligri guds reidi, nema þau gerði hennar vilia. Tveim sinnum syndiz hun henni, en hit þriðia sinn badum þeim, ok med reidiþokka ok elldligu andliti. En þau letu eptir hennar aaminningum ok fæddu Kristz lærisveina aa sinum kosti. Þessi fru hafdi lengi obyria verit, en litlu siðarr kendi hun sik fyrir bænir Mario Magðalene barn hafa getit. Ok er þat var vitat[1], urðu þvi allir fegnir þeira vinir, þviat langan tima hôfdu þau saman verit ok mátt eigi barn[2] geta. En þvi at hertoginn villdi reyna, hvart þeir lutir væri sannir, er Maria Magdalena hafdi sagt af Kristi, for hann til Jorsala [at vitia heilaga staði[3], ok vard viss sanninda um alla þa luti, er Jesus gerdi her i heimi. Ok er hann kom aptr, fann hann son sinn iartegnasamligha fæddan. Nokkurum tima siðarr tok fruin sott ok andaðiz. En fyrir bænir sællar Marie Magðalene lifnadi hun, ok lofudu allir truandi menn gud. Eptir þat foru þau i herat þat er Aquense heitir, þar voru þau iðin at fostum ok bænahalldi ok sneru morgum lyd til guds med predikan ok guþligum taknum. En hann veitti hinni heilugu Marthe storligha[4] gipt i heilsugiôfum vid siuka menn ok snilld [i framflutningh[5] heilagrar predikanar, ok fyrir kenningar hins heilaga Maximini byskups ok þeira systra Marthe ok Marie tok hinn mesti luti manna tru briotandi skurdgod sin ok reisandi heilugh Kristz musteri.

15. Einn mikill dreki var milli þeira staða, er annarr heitir Arelaten en annarr Avicnon, skamt fra aa þeiri er Rodanus heitir. Hans hinir fremztu lutir voru sem aa fugli, [hinir sidarri lutir hans voru[6] sem aa fiski. Hann var digrari en uxi ok lengri en hestr, hôfut hafdi hann sem leo; tenn hans voru hvassar sem sverdzoddar; fax hafdi hann mikit sem hestr; hvass kambr[7] gekk eptir baki hans sem breid ôxaregg; reistr[8] var aptr aa honum stort ok storligha snarpt; hann hafdi sex fætr furduligha sterka; klær hans voru sem a birni; hali hans var vaxinn aa þa lund, sem aa þeim eitrormi er vipera heitir; vængi hafdi hann tvo langa ok breida, sva at þeir huldu allan hans likama, ok voru þeir sva sterkir[9], at fyrir þeira [storan sterkleik[10] letti hann eigi fyrir nokkurskonar[11] hôggvopnum ne flugvopnum ne neinum[12] vigvælum.

1 fætt *B*, *C*. 2 erfingia *B*, *C*. 3 [ ok vitiadi heilagra stada *B*, *C*. 4 stormikla *B*, *C*. 5 [ framburdar ok flutningh *C*. 6 [ hinn sidarri hlutr hans var *B*. 7 *saal.* *B*, *C*; kampr *A*. 8 hreistr *B*, *C*. 9 ok þyckir *tilf.* *B*, *C*. 10 [ traustleik *B*, *C*. 11 neinum *B*, *C*. 12 nockurskyns *B*, *C*.

Svo var hann styrkr, at hann mátti med sinum grimmleik[1] sigra .xii. leona eða biórnu. Þessi dreki var af landzmonnum kalladr Taraskonus; þat hugðu menn, at hann mundi getinn vera af siodreka þeim, er Leviathan heitir ok i Jobs bok er nefndr, ok hafvi sa dreki farit eptir hinu mikla hafvi austan af Galathia Asie, ok er hann[2] hinn grimmazti dreki, er[3] liggr i sio eða vôtnum. Ok hefir[4] þat kvikvendi, er i Galathia elz ok Bonachum heitir, blandaz við siodrekann til þessa getnadar. Þetta olma dyr Bonachum er sva illrar natturu, at þat verpr af ser vellheitu driti, þvi er brenn[5] af hvat sem fyrir verðr, sa þa, er þat sækia, sva sem um .xxx.[6] faðma, þannig sem skeyti flygi[7]. Þessi dreki drap marga menn, þa er foru um þann skogh, er hann la i. Asna ok hesta reif hann kvika i sundr. Skipum, þeim sem eptir ánni[8] .foru optliga, vellti hann iafnliga. En þa er mannfioldi kom til med vopnum at elta hann sa skognum, flydi hann i ána ok lęyndiz. Ok um sidir, þa er heraðsmenn gatu med engu móti fordaz hann, ok máttu med [engu móti[9] sigra hann, heyrdu þeir sôgd takn þau, er guð let ser sóma at vinna fyrir sæla Martham, ok komu skyndiliga til hennar biðiandi litillatliga, at hun vitiadi heraðs þeira ok leysti þa undan þessum skaðsamliga dreka, er þeim veitti margskyns vandræði. At heyrdo þeira erendi sampindiz ok samharmadi [hun þeira efni[10], ok treystandi gudligum krapti for hun ok fann drekann a[11] skogi liggianda sa þvi manzhræi[12], sem hann hafdi nydrepit, ok tok þa at snæða sitt herfang. En Kristz husfru gekk at honum oskialfandi ok stokti[13] yfir hann vigðu vatni, þvi sem hun hafdi med ser haft, ok kross drottins bar hun med ser sva sem oruggan skiolld moti þessu hinu illfusa dyri. En hann vard við þessi hennar tiltæki sva óttafullr, at hann matti or þeim stað, sem þa var hann, ekki fram fara ok engan olmleik af ser syna ne neitt mein [af ser[14] gora, ok stod sigradr sem sa sauðr, er ekki afl hefir. En hun dvaldi allz ekki, ok batt hann med sinum eiginligum gyrdli, sva at allir undruduz, þeir sem sa þetta sa[15]. Þvi næst dirfdiz lyðrinn ok gekk alt at drekanum ok barði hann med grioti ok stangadi med spiotum til heliar. Eptir þenna atburd tok sa staðr, sem drekinn hafdi hiði[16] haft, af honum heiti ok var

1 mikla grimleik vidiafnaz eda *B*, *C*. 2 *tilf*. *B*, *C*. 3 ok *B*, *C*. 4 hafi *B*, *C*. 5 brennr *B*, *C*. 6 þriatigi *B*, *C*. 7 fliugi *B*, *C*. 8 er Rodanus heitir *tilf*. *B*, *C*. 9 [ eingum kosti *B*, *C*. 10 [ heilôg Martha þeira mein (meini *C*) *B*, *C*. 11 i *B*, *C*. 12 mannahræi *B*. 13 fyrst *tilf*. *B*, *C*. 14 [ *mgl*. *B*, *C*. 15 horfdu *B*, *C*. 16 hidit *B*, *C*.

kalladr Taraskonus, en aðr het hann Verluc, þat kollum ver svartan stað, þviat þar voru miklir ok myrkir skogar.

16. Eptir þat lôgdu heradsmenn margar ok miklar bænir at hinni heilughu Marthe, at hun dveldiz ælengdar med þeim. Ok um sidir med samþykki hins heilaga Maximini byskups ok Marie systur hennar var hun [þar eptir[1] iðin at bænahalldi ok vokum[2] ok fostum, sva lengi sem hun lifdi. En hverr mun þat mega med ordum inna[3], hversu môrg erfidi ok hversu margar þrongvingar, eda hversu miklar sottir, eda hversu margfalldan ofrid, eda hversu mikinn skort hun þoldi matar ok drykkiar i þeim stad. Ok þat er eigi vór[4] at greina, þviat hin fyrstu .vii. ær nærdi hun helldr en fæddi sinn likam med hnotum ok grasarótum brám ok skogareplum, sva sem hun mátti minnz [lifa vid[5]. Eptir þat var fyrir hennar eggian ok framkvæmd i þeim stad kirkia gior i nafni vars drottins Jesu Kristz ok Marie modur hans, hardla mikil ok tiguligh, ok þar sômnuðuz saman margir brædr ok systr undir postoligum lifnadi. Þar lifdi hun yfrit stirdliga[6] vid sinn likam. A vetrum klæddi hun sik med saudskinnzkyrtli ok herfviligum môtli. A sumrum hafdi hun hárklædi næst likam sinum, en yfir utan kyrtil ok kapu. Jafnan gekk hun berum fótum, hvita hufu gerva af ulfalldahári bar hun æ hôfdi ser, knutottan gyrdil brugdinn af hrossahári hafdi hun lagdan at miðium kvidi sinum sva hardliga, at holldit morknadi undan[7], ok fellu madkar af þeim sárum, er þadan af gerðuz. Rekkia hennar var sva fallin, at smatt hris eda vinvidarkvistir voru fyrir halm, en harklædissekkr var til undirbreidu, ok steinn at hôfði. Hvarki letti hun af sôngum[8] nótt ne dagh, ok starfadi þo iafnan nockut[9] nytsamligt[10]. Gestrisni, þa sem hun hafdi vanz[11] i Bethania, helt hun sva einkannliga, at eptir þvi sem fyrri hafdi hun þoknaz bædi gudi ok monnum, vard hun enn storliga fræg ok leiddi med sinum lofligum lifnadi ok heilagri predikan [môrg þushundrat[12] manna gudi til handa, svo at af þeiri frægd ok þvi ægæti, er almenningr sa med henni, toku þeir kristiliga tru med heilagri skirn.

17. Þa er hin heilagha husfru Jesus Kristz Martha predikaði guds bodord æ nôckurri fagri engh, þeiri er la fyrir hlidi borgar-

1 [ *tilf.* *B*, *C*. 2 nattvokum *B*, *C*. 3 skyra *B*, *C*. 4 wôr *B*; var *C*. 5 [ nyta *B*, *C*. 6 stiidliga *A*, *B*, *C*. 7 fyrir *B*, *C*. 8 ne bænahalldi *tilf.* *B*, *C*. 9 *tilf.* *B*, *C*. 10 *Her mangler et Blad i B.* 11 vanizt *C*. 12 [ margar þusundir *C*.

Svo var hánn styrkr, at hann mátti med sinum grir[illegible]di þar siuka .xii. leona eða biörnu. Þessi dreki var af land[illegible]ugr maðr oðrum Taraskonus; þat hugðu menn, at hann mun[illegible] *heyra*, þviat hann dreka þeim, er Leviathan heitir ok i Job[illegible] megin árinnar, sem sa dreki farit eptir hinu mikla hafvi [illegible] *skip*, let hann eigi fyrir-er hann[2] hinn grimmazti dreki, er[3] [illegible] *helldr* kastaði hann klædum þat kvikvendi, er i Galathia e[1] [illegible]*us*. En er hann kom iafnnær siodrekann til þessa getnad[illegible] *kazti* stridr[4] straumr árinnar med illrar natturu, at þat v[illegible] *unn* i kaf[6]. Hvat þarf þat[7] til lang-af hvat sem fyrir v[illegible] *til* ok unnu ekki at[8], þat sem honum faðma, þannig se[illegible] *dag* [leitudu menn[10] hans med skipum þa er foru u[illegible] *hann* eigi fyrr en annan dagh nærri nóni. hann kvik[illegible] *ok kostudu* þvi med mikilli sorg[11] fyrir fætr vellti h[illegible] *En hun* samharmaði sut þeira ok bað allan þann at elt[illegible] *var vid* staddr, at leggiaz sa iorðina til bænar ok sidi[illegible] *þess almatkan* guð, at hann leti ser sóma med sinum mikla [illegible] *at gefa* aptr lif sveini þessum. Ok er lydrinn hlyddi hennar *bodi lagdiz hun* a likit ok retti hendr sinar i kross sva mælandi: »*Heyr þu* drottinn Jesus Kristus, er med þinni heilagri ok óæt-*leligri*[14] milldi reistir af dauda þinn kæran vin Lazarum brodur *minn, þu* helldr med[15] þinni hendi lukla lifs ok dauda, þu kallar *dauda* menn til lifs, ok þu bydr daudanum bod, ok hann flyrr *fyrir* þinu valldi. Heyr þu, hinn godgiarnazti gud, mitt miuklæti, *ok lit* sa bæn ambattar þinnar ok sa bęnir annarra þeira, sem nu *kalla* sa þitt mikla nafn, ok biod, at lifs andi hverfi aptr i þetta lik, til þess at nærverendr ok [tilkomendr, siáendr[16] ok heyrendr snuiz til þin af aullu hiarta, ok lofvi þin stortakn af ollum hug, ok trui þik sinn sannan hialpara.« Ok er hun hafdi lyktat [bæn sinni[17], reis hun upp ok tok i haund hins dauda svo mælandi: »Heyr þu, hinn ungi maðr, ris upp i nafni drottins Jesu Kristz af þeim dauda, sem þik helldr.« Þa reis sveinninn upp heill ok osakaðr ok var skirdr i nafni heilagrar þrenningar.

18. I þenna tima gerduz þrir sidlatir byskupar til þess at finna hina[18] sæla Martham fyrir gudliga saminning. Engin þeira vissi annars kvomu, ok kómu þo allir senn, Maximinus Aquensis,

1 er adr er nefnd *tilf.* C. 2 ecki C. 3 symia C. 4 [ stridazti C. 5 ofvęgin C. 6 kafit C. 7 her C. 8 um C. 9 væri C. 10 | leitadi lydrinn C. 11 sut C. 12 ambattar C. 13 bidia C. 14 oumrædiligri C. 15 i C. 16 [ vidkomendr ok siandr C. 17 [ bęnina C. 18 *mgl.* C.

Trophimus Arelatensis ok Eutrophius Aurasicensis[1]. Ok er þeir komnir, bad hun þa vigia kirkiu þa hina virdulighu, er fyrir rôksemd var upp smidut i Kristz nafni ok hans milldu 'rie. En þeir letu þat eptir henni, ok var su kirkia kalendas Januarij med godfusu guds lofvi, sem vera þat embætti var framit med[2] skylldu ok setningh, menn til snæðings aa vidrkvæmiligum tima. Ok um sidir þraut vinit, en gudlig milldi sneri at þeim hiaverandum vatni i vin fyrir bænir sinnar heilagrar husfru Marthe.

19. Eptir skilnat þeira systra Marthe ok Marie predikadi Maria Magdalena lengi guds bodord. En þa er þat kom til eyrna henni, at Pall postoli baud, at konur þegdi i kirkiu, girntiz hun[3] at þrongva sik med andligu upplitningar liosi[4], ok fyrir guþliga aaminningh flydi hun leyniliga i hina snôrpuztu eyðimork, ok var hun þar .xxx. vetra i þeim stad, er henni var med eingiligum hondum fyrirbuinn, aullum monnum okunnig, en saudd at eins himneskum næringum, lofandi guð nætr ok daga med heilôgum bænum aan afláti; þessi hellir, er hun bygdi, var undir rotum fiallz nokkurs, þess er storliga var bratt ok oslett. Eigi veitti henni huggan vatn ne vidir, ok eigi græn graus i þessum stad, þviat guðlig milldi birti i þrotnan þessarra luta, at hans vinkona var þar saudd eigi at eins iardligum[5] helldr himneskum krasum. I þessi iardholu varð hun sva framarliga tignut, at siau sinnum aa hverium deghi i þann tima, sem heilog kristni syngr med rettri reglu .vii. [tida halld[6], var hun upphafin med engiligum hondum i loptit, ok heyrdi hun þa hina haleituztu lofsôngva himneskra fylkinga eigi at eins með andligum helldr ok med likamligum eyrum. Med þessum hinum sætuztum saunghliodum sadda fluttu þær somu engla hendr hana aptr i helli sinn; þar lofadi hun gud an aflati ok þurfti eigi likamliga vist.

20. Einn sidlatr kennimadr hafdi ser gort litit hus .xv. stadia undan þessu fialli við einn litinn brunn ovitandi allra takna, þeira sem gud gerði aa sinni vinkonu Márie Magðalene. Stadium er .c. ok .xxv. fadma, ok er þat áttungr milu. Þessi kennimadr var vanr at ganga i eyðimork i fostu inngang[7] ok vera þar med mikilli bindandi ok sifelldo[8] guds lofi alla fôstuna. Ok aa einum tima fostunnar, þa er hann var þar i eydimorkinni eptir sinni veniu,

1 *saal. C*; Aurelatensis *A*. 2 eptir *C*. 3 einkanligarr *tilf. C*. 4 lifi *C*.
5 *saal. C*; iardliga *A*. 6 [ tidir *C*. 7 igang *C*. 8 sifellu *C*.

lauk gud upp augu hans, ok sa hann [1], med hverium hætti guðligir englar stigu niðr yfir þann stad, sem hin heilaga Maria Magdalena var, ok at þeir fluttu hana syngiandi i hæd himins. En eptir dagstundar bid fluttu þeir lofandi gud hana aptr i sinn stad. En þvi at langt var milli þess stadar, sem hann var i, ok hellis Márie, matti hann sia, at englarnir fluttu eitthvert, en eigi hvat þeir fluttu. Hann tok þa at bidia gud, at honum birtiz sannleikr [um þetta mal [2], med margföllldum tárum. Annan dag eptir at morni skundadi hann sinni ferd i þann stað, sem honum hafdi synin birtz. Ok er hann kom nær steinkast fra hellinum, toku fótleggir hans ok lærleggir at skialfva en briost hans at hrædaz. En þa er hann sneri aptr, matti hann ganga, hvert er hann villdi. En þa er hann sneriz aafram, voru allir limir hans af settir sinum öflum, sva at vanmegn likamans bannaði honum aafram at fara. Hann skildi þa, at guds vili [3] talmadi hann at forvitnaz þetta stormerki, nam [4] hann þa stad. Ok at aakolludu Kristz nafni segir hann sva: «Ek særi þik fyrir nafn lifanda guds, at ef þu ert [5] nockur skynsöm skepna, su er byggir i þessum helli, at þu svarir mer ok skyrir fyrir mer allan sannleik þins lifnadar.» Ok er hann hafdi þrim sinnum frammi haft þessa særingh, svarar honum sæl Maria af hellinum ok bauð honum nærri at ganga, ok sagdi sik vera Mariam, þa er i gudspialli er frægaz af fiolda sinna eiginligra synda. Ok siþan greindi hun ut alla frasögn lifs sins. Ok eptir þat er hun [var utrakin [6], mælti hun: »Þvi at mer er þat af gudi vitrat, at ek muna bratt liða or þessum heimi á medal manna, bid ek, at þu finnir Maximinum byskup skiotligha ok segir honum þat, er þu hefvir sieth [7] ok heyrt af minu efni. En aa hinum fyrsta paskadegi aa óttusöngs tima skal hann ganga einn i bænahus sitt, þat er hann hefir [8] smidat, ok mun hann mik þar finna þangat flutta med engiligum hondum [9].«

21. Kennimaðrinn sa engan mann, en hann heyrdi roddina, þa er taladi, ok hugdi þetta helldr vera engils rödd en manz. En þa er hann spurði fleiri luta, fekk hann engin andsvör þadan af. Hann for þegar at finna Maximinum byskup ok sagdi honum alt, þat er honum var bodit ok hann hafdi sieth [7] ok heyrt. Byskup vard storliga feginn, er hann heyrdi þessa sögu ok gerði gudi þackir. A sialfum paskadags morni gekk hann i sönghus sitt ok

1 þa *tilf.* C. 2 [ af þessarri syn C. 3 bannadi honum ok *tilf.* C. 4 gaf C. 5 madr eda *tilf.* C. 6 [ hafdi utrakit C. 7 seð C. 8 ser *tilf.* C. 9 idna at guds lofi *tilf.* C.

sa sæla Máriam standa i midium flokki þeira engla, er hana fluttu þangat. Svo mikill liomi ok birti skein um hana, at alt husit birtiz af framarr en af dagligu liosi. Ok er guds madr nam stadar i husdurunum, sa hann helga engla, þa er [hana fluttu þagat[1], liða til himins, en hana standa i miðium flokki þeira med upprettum hôndum i kross, svo at nær tveggia alna rum var sa medal likams hennar ok iardar. En þa er hann óttaðiz nær at ganga, þa taladi hun til hans med biortu andliti, þvi er af sifelldri[2] syn heilagra engla skein framarr en solar geislar, ok bauð honum blidliga þangat at kalla kennimenn ok klerka, sem hann gerdi. Hann gaf henni þa[3] holld ok blod drottins. En hun tok þat med hinni mestu tara uthelling ok bað alla þa, er [vid voru[4], biðia fyrir ser[5] alhugliga. Eptir þat lagðiz hun oll til iardar frammi fyrir altarinu, ok for þa su hin helga ônd or likam til guds sa sialfum upprisudeginum. Sumstadar segiz, at hun hafi fram lidit ellifta kal. Augusti[6]; ma þat fyrir þvi segiaz, at þa ero henni tidir gôrvar, ella fyrir þvi at drottinsdagrinn ma tekinn vera fra paskadeginum eda upprisudeginum, [er iafnan[7] kemr at hendi. Eptir þat er hun var salut, kendo allir hiaverendr sva mikinn ilm, at alla .vii. daga eptirkomandi þraut alldri i þessu bænahusi. Hennar likam skipaði hinn helgi Maximinus smurðan med dyrum smyrslum i tiguligri steinþro, ok siþan let hann smida yfir hennar sæla likam[8] vegliga kirkiu med dasamligum hagleik. Grôf hennar eda steinþro var smidut, sem enn ma sia, af hvitum marmara ok grafit sa sialfum steininum, hversu hun kom i hus Simonis ok smurdi med litillæti fætr drottins med dyrdligu smyrsli ok skammadiz eigi at grata milli bodsmanna.

22. En sæla Maria hafdi boðit hinum heilaga Maximino byskupi at segia hinni sælu Marthe systur sinni, at hon mundi skiott finna hana. En hun endi eigi þat fyrirheit lifandi helldr lidin. Litlu siðarr[9] kom hinn sæli Fronto Petragoricensis ok heilagr Georgius Welliacensis[10], sa er daudr hafdi verit ok upprisinn[11], at finna sæla Martham, þviat þeir voru badir utreknir af sinum sætum fyrir þa sok, at borgarmenn þeira hôfdu rækt þeira predikan. Ok er þeir hôfdu med henni verit nockura daga, foro þeir heimleidis ok sættuz vid sina borgarmenn fyrir bænafulting,

1 [ þessa hofdu þangat flutt C. 2 sifalldri C. 3 at þeim hiaverondum C. 4 [ hia stodu C. 5 henni C. 6 manaðr *tilf.* C. 7 [ iafnan er hann C. 8 legi C. 9 *Her beg. atter* B 10 *saal.* B, C; celseracensis A. 11 upprisit B, C.

þat er hin heilaga Martha hafdi til guds fyrir þeim. En adr þeir færi heim, taladi hun leyniliga vid sęlan Frontonem ok hafdi radagiord[1] vid hann um þa luti sem hann[2] villdi. Eptir þat iatadi hun fyrir honum þa luti, sem hun þottiz móti gudi gort hafa, ok sagdi [sik skiott mundo af likam[3]. En hann het henni at veita henni[4] þionosto, ef gud villdi sva hafva til skipat.

23. En þvi at[5] gud, ömbunari allra goðra luta, villdi giallda hinni sælu Marthe makligar malagiafir fyrir marghättada[6] velgerninga, þar sem hun þoknaðiz honum um alla luti, let hann ser sóma at segia henni fyrir, at hun mundi a .xii. manaða fresti liða af þessi verolld. En hun tok bradliga eptir þat riðusott, ok letti su eigi af henni, meðan hun lifdi her i heimi. En er hun atti .viii. daga olifat [i likam[7], sa hun önd Márie Magðalene systur sinnar til himins borna af heilögum englum. Hun vóttaði þessa syn ollum bræðrum ok systrum þar samansömnuðum i guds lofi[8] sva mælandi: »Samfögnum ver oll i drotni ok giorum þackir hans dásamligri virðing, þviat nu let hann ser sóma at flytia önd Marie systur minnar fyrir þionosto sinna heilagra engla til fyrirheitinna sæta sins signada rikis. Minnz þu nu ok, sagdi hun, min sæta systir, þins fagra fyrirheitz, þess er þu hetz at vitia min, þar sem þu lifir at eilifu med sönnum drotni Jesu Kristo.« Ok eigi blekti heilög Maria Martham, þvi at fyrir hinn atta dag flutti hun hana i sanna sælu himneskrar paradisi[9]. Eptir þat þyngdiz sottarfar hennar, svo at hun lagdiz i rekkiu. Þvi næst eggiaði hun alla brædr ok systr at hallda med stadfesti kristiligha tru ok skyrdi fyrir þeim oll auðæfvi heilagrar kirkiu, þau er hun hafdi[10] samnat ok fal þeim a hendi. Hun bað þa, at allir helldi [vöku sinni[11] ok bædi[12] henni alt til framfarartima hennar gudligrar miskunnar. Þeir gerðo ok sem hun bað. Eptir þat tok hun likam vars herra med hinni mestu tárfelling hlifandi önd sina med þvi signada vegnesti ok heilogum bęnum.

24. A miðia[13] natt fyrir framferdartima sællar Marthe, at sofnadum bræðrum ok þeim monnum, sem vöku helldu med kertum ok liosum, þaut mikill hvirfilvindr uppvaktr af þeim er öfundar alla dugandi menn, hinum illgiarna andskota, i herberginu, sva at

1 raadagerdir *B*, *C*. 2 hon *C*. 3 [ honum sik mundu skiott lida af likama *B*, *C*. 4 graptliga *tilf.* *B*, *C*. 5 almattigr *tilf.* *B*, *C*. 6 margfallda *B*, *C*. 7 [ her i heimi at likama sinum *C*. 8 nafni *B*. 9 paradisar *B*, *C*. 10 saman *tilf.* *B*. 11 [ vökum *B*. 12 fyrir *tilf.* *B*, *C*. 13 midri *B*, *C*.

sloknuðu þriu stor kerti ok þrir lampar. En Kristz ambátt skelfðiz við þenna atburd[1] ok sa þa hrædiligan flokk illgiarnra anda fyrir ser. Hun tok þa at biðiaz fyrir med þessum ordum: «Minn fadir, minn gud, minn kærazti gestr! Samnaðir eru svikarar minir at svelgia mik, mer at moti halldandi rit i hondum ser, þau[2] er skrifadir ero a þeir lutir, sem ek hefir[3] illa gert, mælt ok hugsat, sva mælandi[4]: Guð fyrirlet hana, striðum henni nu ok gripum hana, þviat nu er engin sa er hana leysi. Guð minn, guð minn, ver nær mer; guþ minn, guþ minn, lit a hialp mina. Minnz þu eigi, drottinn minn, a æskusyndir minar ok óvitzkur.« Við þessi ord voknudu þeir, sem sofvit hôfdu, ok [leitaðu i annat hus[5] at elldi til þess at tendra liosin, þau sem sloknat hôfdu, ok dvolduz at þessu um stund, þviat þeir fundo eigi elldinn i hinu næsta husi, ok foro þeir[6] i annat hus, þat er firrmeirr var, at[7] þeir fengi sitt erendi. En hun var þa einsaman meðan[8]. Ok þa sa hun sæla Mariam Magðalenam[9] renna at rekkiunni, ok hafdi logbrand i hendi, af honum tendradi hun oll kerti ok sloknaða lampa i herberginu. En er hvor þeira heilsadi aðra med eiginligu nafni, þa sa hun þann, er hvervetna er nalægr[10], drottin Jesum Kristum, sva til sin talanda: »Kom til min, hin kæra[11] vinkona, su er forðum var min husfru. Nu mun ek færa þik or myrkvastofo likama þins til himinrikis hallar, at þu fagnir þar at eilifu med heilogum monnum minum, eigi sem gestr helldr sem heimakona heilagrar truar ok samborgari heilagra manna. Med mikilli annsemd[12] þionadir þu mer her a iarðriki ok tokt mik i þitt herbergi ok saddir mik; nu mun ek giallda þer [ômbun fyrir þina þionosto stundliga, þa[13] er gengr um allan iardligan sætleik[14], at þar sem ek er[15] sialfr, ser þu med mer, þviat þu þionadir mer ok fylgdir mer. En hugganar miskunn, þa[16] er ek veitta þer i heilsugiôfum [vid menn, þa sem[17] þu kendir kenningar, mun ek eigi fra þer taka ok hvergi minka, helldr margfallda. Ok þa, er þinnar grafar vitia goðfusliga, mun ek milldliga heyra fyrir sakir þinnar astsemdar, ok ek mun framkvæmð veita rettum bænum þeira. En nu bið þu litla stund, þviat skiótt munt þu til min koma.« Þvi næst

1 motburd *B*, *C*. 2 þar *B*, *C*. 3 hefi *B*, *C*. 4 kallandi *B*, *C*. 5 [ foro i annat hus at leita *B*, *C*. 6 þa *B*, *C*. 7 ef *B*, *C*. 8 aamedan *B*, *C*. 9 systur sina *tilf*. *B*. 10 iafnan *tilf*. *B*, *C*. 11 kærsta *B*; kęrasta *C*. 12 *saal*. *B*; andsemd *A*; astsemd *C*. 13 [ fyrir stundligri þionostu þa aumbun *B*, *C*. 14 sælleik *B*, *C*. 15 em *C*. 16 *saal*. *B*, *C*; su *A*. 17 [ þeira er *B*, *C*.

komo þeir aptr, sem til þess fóro brott at sækia liosin. Þa undruðuz þeir allir, er þa voru oll login tendrat[1], þau er oll voru slokin, þa er þeir gengu or herberginu. Eptir þat frettu þeir at, hvi sva hafdi[2] til borit. En hun kalladi til sin þa af bræðrum, sem hun vissi at heilagligaz lifðu[3], ok birti fyrir þeim alla iartegn gudligrar vitianar. Þar eptir let hun sik færa undir alldintre, þat sem[4] var a bak musterinu, ok dreifa þar undir sik i kross a iorðina ausku, en þar a ofan litlar saðir, ok hárklædi þat er hun la a daglighа[5]; horfði hun til himins ok hafdi krossmark fyrir augum ser biðandi svo sinnar dauðastundar med fullri tru. Ok er allir, þeir er hia stodu, lágu a heilögum bænum, þa let hun lesa til enda passionem [domini nostri[6] Jesu Kristi, þa er hun hafdi med ser flutta af Jorsolum a ebresku[7] ritaða. Ok annat sinn let hun upp hefia; en þa er sva var langt lesit, [sem sialfr drottinn sagdi vid sitt liflát hin siðursto orð[8] Pater in manus tuas, domine, commendo spiritum meum etc., þat þydiz[9] svó: fadir, i hendr þinar fel ek anda minn, þa sofnaði hun sælligha i guði [hinn .viii.[10] kalendas Januarij, hinn setta dagh viku a hinni .xi^tu[11] tið dags, er hun var [.lxx. vetra[12] at alldri.

25. Utferð hennar gerdu hennar felagar ok förunautar med allri godfysi, þeir sem aðr voru hennar heimamenn ok verðugir mikillar frægdar af sinu sonnu litillæti ok sidlæti, Eudochius[13] ok Sintex ok Germanus ok Epaphras ok Sostines, lærisveinar Pals postola ok förunautar Trophimi, ok Parmenas, er einn var af .vii.[14] hinum fyrstum diaknum, ok Marcilla, su er var þionostokona hinnar sælu Marthe ok hun hafdi undir skirn halldit. Þessi var su kona, er kalladi [til vars[15] herra or miklum mannfiolda sva mælandi: «Sæll er sa kviðr, er þik bar, ok þau briost er þu drakt ero sæl.» Þessir allir [med mörgum odrum[16] tilkomnum höfðu at heyrðri sótt guds þionostokono þar vakat tvo daga yfir henni med kertum ok liosum oðrum. En a drottinsdaginn biögguz þeir [til graptligrar[17] þionosto, sumir gretu, sumir sungu salma.

26. I þenna tima bar sva til a hinni þridiu tið dags i borginni Petragoricas, þa er Fronto byskup söng messo ok sat a stoli fyrir altari, meþan pistill var lesinn i sialfri hofudkirkiu, at hann

1 tendrut *B*, *C*. 2 hefdi *B*; h^i *C*. 3 lifdi *B*. 4 sett *tilf.* *B*, *C*.
5 iafnliga *B*, *C*. 6 [vars herra *B*, *C*. 7 ebreska tungu *C*.
8 [ *mgl.* *B*, *C*. 9 mælir *B*. 10 [ .vii. *B*, *C*. 11 niundu *B*, *C*.
12 [ siautug *B*. 13 *saal. rettet;* Euchodeus *A*; Euchobius *B*; Eycodius *C*.
14 *tilf.* *B*. 15 [ a vorn *B*. 16 [ *saal.* *B*, *C*; af morgum *A*.
17 [ at veita henne graptliga *B*, *C*.

sofnadi. I þeim svefni vitradiz honum sialfr grædarinn[1] Jesus Kristus sva mælandi: «Minn elskulighi vin Fronto! Ef þu vill enda þitt fyrirheit, þat sem þu hezt minni husfru Marthe, þa far nu skyndiliga at veita henni graptliga þionosto ok fylg mer» Ok er hann hafdi þetta talat, kómu þeir med augabragdligri ferd badir i Taraskonum ok gengu i kirkiu hinnar guðligu fru Marthe ok toku at syngia med oðrum standandi hia hennar heilaga likama. Ok um allan liksông helldo þeir heilagar bækr i [hôndum ser[2] fyrir syngiandi, en adrir andsvarandi ok eptir syngiandi fluttu þessa þionosto. Ok badir báru þeir[3] likam sællar Marthe ok i leiði lôgdu. En meðan þessir lutir gerduz, gekk diakninn[4] at sofnaðum[5] byskupi i Petragoricas, þar sem hann sat i sinum byskupsstoli, at lyktaðum ollum þeim sôngum[6], sem fyrir guðspiallit áttu[7] af klerkum fram at flytiaz. Hann knuði[8] byskup med hendi sinni ok beiddiz blezarar. En byskup svaf sva fast, at hann vaknadi ekki við hit fyrsta atak. Allr lyðr undradi, hvi hann dvaldi sva lengi folkit i kirkiunni ok helt eigi fram messunni. Ok um sidir gekk diaknit[9] annat sinn at byskupi, knuði hann [ok mælti: «Vakit herra, þviat langt hefir liðit umfram vanalighan tima, þar sem messan mátti vel sungin hafa verit; hefir folkit lengi bedit ok er at þrotum komit[10].« En hann vaknadi um sidir sva sem af sætum svefni ok mælti: «Oho, brædr minir! Hvat gerðut þer mer, fyrir hvi voktut þer mik sva skiótt? Dasamligr atburðr, sa sem nu hefir gerz, er ydvarri astsemd at segia. Drottinn Jesus Kristus leiddi mik af þessum stað til likflutningar hinnar sælu Marthe sinnar husfru, ok nu hofum vid veitt henni graptliga þionosto, sva sem ek het henni fyrrum[11]. En til þess at þer vitid mik i þessarrar heilôgu[12] konu likferð verit hafva, sendit nu i Taraskonum þa menn, er hingat beri fingrgull mitt ok messuglófa gullbuna, þa er ek dro af mer, ok fekk ek til geymslu sacriste kirkiunnar, adr ek lagda likit i grôf. En þa er ek gekk af kirkiunni, gaf ek eigi gaum at[13] at heimta gullit ok[14] glofana af þeim, er ek fekk, þa er þer vôktut mik.» Þa voru þegar sendir menn, sem byskup bað[15], i Taraskonum, ok profudu þeir sva alla luti vorþit hafa[16], sem hann sagdi. Þeir báru heim gullit ok

1 drottinn *B*, *C*. 2 [ sinum eiginligum hondum *B*, *C*. 3 heilagan *tilf.* *B*, *C*. 4 diakn *B*, *C*. 5 sofanda *B*, *C*. 6 songh *C*. 7 *saal.* *B*; atti *A*, *C*. 8 knyði *C*. 9 *saal.* *A*, *B*; diakninn *C*. 10 [ *mgl.* *B*, *C*. 11 fordum *C*. 12 heilagrar *B*; *mgl.* *C*. 13 *mgl.* *B*, *C*. 14 ne *B*, *C*. 15 baud *B*. 16 *tilf.* *B*, *C*.

glofann annan, en annan helt sacristus[1] kirkiunnar eptir til vitnisburdar um þetta daindi[2]. Hinn sæli Fronto sagði bræðrum, þa er hann gerði minning þessarrar sælu konu Marthe, at þa er þeir hôfdu hana i grof lagit ok þeir gengu or kirkiu, spurdi einn boklærðr brodir þess stadar, sa er okkr fylgdi af kirkiu, sialfan drottin, hverr hann væri eda [hvadan hann væri, eda[3] hvert nafn hann ætti. En hann svaraði honum ôngu ok syndi honum opna bok, þa er hann hafdi i hendi. A henni var ekki annat ritad en þetta vers: In memoria eterna erit iusta hospita mea, ab [auditu malo[4] non timebit in die novissimo. Þat er svo at skilia: I eilifri minning mun vera rettvis husfru min, eigi mun hun óttaz vid heyrn illra luta aa hinum sidarsta degi. Ok þa er hann rakti bokina, fann hann þetta sama vers ritat aa ollum bloðunum[5]; þvi ma auðsynt [vera, at Martha husfru Kristz mun vera[6] i eilifri minning engla ok manna, ok eigi mun hun ottaz aa hinum efzta dómi af þeiri heyrn, er sialfr guð sagdi illum monnum, þeim er makligir ero bôlvanar: Farit þer bolvadir fra mer i eilifan elld, [þann sem fyrirbuinn er diðflinum ok hans englum[7] et cetera.

27. Þat birta optlig takn ok heilsugiafir, þær sem yfvir siukum monnum geraz vid grôf [hinnar sælu Marthe[8], hviliks verdleiks hun er fyrir guði nu ok fyrrum, [þo at ver lukim fátt upp af môrgum. Einn konungr var[9] Klodoveus at nafni, hann reð bæði Francia ok Theuthonia, ok var fyrstr til guds snuinn af þeim fyrir predikan Remigij byskups[10] af Reimsborg ok tok heilaga skirn. Hann hafdi mikinn verk i lendum, sva at læknar mattu honum enga bot vinna. En þvi at almennilig[11] frægð vóttaði, at [hverr sem einn siukr maðr, sa sem fullri tru vitiaði steinþro[12] heilagrar Marthe, yrði heill[12], for hann þangat ok fann sannindi af [þessum lut ok[13] frægð af sialfs sins heilsu fagnandi[14]. Ok til þess at eigi syndiz hann oþakklátr við þann liufa lavarð, er hann græddi fyrir arnadarord sinnar heilagrar husfru, auðgaði hann staðinn med konungligri mikilmenzku ok lagdi þangat bæi ok kastala, sva at mikit herat, þriar milur at lengð ok[15] breidd,

1 secretarius *B*, *C*. 2 daendi *B*. 3 [ *mgl. B*, *C*. 4 [ audicione mala *B*, *C*. 5 hennar blôdum *B*, *C*. 6 [ þickia ath Martha mun wera husfru Jesu Cristz *B*. 7 [ *mgl. B*, *C*. 8 [ hennar *B*, *C*. 9 [ ok at vær lukim fa hluti upp af morgum, þa var einn konungr *B*, *C*. 10 erkibyskups *B*, *C*. 11 *saal. B*, *C*; almenningr *A*. 12 [ hverir sem einir siukir menn, þeir sem med fullri tru witiodu steinþroar heilagrar Marthe, urdu heilir *B*, *C*. 13 [ þessi *B*. 14 *saal. B*, *C*; fagnadi *A*. 15 at *tilf. B*, *C*.

skylldo æfinliga þangat til liggia badum megin árinnar, er Roddanus heitir. Þessa giöf lögtok hann [ok styrkti med sinu fingrgulli; þar med lögtok hann[1] ok, at þessi staðr skylldi frials vera af ollum pyndingum ok leikmanna aalögum. Var ok þessi staðr i svo mikilli vernd settr af fultingi sialfs upphefiara allra rettinda, at hverr sem einn fekk nöckut víti, sa er þessa stadar rettarbótum gorði nöckut aa móti med stuld eda ráni eda nökkurskyns ofriki eda rangindum eda rangsæri, svikum eda falsaradómi. Marcilla ok Sinthex ok Epaphras hinir skirlifuztu ok hinir postoliguztu[2] menn foru i Slavoniam ok predikuðu þar guds erendi med staðfesti goðra verka. Marcilla lifði .x. aar upp fra andláti sællar Marthe ok ritaði lifssögu[3] hennar a ebresku i einni mikilli bok; en ek Sintex snera i latinu, let ek þo marga luti eptir eigi snuna. En Eudochius[4] ok Germanus, Parmenas ok Sostenes, fostrar ok forunautar sællar Marthe, þionodu gudi vid hennar virðuliga grof, sva lengi sem þeir lifðu, ok urðu i þeim stad pindir i friði heilagrar kristni med ágętri[5] endalykt.

28. Hin sæla syndakona skein ok morgum taknum eptir sina framför. En þo sám ver, sagdi sa er soguna ritaði, einn prest Pál at nafni i borginni Cesar Augusta, þann[6] er eigi villdi fela sik undir bænatrausti hennar, helldr a þat ofan trudi hann eigi taknum hennar. A nöckurum degi, þa er hann steig a hest sinn miukan ok makreiðan, til þess at rida erenda sinna, varð sa mótburdr, at hestrinn tok at laupa svo flugliga sem hit skiotazta skogardyr um grafir ok götuleysi, sva at kennimaðrinn efaði, hvart hann skylldi láta af honum fallaz aa iorðina eða uppi sitia, ef hann mætti rada[7]. Ok medan hestrinn for sva med ser, þa hugleiddi hann, hversu marga illa luti hann hafdi gort ok mælt i moti hinni sælu Marie Magdalene, ok het þa iðrandi at viðfrægia þadan af hennar takn, ef hun leti ser soma at hialpa honum, þo at hann væri omakligr, i þessu [hinu mikla[1] vandrædi. Ok þat veittiz honum án dvol, þviat varla hafdi hann heitit staðfest, aðr hestrinn gerdiz honum audmiukr, sva at hann matti vikia honum aa hveria leið, er hann villdi. Hann gerði þa guði[8] þakkir ok sælli Marie Magdalene. En svo hafði hann langt afleiðis riðit, at varla gat hann aptr sott allan daginn, þat er hann reið aafram, fra morni til dagmala af æði hestzins. Þenna saa ver siðan hia

1 [*tilf.* *B*, *C*. 2 postoligstu *B*, *C*. 3 lif *B*, *C*. 4 *rettet*; Euthodius *A*; Eudvodius *B*; Eudodius *C*. 5 sælligri *B*, *C*. 6 *saal.* *B*, *C*; sa *A*. 7 *saal.* *B*, *C*; rida *A*. 8 oætlanligar *tilf.* *B*, *C*.

leiði Marie Magdalene vottanda med hinum mesta hiartans trega alt þat, er hann hafði við hana misgert, ok segiandi þenna atburð með mikilli viðrkomning ok iðran.

29. Hinn sæli Maximinus byskup ok iatari almattigs guðs styrði kristni sinni alt til dauðadags styrkiandi hana með predikan ok iartegnum, þviat guds milldį veitti fyrir hans bænir lif daudum ok syn blindum, heilsu likþram, hôltum gôngu, [frelsing diôfuloðum[1], ok græðingh ollum sóttum. En þa er sa timi nalgaðiz, er hann vissi af gudligri vitran, at hann mundi liða or likam, let hann i þeiri sômu kirkiu bua ser steinþro hiaa steinþro sællar Marie, var hann ok þar grafinn eptir sitt audlat. Ok er saa staðr i sva mikilli virðing halldinn, at engin[2] konungr ok engin[2] hofðingi eða valldzmaðr, sa er þangat gengr at biðia ser miskunnar, er sva stollz eða storr, at eigi leggi hann fyrst vópn af ser at niðrkastadri grimd, ok gangi siþan med fullu litillæti i þat haleita musteri med allri goðfysi; ok veitaz þar i þeim stað fyrir bænir sællar Marie Magdalene ollum, þeim er með fullri tru biðia ser miskunnar, slik þarfindi, sem guð ser hverium hialpsamliguzt, ef þeim heyrir at leysaz i þessum heimi; þiggia menn þar iafnliga bæði andar heilsu ok likama, at veitanda drotni Jesu Kristo konungi allra verallda, þeim er með feðr ok helgum anda er vegr ok velldi, dyrð ok sæmd um endalausar alldir allda. Amen.

30. Þvi at vór osnilld[3] vinnz eigi til at telia mikileik ok fiolða takna sællar Marie Magdalene, munu ver fá luti greina af morgum til trubotar heyrondum[4] monnum, ok segia fyrst fra þvi, er likami hennar var fluttr or þeim stað, sem hann var fyrst grafinn, i þann stað, sem hon var lengi vegsômut af tilskipan guðligrar milldi.

I þann tima er liþit var fra pisl vars herra Jesu Kristz[5] .dccxl. ok niu ár, at rikianda hinum milldazta konungi Lodovico ok Karolo syni hans, var viða goðr friðr i kristni guðs, nema þar sem Sáraceni - er Agareni heita med réttu nafni af Agar ambátt þeiri er Sára gaf i faðm Abrahe bonda sinum, ok gat af henni Ismaelem[6], þann er þessi þioð var fra komin - striddi[7] aa kristnina. Var þat mest um Hispaniam ok þar nalæg riki, at þessi stormr gekk yfir.

1 [ rak diofla fra odum monnum *B*. 2 eingi *B*, *C*. 3 litil malsnilld *B*, *C*. 4 *saal.* *B*, *C*; heyrandi *A*. 5 eda upprisu hans *tilf.* *B*, *C*. 6 *saal.* *B*, *C*; Ismaelis *A*. 7 *saal.* *A*, *B*, *C*.

31. A þessum timum hafdi naliga i erfð tekit alla Burgundiam Geirarðr hertogi, sa er tengðum var bundinn við þessa fyrr nefnda konunga. Þessi maðr var hinn tignazti at burðum ok hinn diarfazti undir vópnum ok hinn audgazti at fiarlutum. Fru hans var iðfn at kynstærd ok at godum sidum ok at ollu agiæti. En þviat þau áttu engan erfingia, miðloðo þau sinn mikla fiarlut[1] þeim monnum, sem gud óttuduz, ok olmosum hans med tiguligum frialsleik ok hugarkostum. Þar næst skipudu þau med hinu røksamazta raði af fyr nefndri barnleysis sok sialfan guð sinn erfingia, ok lðgdu margar eignir til kirkna med hinni hæstu goðfysi. Þau letu ok margar kirkiur ok munklifvi af nyiu[2] reisa ok lðgðo þar til nogligar proventur af sinu goðsi þeim monnum, er þar skylldo gudi þiona i klerka siðum eda reglu. Nær þessum tima kom Johannes pafi af Roma nordr i Galliam fyrir bæn fyrr nefndra konunga ok hertogans. Ok milli annarra agætra luta, þeira er hann gerði i þessi ferd, vigði hann musteri þau, er Geirarðr hertogi hafdi reisa latit fyrir hans bæn guði til sæmdar ok hans milldduztu moþur Marie ok Petro ok Paulo hðfdingium postola hans.

32. En er pafvinn hvarf aptr i Rómam, sendi hann marga helga dóma fyrir ast hertogans[3] til mustera þeira, er hann hafdi vigt. Ok er nockur ár liðu þaðan framm, af þrotnanda styrkleik[4] konungligs valldz varð Frakka riki fyrir miklum hernadi med sionum ok vida hvar annarstadar, ok fyrir margfolldum ránum ok manndrapum, sva at i mðrgum stodum brunnu klaustr ok kirkiur, ok Viceliacum munklifi, þat sem fyrr nefndr Geirarðr setti vid aa þa er Chore heitir, var med ollu nidr brotit ok at velli lagit. Ok þa er af letti ofriðrinn, var þat smidat a einum háfum halsi ok storliga brottum i ðruggum stad fyrir aalaupum ok hernadi af þessum sama Geirardi med hinum mesta kostnadi ok mikilmenzku. Var þessi staðr kalladr Viceliacus, þviat þadan ser ollum megin himin af klaustranum fyrir haleiks sakir halsins, ok kallaz Viceliacus sva sem vicus celiacus, þat er himneskr bær eda nalægr himni. Ma þat tilheyriligt vera bædi fyrir himneskan lifnat þeira, sem þat klaustr hallda, ok fyrir haleik halsins. Var þar þa endrsmidut kirkia sællar guds modur Marie ok sælla guds postola Petri ok Pauli sem fyrr med mðrgum ok miklum iartegnum.

33. I þenna tima hofdu Saraceni her uti um Hispaniam, ok eyddu þeir nær alla Aquitaniam ok mikinn lut af Provincia. Ok i þessum stormi brutu þeir hðfudborgina Aquensem ok erkibyskups-

1 and *B*, *C*. 2 upp *tilf*. *B*, *C*. 3 iarlsins *B*, *C*. 4 styrk *B*, *C*.

stolinn ok rændu þar ollu fe ok toko mikinn fiolda folks at herfangi. en eyddu borgir ok bæi med elldi ok iarni[1]. Marga karla ok konur flógu þeir kvika. sem siðr er til at gora vid kristna menn. Ok sa ver siðarr. segir sa er sóguna hefir skrifat. sa þetta hervirki. er ver truum vóra menn þolat[2] hafa i[3] sitt syndagialld. þa er þau riki bygðu. En hermenn foru heimleiðis med sitt herfang [til sinna rikia[4].

34. Ok þvi at mórgum monnum var kunnigt nær ok fiarri. at hin sæla Maria Magdalena hafdi af hinum heilaga Maximino byskupi grafin verit i Akvenses heraði. ok þar voro varðveitt hennar virðuligu bein. gerði fyrr nefndr hertogi Geirardus[5] ok Heydo abóti, er þa var yfir skipadr klaustrid i Viceliaco, þat rað med samþykki at senda þann munk, er Baldilo er nefndr. med fullkominni godfysi ok fengnu foroneyti i borgina Aquensem. at hann flytti helgan dóm sællar Marie Magdalene eða nóckut af hennar limum til þeira i fyrr nefndan stad, ef guðlig milldi villdi styrkia þessa ætlan. Hvat þarf þat til langmælis at draga. for hann ok fram kom. Ok at fundinni steinþro sællar Marie fluttu þeir hennar likam i Viceliacum, ok grofu þar med mikilli sæmð ok mórgum taknum, sem ver liðum[6] um sakir leti ok favitzku.

35. Sa atburðr gerðiz við þa borg, er Avern heitir, at riddari nóckurr varð fanginn i orosto ok settr af þeim, er hann toku, i [þungar beior[7], sva at hann matti sik hvergi hræra. Ok at kominni hatið drottinligs burdar, þa er engi villdi fyrir hann borga þa utlausn, sem fyrir hann var lógd, skaut gudlig milldi þvi i hans briost at æsta hina milldo Mariam Magdalenam, at hun odladiz þat af vórum herra, at svo [leysti hon[8] hann af fiðtrum, sem hann leysti hana af syndum. En er hann kalladi opt sa hennar signada nafn, spruttu iarnin af hans lærleggium. En þegar er sa, er hann helt, vissi þenna atburð, gaf hann honum frelsi at fara, hvert er hann villdi. En sa sem bundinn var, bar berfættr þau sómu iarn i Viceliakum ok upp hengdi hia steinþro sællar Marie Magdalene vottandi ollum vidverondum, hversu guds milldi leysti hann fyrir arnan sinnar sælu þionostokonu.

36. Annarr maðr af borg þeiri, er Bituricas heitir, var ok strengðr med storum ok þungum fiðtrum af hinum agiarnazta ok grimmazta sinum ovin; hann ægdi honum pinslum ok limaláti,

1 iarnum *B*, *C*. 2 þolt *B*, *C*. 3 sakir(!) *B*, *C*. 4 [ i sitt riki *B*, *C*. 5 Geirardr *B*, *C*. 6 fatt *tilf. A*. 7 [ *saal. B*, *C*; þungbær iarn *A*. 8 [ *saal. B*, *C;* leystiz *A*.

nema hann gylldi fyrir sik sva mikit fe, sem hann mátti eigi faa. Ok er engin villdi borga fyrir hann, eggiaði hann einnhverr at snua sinni vón til Mariam Magdalenam. Ok er hann bað hana ser miskunnar at æsta vid almatkan guð, spruttu þegar um leið af honum iarnin, sva at kolfrinn flaug niðr hia hælum honum. En allir ottuðuz, þeir er hia stoðu. Hann stoð þegar upp, þviat enginn bannaði honum, ok bar fiôtra, þa er hann [var bundinn[1] med, i klaustrið Viceliacum ok bað upp hengia i saunghusi hia steinþro sancte Marie vottandi þetta takn.

37. A þessum sama tima gerdiz þessu likt takn. Þar sem Castrum Lautonis[2] heitir, var lyðmaðr einn sterkliga fiôtradr aa hondum ok fotum, ok grimmliga ok omannliga ok omilldliga kvaldr til fiarlausnar af einum ranglatum manni. Enn pindi maðr het þa med [afli allrar[3] goðfysi, at hann skylldi vera at eilifu þionn hinnar heilôgu Marie Magdalene, ef hun oðladiz med sinum verdleikum, at guds milldi leysti hann or þessarri nauð, sem hann var i staddr. Ok er hann hugsadi þat optliga, sa hann aa nockurri nótt standa fyrir ser storliga friða kono, þa er honum bauð með bliðu andliti upp at standa. Hann þottiz svara: «Bundinn er[4] ek, sva at ek ma eigi upp risa.» Þvi næst vaknaði hann ok kendi sik lausan. Siþan gekk hann i Viceliacum ok gerði godri guds vinkonu[5] þægiligar þackir fyrir sina frelsing.

38. Mikill fioldi karla ok kvenna [villdo fara[6] aa skipi ok flytiaz yfir aa þa er Ligeris heitir. Ok er þeir voru komnir aa mitt diupit, gerði at þeim mikinn storm, sva at vindrinn kafdi skipit. Allir þeir er aa skipi voro, urðu sva óttafullir við [vón voveifligs[7] dauda, at þeir gleymðu at æsta ser guð undankvamu med truar trausti eða bænahalldi. En þa er skipit tok at sokkva, tendradi guðs milldi hiarta einnar konu at kalla með grátligri roddu aa vinkonu vars lausnara, þott aðrir geymði ekki at hugsa nema grata dauða sinn, sva mælandi: «Heyrþu, hin goða guðs kæra Maria Magdalena! bid ek þik fyrir þau hin þægiliguztu tár, er þu dôgdir med drottinliga fætr, at fyrir þitt hit agiæta arnadarorð verða ek leyst or þessum haska[8].» Ok þvi at hun var með barni, het hun, ef hun fæddi svein, at gefva hann til [munklifis Viceliaco[9]. Vón hennar vard eigi at hegóma, þviat iafnskiott sem

1 [ hafdi verit bundinn *B*. 2 Nautonis *B*, *C*. 3 [ allri *B*, *C*. 4 em *B*, *C*. 5 Marie *tilf*. *B*, *C*. 6 [ villdi roa *B*, *C*. 7 [ van vaveifligs *C*. 8 lifshaska *B*; daudahaska *C*. 9 [ til munks i Viceliacum *B*, *C*.

hun hafdi heitit, vitraðiz henni virduligh kona, su er hônd sina retti til hennar ok með lettu sundi flutti hana til landz, sva at hun [lifvir þa einsaman[1] fyrir arnadarord sancte Marie Magdalene, en allir adrir druknudu. A nęsta ari at fæddum sveininum ok skirdum, færði hun hann almatkum gudi ok sælli Marie Magdalene, eptir þvi sem hun hafdi heitið henni.

39. Makligt er at vátta minniligt takn ok opinbert, þat er guðlig milldi gerdi fyrir verdleika sællar Marie Magdalene i hennar fyr nefndu klaustri at asiandum mörgum monnum. Mikit folk karla ok kvenna kom til hennar virðuligu grafar at æsta ser eirdar i sinum nauðsynium. I þessu liði kom þangat ein ung mær, su er modir hennar leiddi; hennar fingr lagu allir i lófa a hinni hægri hendi, sva at hun var med ollu onyt til vinnu. Kunnig var konan ok kunnigr var staðrinn, hun var af þvi heradi er Alisium heitir af eign Marcelli[2], ok het hun Alleburgis. Um kvelldit þa er munkar sungu aptansông eptir vanda[3], gekk hun optligha til altaris biðiandi ser miskunnar ok kallandi a nafn sællar Marie Magdalene. Ok um sidir þa er hun ætladi fra kirkiu at ganga, mintiz hun við þat heilaga altari, er i mestri virðing var halldit af folkinu, leggiandi þar a bada hnefa. Ok þegar um leid er hun retti sik upp, sa allir, þeir sem hia stoðu, með guðligum krapti retta fingrna ok hondina heila. En at sienu þessu mikla takni lofudu allir gud ok sæla Mariam Magdalenam.

40[4]. Eigi er ok med gleyming yfirlidanda þat dyrliga takn,

1 [ einsaman þa lif *B*, *C*. 2 Merelli *B*, *C*. 3 veniu *B*, *C*. 4 *Herefter optages Recensionen B og C i Texten, da A her er betydelig afvigende, og Sagaens Slutning desuden mangler i denne Codex. Cap. 40 og hvad der er tilbage af Cap. 41 meddeles her nedenunder efter A*:

40. Eighi trui ek um þat lidanda, at einn blindr madr var af þvi virki, er Kæistellum heitir, leiddr til nefndz þess munklifis. En þa er leidtogi hans vóttaði sik sia musterit i klaustranum, kalladi hinn blindi: «Heyrðu, heilog Maria Magdalena, hvart mun mer audit verða at sia turna þinnar kirkiu?» Ok iafnskiott sem hann hafdi þetta mælt, lukuz upp augu hans, ok sa hann þegar, sva at mila var millim hans ok staðarins, þat sem hann hafði beðit.

41. Með ollu er eigi yfirhylianda með þögn þat dasamliga stormerki, er guðligh milldi fullgerði a einum pilagrimi. Einn riddari var sa, er upp sotti til stadar hinnar goðu guðs vinkonu med mikilli goðfysi eptir sið sinnar þiodar. Ok þa fyrir litlu aðr hafdi hann hennar grof vitiaða með mikilli astsemd. Litlu siðarr er hann gekk i orrosto, fekk hann bana fyrir vópnum sinna ovina. Ok af frændum ok vinum var hann sveipaðr eptir hætti með sveitaduki, ok vakat yfir honum med mikilli hrygd ok grati. Ok millum annarra sutfalldra orða toku menn

er veittiz einum blindum manne. Sa var af þeim stad er kalladr er Kastal, hann for til klaustrs heilagrar Marie Magdálene, þess sem fyrr var nefnt, væntandi at hann mundi þar heilsobot fa, ok er leidtogi hans sagdi honum, at hann sa kirkiuna, þaa sem þeir skylldu til sækia, kalladi hinn blindi madr svo mælandi: «Heyrdu hin helga Maria Magdalena, villda ek, at su hamingia kæmi mer at hendi, at ek mætta sia turna kirkiu þinnar.» En er hann hafdi þetta mællt, þa lukuz skiott upp augu hans, ok feck hann syn sina, svo sem hann hafdi med mikilli fysi bedit, ok var þa enn eptir milo leingd leidarinnar.

41. Med ollu [eigi er ok [1] hliodi hylianda dyrdarfullt stormerki dasamligs kraptz, þat er hin helga Maria Magdalena vann [2] vit einn sinn pilagrim i þvi landi, er Aquitannia heitir. Þar var riddari sa einn, er eptir sid þess landz elskadi hennar heilagleik af ôllum hug, hann hafdi ok nockut sinn vitiad med godfysi hennar heilags doms. Nôckuru sidarr þa er hann var i bardaga staddr, var hann drepinn af sinum ovinum. Frændr hans ok vinir toku lik hans ok sveipudu dukum, sem þar var sidr til um dauda menn at bua, ok saatu sidan yfir likinu med hrygd ok graati. Toko eptir þat fulltings at bidia sæla Mariam Magdalenam med harmandi kveinan ok sa at minnaz med enu diarfligsta [3] tilmæli miskunnarinnar, hverso miok þessi enn daudi hafdi hana elskat, þa er hann war lifandi, ok svo sem þeir undruduz, fyrir hveria sok hun let pilagrim sinn deyia án iatning ok idran synda. Med miskunn guds ok fyrir tru þeira ok bæn eptir litla stund tok at hræraz likami ens dauda. Allir þeir sem hia voru undruduzt [4] miôk. Eptir þat settiz hann upp ok bad, ath hann skylldi vera leystr af nabondum. Sagdi þa, at heilog Maria Magdalena let hann endrlifna, til þess ath hann mætti skriptaz ok idraz synda sinna, þviat þeir hôfdu sa hennar nàfn kallat med hreinni tru ok heilagri bæn, sagdi ok, at hann mundi þegar andaz, er hann hefdi þionostu tekit. Eptir þat var hann leystr, sem hann bad. Komu þa til hans prestar. Skriptadiz hann sidan ok giordi idran fyrir syndir sinar, ok er hann hafdi bergt holldi ok blodi Jesus Kristz, leid hann annat sinn af þessum heimi. Margir voru vottar ok sannanarmenn

med mikilli asakan at telia sa sæla Mariam Magðalenam fyrir astar sakir við hinn framlidna, fyrir hvi hon hefdi þolat, at pilagrimr hennar hlyti voveifligan dauða, svo at hann fengi eigi iatat syndir sinar eða skript tekit. Ok þa er þeir hôfðu lengi

1 er eigi *C.* 2 *tilf. C.* 3 dyrligsta *C.* 4 ottuduz *C.*

þessarrar iarteignar. Nockurir af þeim komu i Viceliacum ok sögdu þenna atburd fyrir otalligu folki, er þangat hafdi sott af ymisligum londum eda herodum, svo sem hann hafdi gerdz. A enum fysta paskadegi [drottinligrar upprisu[1] lysti þessi iarteign fyrir ollum hiaverondum[2] byskup af borg þeiri er Katurica heitir, er kominn var i Viceliacum heim at sækia helgan dom sællar Marie Magdalene. Dyrkadiz þa drottinn Jesus Kristr a sinni upprisutid af tvenre upprisu þessa riddara, er fra var sagt, er hann lifnadi um stund af likamligum dauda, til þess ath hann hreinsadiz af syndum ok risi upp af andar dauda. Lofudu allir gud ok sæla Mariam Magdalenam, er fyrir sina verdleika audladiz af almatkum gudi svo mikla hialp þeim til handa, er hana hafdi af ollum hug elskat.

42. Su en agæta iarteign er nu man ek segia, veitir ollum syndogum monnum mikit traust sannrar vonar[3], at þeir munu finna likn ok lausn sinna misgerda, er fyrir nafn sællar Marie Magdalene bidia ser litillatliga gud miskunnar. Einn madr, sa er gerdi idran sinna misverka, ritadi syndir sinar aa einu brefi, eptir þat for hann i Viceliacum ok fal þetta blad undir duki aa alltari sællar Marie Magdalene, ok er hann hafdi lokit bæn sinni, adr hann snere heim aa leid, tok hann brefit. Ok er hann leit aa þat, saa hann, at allt var af mad, þat sem aa hafdi verit ritad. Skildi hann þa af opinberligri iartein, at hann hafdi likn audlaz i augliti gudligrar milldi fyrir bæn ok arnadarord sællar Marie Magdalene.

43. Þat gerdiz aa odrum tima, at einn riddari, sa er ættadr var af Aquitannia ok þar fæddr, for til vöku i Viceliacum, ok er hann ætladi eptir lyktada bæn til sins heimilis at venda, kom hann i þann stad, sem ovinir hans sato fyrir honum, einn madr med sonum sinum, þeira brodur hafdi riddarinn adr drepit. En er hann vard varr [þessa ofridar[4], hliop hann skiotliga af baki mul þeim, er hann hafdi aa setid adr, ok setti hann fyrst i mot sverdum sinna ovina. Ok er einn af þeim brǫdrunum geck sva diarfliga fram, at hann villdi mulinn i braut keyra, sva at riddarinn hefdi öngva hlif af honum, ok þeir mætti audvellegha taka til hans medr sinum wopnum, edr þeir mætti hann höndum taka, þa bar sva til, ath pilagrimr sællar Marie Magdalene feck þenna tekit. Weittiz honum ok skiott medr gudligri giof[5] svo mikit afl, ath hann setti brodur i mot brædrum ok son aa mot födur ok hlifdi ser medr þersum skilldi i mot þeira skotum ok sverdum. Eptir þat giordiz

1 [ þa er halldin er hatid drottinligrar upprisu *C.* 2 lyd *tilf.* *C.*
3 truar *C.* 4 [ vid þessa ofridarmenn *C.* 5 milldi *C.*

sva medr vitian gudligrar milldi, ath reidin sefadiz ok sneriz i hogwæri; fellu þeir nu aller fram a iordina fyrir fætr honum ok badu ser liknar fyrir sina dirfd, sogdu sik wera seka vit gud ok iattudu sik misgert hafa vidr hina millduztu Kristz þionostukonu Mariam Magdalenam, ok hetu nu, ath þeir skylldu honum alldri sidan grand gera. Giorduz þeir sidan fullkomliga sattir sin a milli fyrir miskunn sællar Marie Magdalene ok foru til sinna heimkynna lofandi gud ok hinu helgu Mariam Magdalenam. En saa, er hun hafdi af daudanum leyst ǫk frelsat, gerdi henne margfalldar þackir, svo sem hann hefdi fyrir hennar milldi af helviti ok sialfum andar-daudanum upp risit. Lati drottinn vorr oss tyia bænir sællar Marie Magdalene, sa er med fedr ok helgum anda lifir ok rikir gud um allar alldir allda. Amen.

# MARTINUS SAGA BYSKUPS.

## I.

*(Cd. 645 qv.)*

**S. Martini episcopi.**

Martinus var æzcaþr af Ungara lande, en hann var fødr a Langbarþa lande. Frendr hans voro cyngøfger oc þo heiþner. Pater eius var riþera høfðingi, en hann fylgþi sialfr oc riþera syslo i eósco, þevgi at sialfvilia sinom, þviat hann fystez guþi at þ(i)ona.þegar a ungom alldre. Þa er hann var .x. vetra, þa fór hann til kirkio at osatt frenda sinna oc beidez at vera primsingdr. Þa snørisc (hann) allr til guþs lofs, svat hann ætlaþez at fara i einseto, þa er hann var .xii. vetra, ef eigi bannaþe ostyrcleicr øsco hans. En þo var hugr hans avallt i munclivom eþa at kirkiom, oc barsc hann þat fyrer a ungom aldre þegar, sem hann fyldi i verki siþan. En (er) þat var boþorð kononga, at gamalla[1] manna syner være tekner til riþera syslo, þa var oc Martinus tekenn til riþera liþs, þviat pater eius seldi hann fram, es oþocca lagþe a tru verc hans. En þa var hann .xv. vetra. En þion let hann ser fylgia, oc þionaþi hann þeim sialfr oftar oc dro scofot af honom oc þerde, oc oto baþer mat saman. Þria vetr fylgþi hann riþera syslo, aþr hann være scirþr, oc var þo hreinn af øllom þeim løstum, es þeire syslo ero vaner at fylgia. Micla gozco oc ast oc þolenmøþi, micla ast oc litelęte hafði hann viþ alla samriþera sina. Sva sparliga neyti hann oc fotzlo, at hann þóte heldr a þeiri tið muncr en riþere. Af slicom (hlutom) var hann hugþecr øllum samriþerum sinum, svat aller unno honom. Eigi var hann enn ða scirþr, oc gørði hann þo hvitvoðungs verc, þviat hann

1 *lat.*: veteranorum.

veite hiolp vesolum oc vann meþ þeim, er erviþe høfðo, føde valaþa oc clædi nøcþa[1]. Ecce hirde hann sér af riþera fe nema hversdagliga atvinno, minntesc guþspiallex[2] mals oc bar eigi ahyggio fyrer aurom annars dax føtzlo.

2. Þat var of vetrardag i frosti miklo, at Martinus mæte clęþlausom manne i borgarhliþe. Sa bað þa, es umb liþo, at þeir miscunnaþe honom. Þa scilþe[3] guþs maþr ser vera ætlaðan þann, er aþrer veitu eigi miscun. En hvat scylde[4] hann gefa, þar er hann hafði þa eki nema clęþi þau er hann stoð í, þviat hann hafði oll aunnor veit i slica þurft. Þa bra (hann) sverðe oc reist i svndr møtul sinn oc gaf halvan enom valaða, en [halvan hafði[5] hann sialfr[6]. Þa hlogu sumer at honom, er hann var stutbuen. En þeir comosc viþ, er heille voro i hug, er þeir høfðo eki slic verc unnet, þar es þeir mato clæþa enn auma, svat þeir være (o)calner efter. Enn ena nęsto not efter, þa er Martinus somnaþi, þa sa (hann) Crist[7] scrydan þeim hlut motuls, es hann gaf enom valaþa. Þa męlte Cristr[7] viþ engla liþ, er hia honom stoþ: »Martinus p(r)imsingdr at eins clædi mik þvisa clæþi.« En Martinus hofsc eigi til metnaþar efter þessa syn, þót hann kenndi gøzsco guþs i sino verki, heldr toc hann scirn, þa er hann var .xviii. vetra. En þo hvarf hann eigi fra riþera syslo, þviat liþs hofþingi dvalþi hann oc het þvi, at hann mundi fyreılata veraldar syslo efter scirn.

3. En er vikingar herioþo a Fraclande, þa samnaþi Julianus liþe oc tok at [heita heitfe[8] riþerom. Þa þotesc Martinus finna macliga tiþ at leynas(!) fra riþera syslo oc melte við konongenn: »Hingat til þionaða ec þer, latu mic nu þiona guþi. Taki sa giof þina, er beriasc scal, en ec em Cristz riþere, oc er mer eigi lofat at beriasc.« Þa reidez konongr oc qvat Martinum fyrer hugleyse vilia raþasc fra orosto en eigi fyrer tru. En Martinus svaraþi: »Ef þu eignar þetta hugleyse mino heldr en tru, þa mun ec fara a morgen vapnlaus til orostu oc ganga i gegnom fianda sveit i Jesu Cristz crossmarki scrydr en eigi scilde ne hialme.« Þa var Martinus varþveitr, at reynt męte verþa, ef hann efndi þat er hann het. En annan dag sendu vikingar sendimenn til friþar oc gengo a hønd kononge orostolaust. Þena sigr veite guþ af bønom Mar-

1 nøcqua *Cd.* 2 evþspiallex *Cd.* 3 sliþe *Cd.* 4 scylde scyldi *Cd.* 5 [ hafan *Cd.* 6 ipse *Cd.* 7 .x$^{m}$. *Çd.* 8 *rigtiyere* veita heiðfe; donativum erogare militibus *lat.*

tini, at eigi yrþi hann sendr vapnlaus til orosto, þviat þann sigr ate Cristr at veita riþera sinom, at aller sætesc ón mannfalle.

4. Siþan hvarf Martinus fra riþera syslo oc for i borg þa, er Pictauis heiter a Fraclande, oc sote heim helgan byscop þann er Hilarius het, oc var hann lengi meþ honom oc toc nøqveriar enar minne vigslor, þviat hann villdi eigi taca enar meire. Þa var hann mintr i draume, at hann føri til ættiarþar sinnar oc telþi þar tru fyrer frendom sinom. En byscop baþ hann mioc, at hann scyldi aftr coma at lokenne syslo sinne. Martinus var hryggr, aþr hann føri i for þessa, oc sagþi brøþrom, at hann møndi margar meingørþer taca i for þeire, sva sem siþan reyndisc. Þviat þa er hann for suþr of fiall, þa mete hann illvirkiom, einn þeira reide øxe at honom, en annar støþvaþi. Þa var hann tekinn oc bundinn oc seldr einom þeira til varþhalz. En sa leide hann fra auþrom oc spurþi, hverr hann være. En hann sagþisc cristenn vera. Illvirkenn spurþe, ef hann hrødesc. En Martinus letzc alldregi ohrødare en þa, þviat hann qvazc vita guþs miscunn þvi meire iver ser, sem freistnen var meire. En hann letzc meir harma illvirkian, er eigi var verþr miscunnar. Þa toc illvirkinn tru, es Martinus hafði lengi talet fyrer honom, oc læysti hann or bøndom oc fylgþi honom a gøto, oc sa marger þann siþan i siþligo live. En er Martinus for fra Meilansborg of dag, com diofull a mot honom i mannz like oc spurþi, hvert hann føri. En Martinus qvatsc fara þangat, sem drotenn callaþi hann. «Hvargi sem þu hverfr eþa hnigr, qvat fiandinn, þa mun diofull standa at mote þer.» Martinus svaraþe: «Drotenn bergr mer, eigi mun ec hrøþasc, hvatki sem menn gera viþ mic.» Þa hvarf ovinr o(r) auglite hans. En sva sem Martino sagþi aþr hugr, þa leysti hann moþor sina oc marga aþra fra heiþne i kenningom sinom. En pater eius hvarf eigi fra villo. En Arrius villa for umb allan heim. Þa reis Martinus einn berliga i gegn otru kennemanna, oc toc hann af þeim margar meingørþer oc bardaga, oc var hann braut rekinn or borg, oc for hann þa til Langbarþa landz. Þa fra hann, at Hilarius byscop var rekenn fra byscopsstole sinom fyrer ofriþe villomanna, oc for hann þa til munclivis i Meilansborg, oc var þar undz villomenn toco hann enn a braut þaþan. Þa for hann til eyiar þeirrar es Gallinaria heitir, oc ein(!) heilagar(!) prestr meþ honom, oc lifðe nøckveria stund við grasa rǫtr. En er Martinus fra, at konongr hafði lovat Hilario aftrcomo til stols sins, þa for

hann norþr a Fracland efter byscope, oc toc Hilarius feginn við honom. Oc sete Martinus munclife scamt fra Pictauisborg.

5. A þeire tið com .i. primsigndr maþr til Martinus at heyra kenningar hans. En er þaþan liþo faer dagar, þa toc sa maþr braþa sot oc dó fyrr enn hann være scirþr. En Martinus hafdi heiman faret oc com þa heim, er hinn var nyandaþr, oc stoþo muncar hryggver iver liki hans. Þa bað Martinus alla út ganga fra likino, en hann lauc aftr durom oc fell a kne til bǫnar hia likino. En er hann hafþi lengi a bøn veret, þa scilþe hann, at guþs craftr nolgaþisc, oc retesc hann up af bøn[1] oc beiþ misericordie dei. En er þaþa(n) liþo tvęr stunder, þa hrørþisc enn dauþe oc hóf up augo sin. Þa gorþi Martinus þacker guþi oc lau(c) up huseno, oc sao aller þar livanda þann, er þeir baro dauþan þangat. Siþan toc hann scirn oc lifðe marga vetr siþan. Oc var hann it fyrsta vitne crapta Martinus. En hann sagþi sig vera leidan fra licam fyrer domstol ogorlex domanda oc dømþan til myrcra staþa. Þa como .ii. englar fyrer do(m)andan oc sogðo, at þar var sa, er Martinus (baþ fyrer). Siþan leido þeir ener somo englar hann aftr til licams, oc lifnaþi hann.

6. Enn for Martinus annan dag of acr eins auþex mannz, þess er Lupicinius het. Þa heyrþi hann grat oc horausti oc spurþi, hvi þat gegndi. En honom var sagt, at .i. þrell hafði hengþan[2] sic. Þa gec Martinns inn i hus, þá(t) er liket la, oc byrgþi uti alla aþra, oc var lengi a bøn hia likino. En er hann reis af bøn, þa lifnaþi enn dauþi oc leitaþi viþ up at risa. Þa toc Martinus i hønd honom oc seti hann á føtr oc leide hann livanda út ór huseno i augliti allz lyðs.

7. A þeire tiþ var Martinus valþr til byscops i Turonsborg. En eigi var auþvelt at coma honom fra munclife sino, aþr .i. borgarmaþr fann þat raþ, at hann sagði sot kono sinnar oc baþ Martinus fara þangat. En er hann cóm til borgar, þa var þar mikill mannfiolþi saman comenn, eigi at eins þeirar borgar lyðr heldr oc af[3] enom nęstom borgom oc heroþom, oc var einn vile oc eit atqveþe allra at vilia Martinum til byscops. En faer voro þeir, er þvi męlto i gegn, oc fundo þeir þat til, at hann være liotr at alite oc illa horþr oc herviliga buenn, oc męti hann af þvi eigi byscop vera. En þeir er heilli alit høfðo, hlogo at heimsco hinna oc qvaþo þa lova Martinum, þa er þeir villdo lasta hann, þviat þeir mato engva sanna aleitne finna i gegn honom. Sa byscop er

1 bøn bǫn *Cd.* 2 hegnþan *Cd.* 3 at *Cd.*

nemdr Defensor, er mest stoþ i gegn alþyðo vilia of þetta mal. En hann varþ ða þungliga fyrer rekinn meþ spamannz orþom, þviat sa mate eigi til comasc fyrer þrong manna at lesa i otosøngve, er lesa scyldi. Þa toc sveinn nocqerr up saltera oc søng vers þat, er hann fann fyrst. En sva męler i verseno: Af munne barna oc u(n)gmennes gørðer þu þer lof, drotenn, i gegn ovinom þinom, at þu eydir (ovin) oc Defensorem. En er þetta vers (var) sunget, þa gørþisc romr af alþyðo, oc scøm(muþ)usc gagnmęlendr, en allir tølþo at guþs raþi þetta vers sungit, at ovinr þeira Defensor heyrði þetta [til vitnes[1] verx sins, en af ungmennes munne høvisc lof guþs iver Martino.

8. En siþan er Martinus toc byscops vixlo, þa helt hann eno sama litillęti i h(i)arta sem fyrr oc enom sama clæþabuninge. Oc var hann sva fullr af scynsemi, at hann varþveiti byscop(s) tign en tynde eigi munca sit. Hus ati harn afast kirkio nøcqeria stund. En er hann leidesc alþyð(o) þys, þa førþi hann hus sin .ii^er. milor fra borgenne. En sa staþr var sva miog af manna vege, at eigi þurpte annarrar einseto, þviat þangat ma einom megin comasc of þrongva gøto mille fiallz oc ár þeirar er Liger heitir. Þar lét Martinus setia munclive sit, oc fylgðo honom þangat marger muncar; .lxxx. voro lerisveinar hans, þeir er epter hans dømum lifðo. Allęr hluter voro øllom sameigner, oc var øngom lovat þar at selia ecki ne caupa. Enge var (i)þrot ne sysla framet nema rit, oc gørþo unger menn einer þat, enn ener ellre tømþosc avalt til bǫnar. Falega gengo þeir ut or huse nema til kirkio, oc drac engi þar vin nema siycr være. Flester voro þar harclęþom scrydir. Þeir urþo marger þar siþan byscopar, þvi at øll þioð villde helzt velia ser kennimenn yr munclifi Martini.

9. Staþr var .i. scamt fra Turonsborg, sa er menn hugðo helgan vera af greptri guþs vata, þviat ener fyrre byscopar leto þar kirkio gøra oc altare. En Martinus spurþe ena ellzto kennimenn bøþi at tið oc at namne pislarvata þeira, er þar voro grafner. En er þeir visso eigi scyrt at segia honom, þa sa hann við at coma til þess staþar, oc leitaþe eigi a alþyðo siþ, þviat hann vise eigi et sanna, oc (eigi) veite hann þeim fullting, at eigi efldi hann villo. Þa for hann of dag meþ fa munca til þessa staþar oc stoþ lengi fyrer altare oc baþ guþ, at hann syndi honom, hverr þar være grafinn. Þa leit (hann) til vinstri handar standa leiþilegan scugga, oc bauþ hann honom at segia namn sit oc verþleic. En

1 [ *rettet;* tnes *Cd*; ut testimonium operis sui Defensor audiret *lat.*

(sa) sagþisc veret hafa þiofr oc drepenn fyrer gløpi sina oc eiga ecki sameign meþ helgom monnom. Þessa rød heyrðo aller, þeir er hia voro. En Martinus einn sa þann er męlte, oc sagþi hann hvat hann sa, oc let braut taca altari, þat er þar var, oc leysti lyð fra villo.

10. Enn møte Martinus of dag monnom þeim, er liki heiþens (mannz) fylgþo til gravar, oc nam hann staþar, er hann sa mart liþ fara, oc visse eigi, meþ hvat þeir foro. En er hann sa, at vindr hrørþi duca iver likino, þa hugþi hann, at blotmenn være, þviat þorpkarlar voro vaner oft at bera scurþgot hvitom ducom hulet of acra sina. Þa gørði (hann) crossmarc a mót þeim oc bað þa hrørasc (hverge) or stað, aþr þeir legþi byrþe sina. Þa stirþno(þo) þeir fyrst sem steinar. En er þeir leituþo viþ at hrørasc, þa snorusc þeir i hring oc mato eigi framar ganga, unz þeir logþo niþr likit, oc sa hverr til annars, oc visso eigi, hvat þeim var orþet. En er Martinus sa, at þeir foru meþ lik en eigi meþ blót, þa gørði hann cross efter þeim oc gaf þeim leyfi at fara meþ liket þangat sem þeir villdo.

11. Enn villde Martinus høggva blottre up eit a nøcqeriom bø, en heiþner menn riso i gegn oc léto hann eigi høggva treet. En hann talþe fyrer þeim oc qvat eigi goðdom vera i tre heldr dioflablot, oc qvat hann þeim heldr fallet at þiona himnaguþi, sem hann lezc þiona. Þa svaraþi .i. þeira, sa er diarvastr var: »Ef þer er nøcqvert traust i guþi þinom, ðeim er þu þionar, þa munom ver sialfer høgva treet, en þu tak vit þvi, es þat fellr, oc mun þic þat eki taka, ef guþ þinn es meþ (þer), sem þu segir.« En hann het þeim þvi ohrødr at gøra þat, er þeir beido. Þa urþo þeir aller sater a þenna maldaga, oc virdo þeir litels scaþa tresens, ef þeir felldi þvi ovin blota sinna. En treet var hallt a einn veg, svat einsynt var, at þangat munde falla, oc bundo þeir Martinum þar undir treno, oc hyggio(!) þeir sialfer oc voro glaþer. En muncar stoþo langt fra oc greto oc vœto eigi lifs Martino. En er treet brast oc reiþ ovan at høfði honom, þa gørði hann crossmarc a mot þvi oc hafði traust allt i guþi. Þa fell treet af þvero fra Martino, sva sem vinnde lysti a mot, oc var at comet, at nøqverer menn myndi verþa fyrer treno, þeir er áþr þotoz i eoruggom stað vera. Þa toco heiþner menn at undrasc tácn. En muncar feldo tár pro gaudio, oc lofuþo hvarertveggio nomen Jesu Cristi, oc var mioc sva engi efter af þvi liþe, sa er eigi tøki tru oc hafnaþi blotum. En aþr Martinus qvęmi þangat, þa voro faer eþa enn helldr ęngver

heraþsmenn, þeir es kynni namn Cristz, en af hans croptum oc dømom efldesc trua, svat nes hvert (oc) heraþ (var) kirkna fult eþa munclifa, þviat þar es hann braut hof, þar let hann kirkio gera eþa munclifi setia.

12. Slican crapt synd(i) Martinus enn a annarre tiþ, þa er hann lagþe eld i hof a nøcqveriom bœ; þa laust eldi i hus þat er nest var hofino. En er Martinus sa þat, þa ste hann up a huset scyndiliga oc rann a mot eldinom. Þa mate þar lita sialldsena orostu, er þeir elldr oc vindr gengosc at mote, oc gørðisc sva af crafte Martinus, at eldr vann þat eit, er honom var boþet at vinna.

13. Enn villdi Martinus briota et blotauþgasta hof a œþrom bø, oc reis i gegn honom micell fiolþe heiþenna manna oc roco hann a braut meþ micelle meingeyrþ oc bardøgom. Þa for hann þaðan til nalęgs staþar oc scrydisc harclęþe oc fastaþi .vi. døgr oc baþ, at guþs craftr bryti hof þat, er hann mate eigi briota fyrer ofrike manna. Þa syndisc honom .ii. englar sva sem riþerar vapnaþer oc scialdaþer oc letosc sender af guþi at veita liþ Martino oc støþva heiþenn lyð, at enge rise i gegn honom, meþan hann bryti hofet. Þa hvarf Martinus aftr til bøiar oc braut hofet alt til iarþar oc øll scurþgoð oc stalla, er þar voro, at augsiondom heiþnom mønnom, es hia voro. Þa scilþo þorpcarlar sic vera støþvaða af guþs crafte, at eigi berþiz þeir lengr i gegn byscopi, oc toco mioc sva aller tru oc neito scurþgoðom, þeim er hvartki mego biarga ser ne øþrom.

14. Þat var enn er Martinus braut hof a einom bœ, at heiþner menn riso i gegn honom; .i. þeira, sa er diarfastr var, bra sverþe oc villde þegar høggva Martinum. En er hann reide sverþ at Martino, þa fell hann openn oc varþ hrødr fyrer guþs crapte oc bað ser licnar.

15. En brøt Martinus scurþgot i øþrom staþ, oc villde .i. heiþenn maþr leggia saxe a honom. En (er) hann lagþe þvi fram, þa fell saxet or hefto oc fannzc alldregi. Oft gat hann sva talet fyrir heiþnom monnom, at þeir bruto sialfer scurðgot sin, þau er þeir bønnoþo honom aþr at briota. Sva var hann matogr at grøþa siuca, at enge com sva siucr til hans, at eigi tøki þegar heilso sina.

16. I borg þeire er Treveris heitir, var mær siuc[1], su er sic hafði til enskes hrørþa lengi, oc var miøc sva dauþ at øllom licam. En frędr hennar stoðo þar hryggver oc biþo anlatz (hennar), þa

1 sivc sivc *Cd.*

er sagt var, at Martinus var comenn til borgar. En er þat heyrþi pater meyiar, þa rann hann þegar til kirkio oc fell til fota Martino, oc męlte: »Doter min deyr vesalegom dauþa, oc er þat dauþa verra, at ande er i briosti henne, en lica(m)r er mioc sva dauþr. En ec biþ, at þu comer oc bletzer hana, oc vęti ec, at hon mune af þer heilso taca.» Martinus svaraþi oc qvat inn gamla mann eigi virþa ret, oc talðesc hann overþr at geta iarteinir at guþi. En pater meyiar baþ ðess at meirr, at Martinus vitiaþe hennar, oc baþo meþ honom byscopar, þeir er þar stoþo hia. Þa for Martinus til husens, en margr lyðr stoþ fyrir durom husens oc beiþ ðess, er guþs þrell hugþi at gera. En hann fell til bønar fyrst, sem hann var vanr i slica þurpt. Siþan vigði hann viþsmior oc hellti i munn meyionne, oc toc hon þegar mal sit. Þa toc allr lica(m)r hennar at styrkiasc, sva sem hann for høndom umb, unz hon reis up heil oc stoþ a fǫtr sina.

17. A þeire tið ørþesc þrell hofþing(i)a ðess er Tetradius het. En er Martinus var beþinn at bletza þann, þa baþ hann leiþa til sin en oþa. En ohreinn andi let eigi braut leiða en oþa, heldr beit hann til þeira, er taca vildo hann. Þa fell Tetradius til fota Martino oc bað, at hann qvęme sialfr til ens oþa. En Martinus letzc eigi fara mundo til hus heiþens mannz. Þa het Tetradius at taca tru oc scirn, ef þrellenn yrþi heill. Þa for Martinus oc rac ohreinan anda fra sveininom. En Tetradius toc scirn oc lagþi ast a kenningar Martini oc iarteiner.

18. Þa er Martinus gec inn i hus nøcqers buanda of dag, þa stoþ hann a þresk(e)ldi oc letzc sia hreþiligan dioful i sciðgarþe oc bauþ honom braut at fara. Þa ørþe [ohreinn ande[1] .i. þion, er a gøto hans varþ, oc toc sa at gnista tønnom oc bita til þeira, er fyrer honom urþo, oc hrødoz aller við hann oc flyðo. En Martinus gek a mot honom, oc nam hann staþar. En inn oþi for i mót meþ gapanda mun. Þa reti Martinus fingr sina i munn honom oc męlte: »Bitu fingr þessa, ef ðu mát nacqvat.« En hann gafði(!) munni þess at meirr, sem hann tøki viþ heito iarne, oc þorðe eigi at bita fingr hans. En er Martinus neodi(!) ohreinan anda braut at fara fra enom oþa, ða for hann meþ valldgange, þviat honom var eigi lofat ut at fara or munne.

19. Þa er Martinus com til borgar þeirar er Parisius heitir, þa mæti (hann) licþrom manne, oc cy(s)te hann oc blezaþi honom. Oc varþ sa þegar heill oc com til kirkio annan dag efter oc gørði

1 [*rettet*; ohreinde *Cd.*

þacker guþi fyrer heilso sina. Þat er oc sagt fra Martino. at sinkir menn fingo oc heilso sina oft. er þeir snurto við trefr af cleþom hans.

20. Arborius het greife. trúr maþr oc vitr. En doter hans [hafðe riðsott.[1] En rit Martinus hafði þangat comet litlo aþr. En er ⟨sottin⟩ com at meyionne[2], þa lagðe Arborius ritet iver briost henne. oc hvarf ðegar soten fra henne. En Arborio þote sva micels vert of iartein þessa. at hann hét guþi meydome hennar. oc for þegar sialfr[3] at føra hana Martino. at hann vigþe hana til nunno oc scrydi hana meydoms scruþe.

21. Paulinus het maþr. sa er auga sins annars hafðe mist i sot. Þa dro Martinus fioþr iver augo hans, oc nam þegar allan verc or augom hans, oc toc hann sion oc varþ siþan trumaþr micell.

22. Maximus ⟨var⟩ sigrsęll[4] i orostom oc sva rikr oc dramlatr, at engver kennimenn ne byscopar þorðo i gegn honom at męla ne hirðmonnom hans nema Martinus einn, er postola crapt hafði i ser, þviat ef hann vilde konongenn nøcqvers beiþa, þa bauþ hann þat scyldlega heldr en hann bøþi, oc sa hann við at coma til borþs meþ honom. þot konongrenn byði honom heim meþ ser. oc qvað ser ofallet vera at blanda møtuneyti viþ ðann, er annan konong hafði felldan en annan flømðan ór lande. En Maximus svaraþi þvi, at ⟨hann⟩ tøki eigi konongdom af fyse sinne heldr at raþe landzmanna, oc letze hann scylldr at veria land[5] sit, oc qvad hann eigi guþs vilia horfinn fra ser, þar er hann hafðe gagn haft i þeire sócn, ⟨er⟩ enge væte[6] honom sigrs. Af slicom orþom eþa bønom konongs for Martinus of dag til hallar konongs, oc varþ hann glaðr, es hann gat þat at honom. Gøfgom mønnom var boþit sem at hatið. Þar var inn retlatasti iarl Euodius oc .ii. ener æzto rikismenn br⟨o⟩þer konongs oc foþurbroþer. En a mille þeira sat prestr Martinus, en hann sat sialfr[3] a stoli fyrer kononge. Þa var kononge forþr dryckiarbolli. En hann męlte viþ ðionenn, at fyrr scyllde selia bollann Martino, þviat hann var fuss at taca dryccio af hendi heilax mannz. En er Martinus hafði drukit, þa selldi hann preste sinom bollann, oc virde enge annan meira ne maclegra at taca viþ drykio hans en kennimann. Þessa tiltekio[7] unndraþez konongr, oc aller þeir es þar voro, oc varþ ðeim Martinus tiþr af ðvi, er hann gørði þat i konongs høll, en engi byscop hafdi sva gørt við ármenn hans. En hann sagðe Maximus fyrer

1 [ *rettet*; hafðo sot *Cd.* 2 *rettet*; meionne *Cd.* 3 ipse *Cd.* 4 sigrsęllr *Cd.* 5 landz *Cd.* 6 vate *Cd.* 7 tiltelkio *Cd.*

oorðna hluti, at ef hann villde fara til Langbarða landz, sem hann fystesc, oc eiga orosto viþ Valentianum konong, at hann mønde sigr hafa i enne fyrsto socn, en falla i annarre litlo siþarr. En þvi gec sva efter, sem Martinus sagði, þviat Valentianus flæði ur enne fyrre orrosto. En er vetr var a mille, þa samnaði Valentianus liþe oc com a ovart oc felldi Maximum.

**23.** Clarus het ungr prestr, sa er scilþesc viþ alla eigo sina oc gørðisc leris(v)einn Martinus oc varþ a scamre stundo algørr i øllom goðom craptom ennar hæsto tru. En hann ate hus scamt fra munclife Martinus, oc voro meþ honom marger brøþr. Þa com til hans .i. ungr maþr, sa er het Anatholius, oc sagðisc muncr vera oc syndi sic litelatan i augliti manna. En er hann hafði þar nøcqeria stund veret, þa sagði hann engla guþs coma til sin oft oc mela viþ sic, oc syndi hann þat meþ necqeriom iarteinom, unz sumer truþo. Þa sagði (hann) sva, at englar føre hvern dag a mille hans oc guþs, oc talþesc hann vera .i. af spamonnom. En Clarus truþi alldrege orþom hans. En Anatholius øgþi honom guþs reiþe oc vite, ef hann villde eigi trua orþom sva heilax manz, oc sva melte hann of siþer: »Þessa not mun drotenn senda mer af himne hvit clęþe, oc scal þat vera yþr tacn, at ec em i guþs crapte, er ec em scrydr guþs clęþe.« Þa varþ oþrom micel forvitne a at reyna þetta tácn. En er at miþre not com, þa þote scialva allr claustragarð(renn), oc var set oft liós til cliva þess, er inn unge maþr var í, oc var heyrðr þangat sva sem þyss rennanda oc romr margra rada. En er cyrdesc iver þvi, þa gec hann ut or [clivanom] oc callaþi þangat .i. af brøþrom oc syndi honom cyrtil þann es hann var scrydr. En sa undraþisc oc heimte þangat fleire, oc helldo liose til oc lito a clęþit vandliga. Clæþe var blaut oc harðla [hv]it purpura glicast. En eigi scilþo þeir hverscyns þat var, oc þreifoþo þeir umb oc mato eigi scilia, at annat være en clęþe. Þa eggiaðe Clarus brøþr at fara til bønar oc biþia, at guþ syndi þeim þetta scyrra. Þa varo þeir a bøn þat er nętr lifði. En er dagr com, toco þeir i hond Anatholio oc villdo leiþa hann fyrer Martinum. En hann brautsc við, þvi at (hann) qvat ser bannat at syna sic Martino. En er þeir neydo hann at fara, þa hvarf et hvita clæþi allt yr høndom þeim, þviat diofull þorði eigi at syna Martino sionhverfing sina.

**24.** Þess er oc geṭanda, meþ hverso micelli vęl diofull freistaþe Martinus of dag, þa er hann var a bønom .i. i huse sino, þviat sløgr freistari hulþi ilzco sina meþ flørþsamligo liose oc syndisc Martino biartr oc bliþr i alite scrydr konongscruþe oc hafd(i)

corono yr golle oc gimsteinom. En er þeir høfdo lenge þagat baþer, svat hvargi qvat orð at øþrom, þa melte diofull fyrri: »Kenner þu, Martinus, þann er þu ser nu? Cristr em ec, comenn til iarþar at synasc þer.« En er Martinus svaraþi eigi, þa endrnyiaþi diofull dirfþ sina oc melte: »Martinus, hvat ifar þu at trua þvi, er þu ser? Cristr em ec.« Þa scilþe Martinus de spiritu sancto, at diofull var en eigi guþ: »Dominus Jesus Cristus dixit sic eigi coma mundo meþ konongscruþe ne golle; ec mun eigi trua, at Jesus come, nema meþ crossmarke sia ec hann, oc i þeire asionu oc buninge sem hann var pindr.« Þa hvarf ovinr or auglite[1] hans sva sem reycr. En sva illan daun gerði efter i huseno, at þa var iflaust, at diofull hafði þar comet.

25. En(n) for Martinus of byscopsyslo sina a nøcqvere tiþ, sem vanþi er byscopa, oc toco við (honom) kennemenn a bø einom oc biuggio(!) rekio hans i huse þvi, er nær var kirkio, oc høfðo þeir gørvan elld mikinn aþr i huseno, þviat frost var. En er Martinus villde fara at sofa, þa sacaþesc hann viþ blautleic rekio sinnar, þviat muncar høfþo borit margan halm unndir hann. En hann var vanr at hvila a berre iorþo, svat harclæþi eit var undir honom. Þa varp hann undan ser halmenom øllom, en hann hvillde a iørþo berre, sem hann var vanr, oc sofnaði brat, þviat hann var farmoðr. En halmrenn, es hann hafði castað undan ser, fell i gøgnom golfðiles røfar i ofn, es undir var, oc festesc þegar eldr i halmenom, oc toc huset[2] at loga. Martinus vacnaþe oc rann þegar til dura, er hann sa elldenn, fyrr en hann mintesc bønar, oc villde lata loco fra hurþo oc mate eigi. En elldrenn soti hann sva mioc, at føt hans brunno. Þa minntesc hann, at eigi (er) traust i flota helldr i guþi, scrydi hann sic tru scillde oc hvarf inn i logann til bønar. Þa stoþvaðisc elldrenn þegar oc grandaþe honom eigi. En er muncar sæ huset loga, þa bruto þeir dyrren utan oc fundu Martinum heilan standa a bønom i ellde. En hann sagði sva siþan, at þa være (hann) mest teldr af diofle, er hann gaþe eigi bøna traust fyrer hrøzlo, oc letzc hann kenna hita af elldenom, meþan hann hrødisc oc villde ut briotasc, en þegar er hann gorþi .+. marc oc toc bøna traust, þa sagþi hann sva, at hann kendi eigi hita af elldenom siþan.

26. Martinus for enn of dag til kirkio oc møte clæþlausom manni i froste miclo. [Sa baþ Martinum gefa ser clæþi noccot]. Þa heimti [Martinus þangat diacn] sinn oc bað hann selia cleþi

1 agliglite *Cd.* 2 hoset *Cd.*

enom calna. Siþan gec Martinus inn i kirkioscot oc sat þar einn saman, sem hann var oft vanr a mille tiþa, þa er aþrer kennimenn foro hverr til sinnar syslo. En er diacnenn dvalþe at geva cleþi enom valaþa, þa com hann þangat i scotet[1], er Martinus sat, oc sagðesc calenn vera, en diacnenn seinan at gefa honom clęþet. Þa for Martinus þegar[2] or cyrtle sinom under capo leynilega, svat inn valaþe sa eigi, oc seldi honom cleþit oc baþ hann braut fara. En diacnenn com litlo siþar oc qvat mal vera at syngia messo, þviat lyðr beiþ hans i kirkio. En Martinus svaraþi: «Eigi ma ec til kirkio fara, aþr inn v(al)aþe hevir clæþit.» Diacnenn scilþe eigi, at Martinus sagþi fra ser siolfom, þviat hann sa eigi, at Martinus var cyrtelslaus undir capo, oc spurþi, hvar inn valaþe være. «Sele mer clæþet, qvat Martinus, til mon inn valaðe at þiggia.» Þa reidesc diacnenn oc toc loþolpo necqeria stuta svarta .v. peninga verþa oc castaþe fyrer føtr Martini oc melte? «Her er nu clęþet, en ec se eigi enn valaþa.» Þa bað Martinus diacnenn ut ganga oc biþa hans fyrer durom, þviat hann villde eigi sia lata sic, meþan hann føre i clæþet, til þess at leynasc męte þat er hann hafði gevet. En goð verc heilagra coma up, þot þeir vile leyna, þviat Martinus for at syngia messo i þvisa clæþi. En a þeim dege þa er hann blezaþe altaresforn, þa vitraþesc eldr iver høfði honom, oc syndisc sem har hans retesc a mot elldinom. Þat sa mær ein oc prestr einn oc muncar .iii. En ver dømom eigi of þat, hvi aþrer mato eigi sia.

27. Evantius het maþr, sa er mioc var bunndenn i veralldar syslom oc þo vel truaþr. Hann toc sot micla oc sendi orþ Martino, þa er hann la hætr. En hann for þegar oc dvalþe eigi. En aþr Martinus qvæmi miþleiðes, þa kenndi inn siuki craft hans oc toc þegar heilso oc rann þegar a mot Martino oc bauþ honom heim met ser. En annan dag eftir þa hafði hoggormr særþan .i. þrel hans dauþligo sare. En Evantius fann þrelinn sialfr mioc sva eyrendan oc bar hann a øxlom ser oc lagði fyrer Martino. Þa hafði eitr comet of alla liþo sveinsens, oc var hann blasenn sem belgr. Martinus for hondom of allan [licam hans oc sete] fingr sinn fyrer saret, er ormrenn hafði høgvit. Þa sote eitr oc þrote or øllom liþom hans þangat til fingrar Martini. En er hann leti fingri fra sareno, þa spręndi or boge eitrs oc bloþs. En sveinnenn reis up heill, oc lofuþo aller guþs craft, er þetta tacn sæ.

28. En(n) for Martinus of dag cum discipulis suis, oc ato

1 scootet *Cd.* 2 þgagar *Cd.*

þeir dvøl nøcqeria, en hann for .i. fyrer, unz leite bar a mille. En auþrom megin leitesens foro[1] caupmenn meþ clyfiaða hesta oc asna. En er þeir sa Martinum i loþno clęþi s(v)aurto, þa undosc hestar af gøto oc vøfðosc i tømom oc gørþo fartalma caupmønnom. En þeir reidosc oc hliopo af hestom oc børþo Martinum meþ svipom oc støngom. En hann hafði þolinmøþe oc var sva sem omale fyrer þeim. En þeir børþo hann þess at meirr, er þeim þoti sem hann kendi eigi bardagans. Þa como lerisv(e)inar hans efter oc fundo hann saran oc bloþgan liggia a iørþo, oc hofo[2] þeir hann up á asna oc foru braut scyndiliga. En caupmenn hurfo aftr til hesta sinna oc villdo snua aleiþes for sinne. En hestar þeira varo orþner sva stirþer sem iarþfastir steinar oc máto hverge hrørasc or stað. Þa børþo þeir hest(a)na fyrst svipom, meþan þær unno, en siþan hiuggo þeir vœndo oc stangir i scoge oc keyrðo hestana meþ þvi, oc stoþo þeir ðo fastir i sama stað sva sem licneske. Þa visso caupmenner eigi, hvat þeir scyldo gera, þviat ða scilþo þeir, at guþs craptr hefti før þeira. Þa vitcoþosc[3] þeir of siþer oc spurþo menn, er þeir hito, hverr sa var, er þeir høfðo barþan[4]. En er þeim var sagt, at þeir høfðo Martinum barþan, þa ðote øllom einsæt, hvers þeir gulldo. Oc runno þegar scyndilega efter Martino oc scommoþosc sin oc greto oc ióso moldo i høfot ser oc fello til fota Martino oc baþo miscunnar, at hann léte þa fara leiþar sinnar, oc tølþosc þo þess verþir, at iorþen spryngi eþa rifnaþe undir þeim, eþa þeir stirþnaðe heldr sialver, sva sem þa varo hestar þeira stirðnaþir, oc leto þeir þat sialf(t) vera ser ørna pisl, er þeir visso efter ser gløp slican. En Martinus veiti þeim þegar miscunn oc blezaþe þeim, oc riþo þeir siþan leiþ sina.

29. En for Martinus hia bø nøcqeriom fiolmennom of dag, oc com lið mikit heiþinna manna a mot honom, þviat engi maþr cunne Crist a þeim bø. En þa var morgom forvitni at (sia) Martinum, þviat þeir heyrþo mart ogorligt sagt fra honom. Þa toc Martinus at boþa heiþnom mønnom guþs orþ, oc comsc hann viþ af øllom hug, es sva micell mannfiolþe scyldi eigi cunna scapara sinn. Þa gec fram kona nøcqver oc hafði i faþm lic sonar sins nyandaþs oc męlte viþ Martinum: «Vitom ver, at þu ert vinr guþs, gialtu mer einga son minn, er ny(!) er dauþr.» Þa hurfo at fleiri oc baþo meþ henne. Þa sa Martinus, at hann myndi geta tacn at guþi morgom til hialpar, oc toc hann viþ liceno oc fell a kne til bønar. En er hann reis up af bøn, þa selldi hann svein livanda moþor

1 faro *Cd.* 2 hafo *Cd.* 3 vitroþosc *Cd.* 4 barþar *Cd.*

hans. Þa colluþo aller einne roddo oc ioto guþi Criste, oc letoso a einn trua. En Martinus primsignde þa þegar a þeim velle, er þa varo þeir, en scirþe þvi nęst.

30. A þeire tiþ er Martinus var litlo aþr til byscops tekinn, þa ate (hann) før til konongs hallar. En þa reþ Valentinianus Syrlande. En er hann visse, (at) Martinus møndi þess biþðia, er hann villdi eigi veita, þa let hann byrgia hallardyrr fyrer honom. En þat ioc dramb hugar hans, er hann ate kono þa er (i) Arrius villo var, oc snere hon hug hans fra allre vinoto Martini. En er Martinus com of sinn eþa tysvar oc naþe eigi male konongs, þa rann hann til ens visa traustz oc scrydisc harclæþi, oc var a bonom netr oc daga oc fastaðe. En a enom .vii. dege syndisc honom engell guþs oc baþ hann fara til hallar ohrødan, en hann letzc mundo up luca durom oc myqva hug konongs. Þa for Martinus til hallar meþ engels trøsti oc com at opnom durom oc gec inn, svat engi bannaþi, unz hann com fyrer konong. En er konongr sa hann, þa gerstesc hugr hans, oc gørþe hann eigi up risa ne luta byscope. Þa com elldr under stole konongs, oc brunno neþan føt hans. Þa reis hann up af stolinom nøþogr oc laut Martino oc hrødesc craft guþs, þann er hann hafði aþr fyrerlitenn. Oc beiþ hann eigi orþa Martini, heldr veiti hann, aþr hann være beþenn[1] þat, er hann visse at Martinus vilde biþia. Oc bauþ oft Martino til borþz meþ ser oc vildi gefa honom margar giafar. En hann geyrþi við engom taca.

31. Claudiomacus[2] het bør scamt fra Turonsborg, oc er nunnosetr i þeim bø, þar hafði Martinus gisting a nøqverri tiþ. En er hann var braut farenn, þa gingo meyiar inn i hus þat, er hann hafði veret, oc laso up halm þann allan, er hann hafði under hafðan ser, oc scifto meþ ser sva sem helgom dome. En er faer dagar liþo þaðan, þa [bat] ein þeira a hals óþom manne halm þann, er hon hafði ser hirðau fyrer helgan dom, oc varþ inn oþe þegar heill.

32. Þa er Martinus for fra Treverisborg, þa com a mót honom cyr oþ af diøfle, su er hliop[3] fra nøtom oc stangaði menn, ef fyrer urþo. En er hon com til Martinus beliandi, þa gørþi (hann) crossmarc a mot henne oc bað hana stað nema. En er hon nam[4] staþar, þa sa Martinus dioful sitia a baki henne oc melte: «Far braut þu ovinr fra smala manna oc qvel eigi meinlaus cyqvende!» Þa flyði illgiarn andi. En kyrin scilþe, hverr hana

1 beiþenn *Cd.* 2 Claudiusmacus *Cd.* 3 hliof *Cd.* 4 namn *Cd.*

grøde oc fell til fota Martino. En hann blezaþe hana oc baþ[1] aftr fara til hiarþar oc vera alldregi siþan ohøgia.

33. Enn møte Martinus veiðemonnom of dag. Hundar helto(!) hera a viðom velle, oc var heranom at comet, at hann mondi tekinn verþa, oc dvalþe hann dauþann i vecvingom[2]. Martinus sa ærmo a heranom, þviat hann var harmvitegr(!), oc bauþ hann hundom at standa oc lata hera braút fara. Hundar namo stað þegar, sem þeir være bunner eþa en heldr iarþfaster. En here forþaþesc.

34. Nauþsyn er at geta nacqvat, hvilic varo orþ hversdagleg Martini, þviat þau varo full anlegrar speke. Sauð nycliptan sa hann of dag oc melte: «Sia sauþr fylldi evangelii boþorð, hann hafði .ii. cyrtla oc gaf annan þann(!), er eigi hafðe; geyret þar efter.» Enn sa hann of dag svinahirþe i scinnføtom oc melte: «Þvilicr var Adamr i scinnføtum braut rekinn or paradiso. En ver scolom leggia niþr inn forna Adam, er sia merker, en scryþasc enom nyia Adam, þat er Cristr.» Þar com Martinus enn, er naut bito a velle, en svin rotoþo i støþom, en i støþom var blomgaþr vœllr af enom fegrstom grøsom. «Se her gliking lifs manna, qvat Martinus, hiuscap[3] merker sia hlutr vallar, es smale hever af bitet et fegrsta, oc er þo gras eftir; en sa hlutr, er[4] svin hafa umb snuit, merker hordom; en sa hlutr, er scinn i ǫllom blomom oc enom fegrstom grøsom, merker meydoms dyrð, sa er eki ma annat viþ iamnasc. Sva sem þeir villasc mioc, er hiuscap iamna við hordom, sva ero þeir oc heimsker, er hiuscap iamna viþ meydom. En spaker menn gøra þa grein, at hiuscapr ser til licnar, en meydomr cǫmr til dyrþar, en (hordomr) horver til pislar, nema iverbot hreinse.

35. Riþare nøqverr com til Martinus oc gørþisc muncr oc setesc i einseto. En kona hans var [oc vigð[5] til nunno. En slǿgr freistare talþe þat i hug riþerans, at hann[6] fystesc þess, at kona hans være þar i einseto meþ honom, oc baþ hann Martinum leyfa ser þat. En Martinus svaraþi oc qvat eigi munke soma at hafa samvisto viþ kono. En riþ(ar)enn baþ þess oft oc qvat eki[7] samvisto þeira mǫndo granda goþri fyrerætlon, þar er hann var vigðr til muncs en hon til nunno. Þa svaraþe Martinus: «Segðo mer, ef ðu vast nacqvat i orrostu?» En hann svaraþe oc letzc oft veret i orrosto. Martinus melte: «Satu nøqveria kono i orrosto,

[1] bar *Cd.* [2] crebris flexibus *lat.* [3] hiuscapr *Cd.* [4] en *Cd.* [5] [ ovigð *Cd.* [6] hans *Cd.* [7] mundo *tilf. Cd.*

þa er menn hiuggosc til eþa scutosc?» Þa scamðesc(!) riþarenn oc fann, til hvers Martinus spurþi þessa, oc þaccaði hann þat, er honom var eigi veit villa hugar sins, oc hann var eigi acafliga avitaðr heldr hirtr meþ scynsamlego døme, þvi er riþare mate auþvelliga of scilia.

36. Tveir lerisveinar Martini, Gallus oc Sulpicius, varo stadder of dag fyrer durom, þar er Martinus var einn inne, oc visse hann eigi, at þeir stoþo fyrer durom, þviat hurþ var aftr. En er þeir høfðo þar staþit nøqveria stund, þa heyrþo þeir manna mal inn i huset oc namo þeygi orþa scil, oc var þeim ogn at þvi micel oc þotosc vita, at nøcqve miclo mondi gegna. En efter .ii. stundir dax gec Martinus ut. Þa for Sulpicius þegar til mals við (hann), þviat honom þote delst viþ hann, oc spurði, hvat tacnaþi sa romr manna mals, er þeir heyrðo baþer i huseno. Martinus frestaþe lengi at segia. En eki var þat, er eigi gæti Sulpicius at honom, ef hann vilde biþia. «Segia mon ec yer, qvat hann, en ec biþ, at iþ segit engom: Maria oc Agnes oc Tecla melto viþ mic.» Þa sagði hann oc alit þeira oc buning, oc qvat hann þęr eigi at eins coma þann dag sin at vitia heldr myclo oftar. Petar oc Pol postola letzc hann oft sia. Dioflar como oc stundom at freista hans i ymsom lic(i)om, oc allra oftast i like Þors eþa Oþens eþa Freyio. En Martinus hafði crossmarc at scildi viþ allre freistne þeira. En hann kende þa, i hverionge likio(m) sem þeir varo, oc nemndi hvern þeira a namn oc fec hveriom þeira þa qveðio, er (þeir) varo verþer: Þor callaþi hann heimscan, en Oþen deigan, en Freyio portcono. Engla guþs sa hann oc oft, oc melto þeir viþ hann oc sogðo honom fyrer oorþna hluti.

37. Kennimanna fundr var i einhveriom stað, oc for Martinus eigi þangat, en þo villdi hann vita, hvat þar gørþisc. En þann dag for hann a scipe oc sat i stamne einn saman, sem hann var vanr at leita ser einseto. Þa syndesc engell guþs oc[1] sagði honom alla hlute, þa er gørþosc a kennimanna funndenom. En er at var spurt, a hverre tið kennimanna fundr sia hafði veret, þa reyndisc sva, at a þeim dege hefðe kennemanna fundrenn veret, sem engell vitraþesc Martino, oc þeir hluter a þvi mote gørver oc męlter, sem engell sagðe.

38. Enn com maþr til Martinus meþ dotor sina .xii. vetra gamla, en hon hafði alla ævi omala veret, oc baþ hann Martinum, at hann gevi henne heilso. En Martinus visaþe henne til byscopa

[1] at *Cd.*

þeira, er þa varo þar meþ konongenom, Valentinianus oc Victricius, oc qvat þa heldr en sic slicar iarteiner mega gora. En þeir baþo meþ honom, at Martinus veiti þat, er hann var beþinn. Þa dvalþe Martinus þat eigi at veita millde, er hann hafði aþr synt liteleti, oc bað ut ganga allan lyð annan, nema þeir varo efter faðer meyiar oc byscopar, þa er Martinus fell a kne til bønar. Siþan vigðe hann viþsmior oc hellte þvi i munn meyionni oc spurðe hana, hve faþer hennar heite. En hon sagðe þat ðegar scyrt. Faþer hennar varð fegenn oc fell til fota Martini, letzc þessa rod dotur fyrst heyrt hafa.

39. Kona eins rikismanz sendi Martino viðsmior at vigia i glerkere, þat er hafa þurfti við morgom meinom eþa sotum. En er hann vigðe viðsmioret, þa sa prestr er hia stoþ, at þat ox undir blezon hans. Oc helt sa craftr blezonar oc viðsmiors vœxt, unz þat com heim til kononnar. Oc var þa glerkeret fullt, er aþr var . . . . . . . . . oc hafði þo runnit iver keret oc slagnat a clæþi þess er meþ for. Glerker fullt viþsmiors þess, er Martinus hafþe vigt, var set yver glugg. En sveinn nøcqverr svipte duki þeim er iver var breidr, oc visse eigi hvat under dukinom var. Glerkeret fell a steina, oc brotnaþe eigi heldr en þat felle a enn blautasta dun, oc slagnaþi eigi niþr viþsmioret. Þetta varþ eigi af atburþ heldr af crafte Martini. þviat bletzon hans mate eigi fyrerfarasc.

40. Lærisveinar Martini foro of be nøcqvern of dag. oc hliop at þeim hundr olmr oc go. Þa męlte einn þeira: «I nafne Martini byð ec þer at þegia!» Þa ðagna(ðe hundr), sva sem tunga være scoren or høfði honom. Eigi at eins vann Martinus sialfr tacn, helldr gørðo oc aþrer marga hlute i namne hans.

41. Avicin(i)anus het iarl grimr oc drapgiarn. En hann com of dag i Turons borg. oc varo i for hans bandingiar marger, er hann hafðe fyrerdømþa til draps eþa til meiðingar. En er Martinus fra þat, ða for hann þegar nær miþre not til husa ens grima iarls. En þar svafo allir, oc varo hurþer aftr. Þa stoð Martinus fyrer durom a bønom. En er Avicinianus var sofnaþr. ða vacþe engell guþs hann oc męlte: «Þrell guþs liggr fyrer durom þinom. en þu søfr.» Þa vacnaþe iarl oc callaþe þrel sinn oc sagði. at Martinus var ute fyrer durom oc villde inn ganga. En þręll var syfiaþr oc lauc inne iþre einne hurþo up. En er hann heyrþi til enskes, þa hlo hann at drotne sinom oc qvat hann tolldan vera i drøme oc let engi mann vera fyrer durom. oc qvat eigi mondo kennimenn vaca vilia of nøtr. En þat var øþvelt at telia fyrer Aviciniano,

oc somnaþi hann i annat sinn. Þa com engell at honom oc barþe a honom oc qvat Martinum standa fyrer durom. En er þrælar dvolþo at fara, þa reis iarl up sialfr oc lauc up durom oc fann Martinum oc mælte viþ hann: «Ecki er scylt at mæla viþ mic, veit ec, hvers þu fysesc, farðu oc hafðu þeget þat er (þu) biþr, at (eigi) fyrerfare mer guþs reiþe i hemnd þinne. Oc matu þvi trua, at nu hefi (ec) lit scelfðr veret, aþr ec føra sialfr til mals við þic.» Þa let iarl þegar leysa bandingia, oc for hann samdøgris sialfr a braut. En þot hann være grimr i øllom stoþom oþrom, þa þorþi hann aldrege siþan at lysa yfir þvi i Turonsborg.

42. Enn com Martinus of dag til husa hans oc sa hann svartan diofol sitia a halse honom, oc bles hann a mot fiandanom. En Avicinianus hugþi, at Martinus gorði ser haþung oc melte: «Fyrer hvi veiter (þu) mer hæþung?» Ða fløþi diofull af stoli sinom. En Martinus svaraþe: «Eigi veiti ec høþung þer, heldr enom svarta, er sitr a halse þer.» En iarl var avallt siþan ogrimare en aþr, þviat hann scilþe þa, af hvers oggion hann hafði grimr (veret).

43. Bær var sa .i., er a hveriom misserom geyrði hagl, þat er økrom spilte. En sa het Auspicius gøfugr maðr oc truaþr vel, er mest mein varþ at hriþ ðessi. Sia for at finna Martinum oc sagði honom vandreþi boiarmanna oc baþ hann fulltings. En Martinus baþ oc gat þat at guþi, at mannege varþ mein at þeire (hriþ) i þvi heraþe a þeim .xx. vetrom, er Martinus lifðe siþan. En a þeim misserom er hann andaþisc, þa com in sama hrið i heraþet, þviat allr heimr gret andlat hans, en fagnaþe life hans.

44. Støpull ramgor stoþ i einom castala[1], en i þeim støple ovanverþom sat scurþgoð a stole. En Martinus bauð presti, þeim er i þvi þorpe var, at briota støpulinn. En sa het Marcellus. En er Martinus com þangat i annat sinn, þa avitaþi hann prestenn of þat, es scurþgoðet var eigi brotet. En Marcellus talþe torvellt at briota stopolinn oc qvad eigi ostyrkia munca mega þvi afla, er traut mundo allsterker riþerar. Þa snøresc Martinus til ens truasta fulltinx oc var a bønom alla not. En at morne com veþr, þat er allan braut stopolenn til iarþar.

45. En gorþisc annarr hlutr slicr i øþrom stað, þa er Martinus villdi briota støpul mikinn, þann er scurþgot var i, oc mate hann eigi. Þa snørisc hann til bønar at vanða sinom. Oc var þa seinn elldligr stopull falla af himne i høfuð scurðgoþeno, oc leyste i sundr allan inn heiþna støpul moldo smøra.

1 castaþi *Cd.*

46. En er sagt fra Martino eftir evangelii dømom, at kona .i., su er bloþros hafði, toc heilso þegar, es hon snart við cløþi Martini.

47. Haugormr screiþ of æ a mot Martini oc lerisveinom hans. Þa męlte Martinus: »In nomine domini scriþv aftr, ormr!« Þa snøre ormrenn for sinne oc hvarf aftr. En er aller undroþosc iartein þessa, þa felde Martinus tar oc melte: »Ormar hlyða mer nu, en menn vilia eigi hlyða.«

48. Martinus var vanr at eta fisc a pascadogom. En hann spurþe litlo fyrer matmal, ef fiscr være til buenn. En diacn, sa er føzlo munca varþveite, sagði, at hann hefði (engi) fisc tekinn a þeim morne[1], [oc eigi heldr þeir] menn, es vaner varo at selia fisca. Þa melte Martinus viþ diaknenn: »Farðu oc legg net þit, oc mon fiskr coma.« En scamt var til ar fra munclive. Þa foru fleire muncar til ar oc væto goðrar veiþar, er Martinus bauþ at fiskia oc þurfte hann sialfr at hafa. En þegar es diaknenn lagði net, þa dro hann mikenn lags at eno fyrsta varpe, oc for hann heim glaðr til munclifs.

49. Maximus var goðr konongr at øþro, en hann var tøldr af raþom kennimanna, þeira er[2] røgðan høfðo oc raþenn þann mann, er Priscillianus het, þann er þeir tølþo villomann. En konongr helt hendi iver þeim, at engi þorðe at saca þa of dauþa Priscilliani. En(n) hafði konongr sva stofnat at þeira raþe at sennda rikismenn a Ispanialand til þess at bana villomønnom. En þat var iflaust, at marger goþer menn mundo verþa drepner i scalmølld þeire, þviat þa var meirr dømt at alite eþa at buninge en at retre raun. Fyrer slicom nøþsyniom oc morgom auþrom, þeim er langt er at tina, þotesc Martinus ørendi eiga viþ konong. En er byscopar frogo, þeir er (i) borgenne varo, þangatfør Martini, þa ugðo þeir þat einna mest, ef hann qveme, at hann møndi røkia gera tiþagørþ þeira, oc møndo þar marger aðrer eftir (snua) siþan. Þa reþo þeir þat konongi at senda liþ a mot Martino oc lata hann eigi coma innan borgar, aðr hann héti at hafa frið viþ byscopa, þa er þar varo fyrer. En er hann com, þa het (hann) at coma meþ Cristz friþe, oc var honom þa lovat innganga. En hann gec þeygi i tiþagørþ meþ byscopom, helldr var hann of nøtr a bønom i kirkio. En þat var mest eyrendi hans viþ konong at biþia friþar iørlom .ii. Narsede oc Leucadio, er fyrer konongs reiþe urþo, þviat þeir høfðo veret i andscota flocce hans. Þat var annat

1 forne *Cd.* 2 oc *Cd.*

eyrendi Martini at stoþva herfør, þa er stofnot var til Ispanialandz, þviat sva mildr var hugr hans, at hann vilde eigi at eins cristnom mønnom forþa, þeim er i þeire socn møndo falla, heldr vilde hann biarga siolfom villomonnom. En konong dvalþe of dag oc annan at veita þat, er hann var beþenn[1], þviat hann var fegiarn, oc sa hann til fiar þeira, er hann hafði reiþe a castat. En er Martinus gec eigi i tiþagørð með byscopom, þa como þeir scialvandi fyrer konong oc søgðosc fyrerdømþer oc qvaþo eigi konongi soma at hliþa(!) ðess manz orþom, er eigi at eins veite sciol villomønnom, heldr hemndi [hann þeira, køllo]þo eke veit i dauþa Priscilliani, ef Martinus scyldi hefna hans. Siþan baþo þeir konong meþ tarom, at hann nøte rikis sins i gegn honom, oc reþo þeir umb at telia Martinum meþ villomønnom. En þot Maximus veite[2] of lið øþrom byscopom, þa vissi hann þo, at Martinus var øllom þeim helgare sva oc goþom siþom, oc leitaþi hann annarra raþa en þeir kendo. Ok heimti hann Martinum til mals við sic oc qvade hann bliþliga oc sagþe villomenn dæmþa vera heldr at løgom af domøndom en af roge kennimanna, oc qvat hann engva soc til þess at røkia tiþagørð þeira, þar er kennimanna fundr var atr fyrer litlu, oc var einn at eins sa er þessa byscopa fyrerdø(m)þe, en aller aðrer tølþo ða saclausa. En er Martinus scapaðisc(!) eki við orþ þessi, þa reidesc konongr oc (gec) fra oc sende þegar menn at lata bana þeim, er Martinus bað fyrer. En er Martinus fra þat, þa for hann þegar til konongs hallar of not oc het at ganga i tiþagorð meþ byscopom, ef konongr gęfi frið iorlom oc tøkisc eigi herfǫr til Ispanialandz. Þa veite konongr Maximus þegar allt þat er Martinus baþ. En inn þriþia dag þaþan fra var ætlat at vigia byscop þann er Felix het, sa var heilagr maþr oc vinr guþs. Þann dag gec Martinus i tiþagørð með byscopom, oc ętlaþe hann ser þat betra vera en biarga eigi þeim, er til bana varo leider. En inn nęsta dag eftir for hann a braut or borgenne a heimleiþ oc var oglaþr oc iþraðisc, er hann hafði blandasc i samlage þeirra, er honom þote røkiande vera. En er hann sat einn saman oc var hryggr of þessa søc, en føronøtar hans varo gengner fyrer a leið, þa com angelus dei at honom oc melte: »Søc er til þess, er þu ert oglaþr, en þu mater eigi annan veg leysa or þesso vandręþi. Tac þu traust oc endrbøt craft þinn, at eigi faer þu scaþa dyrþar.« Fra þeire tiþ var Martinus varr umb sic, at eigi blendisc hann siþan i samlage sliera kennimanna. Sextan vetr lifðe hann siþan oc com til enskis kennimanna fundar siþan.

1 beiþenn *Cd.* 2 ǫeite *Cd.*

En ef honom varþ nøcqve torveldra at geva siucom mønnom heilso, en hann ate vanþa til, þa sagði hann sva meþ tarom, at þat mincaþi craft hans, er hann gec i tiþagørð meþ þessom byscopom fyrer nøþsyniar. En þo endrbøti bratt meþ fullu vercaupe þann craft, er mincaþr var of stund, at þat var siþan, er oþr maþr var leidr til hus hans, oc varþ heill aþr hann com allt at durom.

50. Enn varo menn a sæ stader, oc gørþi hriþ at þeim, oc varo þeir ða i miclom hasca. En þar var .i. caupmaþr ætscaþr af Egiptalande, oc var enn ða eigi scirðr, sa callaþi oc męlte: »Guþ Martini, biargðu oss!« Þa støþvaðisc hriþen þegar, oc toco þeir hǫfn, þa er þeir villdo, en inn heiþne tru.

51. Licontius het .i. gøfugr maþr oc trufastr, er com at biþia Martinum fultings, þa er micel sot com inn i hus hans, oc logo siuc flest øll hiu hans. En Martinus sagði torvelt vera at gefa heilso, þvi at hann mate þat scilia, at guþs raþning barði þessa menn. Þa fastaþe hann oc var a bønom vico alla samfast, oc let eigi af at biþia, aþr hann gat þat, er hann bað. En er Licontius rønde craft bøna hans, þa com hann oc sagþe heil øll hiu sin, oc førði Martino hundrat marca silfrs. En hann røcþe eigi þa giøf oc toc, þviat hann hafði meþ þvi fe øllo leysta herleida menn yr høftum, (aþr) en þat qvęme heim til munclifes hans. En er hann var beþinn at nyta ser nacqvat af fe þvisa til atvinno munca, þa svaraþi hann: »Føþe kirkian oss oc clæþi, oc ver scolom enskis framarr girnasc.«

52. En sat Martinus .i. uti umb dag fyrer huse sino, oc sa hann a gnipo nøcqverre .ii. diofla, oc hlogo þeir oc męlto: »Heill sva, Brictius, heill sva!« Þviat þeir visso, hverri øþe þeir ioso i briost honom. En scamt var at biþa, unnz Brictius com þar sva oþr af eggion diofla, at hann gøte traut handa sinna; hafði hann brugþit lit fyrer reiþe oc spio up morgom meinmęlom a Martinum. En Martinus hafði avitaþan hann inn fyrra dag of marga ohlyðne, þa er hann hafði gørva. Slicom avitom reidesc Brictius oc melte mart osømt, oc sagði hann sic betra vera en Martinus, þviat hann qvatsc i munclife fødr oc nema a boc, þegar er hann cunni scilia, en Martinum qvat hann eigi mega þess sialvan dylia, nema hann hafði riþere veret oc .xviii. vetra gamall, aþr hann være scirþr. Enn þegir hann eki, oc berr fyrer augom honom hverscyns sionhverfingar. Slict sva męlte Brictius oc mart annat verra, þat er þegia er betra en fra at segia . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

## II.

(*Cd. 235 folio*).

### Her byriaz upp Marteins saga.

Martinus var ættadr af Ungeralandi ur kastala þeim, er Sabaria er kalladr, en hann var **a** Lyngbarda landi fæddr. Frendr hans vo**ru** gaufgir ath þessa heims tign ok þo heidnir. Fadir hans var riddari fyrst en sidan hofdingi þeira, siolfr fylgdi hann ok riddara syslu i æsku sinni um daga Constantini konungs en sidan Juliani keisara. En þeiri syslu fylgdi hann eigi viliandi, þviat hann fystizt þegar guds þionustu **a** ungum alldri. Þa var hann .x. vetra gamall, er hann for til kirkiu ok tok primsingh(!) at usatt frenda sinna, ok snerizt þegar allr til guds þionustu. En er hann var .xii. vetra gamall, þa fystizt hann at fara i eydimork, ok þat mundi hann gera, ef honum bannadi eigi ostyrkt alldrs hans. En þo var hugr hans **a**vallt annattveggia i munklifi eda kirkium, ok barst hann þat fyrir **a** ungum alldri, er hann let fram koma, þa er hann var ellri. En er konunga bodord varo þat, at gamalla manna synir veri teknir til riddara syslu, þa var Marteinn til þeirar atferdar tekinn, þa er hann var .xv. vetra, þviat fodur[1] hans var oþeckt **a** um tru hans, ok þvi selldi hann hann fram. Martinus hafdi at eins einn þræl i syslu med ser, ok þionadi hann honum þo optar ok dro skoklædi af honum ok þerdi fetr hans, ok þeir attu mat saman. Þria vetr var hann i riddara syslu, adr hann var skirdr, ok var hann allra þeira synda hreinn, sem þeire syslu ero opt vanar at fylgia. Mikil var godgirnd hans ok ast vid laugunauta sina, ok þolinmædi hans ok litilęti var umfram manligan hatt. Sva sparliga neytti hann fędu, at hann þotti þa þegar[2] helldr munkr en riddari. Af sliku unnu honum allir riddarar, þeir sem honum fylgdu. Eigi var hann enn þa skirdr, en þo gerdi hann heilǫg verk, þviat hann dugdi voludum, en veitti hialp þurfundum, fæddi hungrada en klæddi kalna. Eki hirdi hann ser af malunum nema hvers dags fæslu ok klædnad, ok mintizt þegar gudzspialls bodorda, at hann bar eigi **a**hyggiu dag fra degi **a** iardligri atvinnu.

2. A nockurum degi um midian vetr, þa er frost var sva mikit, at marga menn kol til bana, mætti Martinus voludum manni klædlausum i borgarhlidi. En sa bad gefa ser klædi þa

1 fadir *Cd.* 2 var *tilf. Cd.*

menn, er aa mot honum foru, ok lidu allir umfram. Þa skildi Martinus, at gud hafdi honum þenna hugat, er adrir veitti eigi miskunn. En hvat matti hann gefa, þar sem hann hafdi ecki nema klædi þau, er hann stod i, þviat hann hafdi veitt allt annat aumum monnum. Þa bra hann sverdi, þvi er hann var gyrdr, ok reist i sundr mauttul sinn i midiu, ok gaf halfan þurfamanninum en halfan skryddi hann sik. Þa toku sumir ath hlæia ok kalla hann aflettan(!) ok stuttbuenn. En sumir komuzt vit, þeir sem heilla hug hôfdu, er þeir gerdu (eigi) slik verk, þar sem þeir mattu vel klęda enn valada, sva ath þeir væri onoktir eptir. En Martinus, er (hann) var sofnadr ena nestu nott eptir, þa sa hann Krist siolfan kleddan þeim mauttuls hlut, er hann hafdi enum fatęka gefit. Sidan heyrdi hann drottin sva mæla vid eingla, er hia honum voru: »Martinus primsigndr at eins skryddi mik þessu klædi.« En hann hofzt eigi til iardligrar dyrdar af þessi syn, helldr var hann þvi litillatari sem hann kendi guds miskunn meiri i sinu verki. En hann tok þa skirn, er hann var .xviiii. vetra gamall ok fyrirlet eigi þegar riddara syslu, þviat hofdinghi, sa er fyrir var lidinu, bad hann þess ok het honum þvi, ath (hann) mundi fyrirlata alla veralldar syslu litlu sidar. Af þvi dvaldizt Marteinn tvo vetr sidan i riddara syslu at nafne ath eins, en hugr hans var allr aa himne.

3. Julianus keisari samnadi lidi i borg þeiri er Vangianum heitir, þa er vikingar heriodu aa Frakland, ok tok hann at veita heidfe riddorum sinum, sem vandi er til, adr til orrosto er farit. En þa þotti Martino maklig tid at radaz fra riddara syslu, en hann etladi ser eigi rett at taka heidfe, at hann færi eigi til orrosto, ok mællti sva vid konunginn: »Hingat til hefi ek þer þionat, en nu lofadu mer at þiona gudi. Taki sa heidfe þitt, er beriazt vill med þer, en ek em Kristz riddari, ok er mer eigi lofad at beriazt.« Þa reiddizt Julianus ok kvad Martein af hugleysi fordazt orrosto, en eigi af tru. Martinus svaradi olhręddr ok mællti vid konunginn: »Ef þu kennir þetta hugleysi en eigi tru, þa man ek aa morgin ganga vopnlauss i fylkinghu i gegnum lid ovina vorra aurauggr i nafni drottins Jesus Kristz krossmarke skryddr en eigi skilde ne hialmæ.« Þa tok Julianus ok let taka Marteinum ok vardveita ok villdi reyna, hvart hann mundi gera þat, sem hann hafði heitið. En annan dag komu sendibod konungi til satta ok þraut orrostona, þviat þeir menn gengu aa hond konunginum. En um þat ma eigi efa, at sia sigr var veittr af benum

Marteins, ath hann þurpti eigi vapnlaus at fara til orrosto, þo at gud metti vel hlifa þar vin sinum vapnlausum. En sa var helgum manni semstr sigr, er eigi fylgdi manna drap.

4. Sidan reðz hann fra riddara syslu ok sotti heim Ylarium byskup i Peituborg ok dvaldizt þar nockura stund. En Ylarius byskup villdi hann þar leingi dvelia ok bad hann taka diakns þionustu. En Marteinn taldi við þvi ok lezt þess overdr vera. Þa skildi Ylarius byskup, at hann mundi Martæin i þeim einum (t)engslum binda mega, er eigi yxi iardlig metordh vid þat, ok gaf honum þa vigslu, at hann veri exorcizta, þat er sera diofla fra odum monnum. Siðan var Marteinn mintr á þat i svefni, at hann feri til frenda sinna ok kendi þeim tru retta. En er byskup lofadi honum þat, þa bad byskup, at hann skylldi til (hans) fara, þa er hann hefdi lokit eyrendum sinum. Marteinn fór á brut ogladr ok sagði sva brødrum, ath (hann) munði morgum meinum at mæta i faur þeiri, sem sidan [fann hann[1]. Þa er hann kom suðr um haf ok fiall, metti hann illvirkium, ok reiddi einn þeira auxi ath honum, en annarr þeira stoðvaði ok tok við. Þa voru hendr hans bundnar á bak aptr, ok var hann selldr einum þeira til varðveizlu. En sa leiddi hann fra ǫðrum monnum ok spurdi, hvat dreingia hann væri. Hann svarar ok kvezt kristinn vera. Þa spurdi hinn, ef hann hreddizt. En Marteinn svarar ok kvezt alldri iafnaurauggr vera sem þa, þviat (hann) vissi, at guds miskunn mundi fylgia honum i hverri freisni, en hann lezt meirr harma illzku illvirkians, er overdr var guds miskunnar. En er Marteinn taldi tru fyrir honum, þa tok sa tru ok fylgði honum á gautu ok bad hann bidia fyrir ser til guds, ok lifdi hann sidliga ávalt siðan ok gerdizt munkr. En er Marteinn kom til Meilansborgar, þa kom fiandi a mot honum i manz likama ok spurdi, hvert hann færi. Marteinn lezt þangat fara, er drottinn sendi hann. Fiandinn mellti vid hann: «Hvad sem þu gerir eða hvert sem þu ferr, þa mun fiandi standa á mot þer.« Marteinn svaradi med spamanz roddu: »Drottinn bergr mer, ok mun ek eigi hrædazt ofrid manna.« Þa flydi ovinrinn sva sem skuggi fra augliti hans. En Marteinn for sva sem hann hafdi faur sina gert, ok leysti moður sina fra heidni, en fadir hans gerdi eigi ath snuazt fra villu. En þo hurfu marger eptir kenningum hans ok toku tru. En þa var Arrius villa kunnuzt um allan heim, en (er) Martinus var sva einn svo miok þeira manna, er þordu i gegn at mæla

1 [ sandan *Cd.*

villunni, þa vard hann ok einna mest fyrir ofridi villumanna, þviat hann var vaundum bardr á einu moti ok rekinn á braut ur borginni, ok for hann þa til Langbarda landz. Þa hafdi ok villan magnazt á Fraklandi, ok var Ylariu(s) byskup rekinn á brutt af byskupsstoli sinum til utlegdar. En er Martinus fra þat, þa for hann til Melansborgar ok var þar i munklifi. Þa vard hann klandradr af villumonnum, ok toku þeir hann um sidir á brutt or borginni. Þa for hann til eyiar þeirar, er nefnd er Gallinaria, ok fylgdi honum prestr einn þangat, ok lifdi hann þar vid grasaretr. En er hann fra, at konungrinn hafdi leypt Ylario byskupi at fara heim til stols sins, þa for hann nordr um haf til Fraklands, ok tok Ylarius byskup feginn vid honum ok gerdi honum munklifi skamt fra borginni.

5. A þeiri tid kom einn primsigndr madr þangat ok villdi nema at Martino kenningar ok goda siðu. En er hann hafdi þar fa dagha verit, þa tok hann ridusott ok vard braddaudr, adr en hann hefdi skirn tekit. En Marteinn var eigi heima, en (er) hann kom heim, þa la lik hins dauða i husi, ok stodu þar yfir hryggvir brædr. Þa bad Martinus adra ut ganga or husinu, en hann lauk aptr dyrum ok fell til benar hia likinu. En er hann hafdi leingi á bæn verit, þa skilldi hann, at kraptr heilags (anda) nalgadizt, ok reis hann upp af bæn sinni ok beid sva guds miskunnar. En eptir tver stundir tok inn daudi at hrærazt ok hof upp augu sin. Martinus gerdi gudi þakkir ok męllti sva hatt, at hinir heyrdu, er uti voru, ok gengu þeir þegar inn, ok sa þann lifa, er þeir gengu fra daudum. En sa tok þegar skirn ok lifdi marga vetr sidan, ok var þat enn fysti kraptr Marteins. En hann sagdi sik leiddan vera fra likam fyrir domstol ogurligs domanda, ok var sidan dæmdr til myrkra stada. En þa sogdu .ii. einglar domandanum, at þar væri sa madr, ær Marteinn bad fyrir. Þa baud domandinn þeim enum somum einglum ath leida hann aptr, ok var hann sva aptr golldinn Marteino til lifs. Þa tok nafn Marteins at kynnazt, ok liktist hann postolum guds i iartegnum.

6. Þa er Marteinn for um dagh um akr eins audigs manz ok gaufugs at veralldar metnadi, heyrdi hann grat ok hareysti manna mikla. Þa nam hann stadar ok spurdi, hvi gratr sea gengdi. En honum var sagt, at þrell einn hafdi heingdan sik i snoru ok spillt ser. Þa gek Martinus inn i hus, þat er likit lá, ok fell á kne til bænar ok bad leingi fyrir enum dauda. En þa tok sa at lifna ok hof upp augu sin ok leitadi vid at risa upp.

Þa tok Martinus i hond honum ok setti a fetr hann, ok gekk hann utt ur husinu med honum fyrir alþyðu.

7. Sidan va(r) Marteinn bedinn at taka byskupsdom i Turons borg. En eigi var audvellt at koma honum a brutt ur munklifi sinu. Þa sagdi einn borgarmadr mikla sott konu sinnar ok fell til fota Martino ok bad hann koma at gefa henni heilsu. En er hann for, þa somnuduz saman borgar(menn) a gotu hans ok leiddu hann til borgarinnar ok heldu vðrð a honum. Þa var mikill manfiolði kominn innan herads[1] ok utan herads manna. Allra var einn vili ok eitt alit, at Marteinn veri makligastr at vera byskup, ok sa lydr veri sęll, er slikan kennimann hefdi. En þeir voru sumir ok þo fair, er (melltu) þvi i gegn ok toldu hann liotan at aliti ok herfiligan ath buningi ok fyrir þær sakir omakligan ath vera byskup. En þeir er rettu radi fylgdu, hlogu[2] at þeim ok qvodu þa lofa Martein, þa er þeir villdu lasta hann, er[3] þeir mattu ekki annat finna til aleitni honum en alit hans ok buning. Sa byskup er nefndr Defensor, er mest stod i gegn alþydu vilia um þetta mal. En hann vard þunghliga fyrir rekinn med spamanz ordum, þviat sa matti eigi komazt til at lesa i ottusaung fyrir þraunginghu manna, er lesa skylldi. Þa tok sveinn nokurr upp salltara ok saung verss þat, er hann fann fyst: Ex ore infancium, en sva mælir i verssinu: Af munni barna ok u(ng)mennis gerir þu þer lof, drottinn, i gengn ovinum þinum, en þu eydir ovinum ok Def(ens)orem. En er þetta var surgit, þa gerdizt romr af alþyðu, ok skomuduz motmælendr, en allir talldu at guds radi þetta verss radit ok sungit, at ovinr þeira Defensor heyrdi vitni versins, en af ungmennis munni hofst guds lof yfir Marteini.

8. En er Martinus hafdi vigslu tekit, þa var lif hans at ollo ædra, en mer megum ordum skyra; en sama var stadfesti ok litileti hans hiarta, sem adr ver(it) hafdi, ok enn sami fatabuningr[4] hans, en hann var sva fullr skynsemi ok miskunnar, at hann vardveitti byskups tign ok fyrirlet hvergi munk(s) litileti. Eingi tunga ma skyra hversdagliga hattu hans ok athferd ok stadfesti i verkum ok vokum, bænum ok faustum, þviat eingin var su tið, er eigi veri hann at guds verki, utan þat er likamligs edlis naudzsyn skylldadi hann til at matazt eda sofa. Alldregi leid su stund, at eigi væri hann annattveggia a bænum æda sæi a bekr. En þott hann gerdi annat nokut, þa hvarf alldri hugr hans fra benum. Eingan mann fyrirdemdi hann ok eyngan vællti hann ok aungum launadi hann

1 heradas *Cd.* 2 hlopu *Cd.* 3 en *Cd.* 4 fotabuningr *Cd.*

illo illt. Sva mikla þolinmędi hafdi hann vid meingerdir, at hann hefndi alldri, þott ogaufgir klerkar mællti i mot honum, ok tok hann aunga þionustu af þeim fyrir þa sok. Eingi madr sa hann hlæia ne syta ne reidan vera, avallt var hann med enum sama hug ok enu sama aaliti, ok syndi hann himnerska glædi i andliti. Alldregi hvarf Kristz nafn fra munni hans, ok alldri var annat i hiarta hans en fridr ok milldi ok miskunn. Opt var hann vanr at grata syndir ovina sinna ok bidia med tarum fyrir þeim, er aleitudu vid hann. Nockura stund atti hann hus nær kirkiu, en er honum leiddizt alþydu þyss, þa setti hann munklifi sitt tvær milur fra borginni. En sa stadr var leyniliga kominn, ath kalla mætti eydimork, þviat fialsgnipa brautt gekk ath audru megin, en aa fell audrum megin[1] hia, su er Liger heitir, en einstigi mikit var þraungt einum megin ath ganga til munklifisins. Þar let Martinus gera ser hus ur vidi, ok sva margir adrir munkar, en sumir holudu innan gnipuna[2] fialsins ok gerdu ser hus i biargit; .lxxx. lærisveina hans, þeira er lifdu eptir hans godum dæmum, voro þar med honum; eingi þeira eignadi ser audæfi, allir attu þeir allt ser saman. Aungum þeira var lofad at kaupa neitt æda selia, eingi var sysla aunnur framin, nema nockurir menn ritudu bækr, ok voro þo unger menn einir til þeirar syslu valdir, æn adrir voru aavallt aa bænum. Faliga gengu þeir utt or husum sinum, nema þeir gengu til kirkiu. Allir hofdu þeir eina fæzlu ok eigi fyrr en eptir non. Eingi bergdi þar vini, nema siukr veri[3]. Margir gerdu ser klædi ur ulfallda hari, en þeim virdizt til syndar allr blautari bunaðr. Þeir voro margir, er sæliga (voro) uppfæddir i æsku, en þa helldu sic til sidlætis ok þolinmędiz. En þeir urdu margir byskupar sidan, þviat eingin var su borg eda kirkiusokn, at eigi villdi hverr velia ser kennimenn ur munklifi Marteins.

9. Stadr var einn eigi langt fra Turons borg, sa er menn hugðu þar vera grafna pislarvotta guds, þviat þar hofdu enir fyrri byskupar kirkiur latid gera ok alltari. En Marteinn gerdi eigi trua diarfliga oreyndu, helldr spurdi hann gamla menn ok spaka at, ef þeir vissi, hverir þar veri pislarvottar guds grafnir eda hverri tid hefdi þeir pindir verit. En er hann (m)atti einskis viss verda af þessum, þa sa hann vid nokura stund at koma þar, ok lastadi hann eigi tru þa, er hann vissi eigi nema rett vęri, en hann fulltingdi eigi alþydu aahuga þessum, er hann vissi eigi, nema villa væri. Sidan for hann um dagh famennr til þess stadar, ok

1 magrin *Cd.* 2 fialsgnipuna *Cd.* 3 yrdi *tilf.* *Cd.*

stod leingi a leidinu ok bad, ad gud skylldi syna honum, hverr sa veri, er þar veri grafinn. Þa snerizt hann til vinstri handar [ok leit þar standa[1] herfiligan skugga; þa fylgdi hann þessum ath segia [nafn sitt ok atferd[2]. En sa kvezt illvirki verit hafa ok drepinn fyrir glępi sina ok lezt ecki eiga med pislarvottum guds, þeim er i eilifri dyrd voru, en hann i eilifum pislum. Allir heyrdu þeir malit, en eingin matti sea þann er mællti nema Marteinn. En hann sagdi, hvat hann saa, ok let braut fera kirkiuna ok alltarit ur þeim stad ok leysti sva lydinn fra villu.

10. Þa er Marteinn for um dag leidar sinnar, metti hann monnum þeim, er foru med lik heidins manz nokurs til graptar. En er hann sa langt til, þa nam hann stadar ok vissi eigi, hvad lid þetta var. Ok er hann sa, at þorpkalla lid var, ok þat at vindr skok duka, þa er breiddir voru yfir likit, þa hugdi hann, at þeir feri med blot, þviat þorpkallar voro opt vanir at bera skurgod um akra sina. Þa gerdi Marteinn krossmark aa mot þeim ok bad þa nidr leggia byrði sina, er þeir foru med, ok ganga eigi fram ur þeim sporum, er þeir stodu. Þa stirdnadu þeir fyst, sem at steinum yrdi; en þeir leitodu vid at hrera sik ok mattu eigi ganga fram, sneruzt i hring, unzt þeir logdu nidr likit, ok leit hverr til annars ok sazt a, ok vissu eigi, hvad þeim var ordit. En er Marteinn saa, at likmenn voro en eigi blotmenn, þa gerdi hann enn krossmark fyrir ser ok eptir þeim, ok leypdi þeim at fara med likit þangat, sem þeir villdu. Þa stoddvadi hann for þeira, er hann villdi þat, en þa leyfdi hann þeim at fara, er hann villdi þat.

11. Enn villdi Marteinn i þorpi nokuru hoggva upp tre mikit, þat sem blotad var. En blotmenn bonnudu honum at hauggva treit. Þa taldi hann tru fyrir þeim ok kvad guddom vera aa himnum en eigi i trenu, ok let hann þeim gegna at haugva treit, sem diofli var eignat[3], en trua aa þann gud, sem hann trudi ok þionadi. Þa svaradi einn þeira, sa er diarfastr var: «Ef þu hefir naukurt traust undir gudi þinum, þeim er þu gaufgar, þa munum ver siolfir hoggva treit, en þu tak vid þvi, þa er þat fellr, ok man þik þat ekki saka, ef gud þinn er med þer, sem þu segir.» Martinus kvat (sva) vera skylldu, þviat hann hafdi allt traust undir gudi. Þeim skildaga iatudu allir, þeir sem hia voru, ok virdu litils skada tresins, ef þeir mætti fella ovin blota sinna. Sidan bundu þeir Martein ok settu hann undir treet, þar er aullum þotti ein-

1 [ *mgl. Cd.* 2 [ *rettet*; þessum nafn sitt sins ok atferdar *Cd.* 3 eignar *Cd.*

synt, at þat mundi falla aa hann, ef upp veri hoggvit. Þa hioggiu(!) þeir siolfir treit sitt ok voru gladir. En munkar stodu margir ok sa til um langan veg. Þa er treid tok at falla, þa hrædduzt munkar ok tyndu aullu trausti ok aurvæntu Marteino lifs. En er treit brazst ok reid ofan at honum, þa hof hann upp hond sina ok gerdi krossmark a mot. Þa var sem vedri lysti i moti treno, ok fell þat aa annan veg af þvero fra þvi, sem blotmenn hugdu, ok var þeim vid sialfan vaða, er adr þottuz vera i auruggum stad. Þa glupnudu heidnir menn af iartegnum þessum; en munkar felldu tar fyrir fagnadi, ok lofudu allir saman nafn drottins Jesus Kristz. Aa þeim degi toku flestir allir tru, þeir sem adr voru i þvi heradi heidnir. En adr Marteinn kom þangat, voru faær eda nær aungvir þeir menn, er Kristz nafn kynne i þeim heradum. En af godum dæmum (ok) iartegnum hans hefir nu þar trua magnaz, sva at eingi stadr er nu sa þar, at eigi se i hverium kirkiur eda munklifi. Hann let gera kirkiur eda munklifi þar, sem hann braut nidr hof eda horga, hvar sem stodu.

12. Þat var aa einum bæ, þa er Marteinn var at brenna hof eitt, at elldi laust i hus þat, er aafast var hofinu. En er Marteinn fann þat, þa ste hann upp aa husit ok þekiu hussins skyndiliga ok rann aa mot loganum. Þa matti þar sea undarligan hlut, er i moti gegzt(!) vindr ok elldr. En sva gerdizt af krapti Martini, at elldrinn nadi þat eitt at brenna, er honum var lofat.

13. Enn villdi Martinus briota eitt aagett hof aa einum bæ, en fioldi manna stodu i moti honum ok raku hann aa brutt med mikilli meingerd. Þa for hann til næsta bæiar ok fastadi þar ok vakti sex degr, sat i molldu ok bad til guds, at kraptr Kristz breyti(!) hof þat, er eigi nadu menn at briota. Þa syndizt honum tveir einglar sva sem riddarar vapnad(i)r ok skialdad(i)r, ok letuzt sendir af gudi ad stodva heidit lidit ath veita Marteini fulltingh, at eingi ban(n)adi honom ath briota hofit. Þa hvarf hann aptr til beiarins ok braut hofit allt til iardar ok aull skurgod þau sem inni voru. En er heidnir menn stodu ok sa aa ok þordu eigi i gegn ath gera, þa fundu þeir, at guds kraptr hafdi skelpda þa, svo at þeir þordu eigi at gera i gegn byskupi, ok toku flestir allir tru ok lofudu gud, en neittu skurgodum, þeim er hvarki ma biarga ser ne ædrum.

14. Þat var enn aa audrum bæ, at Marteinn braut hof, þa þusti at honum fiolldi heidinna manna, ok einn þeira, sa er diarfastr var, bra sverdi ok villdi hoggva til hans. En er sa hof upp

hendrnar ok reiddi sverdit at honum, þa fell sa aa bak aptr ok vard hreddr fyrir guds krapti ok idradizt glæps sins.

15. Þessum likr hlutr gerdizt enn i audrum stad; þa er Marteinn braut skurgod nockut, þa villdi blothofdingi einn leggia saxi aa honum. En er sa lagdi fram saxinu, þa hvarf bladit ur heptinu ok fanzt alldri sidan. Þat (var) opt, þa er blotmenn ok heidnir menn bonnudu honum at briota hof sin eda skurgod sin, þa gat hann sva talat fyrir þeim ok synt þeim lios sannrar truar, at þeir brutu siolfir skurgod sin ok hof. Sva var hann mattugr at greda siuka menn, at miok svo kom sa eingi siukr madr til hans, er eigi tok þegar heilsu.

16. Mær ein var siuk i Treveris borg ok matti sik til einskiz hrera ok var odaud at eins; en frendr hennar stodu yfir henni, þa er hun var ath bana komin. Þa var ok sagt, at Marteins byskups var þangat von. En er fadir hennar fra þat, þa rann hann þegar til kirkiu, þar sem Marteinn byskup var inni, ok nokurir adrir byskupar ok margr lydr; þa fell inn gamle madr til fota Martino ok mællti vid hann: «Dottir min mun deyia, nema þu komir ok blezer hana, þviat nu er henne verra lif en daude, er ǫnd er i briosti hennar, en likame hennar daudr sva miok; en ek treystumzt, at hun ma lifna, ef þu bidr fyrir henne.» Marteinn svarar ok lezt eigi hafa krapt þann ne verdleik, at hann metti iarteinir gæta af gudi framar en adrir byskupar, þeir er þa voru þar. En fadir meyiarinnar bad þess at meirr, ok byskupar badu med honum, at Marteinn kęmi til hennar. En er hann kom þangat, þa stod flokkr manna mikill fyrir dyrum ok beid, hvat guds þrell mundi gera. En hann geck til bænar, sem hann var vanr i slika þurpt ok fell til iardar. Sidan vigde hann vidsmior ok helltti i munn meyiunni. En hun tok þegar mal sitt ok styrktizt ok reis upp aa fetr sina i augliti allz lyds.

17. A þeire tid ęrdizt þrell rikismanz, þess er Tetradius het. En er Marteinn var bedinn at leggia hendr yfir hann, þa bad hann þann leida til sin. En hann matti aa ǫnga lund þadan koma ur husi þvi, er hann var inni, þviat hann beit til þeira, er þangat komu. Þa fell Tetradius til fota Martino ok bad hann siolfan koma til hus þess, er þrellinn var inni. Martinus lezt eigi fara mundu til hus heidins manz, þviat Tetradius var enn heidinn þa. En hann het at trua a Krist, ef Martinus kemi at reka ohreinan anda fra þrælnum. Þa for Marteinn at leggia hendr yfir hofut enum oda ok rak fra honum ohreinan anda. En Tetradius

trudi sa hinn (helga) Krist ok var þegar primsigndr, en litlu sidar skirdr, ok gofgadi savallt Martein med astarhug.

18. Þa er Marteinn gek um dag til hus eins bonda, nam hann stadar, er hann kom at dyrum, ok kalladiz sea hrædiligan dioful i gardzhlidi, ok mællti, at hann skylldi i brutt fara. Þa tok ohreinn andi ath ęda einn mann af hium bonda. En sa tok þegar ath grenia ok gnista tønnum ok bita til manna. Þa hrædduzt þeir, er hia voru ok i nand, ok flydu. En Marteinn for sa mot honum ok bad hann standa kyrran. En sa nam stadar ok greniadi ok gapte munne. Marteinn retti fingr sinn i munn honum ok mællti: «Bitt þu nu, ef þu matt nokkut.» En enn odi gapti munninum þess at meirr ok þordi eigi ath bita hondina helldr en þar væri gloanda iarn. En er ohreinn andi var nefndr sa brutt at fara fra enum oda, ok var honum eigi lofat ur munnenum ath fara, þa for hann brutt med þarfagang.

18b. En er heilagr Martinus gerdi slikar iarteinir þa(r) i Treverisborg, þa kom hersaga i borgina ok hrezla mikil yfir lydinn. Þa serdi Martinus odan mann til þess at segia, hveriu gegndi hersaga þessi. En hann sagdi, at .xvi. voru þeir dioflar, þeir er upp komu hersogunni til þess eins, at Marteinn skylldi flyia or borginni fyrir þa sok. En þat var lygi ein. En þa er ohreinn ande sagdi þetta i midri kirkiu fyrir alþydu manna, þa leystist borgarlydrinn fra hrædzlu hersogu þessarrar.

19. En er Marteinn for um dagh til borgar þeirar er Paris heitir, þa mætti hann likþram manni vid borgarhlid, ok hvarf til hans ok blezadi honum, ok vard sa þa þegar heill, ok kom hann annan dag til kirkiu ok gerdi gudi þackir fyrir heilsu sina. Þat verdr ok at segia, at marger menn feingu þar heilsu, er snurtu vid trefr klæda hins helga Marteins.

20. Arborius het einn gaufugr madr ok vel truadr, en dottir hans hafdi tekit ridusott. Arborius hafdi litlu adr tekit vit riti þvi, er Marteinn hafdi sent honum. En er þat rit var lagit sa briost meyiunni, þa vard hun heil þegar sottar. Æn Arborius virdi sva mikils iartægn þessa, at hann het gudi at gefa meyna til munklifis i nunnusetr, at hun hellde eilifum meydome, ok for hann þegar ok færdi hana Martino, ok villdi hann eigi, ath hun tæki vigslu af audrum byskupi en honum, er henni hafdi heilsu gefit.

21. Paulinus het madr, er sidan vard mikill trumadr, en þa sa(t) hann i augnaverk, ok var kominn laustr mikill sa auga hans

annat. Þa dro Marteinn fiodr yfir augat ok nam allan verk or, ok vard hann þegar heill.

21b. Þat vard enn um dag, er Marteinn skylldi ganga ur nockuru lopti, þa brast steigi undir honum, ok fell hann nidr, þar sem oslett var undir, ok skeindizt hann i morgum stodum. Sidan var hann borinn i hus sitt ok la i sarum miok svo hettr. En sa næstu nott sa hann eingil guds koma til sin, ok þo hann saar hans ok smurdi heilsamligum smyrslum. En er annarr dagr kom, þa vard (hann) heill, sva sem honum hefdi ecki verit at meini enn fyrra dagh.

22. Maximus het konungr rikr ok sagætr, ok hafdi opt haft gagn i orrostum. Vid hann var allr lydr hreddr, ok þordu aungvir menn a mot honum at mæla. En Marteinn var einn sva, at hellt postoligri skynsemi; ef hann kunni þaurf ath bidia konunginn nockurra hluta, þa var þat helldr bodord en bæn, er hann beidde. Konungr bad hann opt koma til bordz med ser. En Marteinn sa miok vid þvi ok lezt eigi vilia eta ne dreka med þeim, er annan konung hafdi til bana radit en annan or landi rekit. En Maximus svaradi þvi, at hann kvezt eigi konungdom tekit hafa af fysi sinni helldr at radi lidsmanna, ok kvat ser skyllt vera at veria oddi ok eggiu land sitt, ok lezt hann aungan ovin sinn drepit hafa nema i orrosto, ok kvad hann guds afl tæia til þess, at hann mætti gagn hafa, ok lez eigi slikum sigri nad mundu hafa, nema gud efldi hann. Marteini þotti konungrinn enn sannliga męla ok het at koma til bordz hans, sem konungrinn hafdi bedit, ok vard hann feginn, er hann gat þat af Marteini. Þa var mörgum monnum bodit sem at hatidardegi, ok komu þar enir gaufgustu menn, (Eu)odius enn rettlatasi iarll oc .ii. gaufgir hofdingiar brodir konungs ok fodurbrodir, sa millum þeira sat prestr Martini, en hann sat siolfr sa stoli fyrir konungi. En at midiu matmali var konungi færdr drykiarbolli. En hann męllti, at Marteini skylldi fyrr selia kerit, ok vætti þess, at hann mundi fyrstr taka vid bollanum eptir byskup(s) hond. En er Marteinn hafdi drukit, þa selldi hann presti sinum fyrst bollann, ok virdi sva sem eigi væri konungr makligri en gædingar[1] hans at taka fyrr vid dryckiarkeri byskups en prestrinn. Aullum þotti þetta undarligt, þeim er i hollinni voru, ok vard um þat datt, er Marteinn hafdi sva gert i konungs holl, at eingi byskup þordi annarr þat at gera heima i husum frenda sinna eda vina. Þa spasogu sagdi Marteinn konung(i), ef hann

1 gydingar *Cd.*

feri til Langbarda landz, sem hann hafdi etlad, at beriazt vid Valentianum konung, at hann mundi gagn hafa i fystu orrostu, en falla i annarri litlu sidar. En þat for sem hann sagdi, at i inni fystu orrostu kom Valentianus a flotta, en er þess var vetr a milli, samnadi hann þa lidi miklu ok kom a ovart ok felldi Maximum konung.

23. Klarus het prest(r) einn ok munkr ok lærisveinn Martini, algiorr at ser i ollum kröptum ok truverkum. En hann atti hus skamt fra munklifi Marteins, ok voru margir brædr med honum. Þangat kom einn ungr madr, hann het Anatholius, ok sagdizt munkr vera, ok var tekit vid honum, ok syndizt ath eins goda atferd hafa. En er hann hafdi (þar) nokkura stund verit, þa sagdi hann eingla guds koma til sin. Þa er aungvir villdu þvi trua, þa batt hann þat iarteinum nokkurum, sva at sumir trudu. Sva framarliga sagdi hann um sidir, at einglar guds kvemi vel hvern dagh til hans, ok lezt hann vera einn af spamonnum. Klarus prestr gerdi þvi alldregi trua. Anatholius ęgdi honum reidi guds ok viti fyrir þat, er hann villdi eigi trua sva heilags manz ordum, ok sagdi sva: «Þessa nott mun drottinn senda mer hvit kledi af himni, ok munu þer sia mik skryddan þvi klædi, ok skal þat ydr vera mark heilagleiks mins.» Þa var ollum forvitni mikil a at reyna þat er hann het. En at midri nott var sed lioss til hus þess, er inn ungi madr var inni, var ok heyrdr þangat romr mikill ok gnyr, sva sem menn rynni ok væri malgir. En af þeim gny þotti skialfa allt munklifit. En er hliott var ordit, þa geck Anatholius ur klefa sinum ok kalladi til sin einn af munkum ok syndi honum kyrtil þann, er hann var i, ok kalladi sa til sin adra. Þa runnu þangat munkar ok helldu ath liosi, ok var þat blautt ok hvitt, ok mattu þeir eigi kenna, hvers kyns kledi þat var, þreifudu um, ok þotti aullum klædi vera. Þa bad Klarus brædr alla vera a bænum, at drottinn syndi þeim gerr, hveriu þetta gegndi. Þa voru allir munkar a benum þat sem eptir var netrinnar. En er dagr kom, þa toku brædr i hond honum ok villdu leida hann til Marteins, þviat þeir vissu vist, at eigi mundi diofuls velar felaz fyrir honum. Þa tok Anatholius i moti at standa ok kvad ser bannad vera at syna sik Marteini. En þeir neyddu hann til at fara þangat; þa hvarf klædit af honum, þviat diofull þordi eigi ath syna vælar sinar Marteini.

24. Þess skal ok geta, med hversu mikilli slegd fiandinn þordi at freista siolfan Martinum, þviat hann bra liosu liki a sik

um dag, at hann mætti leynazt, ok var hann purpura skryddr ok hafdi korono aa hofdi gulli buna ok setta gimsteinum ok gullbuna skua aa fotum, ok var hann skryddr sem konungr, ok hann var hyrligr i aaliti, sva ath hann matti likari þikkia eingli en diöfli, ok kom inn i hus þat, er Marteinn var aa ben. En er Martinus sa hann, þa let hann nidr falla bænina, ok þogdu þeir badir um stund. Þa mellti diofull fyrri: »Kenn med þu, Marteinn, þann er þu ser, Kristr em ek af himne kominn ath vitrazt þer.« Martinus þagdi ok villdi aungu svara. Þa endrnyiadi diofull dirfd sina ok mællti i annat sinn: »Hvat efar þu, Marteinn, ath trua þvi sem þu ser? Kristr em ek.« Þa skilde Marteinn af helgum anda, at diofull syndizt honum, en eigi gud, ok svarar: »Drottinn Jesus Kristr het eigi at koma i konungs skrudi ne purpura skryddr, ok man ek eigi trua, ath Kristr se, nema ek sæa hann i þeim likama, er hann var pindr, ok hafi hann krossmark ser.« Þa hvarf ovinrinn aa brutt sem reykr; en sva illr daunn var eptir i husinu, at eingi matti efi aa þvi vera, ath diofull hafdi þar komit. En þessa sogu sagdi Martinus siolfr sidan lærisveinum sinum.

25. Enn for Martinus um dag um byskups syslu sina a nockurum vetrardegi, ok gisti hann kennimenn nokkura, er einni kirkiu þionudu. En þeir hǫfdu kyndan elld adr i svefnstofu hans ok borit mikinn halm i rekkiu hans. En er Marteinn for at sofa, þa styggdizt hann vid blautleik rekkiunnar, sva sem honum væri þat mikil meingerd, þviat hann var vanr at liggia aa berri iordu, sva at harklædi eitt var undir honum. Þa kastadi hann undan ser aullum halme utar til ofns, en hann breiddi undir sik harklædit aa bera iord, sem hann var vanr, þviat hann var farmodr. En er halminum var kastad aa ofnenn, þar sem glædr voru undir, þa fell halmrinn sumr nidr i elldinn i gegnum golfþilis raufar, ok tok þa at loga allt saman. Marteinn hræddizt elldinn, ok rann hann fyrr til dyra, en hann minntizt bænar sinnar, ok villdi lata loku fra hurdu, ok matti eigi. Þa lagdi logann at honum, sva at klædin brunnu nokut, þau sem hann var i, ok var honum heitt. Þa mintizt hann, at betra var at treystazt gudi en at flyia, ok tok hann skiolld truar ok bænar ok gek i logann midian ok bad fyrir ser, ok lagdi þegar logann fra honum, sva at honum vard ecki mein ath. En er þeir sa, er uti voru, at husit logadi, þa brutu þeir upp dyrrin ok leiddu ut Marteinum heilan ur eldinum, þar sem þeir hugdu hann andadan mundu vera. En Marteinn sagdi sva siolfr, at þa hefdi fiandi honum næst lagit, at hann mundi

tæla hann, er hann gadi eigi fyrir hræslu sakir at beriazt i gegn haska med bena trausti. En hann kvad logann leggia til sin, med(an) hann braust vid ath komazt brutt ur husinu, en þegar lagdi logann fra honum, er hann gerdi krossmark yfir ser ok hvarf til bæna traustz. Þessa hluti, sem nu eru sagdir, ritadi Sulpicius lęrisveinn Marteins um lif hans ok iartegnir, en Gallus lęrisveinn hans ritadi þat, sem eptir ferr.

26. Marteinn var genginn til kirkiu um dag, ok kom ath honum klædlaus madr nockurr ok bad hann gefa ser klædi. Þa kalladi hann þangat diakn sinn ok bad hann skyndiliga sękia klędi hinum valada manni. Þa for Martinus ok sat i kirkiuskoti, þar sem hann var vanr at sitia einn saman, þa er adrir kennimenn foru til syslu sinnar, þar til at mal var at fara til hamessu. Martinus var alldri vanr at sitia i skotinu aa stoli, knack atti hann ser, þann er hann sat aa, ok voru þriu stig unndir knackinum, sva sem mansmenn eru vanir ath sitia aa. En eingi madr sa hann sitia i kirkiu. En er diaknit(!) dvaldi at selia klædit enum valada manni, þa for hann þangat, er Martinus sat i skotinu, ok lezt kalinn vera ok kvad diakninn ei hafa selt ser klædit. Þa for Marteinn ur kyrtli sinum, sva at hinn valadi sa þat eigi, ok selldi honum ok bad hann fara leidar sinnar. Þa kom diakninn litlu sidarr ok sagdi, at menn voru komnir til kirkiu ok bidu messu. Martinus svarar, at hann matti eigi messu syngia, fyrr en enn voladi hefdi klædit. Diakninn vissi eigi, at Martinus væri kyrtilslauss, þviat hann var i kapu sidri, ok spurdi hvar hinn valadi væri, er hann sa hann eigi þar. «Sæli mer kledit, sagdi Martinus, ok man til vera hinn valadi at þiggia.« Þa reiddizt diakninn ok tok or fata aurk vandan kyrtil slitinn ok stuttann .v. penninga verdan ok kastadi fyrir fetr Martino ok mællti: »Her er nu kledit, en hvar er hinn valadi?« Þa bad Marteinn diakninn fara til kirkiu, en hann for sidan i kyrtilinn leyniliga, sva ath eingi vissi. Sidan for hann at syngia messu i þvi klædi ok færa forn gudi. A þeim degi sa prestar nockurir ok munkar ok nunnur nockurar himnerskan eld yfir hofdi Martini, þa er hann saung messuna, ok syndizt sva (sem) hann aa hofdi honum risi i gegn eldinum ok hefizt upp i loft allt saman.

27. Ewancius het einn vel truadr madr, ok var þo miok bundinn i veralldar fiolskylldum, hann tok sott mikla ok sendi Marteini ord, er hann þotti miok at bana kominn. Marteinn dvaldi eigi at fara. En fyrr en hann kemi midleidis, þa kendi inn siuki madr

krapt hans, ok tok þegar heilsu ok for siolfr a mot honum. En annan dagh, er hann villdi braut fara, þa dvaldi Evencius hann ok bad hann eigi fara, þviat hôggormr hafdi lostid einn af hium hans. Þann svein fann Evencius miok sva daudan ok bar hann heim aa auxlum ser ok lagdi nidr fyrir fetr Martini. Þa hafdi eitr ormsins farid um alla limu sveinsins, ok var hann allr blasinn sem belgr. Marteinn for haundum um hann ok tok fingri sinum fyrir sarit, er ormrinn hafdi hauggvit. Þa tok eitrid ath renna aullum megin til handar Martini. En er hann letti fingrinum fra sarinu, þa sprak eitrid ur undinni med blodi. Sveinninn reis upp heill, en þeir lofudu gud, er þetta saa.

28. A nockurri tid for Martinus um byskupssyslu sina, ok fylgdu honum lærisveinar hans. En er þeir attu dvol nockura, þa for hann aa veginn fyrir aa leidinni, ok er leiti bar aa milli þeira, þa komu aa moth honum menn, þeir er baru varning sinn aa morgum eykium. En er kykvendin sa Martein i svortum kledum, þa felðuz þau ok hlupu af gautunni ok vôfduzt i reifunum, ok gerdizt farartalmi þeim, er skynda villdu. Þa reidduzt þeir ok hlupu af baki hestum sinum ok baurdu Martinum leingi med svipum ok staungum. En hann hafdi þolinmædi vid meingerdir þeira ok brást aungan vegh vid, er þeir baurdu hann. En þeir fylltuz þess ath meirr grimleiks i mot honum, sem þeim virdizt, at honum þotti einkis um vert, er þeir bordu hann, helldr en hann kendi eigi. Þa komu lærisveinar hans eptir, er dvalizt hofdu, ok fundu hann miok sva ôrendan ok serdan allan likama hans, ok hofdu þeir hann aa asna sinum ok skundudu þadan aa brutt, er sea osomi hafdi ger verit. En riddarar hurfu aptr til hesta sinna, er þeir voru saddir aa reidi, ok gerdu faur sina ok villdu skynda. En þa voru hestar þeira stirdir, sem at steinum væri ordnir, ok mattu hvergi hrerazt ur sporum. Þeir eptu aa þa ok baurdu, þar til er þeir hofdu madar allar svipur sinar; sidan runnu þeir i skog ok hiuggu ser vondu ok steingr. En er þeim kom þat ækki at halldi, þa vissu þeir eigi, hvat ath skylldi hafa, er faraskiotar stodu sem liknorski. Þa skildu þeir, at guds kraptr hepti for þeira, ok spurdu þa menn, er þeir hittu, hvern þeir hofdu bardan litlu adr. En þeir urdu þess visir, at þeir hofdu Martein byskup bardan, ok þurptu þa eigi at geta til, hvi for þeira dvaldizt. Þa runnu þeir allir skyndiliga eptir honum ok iosu molldu i hofud ser ok andlit ok fellu til iardar fyrir kniam Martino ok badu ser liknar ok þess, at hann leyfdi þeim at fara, ok tauldu ser i þvi

pisl, er þeir vissu þenna glęp ser a hendr, ok taulduzt þess verdir, at iord rifnadi fyrir þeim kvikum, eda þeir stirdnudu sem fararskiotar þeira siolfir, ok badu med tarum, at hann fyrirgefi þeim synd þessa. En Marteinn vissi farartalma þeira ok sagdi, adr þeir kemi, at þeir mundi koma. En hann var eigi ofusari at veita þat, er þeir badu, en þeir at þiggia, ok blezadi hann þa ok bad þa fara med allum þeim farargreida (ok) skiotum sinum, hvert er þeir villdu.

29. Enn atti Martinus for um dag til kastala þess er Karnatinum heitir. En bær fiolmennr var a gotu hans; þadan kom mikill flokkr (heidinna) manna a mot þeim, þvi at einghi madr kunni Kristz nafn a þeim bæ. En þo foru þeir ut a vidan voll, er þeir spurdu þangatkvomu Martini. En hann skildi, hvat honum var fallit at gera, ok toc hann at telia fyrir þeim tru ok guds ord, at þeir kynni skapara sinn. Ok gek þa fram kona nockur ok bar i fadmi ser lik sonar sins nyandadzt ok mællti (vid) Martinum: »Vitum ver, at þu ert vinr guds, af þvi giallt mer son minn, er nu er andadr.« Þa hurfu at fleiri med henni ok badu þess, er hon bad. Marteinn sa, at maurgum mondi su iartegn stoda til andar heilsu, ef gert væri, ok tok i hendr ser likit ok fell til bænar fyrir augliti alþydu. En er hann hafdi bæninni lokit, þa reiss sveinninn upp, ok selldi Marteinus hann lifanda modurinni. En allr mannfiolldi sa tok tru, sa er þar var, ok fellu þeir til fota honum Martino ok badu hann krisna þa. En hann primsigndi þa þegar a þeim velli, er þeir stodu, ok skirdi þa litlu sidar.

30. A þeiri tid er Marteinn hafdi litlu adr til byskups verit kosinn, þa atti hann skyllda faur til konungs fundar, þess er Valentinianus het. En er hann vissi, at Marteinn mundi þess bidia, er hann villdi eigi veita, þa bad hann vardveita dyrr, at Marteinn metti eigi inn gauga. Konungr var dramblatr, ok spillti þat mest fyrir honum eina, er kona hans var bundin i Arrius villu, ok sneri hun aullu hugskoti hans fra gaufgan vid Martein. En er Marteinn hafdi komit um sinn eda tys(v)ar til konungs hallar ok nadi eigi inn at ganga, þa tok hann ath bidia um nætr ok daga til guds med tarum ok med vôkum ok faustum, at hann matti framkoma þvi, er hann villdi. Þa syndizt honum eingill guds ok bad hann fara ottalaust til konungs, en hann kvezt mundu upp luka dyrum ok mykia dramb hans konungsins. Þa styrcktizt hann af þessu vidmæli eingilsins ok for auruggr til hallar ok gek inn, sva at konungr bannadi. En er konungr sa Martein kominn,

þa ygldizt hann aa dyrverdinum(!), er hann hafdu(!) inn latit ganga, ok gerdi hann eigi upp risa mot honum ne luta. Þa kom elldr upp undir stoli konungsins, ok brunnu klædi hans nedan, ok vard honum heitt. Þa reis hann upp af stolinum ok laut Marteini ok gofgadi þann, er hann ætladi at fyrirlita, ok veitti honum þat, er hann ætladi, at hann mundi bidia vilia, ok beid eigi þess, at hann veri bedinn. Konungr baud Marteino opt til bordz med ser ok villdi gefa honum margar giafir, en Marteinn villdi aungar þiggia.

31. Claudiomakus het bær skamt fra Turonsborg; en þangat var kirkiusokn fiolmenn, þviat þar eru helgir domar margir ok nunnusetr. En Marteinn hafdi dvalizt i husi einu, þvi er nalægt var kirkiunni. En er hann var brutt farinn, þa toku nunnur halm þann allan, er under honum hafdi verit i husinu, ok skiptu med ser. En er fair dagar lidu þadan, þa tok ein þeira þann hlut halmsins, er hon hafdi feingit, ok batt vid haals odum manni, þeim er villu andi kvaldi, ok vard sa þegar heill vtan alla dvol.

32. Ða er Marteinn for ur Treverisborg um dagh, kom i mot honum kyr ein diofulod, er geingit hafdi fra nautum ok gert monnum geig. En hirdar runnu eptir ok kaulludu, at Marteinn skylldi sea vid kunni. En er hann sa rasandi ku fara at ser, þa hof hann upp hond sina aa mot kunni ok bad hana standa. En er hun nam stadar, þa sa Marteinn dioful sitia aa baki kunni, ok mællti, at hann skyldi i brutt fara ok kvelia eigi smala manna saklausan. Inn illgiarni andi vard ath hlyda bodordi hans ok flydi. Kyrin vitkadizt ok skildi heilsu sina ok fell til fota Marteins. En hann blezadi ok bad hana aptr hverfva til hiardar sinnar hegia sem saud.

33. Enn metti Marteinn um dagh veidimanna lidi, þa er hann for um byskupssyslu sina. Hundar elltu hera aa vidum velli, þar sem honum (var) ecki fy(l)sni at fordazt, ok var þa ath komit, ath hann mundi tekinn verda. Marteinn sa aumu aa dyrinu ok bad, ath hundarnir næmi stad ok letti ath ellta dyrit. Þa namu þeir stadar at hinu fysta ordi hans, sva sem þeir veri grafuir nidr, en herinn setti undan ok fordadizt sva fiandr sina.

34. Fra þvi skal segia, hvilik voru hversdaglig ordh Marteins, þviat þau voru full andligrar skynsemi. Saud nykliptan[1] sa hann um dagh ok mællti: »Sia saudr fyllti gudspialls ord, hann hafdi .ii. kyrtla ok gaf þann annan, er hann hafdi adr. Sva skulu

1 nyklyptan *Cd.*

þer ok gera.« Enn sa hann svinahirdi halfnauctan i skyrtu skinsz ok męllti: «Þessum skinnkyrtilsmanni var Adam glikr, þa er hann var brutt rekinn ur paradisu; en vær skulum nidr leggia enn forna Adam en skryda oss enum nyia Adam, þat er Jesu Kristo. Enn kom Marteinn a voll, þar sem naut hofdu bitid, en i sumum stodum hofdu svin rotat; sumstadar var vollrinn fagr ok vaxinn allskyns grasi ok blomum, þar er ecki var bitinn, ok mællti hann: »Sea stadr vallar, er smali hafi yfir farit ok bitit af it fegrsta, merker hiuskapar lif, þat er tynt hefir meydoms tign, þott þat hafi nockurn aavoxt godra hluta, sva sem her er nockut gras aa vellinum. En sia hlutr, sem oskaddr er ok fagr, merker meydoms dyrd, þa er skinn fyrir gudi i aullum kraptablomum. Sea er makligh fegrd ok gudi þægiligh[1], þviat ecki ma annat iafnazt vid meydom. Sva sem þeir villazt miok, er hiuskap iafna vid hordom, sva eru þeir ok heimskir, er hiuskap iafna vid meydom. En su er grein aa þvi, ath meydomr mun koma til dyrdar, en hiuskapr til varkunnar, en hordomr til eilifra pisla, nema idran ok yfirbot hreinsi hann.

35. Riddari nockurr kom til Marteins ok gerdizt munkr ok gerdi ser hus i leynilegum stad sva sem einsetumadr. En slægr fiandi freistadi hans i hugrenningu, sva ath hann beiddi Martinum, at kona, su er hann hafdi atta, færi þangat ok væri med honum, en hun var þa nunna. Marteinn varnadi þess ok kvad omakliga samvistu þeira, er hann var munkr, en hun nunna. En riddarinn taldi ecki hetligt i þvi, þott Marteinn lofadi þetta, ok kvad þau eigi aftr mundu hverfa til ennar fyrri munudar, þar sem þau voru bædi vigd til guds þionustu, ok kvad hann Krist hafa lofat aa sinum tidum samvistu karlla ok kvenna. »Segdu mer þat þa, kvad Marteinn, hefir þu nockut sinn verit i orrostu?« En hinn kvezt þar opt hafa verit. Marteinn svarar: »Segdu þa, ef þu satt nockura konu standa i fylkingu ok beriazt i orrostu?« Þa skammadizt riddarinn ok þakkadi gudi, er honum var eigi lofat at lifa eptir villu sinni, ok var hann þeygi akafliga aavitadr, helldr leidrettr makligum dæmum, þeim er riddara voru kunnigh.

35 b. Ein mær var su, er hafdi sik sva brutt fra augliti karla, at hun let eyngan karlmann koma til sin. En Marteinn gek þar fyrir dyrr um dagh ok villdi finna hana, þviat hann hafdi fregit krapt hennar ok tru. En þeir er honum fylgdu ætludu vist, at mærin myndi þvi fagna ok ganga þegar aa mot honum, at þat

1 mᵉkligh *Cd.*

tred af þveru fra Martino, sva sem hvǒssum vindi lysti i moti þvi, ok urdu þar undir nǒckurir menn, þeir er adr þottuz i ǒruggum stad komnir. Þa toku þorpkarlar at undraz takn þetta, en munkar felldu tar fyrir fagnadi, ok lofudu hvorertveggiu Jesum Crist, ok var sa eingi i þvi lidi edr nalægium þorpum, at eigi tæki tru ok hafnadi blotum. En adr Martinus kæmi þangat, þa voru ǒngir edr faer þeir menn, er kynni nafn drottins. En af hans krǒptum ok bænum efldiz trua, sva at hvert nes ok herad var kirkna fullt edr munklifa, þviat þar allz stadar, er hann braut hof, þa let hann kirkiur gera edr munklifi reisa.

12. Slikan krapt syndi Martinus enn a annarri tid. Þa er hann lagdi elld i hof a nǒckurum bæ, þa laust elldi i hus þat, er næst var hofino[1]. En er Martinus sa þat, þa ste hann upp a husit skyndiliga ok rann a mot elldinum. Þa matti þar lita sialldsena orrostu, er þeir elldr ok vindr genguz i mot, ok gerdiz sva af krapti Martini, at elldr vann þat eitt, er honum var bodit at vinna.

13. Enn villdi Martinus briota eitt blotaudgazta hof a odrum bæ, en þa reis i gegn honum mikill fiǒldi heidinna manna ok raku hann a burt med mikilli meingerd ok bardǒgum. Þa for hann þadan til nalægs stadar ok skryddiz harklædi ok fastadi .vi. dægr ok bad, at guds kraptr bryti hof þetta, er hann matti eigi briota fyrir ofridi manna. Þa syndiz honum tveir einglar sva sem riddarar vopnadir ok skialldadir, ok sogduz sendir af gudi at veita lid Martino ok stǒdva heidinn lyd, at eigi risi i moti honum, medan hann bryti hofit. Þa hvarf Martinus aptr til hofsins. Þa urdu þorpkarlar enn varer vid ok ætludu at gera for hans sem fyrr. En þa fellu sumir, en sumir stirdnudu sem tre ok mattu eigi hręraz. Þa braut Martinus hofit allt til iardar ok skurgod ok stalla at augsiandum heidnum monnum, þeim er hia voru. Þa skildu þorpkarlar sik vera stodvada af guds krapti, at eigi berdiz þeir i gegn byskupi, ok toku miǒg sva allir tru, þeir er vid þenna atburd voru staddir, ok neittu skurdgodum, þeim er hvorki megu biarga ser ne odrum.

14. Þat var enn, þa er Martinus braut hof a einhverium bæ, at heidnir menn risu i gegn honum; einn þeira, sa er diarfaztr var, bra sverdi ok villdi þegar hǒggva Martinum. En er hann bra sverdinu at Martino, þa fell hann a bak aptr ok vard ræddr fyrir guds krapti ok bad ser liknar.

15. Enn braut Martinus skurdgod i einhverium stad, ok villdi

1 husino *Cd.*

heidinn madr leggia skalm a honum. En er hann lagdi framm, þa rak hann a honum heftid, en skalmin fanz alldri sidan. Opt gat hann ok sva talit fyrir heidnum monnum, at þeir brutu sialfir skurdgod sin, þau er þeir bönnudu honum adr at briota. Sva var hann ok mattugr at græda siuka, at eingi kom sva siukr til hans, at eigi tæki heilsu, þegar er hann blezadi.

16. I borg þeiri er Treveris heitir var mær siuk, er sik hafdi til einskis rærda leingi ok var miög daud at öllum likam, en frændr hennar stodu þar hryggir yfir ok bidu andlaz hennar. Þa er sagt, at Martinus var kominn þangat til borgar. En er þat vissi fadir meyiarennar, þa rann hann þegar til kirkiu ok fell til fota Martino ok mællti: «Dottir min deyr vesaligum dauda, ok er þat dauda verra, ath andi er i briosti henne, en likamrinn er miog sva daudr; en eg bid þik, at þu komir til hennar ok blezir hana, ok væntir ek, at hon muni af þvi heilsu taka.» Martinus svaradi ok qvad enn gamla mann rangvirda, ok taldiz hann þess overdr at geta iarteinir at gudi. En fadir meyiarinnar bad þess at meir, at Martinus vitiadi hennar, ok sva badu med honum þeir, er þar stodu hia. Þa for Martinus til hennar; en margir lydir stodu fyrir dyrum ok bidu þess, er guds þræll hugdi at gera. En hann fell a kne til bænar, sem hann var vanr i slika þurft. Sidan vigdi hann vidsmiör ok hellti i munn meyiunni, ok tok hon þegar mal sitt. Þa tok allr likamr hennar at styrkiaz, er hann for hondum um hana, unz hon reis upp heil ok stod a fætr sina.

17. A þeiri tid ærdiz þræll höfþingia þess, er Tetradius het En er Martinus var bedinn at bleza hann, þa bad hann leida til sin enn oda. En oreinn andi let eigi a brott enn oda, helldr beit hann til þeira, er hann villdu taka. Þa fell Tetradius til fota Martino ok bad hann fara til ens oda. En Martinus lez eigi fara mundu til hus heidins mannz. Þa het Tetradius at taka tru ok skirn, ef þrællinn yrdi heill. Þa for Martinus ok rak ohreinan anda fra þrælinum, en Tetradius lagdi mikla ast a kenningar Martini þadan i fra.

18. Þa er Martinus geck inn i hus nöckurs mannz um dag, þa nam hann stadar a þreskelldi ok qvaz sia hrædiligan diöful i skidgardi, ok baud honum brott at fara. Þa ærdi oreinn andi einn þion, er a götu hans vard, ok tok sa þa at gnista tönnum ok bita til þeira, er fyrir honum urdu; ok (Martinus) bad hann stadar nema, en inn æri for at honum med gapanda munninn. Þa retti Martinus fingr sinn i munn honum ok mællti: «Bittu fingr þessa.

ef þu matt þer nackvat.» En hann gapti munninum þess at meir, sem hann tæki vid heitu iarni, en hann þordi eigi at bita fingr hans. En er Martinus neyddi oreinan anda til a brott at fara fra enum oda, þa for hann i brott med valldgangi hans, þviat honum var eigi lofat at fara ut um munninn, þar sem þeir enir helgu fingr voru fyrir.

18b (30)[1]. Þa er hinn helgi Martinus hafdi skamma stund byskup verit, þa atti hann naudsynlig eyrindi vid Valentinianum keisara. Modir þessa Valentiniani var Justina drottning, ok voru þau bædi vôfd i Arrius villu ok veittu storar skapraunir enum helga Ambrosio byskupi; sem segir i sôgu hans. Valentinianus vissi vonir, at Martinus villdi finna hann ok beida hann þeira hluta, er hann villdi eigi veita; bydr nu um sinum monnum at gæta sva konungs hallar, at Martinus nædi eigi at finna hann, þviat modir hans ok frilla eggiudu hann þess fyrir sakir Arrius villu at veita einga lydni Martino byskupi. Iafnan leitadi Martinus til at finna hann, ok atti hann eigi kosti. Leitar Martinus ens kunnazta fulltings, heitr a gud til styrktar skryddr harklædi, fastadi vid vatn ok braud ok var a bænum nætr ok daga ok bad gud fulltings. En a enum .vii. degi fôstunnar vitradiz honum guds eingill ok bad hann upp risa ok fara til hallarennar, sagdi þa opnar mundu vera dyrnar, þott konungr leti læsa, lez hann ok mundu bleyta skapshafnir konungsins, þott hann ætladiz stirdr at vera. Ok þa er Martinus var styrkr af ordum eingilsins ok studdr af gudligu fulltingi, þa ferr hann til hallarinnar, ok er hann kemr þar, þa eru opnar dyrnar, geingr hann sidan i hôllina inn, ok stendr eingi i mot. Nu ser konungr, at Martinus er inn kominn, ok verdr hann styggr vid ok ygliz a sina menn ok spyrr, hvi þeir leti hann na inn at ganga. Ok er Martinus nalgadiz, vill konungrinn eigi heilsa honum ok eigi risa upp i moti honum. Þa verda þar undarligir atburdir, elldr kom upp i hasætinu undir konunginum, sva at logudu klædi hans ôll, þau er at stolinum hôfdu horft, ok vard hann naudigr at standa upp fyrir Martino, er hann villdi eigi lostigr, ok fell sidan til fota honum ok baud þa med litillæti at veita Martino alla þa hluti, er hann villde þegit hafa, ok a sogort ofan villdi hann hafa gefit honum margar giafir virduligar. Martinus villdi eigi þiggia giafir hans, en for vid þat a braut, er hann hafdi allt þegit af honum þat er hann villdi.

1 *Det, her og senere, i Parenthes indsatte Tal henviser til Capitelinddelingen i Recension I og II af Sagaen.*

19. Þat er sagt, at Martinus for enn til borgar þeirar er Parisius heitir, þar mætti hann likþram manni ok kysti hann ok blezadi honum, ok vard sa þegar heill, ok kom sa til kirkiu annan dag eptir ok gerdi þackir gudi fyrir heilsu sina. Þat er ok sagt fra Martino, at siukir menn feingu heilsu sina, er þeir snurtu trefr af klædum hans.

20. Arborius het einn rikr greifi trur madr ok vitr, en dottir hans hafdi ridusott. En rit Martini hafdi þangat komit litlu adr. En er sottin kom at meyiunni, þa lagdi Arborius ritid yfir briost henne, ok hvarf sottin fra henne ǫll. En Arborio þotti sva mikils um vert um iartein þessa, at hann het gudi meydomi hennar, ok for þegar sialfr at færa hana Martino, at hann vigdi hana þegar til nunnu.

21. Paulinus het madr, sa er auga sins annars hafdi mist i sott. Þa dro Martinus fiǫdr yfir auga hans, ok tok af slimit, er adr var yfir dregit, ok tok hann syn sina ok vard trumadr mikill.

21b. Sa atburdr er enn sagdr, er Martinus skylldi ganga um dag i lopt eitt hatt, þa brotnadi steginn, er Martinus kom i ofanverdan, ok fell hann ofan ok meiddiz miǫg; voru bein hans miog lest, ok stor sar voru vida a likam hans. Þa qvomu at lærisveinar hans, ok urdu ryggir vid, er þeir sa hann sva matt-litinn ordinn. Sidan toku þeir hann upp ok baru i .i. litinn kofa, ok satu þar yfir honum, ok var hann þungt halldinn, ok la hann þar, þat sem eptir var dagsins. En ena næstu nott eptir vitradiz honum guds eingill ok strauk um ǫll sar hans ok bein ok bad hann heilan verda; ok um morgininn eptir qvomu lærisveinarnir til hans ok fundu hann alheilan, ok urdu allir gratfegnir ok lofudu gud.

22. Nw verdr fra þvi at segia, at hǫfþingia skipti vard yfir Fracklandi, tok Maximus konungdom, en Gracianus var drepinn af iarli þeim er Andracacius het, ok eptir þat tok Maximus rikit ok rak or landi Valentinianum ok þau Justino bædi. Hann var madr rikr miǫg ok sigrsæll i orrostum, grimmr ok dramblatr ok vidr alla ovæginn. Honum þordu ǫngir byskupar i gegn at mæla utan Martinus einn, er postolum almattigs guds var likr i sinum krapti, þviat sva er fra sagt, at alla þa hluti, er Martinus villdi af honum þiggia, þa baud hann honum af guds halfu at gera sva sem sinum undirmanni, ok var Maximus miǫg ræddr vid hann. Maximus konungr baud iafnan Martino til veizlu [1]. En Martinus svaradi enu sama ok qvad ser vera ofallit at samneyta þeim manni,

1 stundum hann hann til *tilf.* *Cd.*

er annan konung hafdi af radinn en annan or landi rekinn. Maximus svaradi þvi fyrir sik, at hann hefdi eigi konungdom tekit af sinni fysi helldr at radi allra landzmanna, ok lez hann skylldr hafa verit at veria land sitt, ok qvad hann eigi guds vilia ser hafa i moti stadit, þviat hann hafdi sigr haft i þeim bardaga, er eingi madr vænti honum lifs. Af sliknm ordum ok bænum Maximi þa Martinus veizlu at honum, ok vard konungrinn þvi akafliga feginn. Mörgum gôfgum monnum var bodit til þessarar veizlu ôdrum en Martino. Þar var iarl sa er Evodius het, enn rettlatazti madr, ok brodir konungs, ok sva fôdurbrodir hans, en a milli þeira sat prestr Martini, sa er honum hafdi þangat fylgt, en sialfr Martinus sat i hasæti hia konunginum. Ok er veizlunni var skipat, koma inn skutilsveinar konungs. Konungr bendi þeim manni, er a hans bordkeri hellt, at hann seli byskupi kerit, ok villdi, at hann blezadi ok drycki fyrri, en hann ætladi ser sidar at drecka. En er Martinus hafdi druckit, þa selldi hann kerit presti sinum ok virdi eingan makligra at taka vid sinni dryckiu helldr en prest sinn sialfs. Þessa tiltekiu hans undradiz konungr ok allir, þeir er vid voru staddir, ok vard þeim Martinus tidr af þvi, er hann gerdi sva (i) konungs hôll, sem eingin byskup hafdi fyrr gert, at virda meira kennimenn en veralldliga hôfþingia. At þessi veizlu sagdi Martinus konunginum marga oordna hluti fyrir, þa sem sidar komu framm um vidskipti þeira Valentiniani keisara, sagdi hann sva Maximo konungi, at ef hann færi sudr yfir fiall, sem hann barst fyrir, at beriaz vid Valentinianum keisara, þa mundi hann sigr hafa i enum fysta bardaga en lata(z) þo litlu sidar fyrir sinum ovinum. Þetta geck allt eptir, sem Martinus sagdi fyrir, þviat þa er þeir borduz, feck Maximus sigr, en Valentinianus flydi a fund Theodosij konungs, ok efldi hann hann a moti Maximo, ok bôrduz þeir a odru ari eptir ok drapu Maximus skamt fra borg þeiri er Aqvilegia heitir. Eptir þat kom Theodosius Valentiniano aptr i riki sitt, ok tok þa Valentinianus retta tru fyrir Theodosium, þviat þa var daud en versta drottning Justina modir hans.

22b. Marga dasamliga hluti veitti almattigr gud enum helga Martino byskupi, þa er eigi eru einkum greiniliga i frasagnir færdir, i fagrligum fyrirburdum ok i hversdagligu vidmæli vid guds eingla edr adra helga menn, þa er honum sogdu oordna hluti fyrir edr letu hann vita þa hluti, er annars stadar gerduz a londum ok honum var forvitni a at vita. En i annan stad þoldi hann hvers-

dagliga skapraun i fianda freistni ok morgum sionhverfingum, þviat diôfullinn leitadi þvi meir hans at freista, sem hann for fyrir honum avallt rakligar en fyrir odrum astvinum almattigs guds, sva sem synaz mun i þessum atburdum er nu fara eptir.

22c. Þers er vid getit einnhvern dag, þa er Martinus sat i kofa sinum ok var a bænum, þa kemr at honum diôfullinn med hareysti mikit ok hafdi i enni hægri hendi oxahorn mikit allt alblodugt ok skok at Martino ok mællti vid hann: »Hvat er nu, Martine, hvar er nu kraptr þinn? drepit hefir ek einn af þinum monnum.« En Martinus bad hann a brott dragaz, ok eptir þat kallar hann a lærisveina sina ok bidr þa fara um allt munklifit ok leita, ef nôckurr er horfinn af brædrum, ok segir þeim sidan, hvat fyrir hann hafdi borit. Þeir fara at leita ok finna heila alla munka, en þo sakna þeir þorpkarlz eins, þess er vanr var aka til skogar eptir elldividi brædra ok fœra til munklifis. Martinus bad þa leita hans vandliga. Þeir foru sidan at leita hans ok fundu hann liggia saran miôg ok kominn at bana. Þeir velltu honum i sleda ok oku til munklifis. Martinus kom til fundar vid hann ok spurdi, hversu at hefdi boriz. En hann sagdi, at oxinn annarr, sa er hann skylldi ekit a hafa, hefdi ærzt i hondum honum ok rekit hornit annat i smaþarma honum. Martinus gallt honum aptr heilsu, ok lifdi hann þo skamma stund þadan fra.

22d [1]. Optliga bra diôfullinn a sik ymsum likium ok freistadi sva Martini, stundum i Þors liki, stundum Odins, stundum Freyiu, en stundum i Friggiar liki edr annarra heidinna manna; en ôll þau liki kendi Martinus ok nefndi a nafn þau ôll ok rak i brott med sinum krapti. Iafnan avitadi diôfullinn Martinum um þat, at hann hefdi þa menn i sinu munklifi, er verit hôfdu illvirkiar edr manndrapamenn edr hordomsmenn, ok hafdi upp syndir þeira ok qvad þa alldregi hialpaz mundu. Martinus svaradi honum, qvad hann liuga þetta sem allt annat, «ok mun almattigr gud at helldr miskunna þeim monnum, er sættaz vid hann ok skiliaz vid glæpi sina ok hverfa eigi aptr til þeira sidan, at ef þu ôllum verri ok herfiligri, enn versti diôfull, villdir skiliaz vid glæpi þina ok idraz þinna misgerda, þa mundir þu eigi hlutlaus sitia hia guds miskunn at enum efzta domi.« Eptir þat hvarf diofullinn i brott fra Martino. En þo ma hedan af marka, hver ast Martino var a mônnunum ok hveria stund hann lagdi a at snua þeim

1 *Se ovenfor S. 569* 20—26.

aleidis, er hann leitadi vid, ef hann mætti a nôckvera leid, at stôdva vesôlld diôfulsins.

**23.** Clarus het prestr ungr, sa skildiz vid alla eigu sina ok gerdiz lærisveinn Martini ok vard a skamri stundu algerr i godum krôptum ennar hæstu truar. En hann atti hus skamt fra munklifi Martini, ok voru med honum margir brædr. Þa kom til hans einn ungr madr, sa het Anatholius ok qvaz munkr vera ok syndi sik litillatan i augliti manna. En er hann hafdi þar nôckura stund verit, þa sagdi hann eingla guds koma opt at mæla vid sik, ok syndi hann þat med nôckurum iarteinum, unz sumir trudu. Þa sagdi hann sva, at einglar færi hvern dag milli hans ok guds, ok taldiz hann vera einn af spamônnum guds. En Clarus trudi alldri ordum hans, en Anatholius ægdi honum guds reidi ok miklu viti, ef hann villdi eigi trua ordum sva heilags mannz, ok sva mællti hann um sidir: »Þessa nott mun gud senda mer af himne hvitt klædi, ok skal þat ydr vera takn, at ek em i guds krapti, ok ek em skryddr guds klædi.« Þa vard ôllum mikil forvitni a at reyna þetta takn. En er ad midri nott kom, þa þotti skialfa allr klaustragardrinn, ok var sed lios til klefa þess, er enn ungi madr var i, ok var þangat heyrdr romr manna mikill ok hareysti þvi næst. En er kyrdiz yfir þeim, þa geck hann ut or klefanum ok kalladi þangat einn af brædrum ok syndi honum kyrtil, þann er hann var skryddr med. En sa undradiz ok heimti þangat fleiri brædr, ok helldu þeir liosi til ok litu a klædit vandliga. Klædit var blautt ok hvitt purpura likaz, en eigi skildu þeir, hvers kyns þat var, ok þreifudu þeir þar um ok mattu eigi skilia, at annat væri en klædi. Þa eggiadi Clarus brædr at fara til bænar ok bidia, at gud syndi þeim þetta skyrra. Þa voru þeir a bænum, þat er nætrinnar var eptir. En er dagr kom, þa toku þeir i hond Anatholio ok villdu leida hann fyrir Martinum, en hann brauz vid þvi ok qvad ser bannat vera at syna sik Martino. En er þeir neyddu hann til at fara þangat, þa hvarf et hvita klædi allt or hôndum þeim, þviat diôfull þordi eigi at syna Martino sionhverfingar sinar.

**24.** Þess er ok getanda, med hversu mikilli væl diôfullinn freistadi Martinus um dag, þa er hann var a bænum einn i husi sinu, þviat slægr freistari huldi illzku sina med flærdsamligu liosi ok syndiz Martino biartr ok blidr i aliti skryddr konungs skrudi, ok hafdi koronu or gulli ok gimsteinum setta. En er þeir hôfdu þagat badir leingi, sva at hvorgi qvad ord at ôdrum, þa mællti

diofullinn fyrri: »Kennir þu, Martinus, þann er þu ser nu? Cristr em ek, kominn til iardar at synaz þer.« En er Martinus svaradi eigi, þa endrnyiadi diöfullinn dirf(d) sina ok mællti: »Martinus, hvat ifar þu at trua þat er þu ser, Cristr em ek.« Þa skildi Martinus af helgum anda, at diöfullinn var en eigi gud. Martinus sagdi þa: »Drottinn Jesus Cristr sagdiz eigi koma mundu med konungs skrudi ne med gulli, þvi mun ek ok eigi trua, at Cristr se kominn, nema ek sia hann med crossi edr crossmarki ok i þeiri asionu, sem hann var pindr med.« Þa hvarf oreinn andi or augliti hans sva sem reykr; en sva illan daun gerdi eptir i husinu, at þa var ifalaust, at diofullinn hafdi þar verit.

25. Martinus for enn um byskupssyslu sina a nöckverri tid, sem vandi byskupa er til, ok toku vid honum kennimenn a einhverium bæ ok biuggu honum rekkiu um kvelldit i husi þvi, er nær var kirkiu, ok höfdu þeir gervan elld mikinn i husinu um daginn adr, þviat þat var mikit ok kallt. En er Martinus villdi fara at sofa, þa sakadiz hann um blautleik reckiu sinnar, þviat munkar höfdu borit undir hann mikinn halm, en hann var vanr at hvila a iördu berri, sva at harklædi eitt væri undir honum. Þa varp hann undan ser halminum ollum, en hann hvildi þar, sem hann var vanr, ok sofnadi bratt, þviat hann var farmodr. En halmrinn sa, er hann hafdi varpat undan ser, fell i gegnum golfþilis raufar i ofn, er undir var, ok festiz þegar elldr i halminum, ok tok sidan husit at loga. Martinus vaknadi ok rann þegar til duranna, er hann sa elldinn, fyrr en hann mintiz bænar sinnar, ok villdi lata loku[1] fra hurdunni, ok matti eigi. En elldrinn sotti hann sva miög, at föt hans brunnu. Þa mintiz hann, at eigi var traust i flotta helldr i gudi, ok skryddi hann sik þa tru skilldi ok hvarf aptr i logann til bænar. Þa stödvadiz elldrinn þegar ok grandadi honum eigi. En er munkar urdu varer vid ok sa husit loga, þa brutu þeir þegar dyrin utan ok fundu Martinum heilan a bænum i elldinum. En hann sagdi sva sidan, at þa hefdi hann mest verit af diöfli svikinn ok tældr, er hann gadi eigi bænar trauz fyrir ræzlu, ok lez hann kenna hita, medan hann ræddiz ok villdi ut briotaz, en þegar er hann ræddiz eigi ok gerdi crossmark fyrir ser ok tok til bæna traustz, þa sagdi hann sva, at hann kendi eigi hita af elldinum sidan.

26. Martinus for enn um dag til kirkiu ok mætti klædlausum manni i frosti miklu. Sa bad Martinum gefa ser nöckut klædi.

1 loka *Cd.*

Þa heimti Martinus þangat diakn sinn ok bad hann selia nǒckud klædi enum volada. Sidan geck Martinus inn i kofa sinn hia kirkiu, ok sat þar einn saman, sem hann var vanr opt a milli tida, þa er adrir kennimenn foru til sinnar syslu. En er diaknit dvaldi at gefa enum fatækia, þa kom hann þangat til skotzsins, er Martinus sat, ok sagdiz kalinn vera, en diakninn seinan at gefa ser klædit. Þa for Martinus þegar or kyrtli sinum, sva at enn valadi vissi eigi, ok feck honum klædit ok bad hann þa fara i brott. En diakninn kom litlu sidar ok qvad mal at syngia messu, þviat lydrinn beid hans i kirkiunne. En Martinus sagdi: »Eigi ma ek til kirkiu fara, adr en enn fatæki hefir klædit.« Diakninn skildi eigi, at Martinus sagdi fra ser sialfum, þviat hann sa eigi, at Martinus var kyrtillaus undir kapunni, ok spurdi, hvar enn fatæki væri. «Seli mer, qvad Martinus, til mun enn voladi at þiggia.« Þa reiddiz diakninn ok tok lodolpu eina stutta ok kastadi fyrir fætr Martini, eigi betr en .v. penninga verda, ok mællti: »Her er nu klædit, en ek se eigi enn volada.« Þa bad Martinus hann ut ganga ok bida sin uti fyrir dyrum, þviat hann villdi eigi lata sia sik, medan hann færi i klædit, til þess at leynaz mætti þat er hann hafdi gefit. En god verk heilagra koma upp, þott þeir vili leyna, þviat Martinus for at syngia messu i þessu klædi. En a þeim degi, þa er hann blezadi allteris forn, þa vitradiz elldligr bǒllr yfir hǒfdi honum ok se upp ok nidr, ok syndiz sem har hans rettiz upp i mot. Þat sa mær ein ok prestr .j. ok munkar þrir, en vær dæmum eigi um þat, hvi adrir mattu eigi sia.

27. Evancius het madr, sa er miǒg var bundinn i veralldligri syslu ok truadr vel. Hann tok sott mikla ok sendi ord Martino, þa er hann var hættr, en hann for þegar ok dvaldi eigi. En adr Martinus kæmi eigi midleidis, þa kendi enn siuki miskunnar hans ok tok heilsu sina ok rann a mot Martino ok baud honum heim med ser. En annan dag eptir hafdi hǒggormr særdan einn þræl hans vodvænligu sari, en Evancius fann þrælinn ok miog sva daudan, tok hann upp sidan ok bar hann aa ǒxl ser ok lagdi fyrir Martino. Þa var eitr komit um alla lidu þrælsins, ok var hann blasinn, sem belgr væri. Martinus for hondum um allan likam hans ok setti fingr sinn fyrir sarit, þat er ormrinn hafdi hǒggvid. Þa sotti eitrid ok þrotinn or ǒllum lidum hans til fingrar Martini. En er hann letti fingrinum fra sarinu, þa sprændi þar or bogi bædi eitrs ok blods. En þrællinn reis þegar upp heill. Þa lofudu allir gud, er þetta takn sa.

28. Enn for Martinus of dag med lærisveinum sinum, ok attu þeir eptir dvðl nðckveria, en hann for einn undan, unz leiti bar a milli. En odrum megum leitissins foru kaupmenn med klyfiada hesta ok asna. En er þeir sa Martinum i lodnu klædi svðrtu, þa unduz hestarnir af gðtunni ok vðfduz i taumum ok gerdu mikinn farartalma kaupmonnum. En þeir reidduz ok hliopu af hestum sinum ok bðrdu Martinum med svipum ok stðngum. En hann hafdi þolinmædi i moti ok var sva sem omali fyrir þeim, en þeir bðrdu hann þess at meir, er þeim þotti, sem hann kendi eigi bardagans. Þa qvomu lærisveinar hans eptir ok fundu hann saran ok blodgan liggia vid gðtuna, þa hofu þeir hann upp a asna einn ok foru a brott skyndiliga. En kaupmenn hurfu aptr til hesta sinna ok villdu snua aleidis for sinni, en hestar þeira voru sva ordnir stirdir sem tre edr steinar ok mattu hvergi or stad hræraz. Þa bðrdu þeir hestana med svipum, en sidan hiuggu þeir vðndu ok stangir i skogi ok keyrdu med þvi hestana, ok stodu þeir fastir, sem likneski væri. Þa vissu kaupmenn eigi, hvat þeir skylldu gera, þviat þa skildu þeir, at guds craptr hefti for þeira. Þa vitkuduz þeir um sidir ok spurdu menn, þa er þeir fundu, hvern þeir hefdi bardan. En er þeim var sagt, at þeir hðfdu Martinum bardan, þa þotti ðllum audsynt, hvers þeir gulldu at, ok runnu sidan skyndiliga eptir Martino ok skðmmuduz sin ok gretu ok iosu molldu yfir hofud ser, ok fellu til fota Martino ok badu ser miskunnar, at hann vægdi þeim ok leti fara leidar sinnar, ok sðgduz þo þess verdir, at iðrdin rifnadi undir þeim edr þeir stirdnadi sva sialfir sem hestar þeira, ok letu þeir ser þat sialfir ordna mikla pisl, er þeir vissu eptir ser ordinn sva mikinn glæp. En Martinus veitti þeim þegar miskunn ok blezadi þeim, ok mattu þeir þegar rida leid sina ok lofudu gud.

29. Enn for Martinus um dag um bæ nðckurn fiðlmennan, ok kom lid heidinna manna mikit a moti honum, þviat eingi madr kunni Crist a þeim bæ. En þa var mðrgum forvitni a at sia Martinum, þviat þeir heyrdu mart agætligt fra honum sagt. Þa tok Martinus at boda guds ord, ok komz hann vid af ðllum hug, er sva mikill mannfiðlldi skylldi eigi kunna skapara sinn. Þa geck framm kona nðckur ok hafdi i fadmi lik sonar sins nyandads ok mællti vid Martinum: »Vitum vær, at þu ert vinr guds; gialltu mer einga son minn, er nu er daudr.« Þa hurfu fleiri at ok badu med henne. Þa sa Martinus, at hann mundi geta takn af gudi mðrgum til hialpar, ok tok vid likinu ok fell a kne til bænar ok

badz fyrir litillatliga. En er hann reis upp af bœninni, þa selldi hann sveininn lifanda modurinni. Þa kôlludu allir sem einni rôddu ok iatudu Cristi ok letuz allir a einn gud trua. En Martinus primsigndi þa þegar a þeim velli, er þa voru þeir, en skirdi þa þvi næst.

30 (31). Claudiomacus het stadr einn skamt fra Turonsborg, ok er nunnusetr i þeim bæ, þar hafdi Martinus gisting a nôckurri tid. En er hann var i brott farinn, þa gengu meyiar inn i husit, þat er (hann) hafdi i verit, ok lasu upp halm þann allan, er hann hafdi hafdan undir ser, ok skiptu med ser sva sem helgum domi. En er fair dagar lidu þadan, þa batt ein þeira a hals odum manni halm þann, er hon hafdi hirdan fyrir helgan dom, ok vard enn odi þegar heill.

31 (32). Þa for Martinus enn um dag fra Treverisborg, en a mot honum com kyr ein, hon var od af diôfli, hon liop fra nautum ok stangadi menn, er fyrir henne urdu. En er hon kom til Martinus beliandi, þa gerdi hann crossmark a mot henne ok bad hana stadar nema. En er hon nam stadar, þa sa Martinus diôfulinn, sitia a baki henne. Þa mællti Martinus: »Far a braut, ovinr, fra smala manna[1] ok kvel eigi meinlaus kvikendi.« Þa flydi diofullinn i braut, en kyrin skildi, hverr hana græddi, ok fell til fota Martino, en hann blezadi hana ok bad aptr fara til hiardar sinnar ok vera alldri ohægia sidan.

32 (33). Enn mætti Martinus um dag veidimonnum nôckurum, þar er hundar elltu hera a vidum velli, ok var heranum at komit þa ok þa, at hann mundi tekinn verda, ok dvaldi hann daudann i optligum hveckingum sinum. Martinus sa aumr a dyrinu, þviat hann var armvitigr, ok baud hann hundunum at standa ok lata herann forda ser. Hundarnir namu stad þegar, sem þeir væri bundnir edr iardfastir, en herinn for i fridi, hvert er hann villdi.

33 (34). Naudsyn er a at geta orda Martini nôckut, hvilik voru hversdagliga, þviat þau voru lik andligri speki. Saud nykliptan sa hann um dag ok mællti: »Sia saudr fylldi gudzspiallz bodord, hann hafdi tvo kyrtla ok gaf annan þeim, er eingan hafdi adr; gerit þer þar eptir.« Enn sa hann um dag svinahirdi i skinnfôtum ok mællti: »Slikr var Adam i skinnfôtum brott rekinn or paradiso, en vær skulum leggia nidr enn forna Adam, er sa merkir, en skrydaz enum nyia Adam, þat er Cristr drottinn.«

1 manni *Cd.*

Þar kom Martinus enn, er naut bitu a velli, en svin rotudu i stodum, en i stodum var blomgadr vôllr af enum fegrstum grausum. »Se her nu liking lifs manna, sagdi Martinus, hiuskap merkir sia hluti iardar, er smali hefir af bitit et fegrsta, ok er þo gras eptir; en sia hlutr, er svin hafa um snuit, merkir hordom; en sa hlutr, er[1] skinn i ôllum blomum ok enum fegrstum grosum, merkir meydoms dyrd, sa er ecki ma annat vid iafnaz. Sva sem þeir villaz miôg, er hiuskap iafna vid hordom, sva eru þeir ok heimskir, er hiuskap iafna vid meydom. En spakir menn gera þa grein, at hiuskapr se til liknar, en meydomr til dyrdar, en hordomr horfir til pislar, nema yfirbot fylgi.

34 (35). Ridderi nôckurr kom til Martinus ok gerdiz munkr, ok litlu sidar settiz hann i einsetu. En kona hans var vigd til nunnu. Ok er hann hafdi skamma stund i einsetunni verit, þa vard hann fyrir freistni, slo fiandinn þvi aa hann, at hann fystiz þess, at kona hans væri i einsetunni hia honum, ok þar kemr þessu mali, at riddarinn leitar þessa vid Martinum, ef hann mundi þat leyfa vilia, at þau væri a samt. Martinus villdi þat vist eigi leyfa ok qvad þat eingan hatt, at einsetumenn hefdi conur hia ser. Riddarinn bidr þess opt ok qvad eigi samvistu þeira fyrirfara mundu godri fyrirætlan. Martinus svaradi honum þa a þessa lund: »Hefir þu nôckut i bardôgum verit?« En hann svaradi ok lez opt þar hafa verit, er menn hôfdu barizt. Martinus spurdi þa enn: »Segdu mer þat þa, hefir þu nôckut sed, þar sem þu hefir staddr verit i bardôgum edr i fylkingum, konum skipat til bardaga med kôrlum?« Ok er riddarinn heyrdi þessi svôr Martinus, þa skammadiz hann villu sinnar ok eptirleitunar, en þackadi Martino þat, er hann hafdi hirtan hann med skynsamligri dæmisôgu, þeiri er hann matti audvelliga skilia, en eigi med stridmælum.

35 (36). Nu munum vær fra þvi segia, er vær komum fyrr nôckut ordi aa, at helgir menn qvomu iafnan at finna Martinum. Þat var einnhvern dag, at tveir lærisveinar Martini voru fyrir durum uti kofa Martini, þar er hann var einn inni, ok vissi hann eigi, at þeir væri þar, þviat hurdin var aptr a milli þeira. Sidan heyrdu þeir inn i kofann mal miôg margra manna, ok urdu ræddir vid ok þottuz þegar vita, at miklu mundi gegna. En at alidnum .ii. stundum dags, þa geck Martinus ut til þeira. Pa for Sulpicius þegar til motz vid hann ok spurdi, hvat romr sa taknadi, er þeir hôfdu heyrt i husit. Martinus var fyrir at segia þeim. Sul-

[1] enn *Cd.*

picius bad akafliga, at hann segdi þeim, fyrir þvi at sa var eingi hlutr, er hann villdi vita af Martino ok legdi hann stund a at bidia hann, er hann mundi eigi vis verda. Sidan svaradi Martinus þeim a þessa lund: »Segia mun ek ydr nu, ef þer vilit vita, en þa bid ek ydr, at er segit eingum manni. Meyiar guds mællto vid mik, Agnes, Tecla ok Maria.« Sidan sagdi hann þeim gerla fra yfirlitum þeira ok buningi, ok qvad þær eigi at eins þann dag koma at vitia sin, helldr miklu optar. Petrum ok Paulum sa hann optaz allra postola guds.

36 (37). I borg þeiri er Nemausus heitir (var byskupa þing) fiolment, en Martinus hafdi eigi viliat fara þangat, en var þo forvitni mikil a at vita, hvat þar væri rætt. Þenna sama dag atti Martinus a skipi at fara, ok lærisveinar hans med honum, en hann sat i frammstafni, fyrir þvi at hann var avallt vanr ser einsetu at leita til þess at bidiaz fyrir. Sidan vitradiz honum guds eingill ok sagdi honum vandliga fra þvi ôllu, er byskuparnir hôfdu radit a þinginu, ok allt þat sem þar hafdi til tiþinda gerzt. Sidan sagdi Martinus þat allt lærisveinum sinum, ok leitudu þeir sidan at, ok hafdi a þeim sama degi verit byskupa fundrinn ok slikir hlutir allir ræddir, sem Martinus sagdi.

37 (38). Sa hlutr gerdiz til tiþinda i borg þeiri er Carnotena heitir, at einn gamall madr færdi Martino dottur sina .xii. vetra gamla, ok hafdi hon mallaus verit alla æfi sina. Sia madr bad Martinum litillatliga, at hann skylldi gefa mal meyiunni ok qvad þvi trua fastliga, at hann mætti þiggia af gudi slikt, er hann villdi bedit hafa. En Martinus veik þvi af hondum ser fyrir litillætis sokum, ok qvad þat eigi sitt vera at gera þat, helldr byskupa þeira, er þar voru þa vid staddir, Valentiniani ok Victricij, ok taldi þa ser helgari vera. Fadir meyiarennar bad þess at meir, at Martinus færdiz undan, ok sva byskuparnir badu med honum. En er Martinus hafdi synt litillætit, þa vard hann ok at syna miskunnina, en dvaldi ecki heilagleikinn ok bad alla menn ut ganga, þa er vid voru staddir, nema byskupana ok fôdur meyiarennar. Sidan lagdiz Martinus til bænar eptir veniu sinni, ok at lokinni bæninni reis Martinus upp ok tok litit af vidsmiorvi ok blezadi; eptir þat tok hann med fingrum sinum tungu meyiarinnar ok dreypti a af vidsmiôrinu, ok eigi bleckti þann enn helga mann craptr heilagleiksins. Eptir þat spurdi hann meyna, hvat fadir hennar heti, en hon svaradi þegar ok sagdi med skyrum ordum. Þa fell fadir meyiarinnar til fota Martino ok mællti med

tarum ok miklum fagnadi, sva at allir heyrdu, ok qvad þessa enu fystu rodd dottur sinnar heyrt hafa. Allir urdu fegnir, þeir er vid voru staddir þenna atburd.

38 (39). Ein iarlz kona, þess er Avicianus het, sendi Martino vidsmiðr at vigia, þviat þat þurfti at hafa vid morgum meinum ok siukleikum. Þat var i ampullu einni, ok var hvergi nær full, adr Martinus blezadi, en vid blezan hans vard ampullan sva full, at yfir flaut alla vega, ok ǫll klædi sveinsins, þess er med for, voru i vidsmiorvi einu. En er heim kom vidsmiorit, þa tok iarlskonan feginsamliga vid ok setti upp med duk einum i glugg nǒckurn hafan. Litlu sidar kom til þionustusveinn einn ok kipti dukinum, þeim er yfir var breiddr, þviat hann vissi eigi, hvat undir var; ok i þvi er hann kippir dukinum, hrytr ampullan ofan, su er i var vidsmiorit ok af gleri var gerr, ok kemr hon aa golf þat, er af marmara var gert. Allir þeir er vid voru staddir, urdu ryggir ok ugdu, at vidsmiorit mundi fyrirfarit vera en ampullan brotin, ok foru at leita, ok fundu heila ampulluna, sva sem hon hefdi fallit i dun, en vidsmiðrit var ecki or farit. Þetta vard eigi af atburd einum saman helldr af heilagleik Martini, þviat blezan hans matti eigi fyrirfarazt.

39 (40). Eigi gerdi enn helgi Martinus at eins iarteinir fyrir sialfan sik, helldr gerdu margir menn iarteinir i nafni hans. Sa atburdr gerdiz um dag, þa er lærisveinar Martini foru um bæ nockurn framm, þa kom hlaupandi i moti þeim hundr einn olmr ok go miðg. Þa mællti einn af þeim lærisveinum: «I nafni Martini byd ek þer at þegia.» Þa þagnadi hundrinn, sva sem tungan væri skorin or munni honum, ok vard tungan fost vid gominn.

40 (41). Awicianus het iarl einn grimmr akafliga ok enn mesti manndrapamadr; hann kom um dag i Turons borg med foruneyti sinu morgu ok litt stilltu. Þar voru i fǒr med honum margir bandingiar, ok ætladi hann um morgininn eptir at kvelia þa allzskonar pislum, ok stefndi sidan til ǫllum borgarlydinum at sia a meiþingar þeira. Vid þessi tiþindi vard ryggr allr borgarlydrinn, ok foru skyndiliga at segia Martino. Ok þegar er hann spyrr þetta, þa ferr hann sem skiotaz til herbergia iarls, ok kemr hann þar um midrar nætr skeid. Þar voru þa dyrr allar aptr byrgdar, en menn i svefni. Martinus legz nidr til bænar fyrir dyrum þess hus, er Avicianus svaf i. Avicianus sofnar fast ok vaknar vid þat, er guds eingill knudi hann ok mællti: «Þræll guds liggr uti fyrir dyrum þinum, en þu sefr.» Jarlinn spratt

upp ok vard ræddr ok kalladi a þræla sina ok sagdi, at Martinus var uti fyrir dyrum, ok bad, at þeir skylldu luka upp dyrum ok lata Martinum na inn at ganga. Þrælarnir gengu til dyra ok luku upp hurdu ok liopu inn aptr ok sogdu þetta ecki vera utan svefnora. Avicianus trudi þvi þegar ok lagdiz til svefns ok sofnadi þegar. Ok iafnskiott sem hann var sofnadr, þa kemr eingillinn enn at honum ok knyr hann med meira ofrefli en fyrr, ok bad hann skunda i moti Martino, ef hann villdi eigi taka hefnd a ser. Avicianus leypr upp þegar ok vard ræddr miǫg, ok er þrælarnir voru seinir a fætr, þa ferr hann sialfr til dyranna ok kallar miǫg ok qvad einga hvilld fa mega, fyrr en hann fyndi Martinum. Ok nu lykr hann upp dyrunum ok finnr Martinum ok mællti vid hann: «Hvi hefir þu sva gert vid mig, drottinn minn? trua mattu þvi, at ek mundi eigi her kominn at finna þik, utan ek væri adr til skelfdr af guds eingli. Ecki þarftu at mæla, veit ek, hvers þu girniz. Allt skal þat þegit, er þu villt vera lata; fardu a brott sem skiotaz, at ek verdi eigi fyrir meiri guds reidi, þviat ek þickiumz nu ærins at hafa kent um piningarnar.» Nu hverfr Martinus a brott, en hefir ecki ord mællt vid iarlinn, en arnat þo slikt allt, sem hann villdi. Avicianus hverfr inn aptr ok bidr riddara sina buaz, en hann lætr þionustumenn sina leysa þa menn alla, er i bǫndum voru, en hann sialfr for a braut þegar or borginni ok gerdi þar alldri ofrid, medan Martinus lifdi.

41 (42b). Munklifi ens helga Martini var um tvær milur brott fra borginni. En þeir atburdir urdu iafnan i hǫfudkirkiu i borginni, þa er þar var mikit fiolmenni, ok þar kom saman fioldi mikill diofulodra manna ok bidu byskups i kirkiunni, ok hefdi(!) hann verit um nottina adr at munklifi sinu ok ætladi þa til kirkiu at fara. Iafnskiott sem hann hof sinn helga fot ut or klaustragardinum, þa kendu þess enir diǫfulodu menn, ok toku allir ath oazt ok at skialfa sva sem dœmdir menn ogurligan domanda, ok sogdu þeir diǫflarnir þann þa koma mundu, er þa mundi a brautu reka or herbergium sinum, ok vissu þa allir menn, nær byskup mundi koma. Þat var einnhvern dag, þa er Martinus kom til kirkiu, þa voru þar fyrir honum diǫfulodir menn, ok vofdi annarr i loptinu uppi, sva at fætr hans attu langt til iardar, en a odrum horfdu upp fætr en nidr hǫfut. Martinus harmadi þa miǫg ok baud ǫllum monnum at ganga or kirkiunne ut, en hann var einn eptir hia enum odum ok lagdiz til bænar a midiu kirkiugolfi, en reis eigi fyrr upp, en þeir voru badir heiler.

42 (18b). Sa atburdr gerdiz eitthvert sinn, þa er **Martinus** var staddr i Treverisborg, þa kom i borgina voveiflig hersaga, ok vard borgarlydrinn allr hræddr vid. En Martinus þottiz eigi vita, hvort þetta mundi satt edr logit, ok baud, at leida skylldi til sin diofulodan mann, ok spurdi hann hann, hvort þetta væri satt edr logit. En oreinn andi svaradi fyrir munn ens æra ok qvad þa verit hafa saman .xvi. diofla ok gert þessi rad med ser, til þess at Martinus flydi or borginni fyrir þessi hersógu. En allt var iafnskiott, at hann hafdi þessa sógu sagt, at þa vard madrinn heill en borgarlydrinn frelstr.

42b (42). Enn kom Martinus um dag til husa Aviciani iarls, er adan var getit, ok sa hann einn svartan dioful sitia a halsi honum. Martinus bles a mot fiandanum, en Avicianus iarl hugdi, at hann gerdi honum til hadungar ok mællti: «Fyrir hvi veitir þu mer hadung?» Martinus sagdi: «Eigi þer helldr enum svarta, er sitr a halsi þer.» Eptir þetta flydi diófull af stoli sinum. En iarl var miklu ogrimmari avallt sidan, þviat hann skildi þa, af hvers eggian hann hafdi grimmr verit.

43. Bær sa var einn i stad þeim er Cennonicus heitir, er[1] menn urdu fyrir miklum bardógum, ok var þat med þvi moti, at hagli sva storu rigndi a akra manna, at ollum spillti. Heradsmenn toku þat rads, at þeir sendu til fundar vid Martinum greifa sinn, þann er Auspicius het. Hann vard fyrir meirum skódum um þetta en adrir menn, ok bad hann Martinum, at hann veitti þeim fullting. En Martinus bad gud fulltings ok liknar þessum monnum, ok veitti gud þeim þa miskunn fyrir bæn hans, at eingum manni vard mein at þvi hagli a enum næstum .xx. vetrum, er Martinus lifdi sidan. En til þess at þat er synt, at þetta vard fyrir iarteinir Martini en eigi atburd, þa kom sia en sama rid aptr i heradit a þeim misserum, sem Martinus andadiz, ok var þat i þvi synt, at allr heimr gret andlat hans en fagnadi lifi hans, sem vert var.

44. I þorpi, er Abaciensis heitir, var kastali einn forn, en i castalanum var steinstópull einn ramgiór, en a ofanverdum stoplinum sat skurdgod[2] a stoli, ok hófdu enir fyrri menn haft þar a mikinn atrunad. En þa er Martinus kom i þann stad, villdi hann lata briota þenna umbuning allan, ok baud um presti sinum, þeim er i þvi þorpi var ok Marcellus het, at koma þessu a leid. En er Martinus kom aptr þangat odru sinne, ok hafdi þess a milli verit nockur rid, ok var þa enn heill stópullinn, þa avitadi Mar-

1 enn *Cd.* 2 skurdgor *Cd.*

tinus prestinn um ulydni vid sik, er hann hafdi eigi brotit stopulinn. Marcellus færdiz undan med þvi, at hann taldi torvelligt at briota stopulinn, ok qvad ostyrkia munka þvi eigi afla mega, er trautt mundu sterker riddarar. Martinus rann þa til ens ôrugga fulltings ok var a bænum alla nottina, ok um morguninn eptir kom sva mikit hvassvidri, at i sundr braut allan stôpulinn.

45. Annarr atburdr vard enn litlu sidar þessum glikr, at Martinus villdi briota stôpul einn hafan ok akafliga ramligan, ok skurgod mikit var upp af stoplinum. En hann matti þvi eigi a leid koma, ok stodu fyrir margir hlutir. Sa var einn, er monnum var litit um, þeim er atrunad hofdu[1] haft, at hann væri brotinn, en hitt i annan stad, at hann var sva ramger, at þat matti tregliga sækiaz, at hann yrdi unninn. Martinus var þess meira um at briota hann, sem fleiri hlutir stodu fyrir, þeir er torvelligir þottu. Þa sneriz Martinus til bænar at veniu sinni, ok i þvi bili var senn elldligr stôpull hrynia or himnum ok i hofud skurgodinu, ok leysti sa enn elldligi stôpull i sundr skurgodit allt ok sva stôpulinn allt til iardar, ok var ecki eptir þeirar forneskiu utan dust eitt. Þessir atburdir voru til þess syndir, at menn mætti þat vita, at slikan crapt, sem gud veitti Martino i heilsugiôfum vid siuka menn edr valldi a ôllum likamligum lutum, slikan allan veitir hann honum i himneskum hlutum, sva sem i þessu takni syndiz, er af himnunum kom.

46. Þat er enn sagt fra Martino, at kona ein, su er blodsott hafdi, snart vid trefr af klædum Martini, ok vard hon þegar heil. Þessi iartein var þeiri likuz, er drottinn gerdi sialfr ok i gudzspiôllum er fra sagt af þeiri konu, er slika meinsemd hafdi.

47. Þat gerdiz enn einn dag, þa er Martinus for med arbacka nockurum ok lærisveinar hans, þa svam edr recktiz at þeim backa, er þeir voru a, hôggormr mikill. Martinus mællti vid orminn: «I nafni drottins mins Jesu Cristz byd ek þer, at þu hverfir i brott fra þessum backa.» Hôggormrinn sneriz vid ok lyddi ordum hans ok for þegar til annarrar strandar. Allir undruduz, þeir er vid voru staddir ok sa þenna atburd. En Martinus mællti til lærisveina sinna med tarum: «Hôgormarnir hlyda mer nu, en mennir vilia eigi hlyda þvi, er ek mæli.» Sidan foru þeir þangat, sem þeir ætludu.

48. Þat var vandi ens helga Martini at eta lagx a paskum, ok er þess vid getit eitthvert sinn laugardaginn fyrir paska, at

1 hafdi *Cd.*

Martinus kom at mali vid diakn þann, er Cato het ok bordhalld þeira munkanna skylldi annaz, hvort lags nôckurr væri buinn, sa er þeir mætti hafa um paskana. Kato diakn svaradi, at hann qvaz sialfr farit hafa ok adrir fiskimenn um morgininn til arinnar at veida fiska, ok hôfdu þeir ecki veitt feingit. Martinus mællti: »Fardu nu þegar ok legg ut netit i ana, ok mun at koma fiskrinn.« Diakninn for til arinnar, þot honum þætti eigi veidiligt vera, ok lagdi ut netit, sem Martinus baud. En aen var skamt fra munklifino, ok foru fleiri munkar til fyrir forvitnis sakir, ok væntu allir godrar veidar, er Martinus baud, at veida skylldi, ok þurfti sialfr at hafa. En er hann hafdi ut lagit netit, þa liop i mikill fiskr, ok tok hann laxinn ok bar feginn heim til munklifis. En adrir menn feingu ecki veitt, þeir er til arinnar foru þann dag, neitt.

48 b. ´Arborius greifi sagdi sialfr fra þeim atburdum, at hann hafdi sed, þa er Martinus bioz til messu, felitit klædi koma framm undan messufata erminni; en i messunni, þa er Martinus blezadi fornina, ok hann leit til handar hans, þa syndiz honum hondin biôrt akafliga, en ermrin a hendinni purpura likuz buin vid gulli ok gimsteinum; ok vid þat er hann hrærdi handa ok blezadi, þa þottiz Arborius heyra, at gimsteinarnir gnôtrudu saman i erminni, ok ioku sliker hlutir mikit ast hans vidr Martinum.

49. Þeir atburdir gerduz, þa er a lifi var Maximus konungr, er fyrr var fra sagt, at hann hafdi med ser byskupa þa, er môrg ill rad lôgdu fyrir hann, ok var af þeim byskupum einn Itatbius byskup, sa er radinn hafdi virduligan hôfþingia þann er Pricillianus het, ok þeir kôlludu villumann. En konungr hellt sva hendi yfir þeim byskupum, at eingi madr þordi at saka þa um dauda Pricilliani. Margir byskupar adrir vôfduz i samneyti vid þa a byskupa stefnu i Treveris borg ok attu vid þa bædi svefn ok mat ok sva tidagerd. Þessir enir sômu byskupar hôfdu eggia(t) Maximum konung at senda mikinn her til Spanlandz til þess at bana þeim monnum, er byskuparnir kôlludu villumenn, ok dæmdu þeir þetta mal eptir likamligu aliti ok klædabunadi manna en eigi at rettri raun edr gudligri eptirleitun. Ok voru til þessar ferdar radnir iarlar nôckurir, þeir er fyrir lidinu skylldu vera, ok mundi þessi fôr at miklum skada verda guds cristni ok morgum godum monnum ok helgum at liftioni, þviat þeir er sendir voru mundu litla grein kunna, hverir helgir væri. En er Martinus spyrr þessa ætlan, þa þottiz hann eiga eyrindi a konungs fund fyrir sakir þessar ennar illu ætlunar, þviat hann villdi eyda hana, ok margra

annarra naudsynia þeira, er langt er fra at segia. En er byskupar fragu, þeir er i borginni voru, at Martinus var þangat von, þa urdu þeir ræddir miög ok badu konung, at hann skylldi Martinum eigi lata na innan borgar, nema hann heti þvi at hafa frid vid byskupa, þa er þar voru fyrir, þviat þeir vissu þat a sialfa sik, at þeir voru olikir Martino i radagerdum sinum. Konungrinn gerir sem þeir badu, ok sendi i mot Martino riddara hôfþingia einn med nôckurum riddorum, ok skylldu þeir eigi lata Martinum na at koma innan borgar, nema hann heti þvi at hafa frid vid þa byskupa, er þar voru fyrir. Martinus svaradi þeim þvi, at hann mundi med Cristz fridi fara i borgina, ok þa leyfdu þeir honum inn at ganga. En er Martinus kom i borgina, þa gerdi hann eigi at ganga i tidagerd þeira, helldr var hann a bænum i kirkiu um nætr ok sông þa tidir sinar. En er hann hafdi verit þriar nætr i borginni, þa for hann til konungs hallar fyrir sakir þeira vandqvæda, sem fyrr var fra sagt. Þat var enn ok eyrindi hans at bidia lifs iôrlum tveimr, þeim er fyrir konungs reidi voru vordnir, annarr het Narsetus en annarr Leucadius. Þeir hôfdu badir verit winir Graciani keisara; en þo voru enn adrar sakir vid þa af konungs hendi, þær er vær munum ecki fra segia. Nu kom Martinus fyrir konung ok bad lifs iorlunum ok sva þess, at herferdin skylldi eydaz. Var honum eigi at eins mikill hugr sa at biarga cristnum monnum, helldr villdi hann forda heidnum monnum vid bana. En konungr dvaldi um dag edr annan at veita þat, er hann var bedinn. En er Martinus geck eigi i tidagerd med byskupum, þa qvomu þeir til fundar vid konung ræddir miög ok skialfandi ok sôgduz vera fyrirdæmdir af Martino, ok sogdu konung eigi eiga at hlyda ordum hans, er eigi at eins veitti[1] skiol villumonnum, helldr hefndi hann þeira daudra; kôlludu þeir ecki i veitt i dauda Pricilliani, ef Martinus hefndi hans. Sidan badu þeir konung med tarum ok fellu til fota honum, at hann neytti rikis sins nu i gegn Martino, ok næsta kôlludu þeir hann ok villumann. En þott Maximus væri þeim eptirmalssamr um adra hluti byskupum, þa villdi hann þo eigi eptir þeim mæla þat, er til aleitni var vid Martinum, ok vissi hann, at Martinus var þeim helgari i tru ok sidlæti, ok leitadi ser annarra rada, en þeir kendu til. Sidan heimti hann Martinum til mals vid sik ok qvaddi hann blidliga ok hialadi vid hann marga hluti ok sagdi villumenn helldr dæmda at lôgum af domundum en af rogi kennimanna, ok qvad

1 veittu *Cd.*

hann önga sauk til þess, at hann rækti tidagerd þeira, þar er kennimanna fundr hafdi at verit attr, ok adrir kölludu þa saklausa utan Martinus. Martinus skipadiz eigi vid ord þessi. Þa reiddiz konungr ok setti sik fra hiali vid Martinum, en setti þegar menn til i stad at drepa þa menn, sem Martinus bad lifs. Þetta fregnar Martinus, ok ferr þegar til hallar konungs, ok baud nu konunginum at ganga i tidagerd med byskupum, ok hefdi þa þeir menn lif, er konungr hafdi ætlat at lata drepa ok einkum iörlunum. Þat skylldi konungr ok til vinna at lata eydaz herförina til Spanlandz. Konungr veitti þat feginsamliga, er hann beiddi. En eptir þria daga lidna var ætlat at vigia byskup þann, er Felix het, hann var inn helgazti madr ok makligr at taka byskups tign. Ok þann enn sama dag geck Martinus i tidagerd med þeim ok villdi helldr leggia a sik nöckura abyrgd, en þeir væri drepnir, er adr voru til bana radnir. Annan dag eptir for Martinus brott af borginni ok var ogladr ok ryggr um þessa samneyting, ok for sidar of daginn en foruneyti hans. En er þeir qvomu framm i skog einn, þa settiz hann nidr ok hugsadi fyrir ser, hveria tiltekiu hann skylldi hafa um þetta mal. En er hann hafdi skamma stund þar setit, þa kemr at honum guds eingill ok mællti vid hann: »Sok er til þess, er þu ert ogladr, en þo mattir þu eigi annan veg leysa or þessu vandrædi. Taktu nu traust af gudi ok endrbæt crapt þinn, at sia hlutr verdi eigi til minkunar þinnar dyrdar, helldr til æxlingar.« Þadan ifra var Martinus varr um at samneyta alldri slikum byskupum, ok þa .xvi. vetr, er hann lifdi sidan, kom hann til einskis byskupa fundar. Þat vard nöckurum sinnum eptir þenna atburd, at Martino vard torvelldra at reka diöfla fra odum mönnum, en verit hafdi; þa sagdi hann sva med tarum, at þat kom til þess, er hann hafdi samneytt byskupum fyrir naudsynia sakir, en þo endrbætti hann þat bratt med fullu trausti, þviat þat var litlu sidar, at diöfulodr madr var leiddr til husa hans, ok vard heill adr hann kæmi i husin inn.

50 (52). Þa er hinn helgi Martinus byskup skein i allzskonar kröptum, ok nafn hans ok frægd for um allan heim, þa öfundu(du) þat adrir byskupar ok gerdu rad med ser, hversu þeir mætti Martino fyrirkoma. Þeir atburdir verda, at kona ein vard lettari at sveinbarni, ok vissu menn eigi födur sveinsins. Þa taka byskuparnir þat rads, at þeir eggia hana til at kenna Martino barnit, ok qvedia þings til at hafa þar uppi þetta mal vid Martinum, sva at allr lydr heyrdi. En Martinus svaradi þolinmodliga ok bad færa

ser barnit. Ok þvi næst var þat þangat borit ok sellt Martino, ok tekr hann vid þvi badum hondum ok klappadi blidliga ok mællti: «Sonr minn, sonr minn!» En sveinninn var eigi allrar viku gamall ok svaradi þo Martino med skyrum ordum: «Eigi ertu fadir minn, qvad hann, helldr Jon kaupmadr.» Þa fellu allir menn til fota Martino ræddir ok badu ser liknar. En enn helgi Martinus fyrirgaf þeim godgiarnliga sina meingerd, en tekr sveininn til sin ok skirdi ok kalladi Brictium, ok feck sidan sialfr þessum sveini alla atvinnu ok fæddi hann upp i munklifi sinu. Ok þa er Brictius var ungr at alldri, þa vigdi Martinus hann til munks ok nóckuru sidar til prez, ok unni honum mest allra sinna lærisveina; en Brictius var honum motgerdasamr ok geck iafnan miôg i mot honum med miklum skapraunum. Brictius var madr skapbradr ok olatr ok olydinn Martino; en ef Martinus ræddi um vid hann, at hann skylldi betr gera, þa svaradi Brictius illa ok let litt vid skipaz morgu sinne vid umrædur hans. En Martinus hafdi hoglyndi i mot ok lagdi þvi meiri stund a at snua honum aleidis, sem hann þoldi fleiri skapraunir af honum. En þott Brictius væri oværr i skapi a unga alldri, þa hafdi hann þo med ser leynda mankosti, þa er hann spôndu mest til astar vid gud ok enn sæla Martinum. Hann var madr skirlifr ok hreinn fra allri likamligri saurgan, sva at hann hafdi alldri vid konu skipt a æfi sinni.

Þat er nu fra sagt einnhvern dag, er Martinus sat uti hia kofa sinum, sem hann var vanr stundum, þa er hann var eigi a bænum, edr menn qvomu til mals vid hann, þa vard honum litit upp a gnipu, þa er yfir munklifinu var, ok ser hann þar sitia a gnipunni .ii. diôfla. Þeir voru katir ok gladir ok mællto sem einum munni: «Heill sva nu, Brictius, heill sva nu, Brictius!» En þvi mællto þeir þetta, at þeir vissu, hverri ædi þeir iosu i briost honum. En er skamt var at bida, þa kom Brictius þar laupandi ok var þa ordinn odr ok ærr af eggian diôflanna, sva at hann gætti varla handa sinna ok mællti vid Martinum môrg hardyrdi. En Martinus hafdi avitadan hann enn fyrra dag um marga ohlydni, þa er hann hafdi gerda. Slikum avitum reiddiz Brictius ok mællti mart osæmiligt vid Martinum, kalladi hann ecki vera sva godan mann, sem adrir toku a, en sagdiz sialfr vera miklu betri, þar er hann hafdi verit alla æfi sina i munklifi, en Martinus hafdi verit .xviii. vetr heidinn, «ok ma hann þess eigi dylia, en nu er hann elldiz, berr fyrir augu honum hverskyns sionhverfingar.» Slikt sva mællti Brictius ok mart annat verra, þat er betra er at þegia en

fra at segia. Þa geck Brictius i brott um sidir ok þottiz þa hafa hefnt sin. En medan Brictius hafdi þetta mællt, þa svaradi Martinus eingu, helldr hafdi hann bedit fyrir Brictio alla þessa stund. Eptir þat er Brictius var a brottu, sagdi Martinus þeim monnum, er þar voru vid staddir, hvat diôflarnir hôfdu mællt, ok kendi þetta þeira illzku en eigi illvilia Brictij. Litlu sidar kom Brictius til fundar vid Martinum ok fell gratandi til fota honum ok bad ser liknar, en Martinus fyrirgaf honum þegar blidliga. Þat var einnhvern dag, þa er Brictius geck uti, þa mætti hann þorpkarli einum fatækum ok siukum, ok for sa at leita ens sæla Martini byskups ok mællti vid Brictium: «Ek bid her i allan dag, ef ek mætta finna enn sæla Martinum, ok veit ek eigi, hvar hann er.» Brictius svaradi: «Ef þu leitar þess ens æra manz, þa gacktu framm nôckuru[1] leingra ok se, hvar hann sitr ok gapir i himinenn upp sva sem vitlaus madr at vanda sinum.» Enn fatæki madr for at finna Martinum ok bad ser miskunnar, ok hvarf heill ok feginn fra þeim fundi. Litlu sidar funduz þeir Martinus ok Brictius, ok mællti Martinus vid hann: «Er þat satt, Brictius, at þer þikir ek ærr vera?» Brictius vard farr vid ok qvaz þat eigi einkum mællt hafa. Þa sagdi Martinus: «Þat hefir þu mællt, ok heyrda ek gerla, hveriu þu svaradir enum fatækia manni, er hann spurdi at mer; en ek segi þer þat nu vist med sônnu, at ek hefir þat þegit af gudi, at þu skallt byskup vera næstr mer, ok kann ek þer þat at segia, at þu skallt marga gagnstadliga hluti þola i þinum byskupsdomi.» Þa svaradi Brictius med hlatri miklum: «Hefir ek eigi þat satt sagt, at sa er ærr madr, er slikt mælir.» Eptir þat hætta þeir þessi rædu. Margir menn mællto þat vid Martinum, þa er Brictius var prestr ok gerdi honum skapraunir, hvi hann tæki eigi embætti af honum. En Martinus svaradi: «Ef Cristr þoldi Judam, hvi muna ek þa eigi þola Brictium.»

51 (50). Sa atburdr var eitthvert sinn, þar er kaupmenn voru a sio staddir, þa gerdi at þeim mikla rid, ok var vid sialft buit, at skipit mundi faraz, en þeir tynaz, ok voru þeir ræddir miog. Þa tekr til orda egipzkr madr einn heidinn ok mællti: «Gud Martini, hialpdu oss.» Ok þegar er hann hafdi þat mællt, þa stôdvadiz ridin, ok [lofudu þeir[2] gud ok enn helga Martinum.

52 (51). Licuncius het einn gôfugr madr ok trufastr, er vard fyrir miklum bardaga: ônduduz sum hiu hans med bradri sott, en sum lagu siuk. Hann sendi rit Martino ok bad hann hialpa ser.

1 nôckura *Cd.* 2 [ lôfu *Cd.*

En Martinus taldi þat torvelligt vera, þviat hann skildi þat af krapti sinum, at þessir menn voru vordnir fyrir bardaga guds. Sidan tok Martinus ok fastadi ok var a bænum viku alla samfast, ok let eigi af at bidia, adr þessir menn allir voru heilir. Eptir þat for Likuncius a fund Martini ok sagdi heil öll hiu sin, en færdi Martino at giöf .c. marka silfrs. En er Martinus var bedinn at þiggia þat, þa sagdi hann: «Fædi kirkiàn oss ok klædi, en vær þurfum eigi framar at girnaz.» Likuncius leysti menn or höptum med þessu fe öllu, eptir þvi sem Martinus lagdi fyrir hann.

53. [1]Enn heilagi Martinus byskup vissi leingi fyrir andlat sitt ok sagdi brædrum deili a þvi, at andlatztid hans nalgadiz. Þat bar ok saman, at hann heiman for til þorps þess, er Condarensis heitir, ok er þar byskupsstoll i þvi þorpi. Martinus villdi sætta kennimenn, er þar voru missattir vordnir, ok þotti honum þau god sin æfilok, at hann endrbætti frid heilagrar cristni, adr hann andadiz. En er hann for med lærisveinum sinum (i) nandir a nöckurri, þa sa hann fugla hia anni, þa er skarfar heita, ok veiddu þeir fiska or anni eptir edli sinu. Martinus nam stadar ok leit til lærisveina sinna ok mællti klöckvandi: «Fuglar þessir, er vær siam, þeir bera diöfla liking a ser, þeir sitia um uvara ok taka þa, er vitlitlir eru ok þeim trua, ok gleypa sidan, en sediaz alldri.» Sidan baud hann fuglunum, at þeir flygi a braut a fiöll ok skoga, ok neytti þess velldis vid þa, sem hann var vanr, þa er hann rak diöfla fra odum mönnum. Þa flycktuz skarfarnir saman i einn dun ok flugu fra vatnföllum i brott a fiöll ok heidar. En Martinus for, sem hann hafdi ætlat, til þessa byskupsstols, ok dvaldiz þar nöckura rid ok sætti þa menn alla, er þar voru missattir. Ok er hann ætladi heim at fara, þa kendi hann ser sottar, ok gerdiz hann bratt miog mattfarinn ok heimti til sin lærisveina sina ok sagdi þa skamt eptir mundu vera þeira samvistu, sva sem hann hafdi þeim adr fyrir sagt. Þeir urdu allir vid þessa sögu ryggir ok gretu akafliga ok mællto vid hann sem einum munni: «Af hvi fyrirlætr þu oss, heilagr fadir, huggunarlausa, edr hverium felr þu oss a hendi, þa er þu skilzt vid (oss)? Skædir vargar munu gripa hiordina, þegar hirdirinn er fra farinn, edr hverr mun þa skyla oss vid þeira bitum ok ogurligum arasum? Witum vær þat allir, at þu girniz til guds at fara, en eigi mun þverra dyrd þin, þottu lifir nockvi leingr, ok eigi munu minkaz þinar ombunir; helldr miskunnadu oss, heilagr fadir, ok far eigi fra oss.» En er Mar-

1 **Her er andlat ens helga Martini byskups** ***Overskr.***

tinus sa lærisveina sina grata, þa er hann unni mikit, en var sialfr fullr miskunnar, þa sneri hann ollu sinu radi ok fysi a guds forsio, þviat hann sialfr vissi eigi, hvort er hann villdi lifa edr deyia, þviat hann villdi eigi ryggia lærisveina, er hia stodu, en hann var þo fuss, sem von var, at fara til guds, ok svaradi a þessa lund: »Heyrdu, drottinn! ef lyd þinum er naudsyn a, at ek lifi leingr, þa vil ek eigi skiliaz vid þesskonar erfidi; verdi vili þinn, drottinn. Þung þiki mer, drottinn, byrdr likamligs erfidis, ok vist hefir ek ok leingi lifat ok þolat margar þrautir fyrir þinu nafni, þa mun ek þo eigi sakaz vid mikinn alldr ok vera buinn til at beriaz undir þinu merki, ok eigi skal ek a hæl fara i orrostunni; ok þott gômlum manni se æskilig hvilld eptir langt erfidi, þa sigrar þo hugrinn aratôluna; gott er mer þat, drottinn, ef þu villdir vægia alldrinum en vorkynna ellinni. En um lydinn em ek ræddr, ok ef þu tekr mik fra, drottinn, þa vardveittu sialfr lydinn, verdi allir hlutir eptir þinum vilia.« Þo var sa oumrædiligr madr, er eigi var sigradr i erfidi ok eigi i dauda, fyrir eingu vætta neigdiz hann, ok eigi vissi hann, hvort hann villdi helldr lifa til hialpar mônnunum edr deyia ok fara til guds.

54. En er sottin tok at vaxa, en likaminn at mædaz, þa let hann þeygi ôndina lina likaminum, ok var avallt a bænum en vakti i sifellu. Ecki skipti hann ok um reckiu sina, et sama var hon gôfuglig ok hæglig, i ôsku hvildi hann, ok breitt a ofan harklædi. Þa badu lærisveinarnir, at þeir skylldu na at leggia halm undir hann. Þa sagdi enn helgi Martinus: »Eigi somir, brædr minir, annan veg at deyia[1] en i moldu edr harklædi. En ef ek gef ydr ônnur dæmi, þa misgeri ek sialfr.« Hendr ok augu hof hann avallt til himna, en hugr hans hvarf alldregi af heilagri bæn. En er prestar þeir, er vid voru staddir, badu, at hann skylldi snuaz nôckut i reckiunni a ymsar lidar ok gera ser hægra, þa svaradi enn helgi Martinus a þessa lund: »Latit vera, brædr minir, latid mik helldr na at sia himin en iôrd, at ônd min megi fara rettleidis til guds.« Ok er hann hafdi þetta mællt, þa sa hann, hvar diôfullinn stod eigi langt a brott, ok mællti vid hann: »Hvi stendr þu her, et dreyrgazta hrædyr? Ecki muntu finna med mer þinna verka. Abrahams fadmr[2] mun vid mer taka.« Ok er hann hafdi þetta mællt, þa skildiz su en helgazta ônd vid likamann med fôgru andlati. Þat var a drottinsnott, er enn helgi Martinus andadiz nær midri nott fyrir drottinsdaginn, ok heyrdu margir

1 degia *Cd.* 2 fadir *Cd.*

menn fagrar raddir til himna upp, þa er guds einglar færdu ǫnd hans til eilifra fagnada. Aller þeir er hia andlatinu voru, sa mikla dyrd a likam hans: andlit hans var biartara en lios, en likami hans hvitari en snior ok þotti þegar bera a ser mikla liking oordinnar upprisu, ok mundi þvi eingi madr trua nema sæi, at likami hans mætti sva alreinn vera, sa er nytekinn var or ǫsku ok harklædi. En þangat kom, þa er Martinus var andadr, mikill fioldi manna or ǫllum enum næstum borgum ok herǫdum, ok var þo mestr munka fioldi. Þeir voru eigi færri saman komnir en mm. Allr fioldi manna dreif ok þangat af Turons borg ok allir flestir or Peitu borg. En þessir menn allir gretu miǫg ok hǫrmudu frafall Martini, ok allra mest munkarnir. En þott þeir greti, þa var þvi fagnanda, er Martinus for til guds, heilagligt var at fagna dyrd hans, ok milldligt at grata dauda hans, þviat trua eggiadi fagnadanna en heilug ast harmsins.

55. Eptir andlat ens helga Martini gerdiz þræta mikil milli Turonar manna ok Peitu manna. »Vorr var hann munkr ok vorr var hann aboti, sogdu Peitu menn, ok fra oss tokut er hann ydr til byskups, ok nadut sidan hversdagliga vidmæli hans ok iarteigngerd ok helgum kenningum, ok a svogort ofan byskupligri blezan. Nu megu ydr slikir hlutir þǫrf vinna, en vær munum hafa helgan dom hans med oss.« Turunar menn sogdu: »Ef er segit oss mega þǫrf vinna iarteinir hans, þa vitit þer þat sialfir, at hann gerdi fleiri iarteinir med ydr en med oss, þviat hann reisti her upp einn daudan mann en þar .ii.; sagdi hann ok sva sialfr, at hann hefdi fleiri iarteinir gert fyrir byskupsdom sinn helldr en i byskupsdominum. Nu hæfir þat eitt, at hann fylli þat med oss andadr, er hann fylldi eigi lifandi, er hann fra ydr i brott tekinn en oss gefinn af gudi. Nu med þvi at er vilit, at vær hafimz lǫg vid, þa vitit þer þat, at at þeim stoli a hverr at hvila, sem hann hefir verit vigdr til. En ef er vilit þat segia, at hann eigi þar at hvila, sem hann var fyst munkr, þa viti þer þat, at hann var i Melans borg fyrr munkr en med ydr.« En er þeir þrættu a þessa lund, þa kom nott, ok vardveittu hvorirtveggiu likit, ok ætludu þeir or Peitu borg at taka likit um morgininn eptir fra Turons monnum naudgum. En gud villdi eigi ræna Turons menn byskupi sinum. Ad midri nott sofnudu Peitu menn allir, sva at eingi madr vakti af þeim enum mikla mannfiǫlda. Þess neyttu Turons menn ok toku likam ens helga Martini ok letu ut um glugg einn, en sumir toku [redacted] ok letu

koma a skip ok foru a brott med ollum skipum sinum, sva sem vatnfôllum gegnir til Turons borgar. Peitu menn vôcknudu vid araglam þeira ok soknudu ens æzsta gimsteins, er þeir skylldu vardveitt hafa, ok foru heim til borgar sinnar. En Turons menn baru lik. ens helga Martini i hofudkirkiu i Turons (borg) med gôfugligri likfylgiu, ok lôgdu þvi næst i grof med fôgrum lofsôngum.

56 (58). A þessi tid var enn helgi Ambrosius byskup yfer Melans borg. En er hann sông messu þann drottinsdag, er Martinus var andadr, þa stod hann ok studdiz vid allteri ofan i pistli ens helga Pauli postola. En þa er at guzspialli var komit ok byskup skylldi bleza diakninn, þann er gudzspiall skylldi lesa, þa vard fall a tidunum eigi skemri stund en um .iii. tidir dags. Þa gengu menn at Ambrosio ok vôktu hann ok mællto: »Biodi herra· vorr nu, at lectia se lesin, þviat allr lydrinn er modr ordinn ok hefir leingi bedit.» Þa sagdi Ambrosius: »Hrelliz er eigi, brædr, þviat mer er mikit veitt i þessum svefni, þviat drottinn hefir ser latit soma at syna mer miklar iarteinir; þviat þer skulit nu þat vita, at brodir minn Martinus er nu lidinn af þessa heims lifi, ok veitta ek nu þionustu hans liki, ok var einn capituli eptir osunginn, þa er þer vocktud mik.« Þa undrudu allir ok merktu þann dag ok stund, ok spurdiz sva til, at Martinus hafdi a þeiri tid andaz, sem Ambrosius sagdi sik þionat hafa liki hans.

57 (59). Sa atburdr vard enn i ôdrum stad a þeirri somu nott sem Martinus andadiz, at enn helgi Severinus, er þa var byskup yfir Kolni, geck kirkna i mille med klerkum sinum eptir ottosôngs tid. Þa heyrdi hann fagrar eingla raddir i himinenn upp ok kalladi til sin diakn sinn ok bad hann at hyggia vandliga, ef hann heyrdi eingla song. En erkidiaknenn tylltiz a tær ok studdiz vid staf byskups ok hleradi ok matti eigi heyra sônginn. Þa fellu þeir til iardar badir ok badu gud, at hann heyrdi; en er þeir risu upp af bæninni, þa spurdi byskup, ef hann heyrdi. Diaknenn svaradi: »Ek heyri sông fagran i himin upp, en ek skil eigi hvat þat taknar.« Byskup sagdi: »Ek mun segia, hvi taknar. Herra minn Martinus for nu af þessum heime, ok færdu ônd hans guds einglar fagnandi til himna. En er dvôl nôckur vard a adan, er þu mattir eigi heyra sônginn, þa kom diof(ul)linn til med illgi(o)rnum einglum ok hugdiz hallda mundu salunni, en hann fann þo ecki sinna verka med honum ok flydi a braut med skemd. En hvat mun af oss verda syndugum monnum, þa er ovinrinn þordi at deila til sliks kennimanz.« En er Severinus hafdi þetta mællt, þa sendi

hann erkidiakn sinn til Turons borgar at spyria, hver tidindi þar hôfdu gerz a þeim dôgum. En sa er sendr var kom aptr ok sagdi, at a þeiri enni sômu tid hafdi Martinus andaz, sem Severinus hafdi heyrt einglasônginn.

58 (57). Severus er Sulpicius het ôdru nafni, lærisveinn ens helga Martini ,ok enn mesti astmadr, er þessa sôgu hefir fyst ritat, sagdi Martinum hafa ser vitraz, sva sem hann sagdi a riti þvi, er hann sendi Auriliano diakni, en sva mælir a ritinu eptir qvediusending: »Sidan er vid skildumz, brodir, þa sat ek einn eptir i husi, ok var þa i hug mikil ahyggia, sem opt verdr af von oordinna hluta ok leidindi nyligra hluta, af domadags ogn ok ræzlu eilifra kvala. En sia ogledi ôll saman geriz mest af endrminningu[1] synda minna. En eptir þessa mæding hugarins lôgdumz ek i reyckiu mina, ok sofnadi ek, sem opt er vant, at svefn kemr eptir ogledi. En er ek var sofnadr, sva at ek þottumz nær þat vaka, sva sem morginsvefnar verda opt lausari en adrir, þa þottumz ek sia helgan Martinum byskup skryddan hvitu skrudi: andlit hans var sem elldr, en har hans sem purpuri, ok syndiz mer hann sva, sem ek ma varla ordum til koma fra at segia, en ek matta kenna hann en lita varla i gegn honum. Hann brosti vid mer ok hafdi bok i hendi, þa er ek hafda ritat eptir lifi hans. Ek hugdumz falla til fota honum ok bidia hann blezunar, ok kenda ek, at hann lagdi hond yfir hofud mer. En i millum blezunarorda er ek leit vid honum, ok villdi ek avallt a hann sia, þa[2] syndiz mer hann lida i lopt upp, unz sky baru hann or augliti minu til himins. En litlu sidar sa ek Clarum prest lærisvein hans, þann er fyrir skômmu andadiz, ok for hann enn a sômu gotu eptir, sem lærifadir hans for fyrir. En er ek villda fara eptir þeim, þa vaknadi ek, ok tok ek at fagna syn þeiri, er ek hafda sed. Þa kom inn sveinn einn farandi ok var ogladr, en ek spurda, hvat honum væri at ogledi, en hann svaradi: »Tveir munkar qvomu or Turons borg ok sôgdu Martinum byskup andadan, en ek gret akafliga, er ek heyrda þetta, ok nu falla mer tar um kinnr, er ek rit rit þetta, ok ma ek eigi huggaz af harmi minum. En ek vil, brodir, þik lata hluttakanda vera harms mins, sva sem vid erum badir hluttakendr einnar astar. Kom þu til min, brodir, ok gratum badir þann, er vid elskudum badir, þott ek vita, at makligra væri at fagna en at grata, þviat honum er nu gefin dyrd eilifs rettlætis, þviat hann hefir borit sigr af þessum heime; en ek ma

1 eudrnygingu *Cd.* 2 þy *Cd.*

eigi stôdva harm minn, ok hefir ek mikinn arnanda sendan fyrir mer, en tynt hefir ek þo þessa heims huggun; fagna skylldi ek helldr, ef harmr mætti lata fyrir skynsemi, þviat Martinus er nu kominn i sveit med postolum ok spamonnum guds; ok þetta mæli ek i leyfi allra heilagra, at hann er iafningi enna hæstu heilagra manna, at þvi er ek trui, ok fylgir hann nu guds lambi reinn fra ôllum synda sauri, samteingdr hiôrdu rettlatra manna ok allra hellz piningarvotta guds; þviat hann matti ok villdi vera piningarvottr guds i fysi ok crapti, þott skynsemi þessar tidar veitti honum eigi pining; ok þott nu kolni hvern dag ast margra, þa kolnadi eigi hans ast, helldr ox hon dag fra degi. Þeirar astar hans naut ek overdr, þviat hann elskadi mik framar en nôckurn annan. En nu ma mik einskis manz ast hugga hedan i fra, ok harma ek þat hvern dag, er ek lifda honum leingr, ok ma ek hans alldri oklôckvandi minnaz. En til hvers græti ek þik, brodir, i þessu riti, þar er ek villdi, at þu værir huggadr, þott ek megi eigi hugga sialfan mik af harmi minum.« Þetta bref ritum vær til þess, at þadan af ma marka, hveria ast menn hôfdu a Martino, þeir er med honum hôfdu verit. Enn helgi Martinus byskup fullr af ollum crauptum ok heilagleik andadiz a dôgum Archadij keisara sonar Theodosij ok Honorij brodur hans; en i þenna tima var pafi yfir Romaborg Innocensius, sa er fystr var med þvi nafni. Martinus hafdi einn vetr ens niunda tigar, er hann andadiz, en hann hafdi byskup verit .vi. vetr ok .xxx. Þa voru lidin fra higatburd drottins vors Jesu Cristz .cccc. vetra secundum Speculum Historiale.

59 (60). A enu sextuganda ari fra andlati ens helga Martini byskups tok sa madr byskups tign i Turons borg, er Perpetuus het. En er hann hafdi byskupsdom tekit, þa villdi hann i ôllum hlutum vegsama enn helga Martinum byskup ok let taka ofan kirkiu, þa er gor hafdi verit enum helga Martino, en gera adra miklu meiri ok dyrligri. En þa er kirkia var alger ok byskup villdi vigia hana ok taka upp helgan dom Martini or þeim stad, sem hann var grafinn, þa baud hann til þessar hatidar ôllum enum nalægztum byskupum ok abotum ok morgum munkum ok kennimonnum i upphafi[1] manadar þess, er Julius heitir. Þeir vôcktu um nottina fyrir þann dag, er þeir ætludu helgan dominn upp at taka, ok um morgininn eptir leitudu þeir til ok grofu yfir steinþro Martini. En er þeir villdu hana upp taka, mattu þeir eingan

1 upphafdi *Cd.*

veg hræra hana. Þa urdu þeir ogladir vid ok vissu eigi, hvat þeir skylldu til taka. Þa tok til orda einn af klercum ok mællti: »Witid þer eigi, at eptir .iii. daga er vixludagr ens helga Martini, ok mun hann a þeim degi vilia vera upptekinn, sem hann var til byskups vigdr.« Þa baud byskup, at menn skylldi a bænum vera þa .iii. daga ok fasta ok vaka ok bidia Martinum arnadarordz at um þetta mal. En a enum .iii. degi geingu þeir til grafarinnar ok villdu upp taka steinþro, en mattu hvergi hræra. Þa urdu allir uqvæda vid ok vissu eigi, hvat til skylldi taka, ok baruz þat helz fyrir at hylia steinþrona molldu. En i þvi bili syndiz þeim gamall madr, hvitr fyrir hæru, skryddr hvitum purpuraklædum, kennimanligr miôg, ok hugdu þeir hellz, at abote nôckurr mundi vera. Sa madr tok til orda ok mællti vid þa: »Hvi standit er nu ok hafiz ecki at? Se þer eigi enn helga Martinum, (er) stendr hia ydr ok er buinn til at starfa med ydr, ef er takit til.« Sidan varp hann af ser motli sinum ok tok til steinþroarennar med þeim, ok var þa audvellt at hræra hana þangat, sem þeir villdu. Eptir þat baru þeir helgan dominn i kirkiu med allri dyrd, crossum ok kertum ok reykelsikerum ok miklum lofsôngum, ok settu nidr helgan dominn i haleitan stad hia allteri, ok beid hann þar, unz hann var i skrin lagdr. Sidan hofu þeir messu upp ok sungu hatidliga, ok þa er messunni var lokit ok ôdrum tidum, ok menn gengu til veizlu, þeir er byskup hafdi þangat bodit, þa bad hann leita at þeim virduliga manni, er þeim hafdi synz, þa er þeir toku helgan dominn upp, ok fanz hann hvergi. Ymsar voru þar getur manna a, hverr sa enn dyrligi madr mundi vera, sumir ætludu guds eingil, en sumir sialfan Martinum byskup. Þar verda sidan at þeiri kirkiu, er enn helgi Martinus hvilir, allzkonar iarteinir, fa sion blindir, en heyra daufir, en diôflar flyia fra odum mônnum, en likþraer hreinsaz. Hefir almattigr gud vegsamat enn helga Martinum byskup umframm vel flesta adra sina astvini fyst i lifinu med þviliku valldi ok iarteinagerd, sem nu hafit er heyrt, ok sva faheyrdum iarteinum, at hann hefir .iii. menn af dauda reist ok þa eina, er sva voru komnir i valld diôfulsins, at þeir attu einga von til guds, þviat þeir voru uskirdir ok sva herfiliga at teknir, at sumir hôfdu fyrirfarit ser sialfir; ok er fyrir þa sôk sva sungit i hans enum helgum lofsôngum, at hann hafi .iii. sinnum sundrat helviti. En i sialfu lifinu var hann sva reinn ok skirr ok fraskila ôllu saurlifi at til sliks finnaz varla dæmi, ok er hann af þvi kalladr af a

cristni gemma sacerdotum, þat þydiz gimsteinn kennimanna. Sa steinn, er gemma heitir, berr langt af odrum steinum i sinum skirleik, sva berr ok heilagr Martinus af ǫllum kennimonnum. Er þat mikill vitnisburdr heilagleiks ok dyrdar ens helga Martini, at honum var fyst vigd kirkia allra samt pindra manna, ok let þat sa gera, er honum var likaztr i meinlætum ok i iarteinacrapti ok ollu lifinu, enn helgi Benedictus aboti. Su dyrd er honum ok veitt af heilagri cristni, at honum einum er octavas sett ok sungit af ǫllum sottdaudum[1] monnum, ok þau leyfi gefr pafinn sialfr a hans hatid, er bok su vottar, er Penitencialis heitir, er hann vill eigi gefa a velflestum odrum hatidum af skriptum manna. Þessum ordum rædir Innocencius pafi, sa er enn .iii. var med þvi nafni, um enn helga Martinum: »Eptir tru minni mæli ek, qvad pafenn, en þo ero leyndir fyrir oss guds domar, at verdleikar allra sottdaudra manna mega eigi iafnaz verdleikum eins saman Martinus byskups.» Nu hǫfum vær yfir farit nǫckurn hop af iarteinagerd ens sæla Martini byskups, ok munum vær nu eigi fleira at sinni segia fra þeiri dyrd, er almattigr gud veitir honum, en þo skulum vær nu einkum sækia hann at arnadarordi ok bidia þess, at hann arni oss af sinni milldi ok miskunnsemi vid almatkan gud allra þeira hluta, er vær þurfum mest af honum at þiggia þessa heims, en at lidnu þessa heims lifi veiti hann ǫndum vorum paradisar hvilld til domsdags, en at enum efzta domi ladi hann andir vorar med sialfum ser ok ǫllum helgum mǫnnum til eilifra fagnada ok þeirar sælu, er alldri verdr endir aa.

[1] sottdauda *Cd.*

# MAURITIUS SAGA.

*(Cd. 235 folio).*

**Prologus.**

Svo segia frodir menn, sem helgar bækr visa til, at Octovianus Augustus hafi fyrstr allra keisara haft einvalld yfir aullum heimi. Hann stodvadi allan hernad ok setti frid um allan heim allra manna i millum. Hann baud ok sva, sem hann segir Lucas i gudspialli sinu, at nofn allra manna skylldi rita i hans riki, þviat hann villdi taka skatt af hverium manni; villdi hann ok vita taulu allra sinna undirmanna. A audru æri hins fimta tigar hans rikis var fæddr fra Mariu mey hingat i heim varr hialpare Jesus Kristr, bædi gud ok madr, oss til hialpar, helgandi enn setta alldr heims þessa, þann sem nu er, med sinni hingadkvamu miskunnsamligri. Æn þa er lidit var fra hollgan drottinligri .ii. c æra .ix. tigir ok eitt ær, hafdi riki yfir Romverium Dioclecianus keisari, hann var inn þridi ins fiorda tigar at tolo fra Octoviano keisara. A dogum þessa[1] Diocleciani gerdizt ofridr vida um heiminn ok hans riki sva mikill, at hann fek eigi stodvat einn. Var þat ok makligt, at hans undirmenn væri honum ohlydnir, [er hann var[2] ofridsamr vid krisna menn. Tok hann sidan til rikisstiornar med ser þann hofdingia, er Maximianus het, ok Herculius var kalladr, ok gerdi hann med ser samfelaga allz rikis ok tignadi hann med keisara nafne ok vallde. Ok nu er þessir .ii. keisarar hofdu riki, Dioclecianus i Australfu, en Maximianus i Vestralfu, gerduzt þeir sva grimmir vid kristna menn, at þeir brutu nidr helgar kirkiur ok eyddi hvervetna cristnum domi, ok leitudu med aullu nidr at briota kristiliga tru, sva at þeir þyrmdu æyngum af gudligri hiord. En med gudligri forsio var þat sidan opinbert i ævextinum, er þa

1 þessi *Cd.* 2 [ ok *Cd.*

var sadkastinu starfat. Þessi ofridr, er Dioclecianus ok Maximianus gerdu krisnum monnum, var inn tiundi fra þeim, er Næro gerdi guds vinum sa sinum dogum, grimmari ok leingri en adrir, þeir sem verit hafa, sem bękr votta; þviat sva finzt ritad, at sa einum manadi þoldu piningh ok dauda .xvii. þusundir heilagra manna fyrir Kristz nafni ok heilagri tru. Þessi ofridr stod .x. ar med uppteknum grimleik. At lyctaudum þessum ofridi fylgdi skiotlig ok sakaflig hrapan heidins doms ok eilift nidrbrott blotstada ok skurgoda. Þa veittis fridr guds krisni um allan heim, ok þeir margir, er fyrr hofdu verit hinir striduztu ovinir, gafu nu sialfviliandi sinn hals undir ok heilagrar ok almenniligrar truar, med þeim hætti sem gerdizt i Egipto eptir id tiunda safelli, þa er gud laust alla þeira frumburdi med bradum ok enum grimmasta dauda. Gaf Pharao eigi at eins fullt frelsi Israels sonum brutt at fara, helldr skylldadi hann þa til sakafliga bruttferdinni at skunda med miklu fiar framlagi. Þat ma ok enn sia, segir sa er þessa hluti hefir saman lesit ok ritad, at eptir þann mikla ofrid, er krisnir menn þoldu, hafa þeir, er fyrr veittu motstodu heilagri tru, veitt sidan mikla uppreist helgum kirkium, sem forn smidi votta, þau sem enn ma sea.

**Saga Mauricij** [1].

1. A dogum þeira keisara Diocleciani ok Maximiani gerdizt ofridr fyrir nordan fiall i Gallia. Amandus ok Eleanus [2] hetu þeir, er formenn voru þeira vikinga, er med þrelsligri ofdirfd gerdu laugbrot ok [reistuzt i mot Roma [3] riki ok spilltu sva fridi ok frelsi ok alþydu rett. Keisararnir gerdu þat rad, at Maximianus for nordr um fiall med mikinn [4] her at staudva þenna ofrid. En eptir þvi sem Dioclecianus baud, reduzt til þessarrar herferdar med Maximiano þeir riddarar af austrhalfunni, er Thebæi eru kalladir, med sva miklu fiolmenni, sem þa var legio kaullud, en eru [5] .vi. þusundir ok .vi. hundrud ok .vi. tigir ok .vi. menn. Þessir voru miok agetir ok sterkir bædi at hug ok hreysti ok vel at vopnum bunir ok med romveskum sid tilsamdir, hversu þeir skylldu mæta

1 *Begyndelsen af Sagaen findes ogsaa paa sidste Spalte af Cd. Holm. 2 folio, hvor Overskriften lyder*: Her hefr upp sogu Mauricij iarllz ok hans felagha. 2 Helianus *Holm.* 3 [ reidduz Romveria *Holm.* 4 miklum *Holm.* 5 þat er *Holm.*

sinum ovinum i bardaga. Mauricius iall var hofdingi fyrir lidi þessu, ok þessir voru þar nafnfrægir menn i hans her: Exuperius, Candidus, Victor, Innocencius ok Vitalis. Mauricius ok aull hans riddarasveit hafdi tru tekit af byskupe i Jorsalaborg, adr þeir foru ut[1] um hafit, ok settu þegar kraptt heilagrar truar umfram allan likamligan vapnabunad med mikilli stadfesti. Ok þessa ena somu heilaga[2] tru stadfestu þeir fyrir pafanum[3] sidan i Romaborg med þeim svardaga, at þeir skylldu fyrr lifit lata en ganga af tru sinni. En er þeir fundu keisarann Dioclecianum, sendi hann þa nordr um fiall, svo sem hann hafdi fyrr rad fyrir gert, til lids vid Maximianum, þviat hann var adr farinn nordr undan[4].

2. Svo er sagt fra Maximiano keisara, at hann kunni mikit af riddaraskap ok hafdi sik miok samit til [riddaraskapar ok[5] hernadar. Mikinn hug[6] lagdi hann a blotnad[7] ok skurgodum at þiona. Hann var grimmr ok miok ægiarn til fiar ok metnadar ok i vafidr[8] saurlifi ok maurgum audrum laustum. En sva var akafligr hans grimleikr, at þadan af spillti hann mikiliga keisaraligu valldi. Ok þa er hann kom nordr um fiall med mikinn her bædi kristinna manna ok heidinna, þa ottuduzt ovinir hans Amandus ok Elianus eina samt hans tilkvamu, þeir[9] er adr hofdu valldit styriolld ok ofridi[10], ok gengu sva audvelliga til sætta, at Maximianus fek eyngan skada a sinum her. Þar næst fretti hann, at mikils hattar madr nockur, er Caricius het, gerdi(zt) otrur Romverium ok hofzt med sinni sveit til ofridar nordr i Fraklandi i mot keisarans valldi. Þessi hafdi þo verit skipadr formadr yfir þvi heradi, er liggr nordr vid uthafit, þar sem Franzeisar hofdu tysvar adr verid brutt reknir af sinum eignum, nær þvi er mætazt rikin Gallia ok Saxland. I mot þessum ofridi sendi Maximianus menn af sinum her nordr yfir aa þa, er Rin heitir, at hegna riddaraligum styrk þenna ofridarflok. Agætir hofdingiar drottinligrar orrostu voru formenn þessarrar ferdar, Gereon, Victor, Cassius, Mallusius ok Florencius, ok mikil riddarasveit fylgdi þeim af krisnum monnum. Þessir allir, er nu voru nefndir, voru af lidi Mauricij ialls.

3. En eptir mikit erfvidi langrar ferdar stodvadi Maximianus keisari allan þann her, sem þa var med honum, a nockurum

1 utan *Holm.* 2 *saal. Holm*; heilagra *Cd.* 3 Marcellino *tilf. Holm.* 4 þeim *tilf. Holm.* 5 [ *mgl. Holm.* 6 *tilf. Holm.* 7 blotskap *Holm.* 8 vafdr bædi *Holm.* 9 *rettet*; þeim *begge Cdd.* 10 *Her ender Holm.*

slettum vollum vid þann stad, er Octodorus heitir. Ok fyrir (þvi) at þar voru morg rennandi votn iordina doggvandi, voru nalægir stadir vel blomgadir, þadan vidir akrar mikinn aavoxt berandi. Þar nær er aa su, er Rodanus heitir, prydandi nalægt herad, þviat hun fell eigi þar med miklum straumi. En þa er Maximianus keisari hafdi tekit hvilld i þessum stad, baud hann, at allr herrinn skylldi saman koma; let hann sidan efla blot mikit ok skylldadi alla at sveria yfir blotinu at beriaz hraustliga i moti þeim, er reistuzt mot romversku riki. Þar med baud hann at sveria þa uhæfu, at[1] meida skylldi alla ok pina krisna menn sva sem ovini godanna, þa er eigi villdi blota, hvar sem þeir yrdi fundnir. Ok þa er Mauricius iarl spurdi þessi tidendi, sneiddi hann hia þeim stad, er Maximianus let blotid efla, ok for skyndiliga med allri sinni sveit um atta milur til þess stadar, er Agaunum heitir, at eigi af nakvarri dvol mætti þeir verda þraungder med þessi naudsyn at gera sva mikit laugbrot, sem keisarinn baud. Vid þenna stad Agaunum var aen Roddanus þreyn(g)d med sva miklum ok brauttum gnipum, at eigi matti annan veg yfir komazt, en bruad væri. Nær anni, þar sem brattir hamrar gerda, en audrum megin gætir aain, var einn fagr vollr med uppsprettandi votnum gnogum, en þangat var at fara um þraungt einstigi, þar tok Mauricius iall hvilld med sinni sveit eptir erfidi langrar ferdar. Gæreon var adr farinn med sina sveit, sem fyrr var ritad, ok skilidr vid Mauricium at likamligri navistu en eigi at heilagri tru, ok þadan af var þat, at hann hafdi eigi heyrt þetta il glæpafulla bod Maximiani.

4. Þa er Maximianus keisari hafdi allan sinn her til skylldad slict at sveria yfir blotstollum sinna goda, sem fyrr var sagt, vard hann þess varr, at Mauricius iarll med sinni sveit hafdi fyrri sik fra skilid herinum. Vard keisarinn nu aakafliga reidr ok sendi sina þionustumenn aptr at kalla Mauricium, at hann ok hans felagar skylldu sveria slika uhæfu ok snuazt sidan til blota. I þeim her kristinna manna, sem nu var fra sagt, var Mauricius iall hęstr hofdingi i þeira lidi ok fremstr; Exuperius var hans merkismadr, Candidus var kalladr senator, en þat hefir verit leingi mikit tignarnafn i Romaborg. Þessir hofdingiar styrdu samriddurum sinum meira af guds ast biodandi þeim hlydni en med iardligri ogn. Þeir voru ok radugir ok rauskvir i orrostu, gaufgir ok aurauggir at arædi, en gaufgari at heilagri tru, þreyttu fyrir keis-

[1] ok *Cd.*

ara med afli ok styrk, en þionudu gudi med sannri godfysi. Sva var mikill grimleikr heidinna manna aa þeim tima moti guds vinum, at hvar sem vart var vid krisna menn, voru riddarasveitir til skipadir(!) þa haundum at taka, ær þordu saunnum gudi at iata ok hans þionust(u), ok draga til kvala eda dauda, ef þeir villdi eigi blota. Var þetta nu nokcut frelsi þeim, er adr striddu i mot fridinum, er allr þungi hernadarins snerizt upp aa þa, er satt sidlæti villdu vardveita. Mauricius ok hans riddarar vardveittu gudzspiallz bodord undir vapnabunadi, gulldu þat gudi, er hans er, en þat keisara, er þeir voru honum skulldbunnir; ok sva sem þeir hofdu numit at pafvanum truna, hversu þeir skylldu vardveita meinleysi kristiligs sidletis undir vopnum romveskrar riddarasyslu, svo vardveittu þeir skiran sannleik hans kenningar allt til endalyctar sinnar þrautar med osigrudu rætlæti sannrar truar. Sæll ok heilagr er þessi riddarasamnadr, er sva biuggu sik til veralldligrar orrostu, at þeir vardveittu meinleysi i sinu briosti ok kunnu sva vopn at bera moti[1] ovinum ens romverska fridar, at þeir baru eigi hernadar vopn helldr heilagrar truar i gegn sinum motgerdum siolfra. Hofdu þeir ok allir radit med ser med einu samþycki ok þat gudi heitid, at þeir skylldu i þvi hlyda keisarans bodordi at beriazt i mot opinberum uvinum fridarins, en virda einkis bod hans um allt þat, er i moti væri sid heilagrar tru ok sidlæti, ok þeir skylldu helldr lata þetta id stundliga lif fyrir Krizt nafni, en lifa stundliga gudi neitandi ok tyna sva enum eilifa[2] fagnadi. Sidan frettu þeir eptir sendiboda keisarans, hvat hann baud þeim at flytia, ef hann var reidr ordinn. Þeir svorudu, at hann baud, at allir riddarar skylldi ganga til ok blota ok godunum fornir at færa ok þeim þionustu at veita, ok þvi skylldu þeir skiott aptr hverfa[3] at gera þessa hluti eptir dæmi sinna samriddara. Mauricius iall ok adrir hofdingiar hersins svorudu med hogværligum ordum, at fyrir þa sok hofdu þeir hia snuit stadnum Octodoro, at þeir hofdu spurt, at blotid var efnt[4], en villdu eigi saurga kristinn sid i skurgoda þionustu; sogdu ok, at þeir villdu lifanda gudi þiona ok hann dyrka ok rettri tru hallda, þeiri er þeir hofdu numit i Jorsalaborg, ok hana at vardveita til endalyctar sins lifs. Her med sogduzt þeir vera bunir med aullum sinum styrk at bæriazt med keisaranum til fridar ok frelsis allum godum monnum, en villdu eigi til þess aptr (hverfa) at væfiazt i glæpum eda gera logbrot, sem keisarinn baud. Sendimenn keisarans foru aptr ok sogdu

1 sinum *tilf.* *Cd.* 2 stundliga *Cd.* 3 fara hverfa *Cd.* 4 enpt *Cd.*

Mauricium iall ok hans sveit vera miok harda i sinni fyriretlan ok vilia eigi hlyda hans bodordi.

5. Þaa vard Maximianus akafliga reidr ok sagdi sva med mikilli ædi: »Hvart skulu nu riddarar minir hafna[1] keisarligum bodordum ok fyrirlata helgar fornfæringar goda vorra ok minna? Opinber hefnd etti fyrir at koma, þo at þeir gerdizt at eins ohlydnir konungligu velldi, ok nu samteingizt meingiord vid gudin, þviat þeir fyrirlita mik ok þar med (hafna) þeir romversku sidlæti. Skylldu ok nu þeir inir dramblatu vita, at Maximianus keisari kann at hefna (ok) ma hefna sinna meingerda ok guda sinna. Ok fyrir þvi fari skyndiliga flockr enna trauzustu minna riddara ok taki af lifi hvern enn tiunda mann af lidi Mauricij iarls, sva sem hlutfall beidir.« Eptir þetta ord keisarans foru hans menn skiotliga at fremia þetta id grima bodord. En riddarar Mauricij gengu gladliga undir dauda fyrir guds sakir ok rettu sialfviliandi sinn haals undir sverd ok auxi. Var þa hauggvinn inn tiundi hverr madr, sem hlutr rak til. En su ein þræta vard adr i millum þessarra guds vina, at hverr villdi sinn hals fram retta, til þess at hann metti audrum fyrr deyia fyrir guds nafni. Ok at lycktudu þessu manndrapi var enn leitad vid þa[2], er eptir lifdu, ef þeir villdi aftr hverfa til keisarans ok samþyckia godum þiona[3]. En Mauricius iarll heimti saman sina męnn alla fra mandrapamonnum þeim, ok mællti til þeira, er aurugaztir voru i heilagri tru med þessum ordum:

*6.* »Ek fagna miok, enir kærustu riddarar, ast ydars litilętis ok mikilli stadfæsti heilagrar truar, er þer hrædizt eigi reidi keisara. Nu sa þer samriddara ydra med glodu hiarta ganga undir pislarfullan dauda, þa ena somu er ek ottudumzt, at sik mundi vigi veria, sva sem opt kann til handa bera þeim, sem vel eru vopnum bunir. Af þessu tek ek þat demi, ad drottinn Jesus Kristr konungr allra konunga fyrirbaud postolum sinum sik vopnum ath veria ok sagdi vorn kristiligs traustz hveriu hervigi meiri. Sa enn same Kristr bannadi ydr fyrir tru ens heilaga sidlætis, at þer skylldut veriazt. Helgar bekr gafu oss her dæmi til, en nu samriddarar vorir, hverium vær eigum at fylgia. Nu eru felldir umhverfis mik riddarar minir, þeir er hervikingrinn let liflat veita. Nu em ek her heilagra manna dreyra dreifdr, ok a kledum minum ber ek merki liflaz þeira. Hvi muna ek efa at fylgia dæmum þeira dyrligum, er ek fagna daudanum? æda hverss

1 ridda *tilf. Cd.* 2 þetta *Cd.* 3 godunum *tilf. Cd.*

er vert þat, er konungrinn bydr? iafningi minn i þvi, at hann er daudligr madr sem ek. Ef konungs reidi veri eigi hafnandi, þa mundi þrir ebresker sveinar eigi hafa fordazt brunann i ofninum fordum, eda Daniel spamadr olmleik enna oörgu[1] dyra i grofinni. Eda hafum ver svarid eid konungi, at ver skylldum lifit leggia a landvorn med honum, ok het eingi oss himinriki fyrir þat, hversu miklu helldr skulum vær Kristi fylgia drottni vorum eilifum konungi, er oss heitr ok gefr himna dyrd fyrir þionustu vid sik. Þvi skulum ver med kallmannligri hug(hreysti) ok hreinni tru fornfæra ander vorar siolfum Kristi, enir kærstu riddarar, i burdarfullum dauda. Nu se ek standa fagnandi fyrir Kristz domstoli þa, er inn grimi hervikingr renti lifinu fyrir litilli stundu af voru lidi. Su er hin sanna dyrd, er med virduligum æfilokum þessa ens skamma lifs ma eignaz eilifa sælu annars heims med gudi.»

7. En er Mauricius iall hafdi tala(t) þessa hluti eda þeim lika, gerdi allr herrinn mikinn rom at mali hans, ok sogduzt allir vilia þola dauda fyrir guds sakir helldr en hafna heilagri tru ok hverfa aptr til rikis. En er Maximianus spurdi þetta, gerdizt hann sva olmr sem id grimmasta dyr, ok sendi sidan sina hardfeingna menn ok bad enn i audru sinni taka af lifi enn .x.unda hvern mann ok riddara af lidi Mauricij iarls, en neyda þa til blotz, sem eptir veri. En þeir gengu sva fusir undir daudann af aaminninghu hofdingia sins, ad hverr villdi audrum fyrr hauggvinn vera, ok villdu sva fylgia sinum samriddurum, þeim er þa voru til himinrikis komnir af þeira lidi fyrir stundligan dauda. Sidan tok allr lydr fioldans, sa er eptir var, at eggiaz a at bæra þraut sva at beriazt eigi i mot krisnum monnum eda samþyckia blotum, helldr daudann at þola; sendu sidan ord til keisarans med þessu ordtaki:

8. «Þinir riddarar erum vær, keisari, en þo iatu vær oss at frialso guds þræla vera: þer eigum vær hersyslu at inna, en gudi eigum vær meinleysi at giallda; malann eigum vær af þer at taka fyrir erfvidi vort, en af honum þiggium vær lifit ok alla atvinnu i lifinu. Hvi munum vær mega væra þer truir, ef vær erum gudi otruir? Med aullu eigi megum ver fylgia þer keisari i þvi, at vær neitim gudi skapara vorum ok gudi skapara þinum, hvart sem þu vill eda eigi; ef vær erum eigi til þess neyddir at gera gud reidan, þa munum vær vera þer hlydnir, sem vær höfum her til gert, en elligar munum vær helldr hlyda gudi en þer. Vorar

1 ovörgu *Cd.*

hendr eru bunar vikinga at drepa ok oskilamenn ok ovini þins rikis, æn þær varazt sem ena mestu ohefu at beriazt i gegn retlatum monnum ok saklausum. Su er vor sysla at beriast iafnan fyrir rettlæti ok fyrir tru ok til fridar saklausum monnum. Til þess tokum ver vopn at beriazt til fridar vorum borgarmonnum en eigi i gegn þeim. Gudi hofum vær svarid fyrri en þer, keisari, ok megum vær eigi af þvi hallda enn sidarra svardaga, ef vær briotum hinn fyrra; þu[1] bydr oss at leita at krisnum monnum ok leida þa til pisla, en þu þarpt eigi annarra at leita, þviat siolfir erum vær allir kristner ok iatum gudi fødr skapara vorum, ok a hann truum vær ok a eingetinn son hans Jesum Krist. Vær saam hogna fyrir Kristz nafni samfelaga vors haska ok erfidizt, erum vær ok dreifdir þeira blodi, ok grætu vær eigi, ok eigi haurmudum vær dauda enna helgustu manna vorra ok samfelaga ok brædra, helldr lofudu vær ok fognudum þvi, er þeir voru verdir at deyia fyrir Kristi drottni vorum. Eigi skylldar oss til hin efzta naudsyn þessi lifsins vors oss at veria. En vit at hvaru, keisari, at eigi nockur aurvilnan sigrs velldr þvi, er vær veriumzt[2] eigi þer i moti, þviat vær hofum bædi lidskost ok vopn at veria oss, en vær vilium helldr deyia saklauser en lifa sakadir. En hvat sem þu bydr oss, eda hvat sem þu skipar oss i gegn, vit vist, at vær erum bunir at þola elld ok iarn æda adrar pislar(!), en krisna menn megum vær eigi pina, þviat ver iatum oss vera krisna.»

9. Þa er Maximianus heyrdi þessa ordsending, skildi hann, at Mauricius iall ok allir hans riddarar voru stadfastir i heilagri tru Kristz. Aurvænti hann, at þeira dyrlig stadfesta mundi sigrut vera, dęmdi hann sidan til draps alla þessa ena helgu sveit ok senndi sidan mikinn her sinna riddara at gera þessa uhæfu; sagdi hann ok þvi hvern meira herfang hliota skylldu, sem hann gerdi meira at þessu mandrapi. Ok þa er þeir, er sendir voru, komu þar, sem fyrir var fylking hins sæla Mauricij iarls, redu þeir til þessa mikla manndraps. En þessir helgir menn voru bunir ad deyia ok fusir ad deyia fyrir ast hins eilifa lifs. Ok er þeir þolldu pining sverdum slegnir eda audrum vopnum vegnir, var eigi heyrt þeira kall, ok eigi vorduzt þeir med nockuru moti, helldr laugdu þeir nidr aull vopn fram rettandi svirann ok beran hals ok hlifarlausan likam undir haugg kveliaranna; eigi reistuzt þeir i mot ser hrosandi af miklum fiolda sinna lidsmanna eda riddaraligum vapnabunadi, sem vopn eda vorn syndi þeira rettlęti, helldr

[1] þa *Cd.* [2] veitumzt *Cd.*

minutuzt þeir þeim einum at iata (ok) sina daudasok a hendi at fela, er eigi med sinu motmæli var til dauda leiddr, ok svo sem lamb fyrir þeim, er reyfi klippir[1] af þvi, lauk eigi upp sinn munn hann sialfr guds son. Þessir menn helgir sva sem drottinligh hiord voru særdir, dregnir ok deyddir sem saudir af vorgum. Jordin var vida þakin af likaumum þessarra rettlatra manna, er pindir voru, ok flutu vida leker af uthellingu heilags blods. Hvar er fyrri heyrt, at nockurs manz grimleikr hafi sva mikit mandrap gert utan bardaga, æda hverr var sva olmr, at hann dæmdi sva marga menn samt til dauda, þo at sekir væri. Med slikum grimleik þessa hervikings Maximiani keisara þoldi pisl ok dauda Mauricius iall enn helgi ok allr hans herr, hafnandi stundligum hlutum þessa heims fyrir von himneskrar dyrdar.

10. Victor het einn riddari, hann var eigi af lidi Mauricij iarls, hann for þar hia, er riddarar keisara satu gladir yfir vopnum ok klædum ok miklu herfangi iallsmanna. En er hann vard varr vid ok viss af, hveriu mannfall þetta gegndi, lastadi hann verk þeira ok villdi flyia allt samneyti þeira. Þa spurdu þeir, ef hann veri kristinn, ok sagdi hann sva þegar, at þat var. Sidan var hann hauggvinn, ok samteingdizt hann sva lidi Mauricij ialls ens helga i dauda sinum.

11. Þessi stortidendi, er nu voru sogd, gerduzt[2] vid Agaunum, þann stad er sva heitir, er Mauricius iall þoldi piningh af hans her. En med þvi at keisarinn hafdi sva bodit, at allir riddarar Mauricij ialls skylldu drepnir vera, hvar sem þeir yrdi fundnir, var þegar eptir leitad þeim[3], er leingra voro fram komnir ok farnir. Ok vid þa borg, er Verona heitir, fundu þeir keisarans menn ageta riddara Cassium ok Florencium ok adra sex, med einni heilagri tru ok stadfesti, nær þeiri a, er Rin heitir, ok marga adra med þeim eigi ennar somu astundanar. Ok er keisarans menn sa ok kendu Kassium ok Florencium ok þeira felaga, at þeir voru af lidsmonnum Mauricij ialls, voru þeir eptir fretter um truna. En er þeir samþyctu i aullu bædi i vilia ok i anns(v)aurum sinum samriddurum, er fyrrum voru pindir, þoldu ok þessir dauda af heidingium i þeim sama stad fyrir Kristz nafni. Ofridarmenninir leitudu nu eptir Gereone, þviat hann var leingra undan farinn ok fundu hann ok hans sveit .ccc. ok .xviii. menn a vollum nockurum vid Koloniam Agrippinam, mikla borg er sva heitir. En er þeir urdu varir vid ofrid heidingia, eggiadi[4] hverr

1 klyppir *Cd.* 2 gerdizt *Cd.* 3 þeir *Cd.* 4 heggia *Cd.*

þeira annan hvergi at flyia, helldr piningh at þola fyrir guds nafni ok afla ser sva eilifa dyrd. Sendimenn keisarans sa, at þeir biuggu sik eigi med vopnum at veria, helldr fundu þeir med þeim guds vinum auruggan vilia ok stadfesti i iatningu kristiligrar truar; redu nu sidan aa þa med manndrapi. Enn sæli Gereon gaufugligr hofdingi ok pislarvottr fornadi sik þar sialfviliandi lifandi forn sialfum gudi med sinum samfelogum þionustumonnum ens eilifa konungs at sigraudum allum teygingum þessa heims ok ens stundliga lifs. Ok eptir dauda þessarra heilagra manna drogu kveliararnir þeira blodga likami um þann voll, er þeir voru pindir, ok kaustudu i einn enn mesta hyl ok diupasta. I þeim stad, er hinn helgi Gereon var hauggvinn, ma sia blod hans allt til þessa dags, ok þa var kalladr stadr pislarvotta af þeim, er nær byggia. Med inum helga Gereone þoldu pining ok dauda .cccc. ok .xviii. menn, ok voru þeir pindir .xviii. nottum sidar en Mauricius ok hans lid, en þat er .vi. idus Octobris.

12. En medan þessir hlutir gerduzt, for hinn helgi Victor med sinni sveit, er honum fylgdi, til þess stadar i Fraklandi, er kalladr var Troea af agætum monnum, er þar hofdu fyrri setit, ok setti herbudir sinar aa nockurum fogrum vollum. Keisarans riddarar fundu þa þegar ok baru vopn aa þa. Þoldi þar dauda ok pislarvetti enn sterkasti Kristz riddari Victor med .ccc. ok .xxx. pislarvotta. Heidingiar drogu likami þeira ok kostudu nidr i fen nockur. En med þvi at Carisius, er fyrr var nefndr ok ofrid reisti i gegn Romverium, hafdi flyd undan keisara monnum i Brictaniam, venndu þeir aptr enn sama veg, þessir glæpamenn, er Maximianus hafdi sent at pina guds vini, gladir med miklu herfangi.

13. Nær aa þeiri stundu komu med skipalidi af Mauritannia, sva er kalladr nockur hluti i Affrica, ok þar af nalægum herodum i Galliam .ccc. ok .lx. riddara, þeira (er) keisarinn hafdi kallat til landvarnar i mot ofridarmonnum. En fyrir þvi at þeir voru krisnir, let Maximianus þa alla drepa. Þeir voru fusir helldr at deyia en tyna heilagri eda almenniligri tru. Eru þeira likamir vardveittir i þeim sama stad, sem hinn sæli Gereon ok hans felagar eru dyrkadir.

14. Eptir þessi tidendi hvarf Maximianus keisari aptr i Italiam. Ok er keisarar funduzt, eggiadi Dioklecianus, at þeir badir skylldu nidr leggia rikisstiorn ok taka aa sik idnarleysi. Maximianus gerdi þetta þo at naudigr. Velltuzt þeir nu badir ur keisaradomi ok logdu nidr purpura ok allt keisarligt valld, en eigi

grimleik, Dioclecianus in Nicomedia, en Maximianus i Mediolanum, ok eigi baru þeir nockut tignarnafn sidan. Ok er audsynt, at þat var rettr guds domr, at þeir hefdi sidan eynga vegsemd af monnum, er sva grimir gerduzt mot gudi ok hans vinum, þa er þeir hofdu veralldligt valld, sem fyr var sagt. Maximianus gerdi Constancium keisara ok skipadi hann yfir Italiam ok Affricam ok Galliam, hann var agætr madr ok hogværr. Galerio var feingit til geymslu aunnur riki ok herod. En Constancius let ser þaurf vinna at hafa eigi meira en[1] Galliam ok Hyspaniam, ok hellt þau riki med mikilli hogværi ok veitti eingi þyngsl krisni guds. Constancius andadizt i Brittanniam ok gerdi adr Constantinum son sinn ok Helene keisara yfir þeim rikium, er adr hafdi hann styrt. Maximianus var þa enn aa lifi. En er Maxencius son hans hofz til rikis, var hann ofridsamr, ok þat gerdizt at sinni, at fadir hans flydi undan hans ofridi a fund Constantini keisara. Keisari tok vid honum hardla vėl. En litlu sidar var Maximianus fundinn at svikrædum vid Constantinum eda fioradum, ok þa er fundin var su vel hans, var hann tekinn i þvi heradi, er Marsilia heitir, ok heingdr, ok endi hann sva grimt lj́f med grimmum dauda.

**15**[2]. En morgum vetrum eptir piningh ens helga Mauricij ialls ok hans felaga, vitrudu þat guds vinir einum byskupe, at hann lete kirkiu gera gudi[3] til dyrdar ok þeim. En er su kirkia fyrndizt, þa let Ambrosius aboti hana endrbæta i annat[4] sinn ok auka. Þat gerdizt enn, at aa, su er Rodanus heitir, feck mikinn voxt, sva at hon gek aa bædi laund ok leysti mikla torfu af hvarumtveggia[5] bakkanum. Þa funduzt þar bein ens helga Innocenciæ, er[6] leingi hafdi leyndr verit i iordu, var hann upptekinn ok færdr til kirkiu ens helga Mauricij ialls ok samteingdr hans lidi i sinum grepti ok felogum ok gofgan.

**16**. Sa athburdr gerdizt enn, at margir smidir komu saman þar til kirkiugerdar, at einn af þeim, sem heidinn var, smidadi aa drottinsdegi, þa er adrir, þeir er krisner voru, foru til tida. Þa sa hann berliga flok pislarvotta Kristz; þeir gengu at honum ok baurdu hann ok aavitodu hann um þat, at hann vann einn aa helgum tidum, sva ok þat er hann þordi heidinn at ganga til heilags verks. En þetta gerdizt til þess, at gud villdi, at hann leitadi heimligs rads, þa er hann reyndi krapt þeira, ok snerizt

1 af *Cd.* 2 Af kirkiugord *Overskr.* 3 guda *Cd.* 4 annan *Cd.* 5 hvartevggia *Cd.* 6 ok *Cd.*

til rettrar truar. Sa atburdr gerdizt enn, at kona eins gaufugs manz, su er leingi hafdi verit siuk ok matti eigi sa fætr stiga, at hun let sik þangat bera til kirkiu Mauricij ialls. Þangat var hon borin annarra hondum, en hon gek þadau sinum fotum alheil fyrir bænir heilagra guds manna. Margar eru adrar iarteignir, er þar gerduzt ok gerazt hvern dag i heilsugiofum vid siuka menn ok i bruttrekstri diofla fra odum monnnm, er drottinn letr ser soma at veita til dyrdar sins nafns.

17. En þa er Constantinus keisari hafdi feingit einvalld yfir aullu Romariki ok hann hafdi tekit retta tru af Silvestro pafa ok skirn, efldi hann i aullum hlutum kristinn dom. Þat baud hann ok Elenu modur sinni ok gaf henni til þess valld, at hun skylldi gera sem hann siolf(r), at vegsama gropt heilagra pislarvotta guds ok endrbæta kirkiur heilagar hvervetna, er adr voru nidr brotnar. Af þessi enu gaufgu drottningh, er gudi er hardla kær, synazt ok vardveitast marger agætir hlutir i klaustri ens sæla Gereonis, ok optligar iarteinir, er þar geraz, votta, hvilik hun hafi verit. Ok medal margra agætra verka sinnar godfysi let hun reisa eina mikla kirkiu yfir grepti þessa pislarvotz guds Gereonis ok hans felaga, þar sem voru vardveittir likamir heilagra riddara, er martiri eru kalladir, sem fyrr var ritad, er marga ok mikla huggan veita sytundum ok siukum i heilsugiofum. Þetta musteri var sagætt bædi at efnum ok smid, med hafum ok sterkum veggium af[1] enum besta marmara, med fogrum ok stadligum pilorum styrkt af sama efni. Þat var ok svo fagrliga prytt ok bued med gulli bædi utan ok innan, at eigi hafdi nockut þvilikt fyrr smidat verit i aullum þeim herodum, ok eigi hefir sidan gert verit, sem frægr ordromr sannar. Ok þadan af voru þeir helgir menn, er þar voru iardadir, kalladir Aurei Sancti ok dyrkadir af þeim, er þar voru i nand. Ok til þess at þetta musteri væri enn ok mætti framar lika allzvalldanda gudi, var þat til tignar med morgum kennimonnum, at þar mætti fagrliga fram flytiazt hversdagliga guds lof ok heilog þionustugerd.

18[2]. Heilagr Maternus, er hinn helgi Petr postole vigdi til byskups ok sendi at predica guds ord, hann andadizt litlu sidar, en hann var vigdr. Þa sendi postolenn staf sinn ok let leggia yfir lik hans; en Maternus, er fioratigi daga hafdi i iordu legit, reis þegar upp lifandi ok var sidan byskup i Treverisborg. Hann kendi fyrst heilaga tru i Colonia Agrippina ok efldi þar heilaga

1 ok *Cd.* 2 Af Materno byskupi *Overskr.*

krisni med agætri stiorn; hans lif skein morgum krauptum, sem sannar sagnar votta ritadar af hans verkum. Enn þridi byskup af Kolonia, af þeim er oss eru kunnir, seger sa er soguna hefir ritad, ok enn næsti eptir enn helga Severinum byskup var Evergisilus. Sva bar til aa nockurum deghi, þa er hann hafdi feingit aakafan hofutverk, at hann villdi vitia graptar heilagra pislarvotta Gereonis ok hans felaga ok bæn sina fram at flytia. En þa var enn eingi einkanligr umbunadr veittr þeira likaumum ok helgum domum. Ok er hann gek inn i kirkiuna, hof hann upp kunnict vers Exulltabunt sancti in gloria til lofs þeim helgum monnum. En af þeim heilaga stad, er helger likamer voru vardveittir, var þegar svarad Letabuntur in cubilibus suis. En er byskup heyrdi þetta, vard hann miok ottafullr, ok þo med fagnadi lofadi hann gud med aullum þeim, er hia voru. Gek nu fram at þeim stad, er guds pislarvottar voru grafnir, ok tok þar upp molld ok lagdi vid hofut ser þessa hialpsamliga lękningh, ok þegar vard hann alheill af sinum mikla hofudverk, er hann hafdi haft. Hvarf þadan aa brutt med miklum fagnadi. Eptir sogn rettordra manna mætti marger sliker hlutir vera sagdir, ef þeim er heyrdi leidizt eigi langmæli, þviat eigi gerazt þar far iartegnir eda sialldan, helldr ma þar sea hversdagliga kraptsamligh verk, ok hverr, sem talar vid nokurn sidlatan þionustumann þeirar somu kirkiu, mun bædi undrazt mikilleik ok fiollda þeira iartegna, er þar geraz ok veitazt af gudi. Þviat hveria lækning sinna meina, sem vel hverr beidizt at þiggia, audlaz hann efalausliga i þeim stad, ef hann bidr med rettri tru. Slik[1] somamerki sinna verdleika syna optliga heilagr Victor, Cassius ok Florentius med sinum samriddurum, þar sem þeir hvila, svo morgh ok mikil takn, at eingi madr fær talt eda ordum skyrt æda fulluliga ritad.

19[2]. Heilogh kirkia i Kolonia, er verdug gerdizt at vardveita i sinum fadmi likami heilagra pislarvotta, hefir ok helldr fyrir þeira arnadarord allt til þessa dags heilaga tru ospellada, þa sem hun minnizt sik numit hafa af sinum fysta byskupi Materno. Su skipan hefir þar i vanda tekiz, at hatid sælla pislarvotta Gereonis, Victoris, Cassij, Florencij ok þeira samfelaga, er i þrim stodum toku pislarvættis coronu ok i þeim stodum voru grafnir, væri vegsamliga halldin (a einum degi), en þa(t) er .vi°. idus Octobris, þot efanligt se, hvart[3] þeir hafi allir aa einum dægi verit pindir eda aa tveim, þviat Verona, þar sem pindir voro Kassius ok Florensius med sinum samridd-

1 Slika *Cd.* 2 Af Gereone m. *Overskr.* 3 at *Cd.*

urum, (er) eigi minnr en .vi. milum ok .xx. utar en kirkia ens helga Victoris; ok þvi er þat varla truanligt, einna hellzt fyrir saker naudsynligra dvala i serhverium stodum, at þessir allir hafi aa einum degi verit pindir, nema ferd heidingia hafi sva skiot ordit fyrir akæfd mikillar reidi. Leggium nu, kæru brædr, allan hug aa med fagnadi ath hallda med framningh godra (verka) stundligha hatid pislarvotta guds, ath fyrir þeira miskunsamligt arnadarord mættim vær eilift hatidarhalld himinrikis med þeim eignazt. Sva skulum vær fagna þeira dyrd at afla med oss gudi til handa alla þa, er vær megum med kenningarordum eda dæmum godra verka i ofalsadri ast. Sva segir einn virduligr spekingr, at su ein er àuraugg vinatta milli vina, ath annarr vili slikt sæm annarr, ok annarr vili eigi slict, sem annarr vill eigi. Ok ef helgir pislarvottar formælendr vorir fyrir gudi finna oss til sin kallandi æda af ser talandi, i slikum vilia sem þeir voru, munu þeir eigi oss med ollu fyrirlita sva sem okunna ser, helldr munu þeir oss virda sem eiginliga heimamenn, ok af þeiri heilagri ast eilifliga ætla þeir vara sok sina, ok þadan af skulum vær vænta, at i þessum heimi mun oss eigi þriota fulltingh naudsynligra hluta, en i (o)ordinni værolld muni vær samteingiazt þeim (i) eilifum fagnadi til lofs ok dyrdar drottni vorum Jesu Kristo, sa er med fedr ok helgum anda lifir ok riker einn gud i þrenninghu um allar alldir. Amen.

---

# APPENDIX.

(*Membranfragment 655 X*[1] *qv.*; *jvf. ovenfor S.* $649^{23}$—$654^{8}$.)

logvm ef þess beiddo þvrft[1] oc fylgia lagsm . . . . . . . . . . . .
Enn er þeir voru sva allir eggiaþir til staþfeste af hofþingiom sinom, þa sendo þeir orþ Maximiano konvnge a þessa lvnd: Þinir ridderar ero ver, rex, enn þrælar gvþs. Af þer tokom ver [mala fyrir] erveþe vart, en af honom vpphaf lifs; þer giolldom ver riddera systlo enn [gvþe] meinlayst(!) lęif(!). Eigi mego ver at þvi fylgia konvnge, at ver nęitem dominum nostrum oc dominum tuum, hvart þu uill eða eigi. [Ef ver erom eigi[2] til næ(y)ddir,

1 þrvft *Fr.* 2 [ *rettet*; Eigi ver erom *Fr.*

at ver georem hann reiþan, þa munum ver hlyðnir vera þer enn sem hingat til, en ella munum ver honum lyþa helldr en þer. Þessar hendr ero bunar at vega uikinga ok osk[ilam]enn oc ouine sina(!) oc þina, en þær kunnu eigi at beriaz i geng saclausum mannum oc rettl[atum. S]u er uar sysla at beriaz fyr rettlete oc fyr tru oc til friþar saclausum mannum oc rett[latum]. En huerso megum uer þer truer vera, ef ver erom otruer guþe drotne uarom. Til þess toc[um ver] uapn at beriaz til friþar borgarmannum varum, en eigi i gegn þeim. Guþe sorum uer fyr en konunge, [ei]gum uer af þui ecke hallda et efra sære, ep(!) ver briotum eð fyrra. Þat byðr [þu] oss at leiþa crisna menn til pisla, eigi þarftu annarra til þess at leita, ver sialfer erom crisner aller. Ver siam nu hagna fyr Crist nafni liþsmenn uara oc samridara, oc hormoþum ver eigi ne gretum daþa breþra varra, helldr fagnoþom uer þui, at þeir uoro uerþær at deyia fyr Cristi drotne Jesv. Enn eigi ervm ver sva a helliar þravm[1] comner, at þv hafir allt raþ vart i hende; hofom ver væp(n) oc liþskost at veriaz, oc villiom ver eigi, þvi at ver villivm helldr deyia saclavsir enn vega oc lifa seckir. Hvatke er þv byþr oss eþa hvatke er þv leggr a hendr oss, þa erom ver bvnir vndir at ganga eld eþa iarnn eþa pislir. Enn cristna menn mego ver eigi pina, þvi at ver iatom oss sialfa cristna vera. Enn er Maximianus heyrþe þetta, þa scilde hann, at hvgr þeira var fastr i trv oc matte eigi yfir stigaz, oc sende hann .c. riddera sinna at haggva Mauricius iarl oc alla fylking hans. Enn er hermenn konungs komo til þeira, þa vordvz þeir eigi ne i geng hioggv ne brvgþv sciolldvm fyrir sic, helldr mintvz þeir a þat, at þeir iatto þeim domine, er eigi let sic veria, oc eigi callaþe hann ne lavc vpp mvn sinn, þa er hann var leiddr til pislar. Þa var þackiþir(!) vollr likomom retlatra, oc flvtv lękir heilags bloþs, þa er lif sitt let heilagr lyþr, sa er hafnaþe þessa heims hlvtvm fyr von himneskra hlvta. Þar fell heilog fylking, su er nu trum uer at (i) himnum er oc lofar guþ með engla sveitum. En maðr het Victor, sa er eigi var vr þessi fylkingu, hann com at gangandi, þar er ridarar konungs sato glaðer yfer fat[om oc] uapnum iarls manna. Enn er hann uarð uis af þeim, þvi(!) manfall þetta gegdi, þa lastaþi hann u[erk þeira] oc flyþi alt samsinni þeira. En þeir spurþu hann eptir, ep(!) hann uere kristenn, oc iati [hann þe]gar, oc uar þegar haguenn af konungs mannum, oc samtengþes.hann iarls liþi i da[þa sinom]. En þesser ero nefder ur þui liþi, er

1 þarvm *Fr.*



þar fell: Mauricius Exsuper . . . . . . tlus oc Victor. En annarra napn(!) ero oss ocunn, en þar ero riten a lifs boc. E[n i þe]ssi fylkingu ero sagþer uœra tue(i)r pislarvattar Ursus oc Victor, er pind[er voro] i castala þeim er Solodorum heiter. Enn Maximianus naþi eigi lengi at fagna grimum sigri, þui at þa er hann uilldi raþa fioraþum Constantinum mag sinn, þa uarð funden uel hans, oc uar (hann) tekenn i heraþe þui er Marsi . . . . . . . . . lif með grimum dauða. En margum uetrum siþarr . . . . . . . . . . . . . . . . . . . kirkio geora til dyrþar þeim. En . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . kirkio i annat sinn oc arca . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . , . . . . . . . . . . . . . . . . . bacca, þa fundoz þar bein heil(a)gs manz þess er Innocencius het, er lenge hafþe i iorðu ueret leyndr. En þa uar hann upp tekenn oc feorþr til kirkio Maur(ic)ij oc samtengþr hans liþe [i sinum grep]te oc gaufgan, oc er hans minning hallden með messodege Mauricij oc . . . . . . . Þat georðes enn til iarteina, þa er smiþer marger como til kirkiogeorþar, at . . . . . . . . smiþarinnar er heiðen uar. En er sa var (at) smiþenne drottensdag nocorr(!), þa . . . . . . . . uaro aller til tiþa farner. Þa sa hann sanlega flocc pislaruatta guþs þyþsia(!) at . . . . oc baurþo þo(!) þeir hann oc auitoþo [of] þat, er hann uann einn a helgum tiþum oc of þat er [hann] þorþe heiþen at ganga til heila[gs ve]rcs. En þetta georþesc af guþs uatum at smiþ[renn] leitaþe astsamlegs raþs, þa er h[ann rey]nde craft þeira, þvi at þar eftir for, at hann toc tru. Cona necquers manz gaufug[s haf]þe lenge siuc ueret oc matte eigi a fetr stiga. En hon bað buanda sinn f[ęra sik] til kirkio Mauricij. En er hon var þangat boren af hondom manna, þa gek hon a sinum f[otum] alheil þatþan af beonum heilagra. Margar ero aþrar iarteiner, þær er þar georþoz i heilso oc i brautrecningo diafla, þviat drottenn lettr ser soma at syna hvernn dac(!) tacn sin fyr uini sina til lofs oc til dyrþ(ar) naf(n)s sins til þessa dags.

---

# MAURUS SAGA.

(*Cd. Holm. 2 folio*).

**Her hefr upp sogu Mauri abbatis.**

Heilagr Maurus var ens gôfgazta olldunga kyns, fadir hans het Euticius en Julia moder hans. Hann var til læringar selldr Benedicto abota, þa er hann war .xii. vetra gamall, ok þoat hann væri ungr ath alldri, þa var hann roskinn ath godum sidum. Honum wnni Benedictus wm hvern mann framm ok lærdi hann vandliga. Benedictus meinlætti ser. marga wega bædi i vokum ok fostum ok kulda, ok um langafostu þa hafdi hann ecki klæda nema haar(klædi) ok þoo faa ein. Hann matadiz eigi optar en tysvar i viku ok þo litit, sva gerdi hann, medan hann lifde. Maurus lifdi ath dæmum meistara sins ok mæddi likama sinn i môrgum meinlætum, hann reis upp hveria nott fyrr en adrir ok hafdi sungit .l. salma, adr adrir klerkar kæmi ut, ok opt .c. salma eda allan salltara, ok eigi song hann sidr um daga. Langt er ath tina alla krapta Mauri, þviat lif hans var ath ollu ædra miklu, en vær megim þat skyra.

2. Ðat var sa einnihverri tid, ath nockur tiginn madr bad helgan Benedictum, at hann færi til heimkynna hans, þviat kona hans, er skômmu adr hafdi lettari ordit, var ordin od af diofli, ok sva barnit, þat er hun hafde fætt. Hann for med honum ok mællti, at Maurus skyllde þar fyrir rada, medan hann væri heiman. Maurus for þann sama dag med ôdrum brædrum at binda korn, ok eigi allskamt a braut. Þeir komo aptr nær midium degi, ok adr þeir kæmi allt heim, þa var borinn a mot þeim sveinn einn mallaus ok halltr. Fadir hans ok modir fellu til fota Mauro ok badu, at hann gæfi heilsu syni þeira, en hann taldi sik sekan ok syndugan fyrir gudi, ok eigi sig slika luti mega giora, ok kallade þat postola

verk vera at giora slikar iarteinir. En þeir er honum fylgdu, toku at bidia honum hugganar. En Maurus var huggodr ok felldi taar, er hann sa þau klauckva, ok fell hann til bænar. En er hann hafdi lengi a bæn werit, þaa tok hann stolo af halsi ser[1] ok lagdi yfir hôfud ens siuka ok gerdi krossmark yfir honum ok leit upp til himins ok mællti: «Drottinn Jesus Kristr, þu er svo mælir vit lærisveina þina[2]: satt segi ek ydr, at allir hlutir þeir er þer bidit, þa truit þer þvi, at þer munit audlaz af gudi; syn þat oss nu þrælum þinum litlum ok syndugum, er treystumz i ordum þinum helgum ok þa tru hôfum, er þu letz þer soma at veita oss.» Sidan sneriz hann til ens siuka ok mællti: «I nafni heilagrar ok oskiptiligrar þrenningar ok holpinn af verdleikum ens helgazta meistara wors stattu a fætr þina alheill ok rettr.» En er hann hafdi þetta mællt, þa spratt sveinninn a fætr ok geck þegar fraliga ok lofadi gud ok mællte: «Lofadr se gud skapari allra luta, sa er ser let soma at græda mik fyrir verdleika ens helgazta þræls sins Benedicti ok ens sæla hans lærisveins Mauri.» Þa kom Benedictus ok bratt heim ok sagdi, at þeir voru þa heilir, er hann for ath hitta.

3. A þeiri tid komu sendimenn til munklifis heilags Benedicti, þeir voru or borg þeiri, er Cinomamnica heitir, ok sendir af byskupi þeim, er Berticiamnus het, þviat sa enn helgasti byskup vissi heilagleik ens agætazta Benedicti ok sendi Plodegarium erkidiakn ok marga sidsama menn med miklum giôfum ok bad helgan Benedictum senda ser munka nockura vel lærda, þa er kynni regulohalld þat, er Benedictus hafdi sett, ok fyrirsôgn hefdi, hversu munklifi skylldi setia. En hinn helgi Benedictus vissi adr en þeir kæmi, ok svo af hverio þeir foro. Ok þott hann vissi fyrir, ath þa nalgadiz andlatztid hans, þa sendi hann þo Maurum ok fiora brædr med honum, ok mællti hann, ath þeir skylldu svo hlydnir vera Mauro, sem þeir hofdu honum verit. En munkarnir urdu miog hryggvir vit þat, þviat hann hafdi sagt þeim andlatzdag sinn, en þeir sa þar til hugganar, er Maurus var, eptir andlat Benedicti. En er Benedictus sa marga munka grata, þa kalladi hann saman alla klerkasveit sina ok mællti: «Svo segir Pall postoli, ath godgiôrn er ast, ok godgirni astar vorrar skulum vær mest rækia; fyrir astar sakir vit mik skulut þer huggazt nu, þviat mattugr er gud at senda ydr annan foringia, þann er miklu er dyrligri, ok þer megit þa lifa ath þess dæmum ok tenad hliota af hans verdleikum, ok þat er naudsynligazt ath sia aavallt vid

1 þer *Cd.* 2 sina *Cd.*

fiandans slægdum. En þat er wid þa at mæla, sem ek sendi til annarra herada, at þer sed traustir i hug ok styrkit hiörtu ydur i heilagri sidsemi, ok vitid þer þat, ath þvi meiri laun munu þer taka af gudi, sem þer þolit meira vil fyrir hans sakir, ok latit ydr eigi hryggva andlat mitt, þviat ek mun ydr avallt vera tenadarmadr.» En er hann hafdi þetta mællt, þa kysti hann þaa Maurum ok leiddi þa til klaustradyra ok selldi Mauro regulobok, er hann sialfr hafdi ritad, ok gaf þeim blezan ok bad þa fara i guds fride.

4. Þeir hofu ferd sina þrim nottum eptir .xiii[da]. dag iola, ok gistu fyrst i syslu Benedicti aa bæ þeim, er Voleia heitir, ok toku þar vit þeim munkar vegsamliga, het annarr Probus en annarr Aqvinus. Þa hafdi Benedictus þangat senda enn fyrra dag. En er þeir Maurus höfdu lokit ottusöng um nottina, þa komu þar .ii. munkar, er Benedictus hafdi senda, Honoratus ok Felicissimus frændi Mauri, ok færdu Mauro giafar þær, er Benedictus sendi honum; þat voru helgir domar, þrir spænir af krossi drottins ok af helgum dome Marie drotningar ok heilags Michaelis ok Stefani frumvotz Kristz ok heilags Martini, ok rit, er hann sendi Mauro, þat er svo mællte: Taktu vit hinum efzstum giöfum meistara þins, ok vænti ek þess, at giafir þessar muni ydr hlifa vit ollum illum hlutum, ok þat vitradi mer gud giærdags, þa er þer vorut hedan i burt farnir, at þu mundir lifa þria vetr, fra þvi er þu kæmir i munklifi, ok vera þaa innleiddr i fagnat drottins þins. Þat segi ek þer ok, ath ydr mun mart til torfellda verda ok dvala i þessi ferd, ok mun fiande upp egna snöror slægdar sinnar i moti ydr. En alldregi mun gud ydr fyrirlata, ok hann mun opt veita ydr girndir ydrar, ok lifi nu heill ok sæll.

5. Þadan for Maurus i þann stad er Vercellis heitir, ok þar dvaldiz hann tvo daga, ok fylltiz spasaga Benedicti um farardvol þeira. Harderadus felagi þeira skylldi ganga ofan or stöpli einum hafum, en andskoti hepti for hans ok felldi hann ofan, ok lamdiz hann allr ok var borinn i linduki til förunauta sinna nær örendr. Allir urdu þeir hryggvir vit þenna atburd, ok fell þat einna næst Plodegario erkidiakni. Þar voru þeir fiortan daga, en honum þotti avallt helldr at ser aka. En hægri hönd hans, öxl ok armleggr þrutnadi miok ok bles alla, ok var þa ætlat, at læknar mundu skera eda svida holld hans. En Plodegarius villdi eigi þat, ok for hann til kirkiu, þar sem Maurus laa a bæn sinni, ok fell til fota honum ok bad med tarum, ath hann gæfi heilso Harderado ok leti eigi skera ne brenna holld hans. Sæll Maurus fell til bænar fyrir

alltare ok retti hendr sinar fra ser ok bad leingi fyrir enum siuka, sidan reis hann upp ok tok af alltari budk, er Benedictus hafdi sent honum ok helgir domar voru i, ok for til ens siuka ok tok span af krossi drottins ok gerdi kross med honum sa oxl hans ok a ollum armi ok mællti: «Sa gud, er holldgaz let eingetinn son sinn af helgum anda ok beraz i heim þenna fra Mariu mey, ok var pindr til lausnar ollu mannkyni a þessum enum helga krossi, sa sialfr gud, skapare allrar skepnu, lati ser soma at græda þik fyrir krapt ens helga kross.» Ok·er hann hafdi þetta mællt, þa sprack i þrim stodum ok fell or mikit blod. Plodegarius matti eigi vatne hallda, er hann sa svo mikla iartein, ok lofadi gud ok enn helga Benedictum, er þa lærisveina hafdi fostrad, er slik takn giordu. Ok þangat for mestr luti borgarlyds, ok þotti hverr sæll, er sia matti Maurum. En eigi eignadi hann ser þetta helldr lausnara vorum Jesu Kristo ok drottinligum krossi ok verdleikum ens sæla Benedicti. Harderadus var þa nær alheill ok bad Maurum, at hann færi eigi a braut enn næsta dagh, adr hann hefdi komit til hverrar kirkiu i borginni, ok færa lof gudi ok helgum monnum fyrir sakir heilsugiafar sinnar, ok þat veitti Maurus honum.

6. A fimtanda degi þadan, sem nu var greint, hofu þeir ferd sina. Þa bar svo til, ath þionn þeira, sa er Serglus het, fell af baki ok a hvassan stein, ok er hann villdi upp risa, þa var hann allr lamdr, svo at hann matti hvergi hræra sik, ok brotinn var fotr hans enn hægri, ok allr var hann sarr. Maurus geck þangat ath, sem hann laa, ok hellt ath fæti hans enni winztri hendi, en med hægri hendi gerdi hann krossmark yfir honum, ok mællti svo: «I nafne almattigs gud(s), þess er leysir med krapti sinum fiotrada ok þa sem i hoptum ero, riss upp·þu heill ok þiona oss þrælum guds, svo sem Benedictus baud þer.» Serglus reis upp þegar heill, ok foro þeir til þess, er þeir komu til kirkiu. Þar sat madr fyrir kirkiudyrum, sa er blindr hafdi verit alla æfi sina, ok bad giafar alla þa, er ut eda inn gengu i þa kirkiu. Hann heyrdi getid·, ath Maurus var þar kominn lærisveinn Benedicti. En er Maurus geck or kirkiu ok forunautar hans, þa lagdiz enn blindi madr nidr a stræti fyrir þa ok kallade: «Ek særi þik, Maure þræll guds, fyrir þa ena dyrligu pislarvotta, sem her hvila, ok fyrir gôfugleik nafns meistara þins Benedicti, attu gefir mer syn af bænum þinum.» En er guds madr heyrdi þetta, bad hann, ath hann stædi upp, ok er hann stod upp fyrir honum, þa spurdi Maurus, hversu leingi hann hefdi þar verit. Hann sagdi, at sa var enn ellepti wetr fra

þvi, er hann kom þar. «Fyrir hvi, sagdi Maurus, hafa eigi þessir enir helguztu pislarwottar, er pinaz letu fyrir guds sakir, gefit þer syn, ef þeir villdi þik sia lata, þviat þeir mundu audlaz þat af gudi, þviat þeira er slikt at gera, en eigi wort, ok þurfum wær þeira sa hverri stundu.» Geck þa Maurus i brott. En þessi kalladi eptir honum akafliga ok taldi upp vesold sina. Þa hvarf Maurus aptr til hans ok felldi taar, ok sa i gaupnir ser, en stundum i himenenn, ok lagdi kross yfir augu ens blinda ok mællti: «Drottinn ok grædari Jesus Kristr, sa er satt lios er, þat er lysir hvern mann komanda i þenna heim, hann sialfr lati ser soma fyrir akall nafns sins at lysa þessum manne ok fyrir werdleika þessa heilagra piningarwotta, sem hvila i þessum stad, ok ens helga vors meistara Benedicti, ath sia madr megi lita dasamlig werk sialfs guds skapara allra luta ok lausnara wors ok hann at lofa feginsamligri röddu ok verki sannrar tru.» Ok er hann hafdi þetta mællt, þa fell þegar blod mikit af augum ens blinda manz, er Linus het, ok tok hann þegar syn sina ok sa sol, er hun skein biart, ok söng Benedicite med miklum fagnadi. Hann hafdi numit salltara ok allar hversdagligar tidir, svo at hann hafdi heyrt adra syngia. En er su iartein var sogd wm borgina, þa for þangat mikit fiolmenne ok badu, at Maurus skyllde gefa þeim blezan. En hann mællti sva: «Benedicat vos dominus in Syon omnibus diebus vite vestre.» Þat mælir sva: Blezi ydr drottinn, sa er byggvir i Syon, sa ollum dögum lifs ydvars. En hann mællti svo vid Linum, ath hann skyllde þar þiona gudi ok helgum pislarvottum hans.

7. Sidan foro þeir Maurus þadan i brott, ok er ecki getit um ferd þeira, adr þeir toko ser herbergi eitt kvelld nær kirkiu, er helgud var Mariu drotningu, ok þar var hus litid hia, er kona su var i, er Remicia het, ok sonr hennar, er legit hafdi tvo daga i dae, svo at menn vissu eigi, hvort hann var iendr eda eige. Kona su hafde mist bonda sins litlu adr, ok fell henne nær harmr sia allr saman, ok sat hun yfir syni sinum gratandi. En Maurus geck til kirkiu snemma nætr, sem hann var vanr. En er sa leid nottina, þa kom honum i hug, hve aum honum þotti vera kona sia, er sat yfir syni sinum nær daudum, eda hversu nær henne fell harmr sia allr saman, er su var eingi stund, er hun matti sig fra grati hallda. Þa fell Maurus til bænar af nyiu ok bad drottin, at hann miskunnadi konu þessi ok gerdi heilan son hennar. Þa reis hann upp af bæn ok for til felaga sinna hliodliga, ok vakti Simplicium munk ok bad hann upp risa leyniliga ok fylgia

ser. Ok er þeir komu til kirkiu, mællti Maurus: »Mikil sott er mer i þvi, er ek se konu þessa hryggva, ok vil ek, at vit farim badir til reckiu ens siuka manz, ok mætti svo vel verda, at haleit tign almattigs guds grædi hann.« Ok er þeir komu þar, þa mælltu þeir svo: »Kristr drottinn ok grædari wor, einka won ollum siukum ok harmsfullum, sa er miskunnandi war eckiu þeiri, er færdi lik sonar sins med miklu fiolmenne, ok reisti upp son hennar til lifs at asiandum flockum Gydinga, nu lati hann ser soma ath hugga þessa konu med þeiri somu milldi ok gialldi henne son sinn alheilan.« Ok er þeir hôfdu þetta mællt, foru þeir i brott. En sa er tva daga hafdi i dae legit an vitz ok mals, tok nu at mæla vit modur sina: »Hird eigi þu at grata, sagdi hann, þviat med tarum eins præls guds var ek aptr kalladr til lifs fra helvitis kvolum.« Ok er hann hafdi þetta mællt, reis hann upp ok for til kirkiu, þa er þeir sungu ottusong Maurus ok hans forunautar, veik þegar þar at, er Maurus var, ok mællti: »At sonnu ertu sa, er mik kalladir fra domstoli þeim til lifs med þinum tarum ok verdleikum, er ek var til kvala dæmdr.« Sia iarteign for um allt þat herad, ok foru margir menn i moti þeim, þar sem þeir foru, ok sungu lof gudi þeim, sem svo dyrkar helga menn sina. Sa madr het Olegius, er nu (var) fra sagt, ok tok munks wigslu i munklifi þvi er Siriensis heitir.

8. Þeir Maurus foru sidan ferd sina, þar til er þeir komu i þorp þat er Autisiodorensis heitir, ok var þat skirdags aptan. Þar heyrdu þeir getid Romani, munks þess er verit hafdi tænadarmadr heilags Benedicti fyrir longu, sem sagt er i sogu hans. Þa hitti Romanus Maurum ok foronauta hans, ok bad hann, at þeir færi þangat allir um paskana. En Maurus var fus at finna Romanum ok einkum af þvi, ath hann vissi, at þa mundi heilagr Benedictus andaz þvottdaginn, ok hugdi gott til ath tala vit Romanum, ok foru þangat fostudaginn, ok tok Romanus wel vit þeim. Forunautar Mauri keyptu fæzlu, þa er hafa þurfti um paskana. En þeir Maurus ok Romanus ræddu um dyrd eilifs lifs. En er þeir hofdu lokit tidum um morguninn, þa mællti Maurus vit enn helga Romanum: »Aa morgin er sa dagr, er heilagr fadir vor Benedictus mun fyrirlata þetta lif ok stiga upp til eilifs lifs.« En er Romanus heyrdi þetta, þa tok hann akafliga at grata. Maurus villdi hugga hann ok mællti: »Oss hæfir helldr at fagna hans andlati, þviat þar hofum vær nu mikinn fulltingsmann ok formælanda fyrir oss, ok er hann oss nu nalægari, hvar sem vær erum staddir, en

þa at hann væri her i heimi.« Ok þo at hann mællti slikt, þa matti Romanus eigi hallda sik fra tarum. Nott þa vakti Maurus ok foronautar hans, ok svo Romanus ok nockurir hans lærisveinar, ok sungu þeir allir salma ok bænir i minningu andlatz heilaghs Benedicti eptir sid Romveria. En er nott su leid or hondum ok lokit var tertio um morguninn, þa var Maurus at kirkiu ok la a kirkiugolfi. Þa bra þvi vit, at hann þottiz vera heima i munklifi Benedicti, ok sa hann gotu liggia upp til himins austr fra kofa Benedicti; hun var þakin fogrum mòtlum ok mòrgum itarligum steinum. Þessa syn sa med honum .ii. brædr. Þeir undrudu miok syn þessa. Sidan sa þeir mann a gotunni buinn virduliga ok biartan i alite. Hann spurde, hverr þessa gòtu ætti. Þeir kvoduz eigi vita. Þa mællti sa, er aa gotunni var: »Þessa gotu stigr heilagr Benedictus upp til himins.« Sa annar, er sa syn þessa med enum helga Mauro, var heima i munklifi Benedicti, en annar fiarlægr þeim stad, svo sem segir enn sæli Gregorius pave. Maurus sagdi vitran þessa Romano ok felogum sinum, ok helldu þeir þar gofugliga upprisutid drottins vors ok foru i brott annan dag i paskum. Þa mællti Romanus vit enn sæla Maurum: »Ef ek mætta fyrirlata þenna stad, þa munda ek giarna þer fylgia, enn kærazti vinr; nu bid ek, ath gud almattighr se aavallt med þer ok brædrum þinum ok leidi ydr til sannrar fyrirheitziardar, þeirar er hann het voldum monnum sinum.«

9. Þadan foru þeir til þess stadar er Aurelianus heitir, þar var þeim sagt andlat Berticiamni byskups, ok þat med, ath annar var til byskups tekinn ok vigdr i hans stad, sa het Dompnulus. Þessi tidendi òflodu þeim ahyggiu mikillar ok hrygleiks, ok vissu eigi, hvat þeir skylldu til rads taka. Heilagr Maurus mintiz aa spasogu meistara sins, þa er hann sagdi mart torvelligt vera i þessi stundligri dvol, þviat gud launar þat margfalldliga, er menn þola til vandræda her i heimi fyrir hans sakir,; »letz hann oss ok, sagdi Maurus, avallt fylltingsmadr(!) vera skylldu. Abraham hofutfadir for a bròtt af fodurleifd sinni at bodordi guds ok til annars landz ok audladiz af gudi blezan allz sin(s) kyns. Vær skulum ok gladir vera i þessi utlegd ok bida svo hugganar af gudi ok likiazt eptir meistara worum, er geck fra allre eigu sinni, ok um sidir leyndiz hann fra fostra sinum ok villdi gud(i) einum lika ok at honum einum hyggia, ok fyrir þat audladiz hann mikla miskunn ok tign af gudi, svo at eingi hefir fremri verit heilagra manna, þa er postola leid, ok setti fleiri munklifi en nockur annarra ok færdi

gudi margar þusundir algerra munka.» En af þessi aeggian heilags Mauri þottuz þeir þegar stodugari vera en adr ok spurdu leidtoga sina, hvat þeir skylldu til rads taka. Harderadus mællti: »Þat syniz mer til liggia, ath vit, er eptir ydr vorum sendir, ok er sem þer hafit fyrir vorar sakir þolat mikit vil ok erfidi i þessi fǒr, ath vit leggim þat erfvidi a ockr at fara til fundar vit þenna byskup, sem ockr er okunnigr, ok segim honum allan tilgang farar vorrar, ok kunnim sidan ydr skyrt ath segia hans vilia, en þu bid her, enn gǒfgazti fadir, i þeim stad, ok brædr þinir þeir sem med þer ero. En ef sia byskup vill eigi þat gera lata, sem hinn fyrri byskup sendi ord til, þa munum vær finna adra gotu, ok mun gud eigi lata verda þarflaust erfvidi ferdar ydvarar.«

10. Sidan foru þeir til þess, er þeir komu til borgar sinnar, ok tok byskup vid þeim forkunnar vel ok het þeim þegar audæfum sinum ok allre virding þeire, er þeir hǒfdu adr haft. Þeir sogdu honum fra fǒr sinni ok letuz þat hafa aflat, sem þeim var bodit, ok spurdu[1], hversu hann villdi þenna lut vera lata. En honum kvodz(!) ecki mikit um utlenda menn ok letz ecki mundu klaustra smida lata at rade utlendz manz. En er Harderadus heyrdi, at byskup tok þvi ecki fliott, þa sendi hann frænda sinn, er Hardemarus het, til fundar vit Maurum, ok bad hann eigi hryggvan vera um þessa sǒk, helldr skylldi hann fara til herads þess, er Andegaunensis heitir, ok kvaz hann þar mundu fyrir vera, þa er þeir kæmi þar. Maurus vard gladr vit þetta ok felagar hans. Sidan foru þeir i þann stad, er Testis heitir, ok fundu þar Harderadum ok konu hans, er Cecilia het, ok sonu þeira, ok hǒfdu þau þar bedit tvo daga ok buit þeim goda veizlu. Þa gengu þeir Maurus ok Harderadus brott fra odrum, ok Cecilia kona hans, til tals, ok sagdi Harderadus allt, sem farit hafdi med þeim byskupi. Þa spurdi Maurus, hvat til rads skylldi taka. Harderadus svaradi: »Ek a mann þann, er Florus heitir, hann a miklar eignir i herodum þessum ok odrum, ok hann er mestr hǒfdingi a ollu Fraklandi, þa er konungrinn lidr, ok hefir svo mikil metord af honum, at hann dæmir nær um oll maal, þau sem verda milli manna i hans riki, ok þott hann starfi i mǒrgum veralldligum ahyggium, þa þionar hann þo stadfastliga almattigum gudi, ok hann vill munklifi reisa lata af sinum eignum, ok þangat ætlar hann ser til, þa er hann fær leyfi til þess af konunginum. Hann er kvongadr madr, ok eigi af þvi at hann girntizt þat, helldr let hann at

1 spurdi *Cd.*

bæn konungs ok frænda sinna; hann a einn son vit konu sinni, ok ætlar hann honum i þat munklifi, sem hann lætr gera, ok þangat ætlar hann ath fæ þa menn, ath algiorvir se i klerkdomi ok godum sidum, at sonr hans læriz af þeim ok þeira dæmum. Nu ætla ek at gera mann til hans, þann er skyri fyrir honum sôk hingatkomu ydvąrrar, ok sa segi oss sidan hans vilia, ef hann vill eigi sialfr fara at finna oss. En vær munum fara fyrir til þess stadar, sem hann hefir ætlat, at munklifit skylldi setia, ok litum a, hverso oss syniz sa stadr til þess fallinn.« En er Maurus heyrdi þetta, þa vard hann hardla feginn, ok foru þeir þegar annan dag til þessa stadar.

11. Þa red fyrir Fraklandi Theobertus konungr, ok var Florus i ferd med honum ok metinn allra manna mest. Ok er sendimadr Harderadi hafdi uppborit erende sin fyrir Florum ok sagt honum, at þeir Maurus voru þa a ferd komnir, ok sva ath Dompnulus byskup villdi eigi vit þeim taka, þa geck þegar Florus a konungs fund ok sagdi honum, hver sok til var, er Maurus var þangat kominn, ok sidan sagdi hann konungi sinn vilia ok beiddi, ath hann leyfdi, ath Florus leti munklife setia, ok sidan redi Maurus þar fyrir. Konungrinn svaradi: »Svo sem þu hefir oss hingat til truliga þionat ok gert i ollu vorn vilia, þa megum vær eigi synia þer þess, sem þu bidr, ok far þu sem fyrst ok finn þa menn, er þer hafa ord sent, ok mun ek til leggia mina hamingiu, ok tak vit þeim enum helgum monnum wirduliga, ok giôrr þat, er þik fysir ok gudligh tign lætr þer i hugh koma; bid þa helgha menn, ath þeir arni oss ok sonum vorum miskunnar vit gud, ok at þeir bidi optliga fyrir ollu landzfolkinu, ok seg svo, at vær erum bunir at veita þeim hlydni i ollu þvi, er þeira embætti heyrir til; bid ek, at þeir hallde vel reglum sinum eptir bodordi meistara sins. Ok ek mun smida til afla, eptir þvi sem þu beidir, ok sia smid verdi skiott algiôr.« Sidan for Florus med þessum ummælum konungs til bæiar sins þess er heitir Glannafolium.

12. En er Maurus ok Harderadus urdu varir vit kvomu Flori, þa gengu þeir a mot honum, ok þegar er þeir hittuz, ste Florus af baki ok fell til fota enum helga Mauro. Ok er hann reis upp, þa mintuz þeir til ok felldu taar fyrir fagnadi. Sidan tok Florus ena vinzstri hônd Môri[1] ok kysti a sidan ok mællti: »Mikill fagnadr er oss a hingatkomu þinni, þar sem þu ert þræll ens hæsta guds ok lærisveinn ens helga Benedicti, þviat hans

1 *Først skrevet* flori *i Cd.*

vegr ferr nu um allan heim, ok lofat se nafn drottins, þess er þik sendi ok þina forunauta til þessa herada ok oss til tenadar.« Annan dag eptir syndi Florus Mauro stad þann, er hann ætladi munklifit at setia. Þa sendi hann eptir syni sinum Bertulfo, ok selr hann i hendr Mauro til læringar. Hann var þa atta vetra gamall. Þa lysti ok Florus yfir þvi, at hann ætladi ser þangat, ef hann fengi leyfi til þess af konungi. Sidan let hann samna smidum mörgum ok verkmonnum, ok var þar munklifit reist, er odrum megum var fiall, en odrum megin á mikil. Fyrst var þar kirkia gior, ok sidan er vigd var, var helgut enum sæla Martino byskupi ath radi[1] Mauri, ok þar var hann grafinn at þeiri kirkiu.

13. Florus hafdi haft einn steinsmid fra konunginum, hann var lærdr madr. Þat var einn dag, at Maurus sat uti hia, þar er þeir smidudu, ok sa a bok sina, ok þar var Florus hia honum, ok skyrdi Maurus honum af bokinne. Þa vard þat, at smidr sia fell ofan af hinum hæsta steinvegg ok a einn mikinn stein, hann fell a bak aptr ok lamdiz mi(o)k. Allir ætludu hann andadan ok ræddu um, hvar hann skylldi grafa, þviat blod fell hvervetna um hann. Þa komu þeir til Maurus ok Florus þar til, sem hann la. Maurus baud, at hann skylldi bera til kirkiudyra. Hann bad þa adra i brott fara, en hann fell til bænar fyrir alltare, ok er hann lauk bæn sinni, geck hann ut ok gerdi krossmark yfir enum lamda ok mællti: »I þess nafni, er manninn skapadi or leiri iardar ok gaf honum lifs anda, ris upp þu heill ok smida klaustra þenna, þar til er lokit er.« Hann aurdgadiz upp þegar, ok sem hann vaknadi af svefni, ok undradi, er hann var þar kominn. Maurus sagdi, at adrir baro hann þangat. Ok er hann var þangat kominn, komu þeir þar Florus ok Simplicius. Florus fell til fota Mauro ok mællti: «Ath sonnu er þu Maurus lærisveinn Benedicti, þess er vær heyrdum opt fra sögd þvilik takn.» Ok eigi þordi hann at koma vid klædi hans.

14. En þa er sa kom til smidar er græddr var, toku nöckurir enir verri menn at amæla enum helga Mauro ok sögdu, at hann hefdi[2] þessa iartein til þess gert, at hann væri þa meira virdr en adr, en eigi fyrir sakir gæzku, ok hann mundi þvi farit hafa fra sinu odale ok til fiarlægra herada, ok svo at hann mundi slika luti gera af nockörum golldrum en eigi af guds krapti. Ok er þeir ræddu slikt, þa hliop diofull i þria verkmenn ok kvalde akafliga, svo at einn feck bana af, sa het Flodegissus. En er guds madr

1 raudi *Cd.* 2 gerdi *Cd.*

fra þat, felldi hann tar ok geck til kirkiu Martini, ok bad fyrir enum andada ok svo fyrir þeim, er ohreinn andi kvaldi. Sidan reis hann upp af bæn ok geck þangat, sem enir odu menn voru. Þeir rifu klædi af ser med tonnum. Hann gerdi krossmark yfir þeim ok mællti: «Drottinn vor Jesus Kristr, eingetinn guds son, sa er þann matt gaf lærisveinum sinum, at þeir trædi undir fotum höggorma ok eitrorma ok allan uvinar krapt, leysi hann ydr nu af þessi diofuligri kvol.» Þeir gnistu tönnum ok iusu molldu i höfut ser, en hann geck at þeim eigi at sidr ok retti fingr sinn i munn þeim. En ohreinn andi matti eigi þar ut fara, sem fingr hans voru fyrir, helldr for hann med saur i brott. Þa baud Maurus, at enn andada skylldi bera i kirkiuskot, ok svo var gert. Hann vakti alla þa nott ok bad med taarum, at hann gæfi lif enum andada, ath eigi vægi diofull sigr a honum. En um morguninn eptir let hann Simplicium munk syngia messo fyrir þeiri enni somu salo, ok er messo var lokit, þa gengu þeir þar til, er likit la. Þa mællti Maurus: «Drottinn Jesus Kristr, þu er upp reistir Lazarum, er fiora dagha hafdi i grauf legit, ok fyrir bænir þræls þins Helye lifgadir þu eckiu son, ver þu nær oss þrælum þinum ok gialld þeim likama önd sina, þa er diofull tok i brott med mikille kvol.» Ok er hann hafdi þetta mællt, þa skalf likit, ok eptir þat settiz madrinn upp. Maurus mællti þa: «Ef þu villt lifa, þa far þu i brott þegar ok kom alldri i þenna stad sidan.» Þetta baud hann honum fyrir litillætis sakir ok þess, ath hann villdi eigi ordlof af monnum hafa fyrir þetta verk.

15. A enum atta vetri þangatkvomu heilags Mauri var klaustrid algert. Þa var Eutropius heilagr byskup i þvi heradi. Fiorar voru kirkiur i munklifi Mauri. Ein var helgud Petro postola, onnör Martino byskupi, þridia Severino byskupi, en fiorda var giör a þa leid sem enn hæsti turn, ferskeytt at vexti, ok var helgut enum sæla Michaele höfudeingle. Florus mintiz þa þess, er hann hafdi heitid, ok for til fundar vit konung ok bad leyfiss af honum til þess at taka munks vigslu ok þann sid, er þar sa at fylgia, ok bæta svo yfir misverka sina, er hann hafdi gert i veralldligri atferd, med bænum ok odrum andar avöxtum. En er konungr leyfdi eigi þat, þa vard Florus ugladr ok villdi þo eigi skiliaz vit konunginn. Konungrinn bad hann þar vera nockura daga, ok svo gerdi hann. Konungr spurdi vandliga ath Mauro ok iarteignum hans ok lifi ok allri atferd, eda hve margir munkar komu þangat med honum. En Florus sagdi honum allt greiniliga slikt, sem

hann vissi af. Þa mællti konungrinn: «Ef ek vissa, ath þat likadi guds þræli, þa væra ek fuss ath sia hann ok stad þann, sem þar er reistr, ok vegsama hann med konungligri giöf.» Florus mællti: «Leitum fyrst ath þvi, hversu[1] þetta hugni enum helga Mauro, ok gerum sidan eptir þvi sem honum þickir vera eiga.» Sidan sendi konungr hann þangat ok mællti svo: «Kunn þu bratt ath segia oss, hversu hann vill vera lata um þangatkvomu vora. Mikit þætti mer undir þvi, ef Mauro þætti svo vera mega, ath ek væra vit staddr, þa er þu leggr nidr veralldligan buning ok locka þina.» En er Florus kom til munklifiss Mauri, ok margir gaufgir menn med honum or höll konungs, þa sagdi hann bratt Mauro vilia konungsins. En heilagr Maurus leyfdi þat, eptir þvi sem konungr beidde, ok kvad sa skyrt um dag, hvenær hann skylldi koma.

16. Konungrinn kom ath nefndum degi. Gengu þaa i mot honum allir munkar ok toku vel vit honum ok lidi hans. Konungrinn virdi þa litils metord sin ok tign, er hann hafdi af landzmonnum sinum, ok um morg lond onnur foru hans agæti, hann fell til fota enum sæla Mauro med miklu litillæti i purpuraklædum ok dyrligu konungsskrudi, ok bad enn sæla Maurum med tarum, ath hann helldi bænum fyrir honum ok ollum hans undirmonnum. Þa tok Maurus i hond honum ok reisti hann upp. Konungrinn mællti þaa: «Agæt er tign meistara ydvars, ok fyrir longu kunnig hingat um lönd, þviat kraptr hans heilagleiks ok agæt verk, þau er vær heyrdum fra honum sogd, reynaz nu verda hversdagliga giör fyrir bænir ydrar ok verdleika, ok veitir þat oss mikinn fagnad.» Sidan bad hann Maurum, at munkar tæki hann i sveit sina ok samlag, ok nafn hans væri ritad med þeira nöfnum. Hann fal þeim a hendi son sinn Theodebaldum, ok baud honum sveininum ath vera eptirlatr enum sæla Mauro ok brædrum ok hagfelldr þeira stad, ok hann væri tenadarmadr ok hlifeskiolldr þeira optliga. Þa spurdi konungr, hverir þeir væri, er þangat komu med honum, ok mællti, at þeir skylldu standa allir saman, ok spurdi, hvat hverr heti. En er honum var sagt, þa mintizt hann til þeira allra, ok sidan kysti hann allt munka lid. Ok er hann sa Bertulfum hia odrum brædrum, þa spurdi[2] hann, hverr sa væri enn unge munkr. Maurus sagdi honum, ath saa var son Flori. Þa kalladi konungrinn hann til sin ok fal hann a hendi Mauro fyrir astar sakir vit fodur hans. Sidan kannadi hann öll munkahuss ok hugdi at,

1 hversa *Cd.* 2 sagdi *Cd.*

hversu honum þotti smidat vera, ok leitz vel sa. Eptir þat geck hann til Petrs kirkiu ok gaf til þess stadar þorp nockut, er Boskus heitir, ok ònnur þorp, þau er þar lagu i nand, ok let rita sa stadarskra þessar tilgiafir allar. Þa lysti konungr yfir þvi, at hann mundi allt þat veita Mauro, sem hann beiddi sa þeim degi. Þa geck Florus til konungs ok bad, at hann leti giòra bodord konungligrar tignar yfir testamento þvi, sem hann let rita, ok þat veitti konungr honum. Þa voro færdar þær giafir þangat, er Florus gaf til stadarins, þat var bæde gull ok silfr ok gimsteinar ok klædi dyrlig. Sidan gaf hann frelsi .xx. þrælum sinum ok þar med godar giafir. Eptir þat geck hann til alltaris, þar sem Maurus var fyrir ok òll klerkasveit, en odrum megin hia alltari stod konungrinn ok fylgd hans. Þa leggr Florus nidr allt heimsskraut; klyfti aboti fyrst af haari hans, ok þa konungr næst, ok sidan hverr at òdrum merkismanna þeira, er konungi fylgdu. Konungrinn felldi tar fyrir fagnadi, er hann sa svo mikla godfysi med honum. Þa kalladi hann til sin brodurson Flori Landramnum ok feck honum velldi þat allt, sem Florus hafdi adr haft. Sidan bad aboti konunginn, ath hann gengi i hus þat, sem gestir voru vanir at vera ok af virktum var gert. En er konungr kom þar, þa fell enn sæli Maurus til fota honum klòckvandi. Konungrinn reisti hann upp ok spurdi, hvat hann villdi. Maurus mællti: «Sia er bæn ens minzta allra þioda, þeira sem her eru i þessum klaustra, at þer sed her i nott ok lid þat allt, sem ydr fylgir, ok neytid her þeira guds giafa, sem brædr hafa ydr fyrir buit med godfysi.» En er konungrinn taldiz undan þvi litillatliga, þa mællti radgiafi hans, sa er Ebbo het, enn spakazti madr: «Veitid þeim þetta, herra, er þeir bidia med svo miklum godvilia, ok uggi ek, at gud reidiz oss, ef vær reitum i nockuru hug þeira.» Ok þa veitti konungr þat, sem þeir baadu. En adr þeir foru i brot, þa let hann þangat kalla Florum. En er konungr sa hann klæddan munkaklædum, felldi hann taar ok mællti: «Þackir geri ek almattigum gudi fyrir þinni godfysi. Bid ek þik, ath þu þioner nu gudi þinum þeim mun betr ok rækiligar i þessi enni helguztu atferd, sem nu þionar þu ædra konungi, en þa er þu hellt upp voro hofdi ok hafdir veralldligan bunad ok styrdir virduliga þvi valldi, sem þer var i hendr feingit, ok þu megir svo heimtaz fram i godlifi, sem salmaskalldit segir, at helgir menn munu fara af krapti i krapt, til þess er þeir sia gud guda i Syon.» Sidan tok konungrinn blezan af Mauro abota ok for a brott sidan.

17. Annan dag for aboti at sia þorp þat, er konungrinn hafdi gefit til munklifissins, ok dvaldiz þar tvo daga. Þangat var færdr kararmadr, saa er .vii. vetr hafdi i kôr legit i þvi sama þorpi, ok var þa vitlaus; ok er guds madr signdi hann, reis hann upp þegar alheill, svo sem honum hefdi ecki til meins verit. Sidan for aboti heim ok kannadi lif ok sidu lærisveina sinna, svo sem gert hafdi enn sæli Benedictus, ok eggiadi þa til gods lifs. Aa odru aari þangatkvomu Mauri reduz margir menn þangat ath þiona þar gudi. Sumir selldu sono sina til læringar enum helga Mauro. En er .vi. vetr ok .xx. voru lidnir fra þvi, er munklifit var sett, þa voru þar .c. munka ok fiorir tigir; su sama tala hellzt leingi sidan, ok villdu menn hvorki auka ne minka þa tôlu, er Maurus hafdi sett, ok matti þa vel endazt þat, er þar la til, ef eigi var fleira lid. En þa er Florus hafdi þar verit .xii. vetr ok þria manadi ok þria daga, þa tok hann sott ok andadiz .xii[mo]. kalendas Septembris, ok for til guds.

18. Theobertus konungr hafdi .xiiii. vetr radit fyrir Fraklande, þa er hann let velldi af hendi, ok tok konungdom Theobaldus son hans. Hann stiornadi miok eptir þvi sem fadir hans ok var vel vit enn sæla Maurum ok klerka hans. Hann for eptir andlat fodur sins at finna enn helga Maurum ok færdi honum godar giafir ok gaf til stadarins tvo bæi; hann vard skamlifr. Eptir hann tok riki Lotarius, hann for opt at finna Maurum ok sotti miôk eptir hans radum. Þat var eitt sinn, at Maurus sendi .ii. brædr til hans af nockurum naudsynium, tok hann vit þeim forkunnar vel ok let þegar til reidu þat, sem þeir beiddu. Hann spurdi þa vandliga at, hversu mikil tillaug enir fyrri konungar hefdi haft til munklifis þeira. En þeir sôgdu honum þat glôgliga. Þat var einn dag, at Maurus ok nockurir brædr med honum foru i þorp, þau er þangat lagu til munklifis þeira, ok komu þar sem Gandiacus heitir. Þa geck Maurus til bænar i hus nôckut, ok .ii. munkar med honum. Ok er þeir hôfdu setit þar um hrid, þa var þeim sagt, ath Ansegarius erkidiakn var þar fyrir dyrum uti ok villdi hitta Maurum. Hann baud honum inn at ganga. Ok sidan er þeir hôfdu talat slikt, er þeim var skylldaz, kalladi Maurus til sin Simplicium munk ok mællti vit hann: »Þessum manne eigum vær vel ath fagna, þviat hann er enn kærazte vor win ok var fyrrum heimamadr wor, ok skulum vær byrla honum astar vín ok heilagrar elsku sem andligir menn andliga.« Simplicius mællti: »Eigi hôfum vær meira vin en i einu litlu keri, þat sem vant er

ath hanga i kofa worum.« »Ber þo þat hingat,« sagdi Maurus. En er þat kom, mællti hann: »Takit oss ok nockut braud.« Maurus gerdi krossmark yfir kerino ok mællti: »Mattugr er gud, sa er matbord bio þrælum sinum i eydimork ok let vatn gnogligt spretta fram af hellu einni, þa er Gydingum var vatzfatt, ok enn hefir hann matt til þess at gefa oss þrælum sinum gnott wins, svo at vinniz, sem vær kunnum oss þôrf til.« Af þessu enu litla keri drucku siautigi manna, ok drack hverr af þrim sinnum, ok var þa kerit fullt, er þeir hôfdu druckit, svo sem fyrir ôndverdu[1]. Sia iarteign þotti þeim lik vera þvi, sem Heliseus spamadr gerdi, er hann fæddi leingi marga smidu med litlum mat. Eptir þat for Maurus heim ok forunautar hans, ok mætti siukum manne midleidis ok gerdi krossmark a mot honum, ok tok sa þegar heilsu.

19. A þeiri tid kom Lotarius konungr i þat herad, ok sendi ord hinum helga Mauro, at hann kæmi til motz vit hann. Maurus for þegar ok nockurir brædr med honum. Konungrinn gaf til stadar þeira þorp þat, er Blazon heitir, ok bæ þann, er Langavollr heitir. Þa bad enn helgi Maurus konunginn leyfiss til þess, at þeir munkar ok hann sialfr kiôri mann til (a)bota, þann er þeim syndiz vel vera tilfallinn, ok konungr leyfdi þat. Tok hann blezan af abota ok for heim sidan. Heilagr Maurus sagdi svo brædrum sinum, ath hann villdi nidr leggia umônnun ok forrad stadarins, ok kvedz vilia lata gera ser kofa hia kirkiu Martini byskups ok i þvi husi vera, medan gud ynni honum lifs, ok þar þiona gudi utan alla veralldar gledi; kvedz hann ok vita, at eigi var langt eptir lifstunda hans, at þvi sem enn helgi Benedictus spaadi um alldr hans, ok þa mundi hann þria vetr hafa olifat. Þa voru þrirtigir vetra ok atta vetr fra þvi er klaustrid var reist. Þa let hann kalla til munka alla ok lærda menn, ok spurdi, hvern þeir villdi til abota kiosa. En allir mælltu ok sogduzt vilia, ath hann kiôri, ok kvadu hann giôrst vita allra þeira skaplynde. »Þat synizt mer, sagdi hann, ath Bertulphus se til abota tekinn med godu samþycki brædra ok settr i sæti Mauri.« En hann geck þa i kofa sinn ok .ii. munkar med honum, þeir sem honum skylldu þiona, þeir hetu svo Primus ok Avianus.

20. En er heilagr Maurus hafde sva leingi lifat, halft fimta misseri, ok þiad likam sinn môrgum meinlætum, þa var eina nott, er hann geck til kirkiu Martini, sem hann var vanr, ok villdi inn ganga, sa hann dioful standa fyrir ser ok hafdi mikinn flock

1 ôndvôrdu *Cd.*

uhreinna anda; hann bannadi Mauro at ganga i kirkiuna ok mællti wit hann: »Heill sva Maure, þu er svo hefir oss opt i brott keyrt af worum sætum ok bygdum ok farit fra þinu heradi, kunnmonnum ok frændum til þessa okunnu[1] herada. Nu munum vær hefnaz vit þik ok hafa fram allan maatt illzsku vorrar i gegn þer, sva at vær munum koma ath ydr sott mikilli ok illri ok drepa svo nidr nær allt munkalid, ath fair einir munu eptir vera, ok mun ek nu wegha sigr a þinum monnum, þviat þeir hafa mart eptir mer lifat.« Maurus mællti: »Avita mun drottinn þic, andskoti, um maal slik ok lygi þina, þviat þu ert sva sem fader lyginnar.« Þa hvarf uhreinn andi fra aughum hans sva sem reykr. Eptir þat vard gnyr mikill ok ogurligr, sva at Mauro þotti skialfa allt klaustrid, ok vit þann gny wôknudu brædr ok woru lostnir myklum otta ok hræzslu, ok wissi eingi, hveriu sæta mundi, ok risu upp til ottusaungs. Heilagr Maurus vard hryggr miôg vit syn þessa ok wit þat, er hann hafde heyrt, ok geck inn i kirkiu ok bad drottin, at hann leti ser soma ath birta honum sannleik af þeim lutum. Þa vitradiz honum eingill guds ok mællti vit hann: »Hvi ertu svo hryggr, en kærsta sala guds, af þeim lutum, sem af sialfum gudi ero fyrirætladir? en diofull veit, hve mart verda mun, þott hann se upphaf allrar illzku ok lyghe; þat skalltu vita, at hann hefir eigi þetta sagt af sinum vilia helldr ath guds bodordi, þviat þat er sumt satt, er þu heyrdir, þviat mestr luti munka þessarra munu saman samnaz til drottins aa skamri stundu, svo sem gud hefir fyrir hugat; en þat er eigi satt, at hann sagdiz sigraz mundu a lyd þessum, þviat hann mun aa eingum þeira sigr vinna, þar sem þeir ero lærdir þinum aminningum ok þinum bænum, ok mun hverr bida andlatztidar sinnar; ok þa er þessir ero andadir, munt þu ok andazt.«

21. Eptir þessi ord hvarf syn sia fra honum. En um morguninn eptir sagdi enn helgi Maurus brædrum þa luti, sem honum voru vitradir, ok talde leingi fyrir þeim af fodurligri ast ok sagdi sva, ath þat endimark hafde drottinn sett þessa lifs, sem eingi daudligra manna, þeira er bornir voru i þenna heim, matti um lida. Nu er oss þat eina til at færa oss vel i nyt þat, er drottinn hefir skyrt gert fyrir oss, ath vær munum skamma eiga idranar stund, ok er þvi meiri naudsyn aa at vanrækia eigi þat, sem hann villdi vara oss vit adr, ok skylldum vær nu af þvo syndaflecka vora med idranar tarum ok aþian likama vors, þviat þa fitnar

1 okunna *Cd.*

ondin, er likaminn megriz. Giorum vær, sem spaamadrinn mællti: ransokum ahyggiusamliga gotur vorar ok verk, ath vær komim med iatningum fyrir andlit drottins, ok vær megim innganga med ymnum ok odrum lofsôngum i hlid hatidligrar borgar, ok verdim þess makligir at sia birti almattigs guds med ollum helgum ath eilifu. Nu vitum vær, brædr, at nær er su tid, er domr hefz upp af husi guds, en domar hans eru stundum leyndir, en allir rettir. Giorum nu, sem samir þrælum guds, ok færum verkkaup vor, verum vakrir ok varir um oss med ollu, ok gongum eigi i snoror andskota, þær sem hann hefir a gotu fyrir oss, þviat nu er komin en ellifta tid, þat er en efzta tid lifs vors.«

22. Af þessi aeggian ok aminningu guds manz tok sia oll munkasveit ath bua sig fyrir til ennar efztu tidar, svo ath allir stigu upp utan efa til himneskrar fôdurleifdar, þa er þeir lidu fram af þessa heims lifi. Sidan kom sott med svo miklum haska ok akafa, at adr en .v. manadir eru lidnir, þa hofdu andazt .xiiii. munkar ok .c., en eptir voru .xxiiii. af þessum mikla safnadi. Þa tok enn helgi Maurus sott ok lagdiz nidr i kirkiu heilags Martini fyrir alltare ok hafdi harklædi eitt undir ser. Hann andadizt .xviii$^{da}$. kal. Februarij manadar, þa er hann hafdi adr bergt hollde ok blodi drottins vors Jesus Kristz, ok for þegar til guds, ok var grafinn i þeiri somu kirkiu til hægra vegs alltaris. I þeim stad veitaz margir velgerningar fyrir verdleika ok bænir heilags Mauri til dyrdar gudi. Bertulfus aboti lifdi sidan tvo vetr. Eptir þat var Florianus aboti son Harderadi leidtoga Mauri, ok hafdi Maurus hann lærdan. Svo teliaz lifdagar en(s) sæla Mauri, at hann var fornadr gudi ok selldr til læringar enum helga Benedicto, þa er hann var .xii. vetra, ok var med honum .xx. vetr; þa telzt alldr hans allr saman .lxxii. vetr ok dagar .xiiii. Per omnia benedictus deus in secula seculorum. amen.

---

# MICHAELS SAGA.

---

*(Cd. 657$^{a}$ qv., A; Cd. 657$^{c}$ qv., B; den sidste har kun Slutningen af Sagaen).*

**(Prologus).**

I nafni grędara varss herra Jesu Kristi byriaz her litill bæklingr heilags Michaelis hofuðengils, til þess eina skrifaðr ok samansettr, at hann iafnlega lesiz a messuðagh Michaelis kirkiusoknar monnum til skemtanar, einkaulega i þeim stǫðum[1] sem hann er kirkiudrottenn yfir, at þvi ǫllu sætari verðr hans minning i rettlatra manna hugrenning, sem firir þessa litlu ritning verðr ollum kunnari hans augæta virðing. En þvi kunnu ver at skrifa skamt en eigi langt af þessum haleitum merkisberara Mikaele, at hans atferð ok unaðsemd er meirr i laynum himnanna firir asliti ok asynd eilifs ok osyniligs domara, en firir manna augum a iardriki til langra eða opinberra frasaghna. Liost verdr skynsaumum manni, at vorkynd letrs vors er saunn, þo at stutt verði fyrst, firir þa sauk at syndugr maðr ma taka morg orð af engiligri natturu hræddari en af mannligri, þviat hennar stetr ok astuð er hreinni ok helgari en hvat annat; firir þaa sauk aðra at þessa frasaugn ma eigi birta með ættartǫlum iarðneskra manna sem annarra heilagra manna, eigi nǫfnum feðgena, eða rikdomi frænda, eigi upprunasǫgu mannzins eða frumvaxti(!) tiða, þviat þvilikir hlutir allir geraz i heimi vaarum; en kynferd Michaelis er eigi af dauðligum monnum helldr af eilifum guði, eigi þessarrar veralldar helldr himneskrar. Þvi verdr skilianligt, at þat eina er oss efni gefit til frasagnar, er blezaðr Michael kyndi sitt nafn heiminum meðr drottens vilia ok dasamligum verkum firir þa miskunnar grein, at iardneskir hlutir skilldu hialpazt mega firir hans arnaðarorð ok meðalgongu viðr

[1] stǫðum A.

guð firir þaa stundliga þionostu, er nu veitiz honum i kristninni, hver eigi mundi giorzst hafa, utan drottinn allra miskunsemda hefði hans nafn birt yfir iordina. Nu þat litit sem ver hofum saman lesit hefr i guðs nafni medr þess hattar efni.

## Her byriar upp sǫgu Michaels engils.

1. Eilifr guð drottinn, skapari himins ok iarðar, skapaði alla hluti i senn af engu efni ok greindi skepnu sina i sundr aa sex doghum, ok hvilldiz aa siaunda vikudegi af verki, er hann framit hafði; sem vaattar hinn mikli laugmaðr Moises, þa er hann skrifar af skapan heims i upphafi þeirar bækr, er Genisis heitir. Oumręðilegr guð pryddi alla sina skepnu fǫgrum blomum bæði iarðneska ok himneska[1], þviat aull handa verk hans voru miogh heilug. Himnariki pryddi hann oumræðilegri dyrð, sem engum er kunnikt utan honum einum. Til þeirar dyrþar skapaði hann dasamlega ok udaudliga natturu meðr uvirdanligri sęlu, sem honum er þionandi bædi aa himni ok aa iorðu. Þessi vegsemdar nattura eru usyniligir flokkar ok fylkingar einglanna, þviat sva byriar æzsta konungi usyniligum guðdomi at hafa usyniligar þionostur til lofs ok dyrþar sinu almattku guðdoms velldi. Aullum engla fylkium skapaði drottinn einn engil fegra ok frabęrlegra, sva at af sinni dyrð ok birti tok hann nafn i upphafi ok var kallaðr Lucifer, þat þyðiz aa noręnu (liosberari), þviat hann var forpris allra engla i himiriki firir lios ok pryði. En þvilikan heidr ser veittan af gude kunni hann sva ugiptulega i hondum at hafa, at engva stund meiri ne minni stoð hann með þionkunar dygð firir sinum skapara, utan heldr i stað sem hann greindi ok sa sina fegrd, for hann til ok horaðiz gerandi ser dottur, er dramsemi heitir æ siðan, hver hann fysir þeirar ufæru, at firir sina fegrð ok frama [heriaði hann[2] til riki(s) i hendr hæsta guði ok (villdi) sitia honum iafnhatt i nordri yfir sitt valldzsæti. Til þessa hernaðar með Lucifero skiotaz margir i udygdir braut af hirdsveitum himnakonungs firir iblaastr ok fortolur þeirar sǫmu dottur Luciferi, er fyrr var nefnd; þviat hon er nu þegar vorðen þeira lærimoðer. Ok er enn hæsti keisari ser, i hvert oefni komit var, neytir hann sterkum[3] armlegg ok greiner lios fra myrkrum aa þann hatt, at biartir englar himirikis standa blezaðir ok sæliga profadir i þeim ofriðar stormi, er Lucifer efldi

1 iarðneskra ok himneskra *A*. 2 [ er hann heriaði *A*. 3 steirkum *A*.

moti guði, sva at siðan eiliflega voru þeir styrkir i goðu, ok alldri mattu þeir annat girnaz en guðs vilia, ok engen er þeira sysla ǫnnur utan standa medr astriki i guðdoms augliti at syngia honum lof ok dyrþ sa nott ok sa degi. En Lucifer ok hans fylgiarar foru leið adra, eigi þa er þeir hugðu, helldr þa sem guð dæmdi þa vera makliga firir sina hofuðofdirfð. Þviat Lucifer hofuð allra þeira lagdi bæði senn [1] riki ok sæmdina, at alldri sidan var hann liosberari kallaðr utan til smanar ok brigzslis sinnar fordæmingar; þviat hann fekk ser annat nafn maklig(r)a, ok var kallaðr nattberari, sakir þess at hann glataði riki liossins en tok dauða nott ok myrkr i moti. Þvilika framfærslu feck dramsemi feðr sinum, at hon fletti hann or himnarikis fegrð [2] ok setti niðr i diupp helvitis til endalausrar pislar i gnistanda loga elldz ok eilifra kvala. Sva for Sathan or sæmdarhæð, sem hann verdskylldadi, ok þeim se lof ok dyrð, er sva dæmdi, at sa er hann villdi gripa guðlikt valld með hernaðar hendi, fell undir hann hit helvitzka forað til forraða, sva at diupsettr i dauða, diofull vorðinn af englinum, var hann ollum verri með ofmetnaði ok ǫfund (ok) með eitri i enu heitazsta orvæntingar heraði.

2. Nu sem hinn hæsti konungr seer sinar hirdsveitir miog skerðaz firir dirfð ok afdratt hins grimazsta vikings Noctiferi, skipar hann i sinu velldi, at þat skarð, sem sa varð engla fylkiunum, skal aptr (bæta), ok til þessarrar sæmdar, at fa bræðralagh englanna medr eilifð ok unaðsemd, skappar hann sa setta degi annat kyn andlighrar natturu, þat er hann klædir miog meistarliga af þvi likams formi, er aðr hafði hann skapat af iarðar duppti, ok i samteinging andar ok likama vard hinn fyrsti madr fadir varr Adam lifligr ok skynsamligr firir guðligan iblastr skipadr af sinum skapara herra ok hofðingi allrar iarðneskrar skepnu. Þar med eignaðiz hann samfelag englanna með eilifð ok odaudleik paradisar sælu, ef hann [3] staðfestiz i dygð ok hlyðni sins drottins, hvat er honum brast eigi litt; þviat i stað sem guðniðingrinn Noctifer var viss vorðen af eingilegri smasmygli, at guð hefir skapat duptligan mann til þeirar sǫmu fullsælu, er hann or velltiz med bolgenni ugiptu, þa brennr hann nu með nyfundnu galli eitrfullrar ǫfundar moti fyrsta manni fǫður Adam, ok steytir hann meðr hoggormligri prettvisi braut af boðorda palli skaparans niðr i dauðleik þessar veslu veralldar undir okk ok sanauð illgiarnra anda, sem alldri gekk af kyni Adams, fyrri en siallfr grǫðarinn leysti

1 sæmd ok *tilf.* *A.* 2 fegðr *A.* 3 hæn *A.*

þat meðr sinu banabloði, sem verolldin veit ok aull kristni truir. En þo at drottinn Jesus Kristr Mario son ynni fagran sigr aa herbuðum helvitis undir merki krossins, leggr fiandinn ei þvi helldr sina grimð ok illzku brott af maunkyninu, helldr svikr hann ok um sitr aa nott ok dagh hvern, er hann ma, firir sina eyrendreka, er um loptið fliuga ok enga hafa syslu adra en leiða mankindina meðr falsi ok prettum fra guði til eilifs dauða. Ok þa vyrði sem diofull villdi, ef[1] all(t) mankyn firirfæriz ok felli honum i munn. Þvi væri manninum hugleiðanda ok engum tima gleymanda, hverssu stranga orrostu hann aa heyia við helvitzka anda, er alla vega knosa ok knyia ǫnd ok likama hatt ok leynilega með tolum ok tilbunaði sinna flærða. Hverr ma standa i striði þessu, nema drottinn miskunni sinni skepnu ok sendi henni fulltingh ok lidsafla af sæti sinu sva herralega sem hofðingliga, at myklu fleiri vernda kristnina af guðs halfu en aa sækia firir uvinarins illzsku. Hvar oss syniz vel fallit at setia eina dæmisǫgu af.

3. Tveir heilagir feðr medr abota naufnum bygðu i Egiptalandz eyðimorkum, annarr Moises en annarr Ysodorus aboti. Moises sat i þeim stað er Petra kallaz, var hann dagliga sem einn einsetumaðr ok hvartveggi þeira, þo at aðrir brędr (væri) i maurkinni uti undir þeira heilagleik ok faðerne; i sinum kofa var hvarr þeira, ok eigi allskamt i meðal. Nu berr sva til einn tima, at aboti Moises varð firir sva þungum aaruna diofuls i horanar fystum ok saurlifis, at hann færr eigi sitiandi borit ok leitar undan ut af kofanum fram aa fund Ysodori, seghiandi honum greinilega, hvat hann atti hræra moti saurlifis anda. En heilagr Ysodorus tiar honum faggurlig vitni heilagra ritninga, at þvi karllmanligar skili hann þetta strið ifir vinna, ok biðr hann ǫruggan aptr venda til sins kofa; hvat er Moyses aboti villdi eigi geyra sakir þess, at hann þikkiz berr verða firir baratu sakir sinna uvina. Ok er Ysodorus skilde þat, at Moyses þikkiz aflvani moti ovinum, ef hann sækir holmgongu heim i kofa sinn, ganga þeir baðer samt upp i lopthus nokkut, at hærra bar en ǫnnur herbergi. Þar voru gluggar aa ofarliga bædi til austrættar ok norðrættar. Ysodorus leiðer þa Moysen at þeim glugga, er til norðrættar vissi, ok segir sva: »Sit her ok profa, hvat firir augu kann bera.« Ok er Moyses gerir sva, litr hann i loptinu daligan dioflaflokk akafliga til bardaga buna með æði ok reiði allt at hræra ok rifa ok særa, þat er firir værð. Sem Moyses hefir þetta seeð, snyrr Ysodorus honum

1 af. A.

til austrættar, ok biðr hann sia. Moyses litr þa otaululiga flokka ok fylkingar heilagra engla skinandi ifir solar geisla. Var þesse herferð himneskra krapta sva veglig, at eigi maa orðum skyra, ok eptir þetta talar Ysodorus til Moysen: »Þa sem þu satt i norðri til bardaga buna, eru aastriðarar guðs heilagra manna; en þa er þu satt i austri biarta sem sol, eru þeir riddarar, er milldr drottinn sendir af himnum til fulltings sinum monnum voldum. Nu kennzst við, minn kiæri broðir, segir Ysodorus, at fleiri ok matkari standa meðr oss en moti, sem vattar Heliseus spamaðr ok hinn sæli Jon postoli.« Ok at þessum hlutum senum ok heyrdum, varð aboti Moyses styrkr i drottni ok sneyri aptr til einsetu sinnar, þakkir gerandi ok dyrkandi varn herra Jesum Kristum, er sva margfalliga miskunn gerir mannkyninu bæði fyrr ok sidar, vinnandi þat med sinum dauða braut af kverkum helvitis ok leiðandi aptr i fyrra stett ok enn betra, en hafði fyrsti maðr faðir varr Adam, fullkomit sattmal gerandi milli guðs ok manna; ok her a ofan sendir hann sterkar hirðsveitir af sinni haleitu borg Jerusalem, at æfinliga geymi ok halldi vǫrð yfir kristninni, at hun firirfariz eigi af varga sokn i diofla stridi, þviat allir af honum sendir eru hans hiarta miog skaplikir at elska ok viðrhialp at veita veralligu mannkyni þvi, er guðliga kenning hefir; sva sem i annarri grein hafa uhreinir andar gnoghligt hatr ok illzsku upp a skaða kristninnar, sem nu matti skommu heyra, er ver lasum af Moysi abota, hversu þeir skelva guðs valda menn i afli ok orrostu sinna unaða. Ok enn til provanar þeira greina, er ver settum her fram af elsku guðs engla en illzsku uhreinna anda, skulum ver syna hvara leið meðr liosri dæmisoghu, at þvi framar elskizst himna valldit, en fordiz diofla grimð ok syndagialldit hverr, er þvilika hluti heyrir.

4. Þat er lesit af einum kaupmanni, at af sinum mikla auð, er hann hafði saman dregit, veitti hann alldri nokkura olmusu fatækum monnum. Nu berr sva til einn dagh, at saman komu margir fatækir menn. Syndi þa hverr odrum ok sagði, hvat hvergi goðr maðr hafði þeim firir guðs skylld gefit, utan þesse kaupmadr, þo at hann væri allra þeira audgazstr, hafði þvi siðr nokkurum þeira olmusu gort, at honum var miog uþokkat at sia fatæka menn. Nu sem þeir attu um þetta þinga, sagðiz einn þeira þa i stað mundu þiggia af honum, ef hann bæði þarfliga. En þeim oðrum moti mælaundum, rann þessi skyndiliga i garð auðga mannz ok innkominn i herbergit, þann tima sem þionostu-

menn settu fram vist á bordit firir hinn auðga mann, æpti hann i akafa biðiandi ser olmusu. Kaupmadrinn miog reiðr firir umfang hans ok unaðir, svifz um fast, ef hann fyndi firir ser stein nokkurn eða tre at sla með hinn fatæka mann; ok þvi at hann fann ekki annat, greip hann upp hveitistump einn af borðinu ok fleygði til hans ætlandi at setia á hans æpanda munn[1]. En hinn hafði hendr firir ser, greip þegar stumpinn ok skundaði ut med til kumpana, bidiandi bonda hafa guðs ast firir giofina. Syndi hann felaugum sinum, hverssu fagra olmusu hann hafði þegit af þeim rika manni, er aðrir kolluðu sva sinkan, at alldri villdi nokkurum manni gott gera. Ok litlu sidar en þesser hlutir giorðuz, tekr riki maðr harða sott. Ok sem hann er kominn at dauða, ser hann fianda flokk mikinn þysia inn i husit at ser. Þeir tia ok tina með haði ok hoppi alla þa illa hluti firir honum, er hann hafði guði i moti giort. Ok þvi næst koma til englar guðs af annarri halfu hafandi fram eptir vana miskunn ok elsku, at þeir megi hialpa mannzins sálu. Þvi leita þeir eptir smásmugliga vit varðhallðzengil rika mannz, hvat hann hafði til vernda moti ágangi ovina. En engillinn segir hann ekki ser hlyðinn verit hafa eða eptirlatan, utan einn dagh hoti hellz, er hann kastaði ok þo reiðr á einn fatækan mann þeim sama stump, er hann hellt á. Verða helgir englar vit þessa sǫgu miogh glaðir, þriva stumpinn ok briota sunðr i smæsta mola, ganga siðan at fram firir sátum dioflanna, segianði at maðrinn hefir hialpat goðu verki, ok þess skal hann niota. Fiandr segia, at þat er ekki annat en litr ok læti þeira, kveðaz fullkomit[2] þenna mann eiga, ef þeir skolu uræntir vera. Guðs englar bioða sátt prof á þessu mali ok bera vogir fram; færa dioflar mikinn þunga i sina skal medr storum syndum rika mannz, en englar guðs setia æ ut i moti smátt ok litið af þeim mola, er fyrr var greindr, sva meistarliga sem stormerkiliga, at þat vá iafnan meira. Sva gengr ut, at diofla þrytr til vágarrinnar, en guðs englar eiga þa enn noghan feng eptir af mola stumpsins. Fiandr taka at yla ok æpa, segia þenna mann sinn heimoligan þræl ok með einu saman rangendi af ser tekinn. Guðs englar bioða þetta mal under hæsta domara, ok þat verða dioflar at hallda. En drottinn miskunnar sinni skepnu firir bæn engla sinna, at syndugr maðr lifi ok bæti lif sitt, ok þegar i stað hverfr riki maðr aptr til sin ok er heill vorðenn á somu stundu, þakkir geyranði guðligri milldi bæði með orði ok

1 ok and *tilf.* *A.* 2 fullkumit *A.*

verki, þviat hann var siðan hinn gotfusazsti(!) maðr til miskunnarverka ok olmusugæðis, sem vel lysiz i þvi er eptir ferr.

5. Einn dag sem þessi riki maðr gengr ut af sinum garði at letta ser ok spazera, verdr a veg firir honum einn fatækr maðr klæðlaus ok kalinn, ok þegar i stað sampiniz hann hinum valaða ok lætr siga skikkiu aagæta aptr af herdum ser, er hann stoð i, ok gefr hinum nokkta. Skilia þeir sva, at fatæki maðr biðr guð launa honum, en rennr siðan fram aa torg meðr fagnaði ok selr skikkiuna ser til þarvenda. A næsta dag eptir berr sva til, at riki maðr hefir sik uti fram i staðinn ok kemr i eina kaupmanzbuð; þar ser hann medal annarra (hluta), hvar su væna skikkia ligr aa einu stagi, er hann hafði fyrra dag fatæka manni gefit. Þessi syn angrar hann storliga miog, at fullrikir skolu sælaz aa fatækum ok faa þeira gerssimar littlu verði. Her af taaraz hann ok gengr heim til herbergis. En af langri sut sofnar hann ok ser i stað haleita syn, þviat drottinn varr Jesus Kristr birtiz honum segiandi bli(ð)lega til hans: «Hvi grætr þu, eða hvat hryggir þik?» Riki maðr svarar: «Herra minn, hvi man ek eigi grata, þar er fatækir menn virðaz eigi at bera sialfer þau klæði, er ver þrælar þinir þo at umakkligir gefum þeim firir þina aast.» Vaarr herra talar þa: «Hygg at, minn kiæri, hverssu ek er buinn, ok lit, hverssu mer samir su væna skikkia, er þu gaft hinum fatæka.» Eptir sva talat vakknar hinn riki maðr, virdandi fatæka menn framar en allt annat i heiminum firir þa sæmd, er vaarr drottinn virðiz at vera með þeira tǫlu. Þvi næst selr hann allar sinar iarðir ok gefr verðit fatækum monnum, ok allt annat er hann atti me(i)ra hlut ok minna. En er hann hafði giorsamlega gefit alla sina eigu, þa bauð hann þræli sinum ok skylldaði hann til at selia hann i þrældom sialfan nokkurum rikum manni, ok gefa verð hans þurfandum. Sem þrællinn hafði sellt hann, tok þessi goði maðr ok þionaði sinum meistara, er hann hafði keypt, meðr aullum goðvilia ok litilæti, en alla þa fæðu ok dryk, sem honum var ætlat dag fra degi, gaf hann fatækum monnum, en neytti engis nema litils af brauði ok vatni. Tok hann þa skina haleitum iarteinum ok kroptum ok leiddi sitt lif sva fram meðr allzhattar goðlifnaði, þar til er lifanði guð kallaði hann af þessi verolld i eilifan fagnat.

I þessarri dæmisǫghu finnr gott hiarta margar nytsemdir. Her maa heyra oumbræðiliga milldi við sina athofn, (at) firirfæriz eigi, hvar af sva finnz skrifat, at guð geyrir engan hlut iafnnaudigr sem dæma manninn at makligleikum til eilifra kvala. Her matti ok

heyra fylgi ok frammistoðo himneskra hirðmanna, þegar þeir hafa nockut; þvi væri kristnum manni hugleiðanda at fa þeim bæði mart ok gott i hendr at geyma. Skilia matti her eigi siðr óp ok aagirni diofulsins ærendreka at draga sem flesta af husi hins krossfesta meðr ser i helvitis bruna; þvi væri skynsamri saal vakanda ok til geymanda, at eigi fengi hann þvilika gisting sem þeir bioða. Her matti ok heyraz, hversu haleitr kraptr fylgir heilagri olmusu, ok hversu sætliga hun ilmar firir guði, ef hon er gefin aðr heigomligri dyrð ok manna orðlofi, firir eina saman ast Jesu Kristi. I fimtu grein var her lesit þat, er hinn goði Gregorius segir, at hverium kristnum manni, er i kemr heiminn, eru fullkomlega skipaðir tveir naagaunglir englar, annarr goðr af guði, en annarr illr af fiandanum; eru þessarra tillaugur harðla olikar: guðs engell tiar firir monnum, at þeir elski skapara sinn umfram alla hluti aðra, ok þioni honum aa hvern arla morgin, er hann stendr upp af sinni sæng, gangi fyst til kirkiu ok beri bæn sina, þo at eigi se long, miog meðr goðum athuga, aðr hann fæz i nokkurum haska veralldligra fiolskyllða. Fiandinn fysir þvers i moti, vill at maðr haareysti ok skrapi þenna[1] ok annan hegoma, þegar hann vaknar um morginin eða fyrri aa miðri nott, sem hann gefr upp at sova, þviat myklu er honum kiærra kallz en kirkiuvistir, miklu þekkara kvenna samtal ok hugskotz saurgun en tiðalestr eða knebeðia foll, miklu kærra þessa heims aastuð en eilifra fagnaða. Ok hvat er lengra, engill fysir iafnan goða hluti, þa er manninn leiða til himinrikis, en fiandr fysa svik ok saurlifi, ofaat ok ofdrykkiur, umfang ok forðz, kallz ok aakefð, reiði ok ranga eiða, purk ok aagirni penga, sem ekki annat en heimr þessi. Her hia fram kostar uvinrinn aa með allri list ok lymsku, at maðrinn virði sem minstz þat, er hann gerir illa, vaarkynnir ser veykleikinn ok syndina, en vanræki yfirbotina, skriptiz sem sialldnaz ok gleymi þvi, sem honum var botðarfa, teli þat sem opptaz i huginn, at kristnir menn ok skirðir meghi ekki firirfaraz, þo at læ(r)ðir menn geyri grylur afheimis ok sege slikt, er þeim likar. Þetta allt ok fleira annat er fiandans daraskapr, er hann stillir um hugskotið ok hefir aa kafi allt hugvitið, ferr hann þa með saalina ok setr hennar reikningh aa sinar skraar, en maðrinn blindaz ok hefir ekki af, sva at þa sialldan, er hann viðr leitar at skriptaz, hefir hann litið bref af sinu lifi ok þo eigi skilvist, en fiandinn hefer meginbokina ok berr hana þa fram, er verst gegner; sem i þvi dæmi lysiz, er her skal seghiaz.

1 þennan *A*.

6. Riddari nokkur riks konungs tok sott banvæna, ok herra konungrinn vitiar hans með guðs ast ok goðvilia aaminnandi, at hann iðriz afgiorða ok iati syndir sinar. Riddarinn svarar: «Ek mun sva geyra, ef mer batnar eigi, en ek dvel firir þa sauk at skriptaz, at ef ek stend upp or sott þesse, munu aðrir riddarar gabba mik ok segia mik hræz hafa dauða minn.» Konungi gazt eigi at ordum hans, ok gekk i braut at sinni, ok i annan tima kemr hann ok aaeggiar sǫmu hialp sem fyrr. Riddarinn svarar þa meðr miklum moði: «Nei, rett aðr þer komut, gengu her inn tveir[1] ungir menn hardla friðir ok fagrir ok fęrdu mer litið bref[2], aa þvi var skrifat med gullstofum hvert þat hneig, sem ek hefir gott giort aa minni æfi. Litlu siðar þustu inn utǫluligir dioflar med miklu harki, þeir settu fram firir mik hina stærstu bok, þa er ek kendi aaskrifut aull þau ill verk, er ek hefir gort fra barnæsku. Siðan spurðu hofðingiar dioflanna, hvi[3] hinir vænu menn væri sva nakvænir, þar er ver vitum, seghia þeir, at hann er varr maðr. Ok eptir þat gengu ut hinir biortu menn ok letu mik eptir i þeira valldi. Þa hlupu dioflar aa mik at tilvisan sins konungs med hinum hvassuzstum skaalmum, ok tok annar til at fotum, en annar at hofðum at særa ok saxa. Nu þann tima sem þeir mætaz aa mer miðium, man ek deyia ok af þeim dreginn vera til helvitis.» I þessi kveinan var þessa auma mannz saal grimlega gripin fra likamanum til hræðilegra kvala, firir þat er hann vanrækti lifandi at lækna sin andar saa(r) með synda iðran.

7. Nu ottiz menn þvilik dæmi, at bera ubættar syndir ok setia glæp yfir glæp, vera hlyðinn ok auðraðr fiandanum ok reisaz i moti guði ok hans boðordum, gleðiaz i illum hugrenningum ok leika ser at syndsamligum likneskium. Eru þvilikar framferðer miogh moti guðs engli, þviat hann villdi, at maðr rendi hug ifir sinar afgiorðir aa kvelldit, adr hann sofnaði, ok iðraðiz þess allz, sem hann gerir guði mest i moti, skriptaðiz sem skiotaz firir þunga hluti, þegar hann mætti við komaz, ok sæi við nattverkum illum, er mann leiða til eilifra kvala, ef dagrinn birtir eigi nattena með regni tararna. Nu er engi hlutr saarligri, en sialfr vanræki sitt lif, þviat meðan maðr gerir sva, gerir ǫngum ǫðrum at biðia firir honum; hvat liosara verðr hugskotinu, ef ver synum medr einni dæmisoghu.

7. Nokkur maðr varð firir freist(n)i mikilli af saurlifis anda, ok þvi ferr hann ok heim sækir einn dyrligan mann ok heilagan,

1 tvrir A. 2 breif A. 3 in A.

sva talandi til hans, sem her stendr skrifat: «Þu sælazsti faðir, segir hann, set i hiarta þinu mikla vandvirkt at biðia firir mer, þviat horanarpina striðir sa mik miog forliga.» Sa blezaðr fadir tiar honum retta sampining þegar i stað ok biðr firir honum nott ok dag, þar til at i annan tima sækir þessi sami maðr biðiandi meðr sakafa, at hinn heilagi faðir leggi en meiri alvǫru til at biðia firir honum. Her þarf eigi langt um, sva ferr, at faðirinn biðr san aflati meðr ǫllu sastriki, ok heyrirz(!) eigi þvi helldr af guði, þviat sa er freistar var kemr optliga ok kveinkar sin sǫmu vandræði, þar til at sa heilagi maðr hryggiz saarliga ok þikkiz eigi vita, hvat til man bera, er guð drottenn vill hans bęn eigi veita. Ok sa næstu nott birtir drottinn honum þvilika syn: hann ser, at sa freistninnar son, er fyrr var greindr, sitr i sinu herbergi, ok frammi firir honum standa fiandr i fǫgrum myndum ymisligra kvenna leikandi sa margan hatt, þviat sa aumi maðr giorði ser skemtan at þeira ferð ok flauktan; her með seer sa heilagr faðer, at guðs engill stendr sa annan veg rioðr ok reiðr af meingiorðum þessa mannz, er sat ok svam i sinum hugrenningum en reis eigi upp at vilia seer miskunnar biðia. Af þessarre birtingh skilr heilaghr faðer, at vanræktar glæpr ok vilialeysi mannzins byrgir uti bæninnar, sva at þær mattu eigi nalægiaz guði; hvar af hann talar einn tima, er sa aumi kom til hans næst: «Þat er, broðir, þinn glæpr at gleðiaz i illum hugrenningum, þviat umattuligt er, at illgiarn[1] andi letti af þer firir annara manna bænir, ef þu vanrækir þik sialfr. Þer er liost dæmi til, þviat engi læknir er sva kiænn[2] eða vel viliugr, at hann megi þess manz sarum groðr veita, sem sialfr neytir með oblyðni þeirar fæðu, er lækninn firirbyðr ok mest er motstaðligt hans heilsu. Sva ferr ok hin anðliga lækning sem hin likamliga.» Firir þessi orð heilax fauður iðraðiz maðrinn sinnar glæpsku[3] ok pindi sik i vokum ok fǫstum ok heilagum bænum, þar til at guðs miskun frialsaði hann af allri pinu. I þessum æventyr, er nu var lesin, geriz vel skilianligt þat, er ver sǫgdum fyrri, ok þat annat, er vottar Gregorius pafi, at allir himneskir guðs englar vilia manninum eilifan fagnat, en einkanlega varðhallðzengell hvers manz stendr fremzstr i hverri grein ok goðvilia; sva sem i uliku dæmi vilia allir helvitzskir andar manzins ufagnat, en þo sa myklu grimmazstr i hatre ok holi glæpanna, er ser eignar sigrinn með bloði sins hofðingia, ok

1 illgiann *A*. 2 kian *A*. 3 glaymsku *A*.

til þess at maðrinn fordiz at falla i obliðu guðs engills, skolu ver syna, hver(su) þat stendr, meðr einni dæmisǫghu.

8[1]. Sva er saght, at i borg þeiri aa Irlandi er Cololensis [heitir, var[2] sa maðr, er Duggall het. Þessi maðr var ungr at alldri, dyrrar ættar, fridr i andliti, bliðr i maali; en at sǫnnu, þoat varlla se hormungarlaust segianda, þa truði þessi Duggall sva miogh aa fegrð likama sins, at hann hirti meðr aullu ekki um hialp saalu sinnar, sva at honum var aangr at aullum þeim, er hann mintu aa nokkut gott at gera. Hann hafnaði kirkiu iafnan, ok miok mislikaði honum at sia fatæka menn guðs, ok alldri villdi hann þeim hialp ne huggan gera. Allar landskyllder sinar ok fiarhluti hafði hann iafnan til heigomleg(r)ar dyrðar ok heimligs skrautz[3]. En þa er guði likaði at hirta hans vangeymslu ok firirkoma hans hǫrmulegum hegoma, þa kalladi guð hann til sin, eptir þeim hætti sem honum likaði. Þessi Duggall atti marga vini, en einn þeira af laani þvi, sem hann hafði leð honum, atti at gialda honum þria hesta. Sem stefnudagr skulldarinnar var liðinn, þa for hann til vinar ok heimti skulldina. Honum þar komanda faggnaði[4] felagi hans[5] vel ok veitti honum goðan fagnat þria daga. Þvi næst heimti hann skulldina, en sa sem giallda atti, sagði honum meðr hoogværum ordum, at hann hefdi eigi faung aa þa skulld sva skiott at giallda. Þa reiddiz hann aakafliga ok bioz brott at fara, en skulldarmadr hans villdi hugga reiði hans ok bað hann mataz med husbonda[6]. En sva sem hann retti hond sina fra ser, þa fekk hann eigi rett hana til munz; ok hann iafnskiott ogurliga æpandi mællti til husfru vinar sins: «Giæt, sagdi hann, ǫxar minnar, þviat ek er nu i annlati.» Ok þegar i stað fell likami hans til iarðar, sem alldri hefdi ǫnd i verið. Þvi næst fellu aull dauða mork aa hann: haar hans fell, enni hans hroknaði, augun um snæruz, nasraufar byrgðuzst, varrar bliknuðu, haka[7] hans ofan signaði, ok allir hans limir kolnuðu. Þa gengo til þionostumenn ok toku brott matinn; hans menn ok husbondans gættu hans, ok lǫgðu niðr likit ok letu hringia firir saal hans. Þar komu kennimenn ok allr borgarlyðr harmandi miog braðan dauða hans sem duganda mannz. Eigi þarf þat lengra at gera, segir sa er sǫguna diktaði, at þat vattuðu margir borgarmenn aagiætir, þeir er nær voru, at Duggall laa þria daga ok þriar nætr liflauss fra mið-

1 af Duggali *Overskr.*; *jvf. ovenfor S. 330—335.* 2 [ er *A.* 3 skrystz *A.* 4 faggnandi *A.* 5 honum *tilf. A.* 6 *Her er oversprunget et Par Linier, se ovenfor S.* $331^{27-29}$. 7 hafa *A.*

vikudegi til næsta laugardags nær miðium degi, sva at ekki lifs mark var a hans likam, nema þeir er giorst vissu, hugðu at ok hǫndlaðu likam hans, ok fundu, at nǫkkurr ylr var i herdarblaði hans vinstra, ok þvi villdu þeir eigi grafa likit, at þeir kendu hann varman i þeim stað. En sa þeiri stundu er hann la sva dauðr, birti guð honum allt þat er hann misgiorði þessa heims.

9. Þessu næst sem mikil(l) fioldi lærðra manna ok ulærðra var saman kominn at iarða likit, endrlífgaði guð hann; ok er hann fekk ǫnd sina, andvarpaði hann langa stund meðr þungmegnum anda. Allir vitrir menn, er þat sa, undraþuzst ok mælltu: »Eigi ferr þessi ǫnd sva firir honum, at hun viti eigi likamans i þessu lifi.« Ok sva sem hann leit medr þungu aaliti til þeira, er honum voru næstir, þa spurðu þeir, ef hann villdi taka guðs likama; en hann villdi. Ok sem hann hafði tekit corpus domini, þa lofaði hann guð með miklum þokkum ok mællti: »Drottinn guð, meiri er miskunn þin en ilzska min, þo at of mikil se. Miklar ok undarligar pislir syndir þu mer, margar ok illar, en miskunn þin lifgaði mik ǫðru sinni þadan i þetta lif.« Þvi næst skipti hann firir þeim aullum, er vit voru, fee þvi ollu, er hann atti, ok gaf helgum kirkium ok fatækum monnum. Siðan let hann merkia sik marki heilags kross ok het guði meðr staðfaustu hiarta, at hann skilldi allt sitt hið daliga lif firirlata ok bæta. Þvi næst syndi hann ok sagdi, hvat hann hafði þolat. Sva sem ǫnd min skildiz við likama, sagði hann, ok vissi at saunnu, at hann var dauðr, þa mintiz hun synda sinna ok tok at iðraz, ok vissi eigi, hvat hun skilldi at hafazst. Hun villdi þa aptr snuaz i likam ok matti eigi inn komazst. Þa villði hun aa brǫt fara ok hræddiz hvetve(t)nna, sem hun forðaþiz, af þvi at hun vissi sik synduga. En þa treystizst hun guðs miskun ok tok at grata ok æpa, skialfa ok kveina; þvi næst sa hon þar komanda fiolda uhreinna aanda; var eigi at eins husit ok golfit allt fullt, þar sem likit lá i, helldr var ok hvert stræti ok staðr, er tomur var i bænum, fullr af þeim, ok þustu fram firir þa aumu salu hana at hryggia ok angra, ok mælltu þeir sin i millum: »Syngium ver makligan liksǫng þessi aumu saal, þviat hun er dottir dauðans ok matr oslokkviligs elldz, hun var iafnan myrkrum unnandi en lios hatandi.« Ok þvi næst snæruz þeir allir at henni ok gnistu tǫnnum aa hana ok slitu andlit hennar grimliga meðr klom sinum í reiði sinni, grimð ok æði (ok mælltu): »Se her, vesol sala, herra þina ok þan flokk, sem þu hefir þer kosit til samfelags, með þeim skalltu brenna i eilifum loga

helvitis; þu vart leidtogi rogs ok sundrþykkis elskari, hvar er nu metnaðr, skart ok dramb þitt ok hegomlig gleði? hvar er hlatr þinn ok spottsamligt gaman? hvar er nu afl þitt ok styrkleikr, er þu angraðer marga medr ok svivirdir? hvar er nu augnabending þin eða ugiptusamligr hlaatr, er þu hafdir við eiginn broður þinn? hvar er nu fota stappan þin eða likams hræring? hvar er nu illviliafull undirhyggia hugar þins?« Þessum ordum ok morgum ǫðrum angraðu þeir saalina, hæddu hana ok hrygdu, sva at hun kveinaði ok æpti ok vænti ser engis af þeim nema dauða ok pisla, sva sem þeir heitaðuz[1] vit hana, at þat mundi eigi firirfarazt. En haleiti vaarr herra Jesus, er eigi vill dauða syndugs mannz ok mattugr er at likna ok letta vandræði hins dauða, allzvalldandi guð, milldr ok miskunsamr drottinn meðr heilagri hialp sinni sk(i)paði þo eptir sinum vilia ok minkaði þessa vesolld, þvi at hann sendi engil sinn aa mot þessi saal. Sem hun leit hann um langt biartan sem dagsbrun, þa hafdi hun uhverfiliga syn aa hann, væntandi ser af honum hialpræði. En sva (sem) eingillinn nalæg-iz, heilsaði hann saalinni meðr eiginligu nafni ok mællti: »Heill þu Duggall, sagði hann, hvat hefz þu nu at?« En hann hǫrmuligr sianndi þa ena fogru skepnu guðs aullum sonum manna fegri ok elskuligri, sem hann heyrði sialfan sik nefndan með eignarnafni, þa svarar hann einglinum með hræzlu ok nykominni gleði sva seghiandi: »Vei er mer, herra faðir, þviat mer aangra helvitis pislir, ok sorgir hverfa um mik, ok gilldrur dauðans egnaz firir alla veghu mina.« Þa mællti engillinn: »Nu kallar þu mik herra þinn ok fauður, en þu valdir mer ei fyrri sva virduligt nafn.« Sálin svaraði: »Herra, segir hun, hvart sa ek þig nokkurt sinn fyrr, eða hvart heyrða ek þina sætu raudd fyrr en nu?« Engillinn svaraði: »Ek fylgi þer iafnan, siðan þu vart fæddr, hvervetna þar sem þu vart, ok villdir þu aalldri minum raðum fylgia.« Ok þvi næst retti hann hǫnd sina at einum dioflinum, þeim sem honum bǫlvaði optazst ok mest heitaðiz við hann: »Şe þar felaga þinn, sagði hann, ok raðgiafa, hans raðum fyll(g)dir þu, en minum vilia hafnaðer þu meðr ǫllu. Nu meðr þvi at guð lætr miskun sina firir ganga dom sinn, þa skalltu niota miskunnar hans. Ver nu glauð ok feghin, þviat faar pislir skalltu þola af sva morgum, sem þu værir verdug[2], ef eigi hialpaði þer miskunn lausnara mann-kynsins. Fylg mer nu, ok mun allt skilvisliga, þat sem ek man syna þer; þu skallt aptr fara i likam þinn.« En þa hræddiz saalin

[1] heitaiz *A*. [2] verdghug *A*.

sakafliga ok gekk til eingelsins af likamanum, er hun stoð aðr sa. En þa er dioflarnir heyrðu ræddu(!) engelsins ok fundu, at þeir mundu eigi mega fremia þat, er þeir heitaðuz vit saalina, þa mælltu þeir meðr ylandi rǫddu: «Se hversu grimr ok ranglatr guð er, hann drepr þa er hann vill, ok hann lifgar þa er honum syniz; eighi efnir hann heit sin at dæma hvern eptir sinum verðleikum, en nu frelsar hann firirdæmdar saalur ok firirferr saklausum.» Ok sem þeir hǫfðu þetta mællt, þa reð hverr þeira sa annan ok borduz lenge ok særðuz storum saarum; ok þeir hryggir ok hræddir ok miog reiðir foru braut ok blesu sva fulum anda fra ser, at engi dauðligr maðr matti þola. Þa gekk engell drottins firir saalina ok mællti til hennar: «Fylg mer,» sagði hann. Hon svaraði sva: «Vei er mer herra, sagði hon, ef þu gengr firir mer, þa taka anskotar minir mik fra þer, ok munu kasta mer i elld eilifan.» Engillinn mællti: «Hræz eigi þu, þviat guð er mattugr ok er með okkr, ok þvi þurfu mið engan at ottaz moti okkr. A vinstri hǫnd þer skolu falla þusund, en sa hægri hǫnd tiu þusundir ovina þinna [1].» Gengu þeir fram leið sina til harðra ok ymmisligra staða, ok eptir þat algort synði engillinn honum unaðsemdir eilifra fagnaða, hvat ver munum her sakir langmælis um liða. Bætti hann fagurliga sit lif, sem fyrr var skrifat.

10. Nu hugsi hverr kristinn maðr firir sik, er þvilik dæmi heyraz, at hans varðhalldzengill megi honum eigi þviliktt sa brynn bera eptir andlatit, sem her var lesit. Þvi geri maðr stǫðugt hans minning dagliga meðr nokkuru bænahalldi, sakir þess at viðrkvæmiligt er ok skylldugt, at faðer ok herra mannzins se hvern dag sæmiliga kvaðr með litilęti sva. Vera kann, at nokkurum þikki undarligt, hvi ver lengium bækling þenna meðr þess hattar mali, sem um stund hefir lesit verið, þar sem i fyrsta kapitulo sogðu ver, at þetta verk skal eighinligt vera hinum mæta Mikaele hǫfuðengli; þvi ma segia, ef likar, at ver hafim reikanði farit af rettum grundvelli ok varlla vitað, hvat ver eigum gera. En sa er þvilikt talar, hefir eigi heyrt eða gleymer, hvat ritningar segia, hvilika þionostu almattigr guð skipaði sinum æzsta þion Mikaele hofuðengli: þat er hans eighinlig sæmd, at hann kallaz valldzherra heilagrar paradisi, þat er sva at skilia, at Mikhael hǫfuðengill þaa sva mikit valld af guði, (at) allar rettlatar saalur skolu honum offraz i ǫðru lifi, at hann leiði þær ok laði til þess fagnaðar ok gleði, sem allzvalld(and)i guð bio hverium firir at upphafi. Þessi hans

1 sina *A*.

virdingargrein er sva mikil ok mattugh, at hun leggr undir sik stor riki verallđarinnar. þvi framar þiona honum ok hans virdingh til luta þeir fair hlutir, sem ver hofum her saman lesit. Hvat eru verndir vaghir eđa viđrhialpir hinna lægri guđs engla utan þionostur Mikaelis hofuđengils. þviat hans herradomr er þvi haleitari firir avoxst ok innleiđzlur salnanna, sem hinir lægri guđs ærendrekar fylgia kristninni radligar ok lata siđr or hondum dragha þat er guđs er. þviat nog er virđ i neđra plazi, sem fyrr var skrifat. Nu þa, hvat hofu ver sett i sogđu mali utan aminningh til upptendranar, at menn elski ok auki hirđsveitir ok hofdingskap upp i loptiđ fram i fagnat himirikis, en[1] ottiz akafliga ok fordiz at skriđna or flokki Mikhaelis ok falla međ sutlegum blyđunga ubætra synda i fiandans greipr ok niđrgongu helvitis, þviat hvarir fara sina leiđ godir međr guđs (vin) Mikhaele, illir međr illum anskotanum. Hvat ver skolum en til skemtanar setia međ einum ęventyr.

11[2]. Sva er lesit i Karllamagnus soghu mikla keisara, at þann tima sem hann var hniginn at alldri, komo tveir konungar Marsirius ok Deligandus sender af konungi Babilonis hegat um hafit þess ærendis at svikia međ fridarmarki stiorn ok frelsi kristninnar. Ok sva geriz firir međalgongu fiandans ok nidingligan falsaradom þess mannz, er het Guenulun iarll af Franz, at Karllamagnus keisari verđr blektr ok beittr þungum rađum illzkufullrar undirhyggiu, sva at roskazstu riddarar ok villdazstu vinir keisarans verđa uppgefnir, takandi i þeim stađ striđ ok sterka orrostu, sem þeim var iattat skottum ok skylldum. Þeir borđuz langt ok pryđiliga strangt i þeim stađ a Span, er Runzival heitir. Var Rollann systurson Karllamagnus keisara þar æzstr hofđingi i þvisa stridi, þviat sialfr konungrinn var þar eigi vit, sakar þess at hann hugđi friđ bođinn, sem faugur orđ vaattuđu, en eigi sverđ ok exi sem medr orrostu. Sva varđiz Rollann sinum ovinum ok barđiz frækliga badum hondum, sniđandi buk ok bryniur, hend(r) ok fætr ok hofuđ Saracenorum, at hans aagæta snilld ok hreysti man æ lifa, međan heimrinn stendr; þviat hann var sannr guđs riddari ok sparđi alldri sinn likama at veria erfđ hins krossfesta firir heidinna manna aagangi. Hann hafđi luđr þann, er Olivant heitir, ok aatt hafdi Jatmunđr son Agulandi konungs af Affrika, þat var sva hvellt horn, at heyrđi .viii. milur ut i fra, er þvi var blasit. En hvat ma segia af hreysti ok riddaraskap Rollanz iarlls i skommu maali utan þat i þessum stađ, at hann gaf Marsirio

1 er *A*. 2 af Karlam. *Overskr.*

konungi þat hogg i hǫfuðit með sinum brandi Dyrumdala, at sneið hiallminn ok heilabustina, þar með bryniaðan bukinn ok herklæddan vapnhestinn sundr i miðiu, sva at sina leið fell hvart a vollinn. En medr þvi at almattigr guð hafði þessa orrostu skipat Rollann iarlli enda strids ok innleizlu eilifs fagnaðar[1], verðr hann særðr til olifis skotinn i gegnum með fiorum kesium. Her meðr þeytir hann luðrinn Olivant með sva miklu meghni, at hlioðæðarnar ok sinar malsins þoldu eigi, sva varð ok horninu ofbodit ok sprakk i midiu. Ok er hinn blezaði Rollann iarll skilr kominn sinn endadagh, riðr hann brott af Runzival ok fram a eina sletta eng, stigr af baki hesti sinum ok setz niðr undir eitt tre fagrt, er þar stoð, akafliga mæðr af langri sokn ok farinn af sarum. Ok er hann skil, at dauði nalgazst, þakkar hann himneskum guði þa miskunn, er hann hafði veitt a þeim deghi, þviat um morgininn firir orrostuna hafði hann bæði skriptaz ok tekit corpus domini; þvi biðr hann nu gladlega sins andlaz meðr sælli van stinnra malagiafa, takandi niðr a briostid baðum hǫndum, ok helldr hǫrundit meðr þvilikum ordum þrysvar[2]: in ista carne videbo dominum salvatorem meum, þat norænaz sva: i. þessu holldi man ek sia guð græðara min. Eptir þat tekr hann badum hǫndum til augnanna sva mælandi: et isti oculi conspecturi, þat ma norænaz: ok þessi aughu munu fagnaðinn fa með guði. Ok þat fylldiz skiott, er hann vænti, þviat litlu siðar talar hann sva i annat sinni: «Meðr þinni giof, drottinn minn Jesu, lit ek[3] nu þegar þa hluti, er eigi sa auga, ok eigi heyrði eyra, ok eigi steig upp i hiarta mannz.» Siðan gerir hann bæn sina til guðs firir ollum sinum bræðrum, þeim sem fallit hǫfðu i Runzival, ok sofnar i fridi guðs a kalendas dag Julij. En meðr þvi at ver hǫfum greint her tveggia manna liflat Rollanz iarlls ok Marsirij konungs, skolu ver syna þessu næst, hverssu satt hann segir psalmaskalldit i sinni bok af dauða heilagra manna ok ranglatra, sva segiandi ulikt miog, sem hvaru heyrir. I fyrra stað segir hann sva: Preciosa est in conspectu domini mors sanctorum eius; þat þyðir sva: i drottins augliti er dyrligr dauði hans heilagra manna; i siðarri grein segir sva Davið konungr til vandra manna: Mors peccatorum pessima, dauði syndugra manna er hinn versti, segir hann. Firir þenna spamannzins orskurð verdr liost, at andlat Rollanz iarllz er dyrðligt i augliti guðs, þvi at hann auðladizst fagnað liossins; en dauði Marsirij konungs verdr hinn versti, þvi

1 fagnagar *A*. 2 meðr þessum orðum *tilf.* *A*. 3 er *A*.

at hann var leiddr hertekinn tǫnnum diofulsins, sem enn verdr liosara, ef frasogn fylgir.

111[1]. Su bok heitir Speculum Historiale, er þat vattar, at virðuligr herra Turpin erkibyskup Reinsborgar var eigi i þeim bardaga, er giorðiz i Runzival, hellðr með Karllamagnusi konunge, þo[2] at sumar norænubækr segi ǫðruvisi af þvi efni. Þvi vattar þat fyrr nefnd bok, at aa sama dag sem orrostan var i Runzival, sǫngh Turpin erkibyskup saalumessu aa þeiri fegrstu eing, er Karllamagnus keisari hafði sett landtiolld sin, uvitandi með ǫllu, hvat haskalikt fram for moti hans frændum ok astvinum. Ok er erkibyskupinn stendr i messuembættinu, er hann upptekinn i andar syn ok litr i loptinu, hvar fara haleitir flokkar heilagra hirðsveita með sǫngh ok sætum hlioðum, meðr birti ok bloma miklum, sva at byskupinum gefr aa at lita ok heyra, þar til at su himneska ferð firriz sva miogh iarðrikit, at honum hverfr at syn upp i loptið. Hann hugleiðir með ser, hvat þesse syn mun hafa at þyða, ok litlu siðarr ser hann ferd aðra miog olika; i þessarri ferd eru svartir dioflar hardleitir ok helvitlegir asyndum, þeir eru margir saman ok hafa nockut meðferdar, þat er þeir þysia at ollum megum sem dioflar at agni dauðans. Turpin erkibyskup verpr ordum aa þa ok segir sva: «H(v)at dragi þer eða starfit.» Þeir svara: «Ver drogum felagha varn[3] Marsirium konung til eilifðar kvalar i helvitis herað, en Mikhael styrir þeiri ferð, er leidir luðrþeytara yðvarn upp i himnana.» Af þessari birting vissi erkibyskup tiðendi ok sagði konunginum, hvat guð hafði synt honum. Ok litlu siðar kom Balldvini broder Rollanz aa mæddum vapnhesti váttandi sǫmu tiðendi, sem aðr voru greind, hvaðan ver munum fra venda, þviat nu er vitni borit, at Mikael fylgir vǫldum monnum til eilifra fagnada[4]. Synir þat i offertorium i hverri saalumessu, at sva gǫfuglig þionosta er hans skipat embætti. Þvi er allri kristni at hyggianda, hversu miukliga henni er kriupanda til sva virduligs herra fauður ok stiornara paradisar; þviat þessi astvin guðs hefir þat gera ok geyma, sem hverr kristinn maðr mundi ser kiosa ok i þeim hlut mikit um finnazt, hversu margfalldr er miskunnardomr almattigs guðs, at sva nauðzsunligr hialpari heilagr Mikael skylldi verda nafnkunnigr verolldinni, er enga ætt eða edli tok af verolldinni, sem fyrr segher. En hvi er sva vordit, utan þat at drottinn milldr ok blezaðr vill alla menn (til) hialpar ok til sinnar miskunnar koma lata. Þvi setr hann sin hialparnet i hverium stað, er

1 Af Turpin erkibyskupi *Overskr.* 2 þa *A.* 3 varr *A.* 4 fagnaga *A.*

maðrinn skal ganga, hvar dyrkan heims ok hatidarhalld hins mȩta Mikhaelis stendr meðal annarra Kristz utvega, at maðr skili fastr vera i friðarbandi ꜳ gautu guðs ok æ vel fara. En ꜳ hvern hꜳtt til kom i fyrstu dyrkanligt hatiðarhalld hins sælazsta Mikhaelis, eptir þvi efni sem skrifat finnz i latinu mali, er byrianda þessu næst i guðs nafni.

12. Virding ok loflig minningh hins sæla Mikhaelis dyrkanlig ollum heimi tekr efni ok understoðu af guðligri milldi ok þar með af kynning kirkiu þeirar, er nefndr astvinr guds vann i verki ok helgadi[1] sinu nafni. Þessi kirkia byriar ok skærliga byrlar allri verolld nafn ok virding Mikhaelis. Þetta musteri er eigi prytt eða pentað, telgt eða tiiglsett, helldr er þat skrytt engiligri ꜳst ok alvoru, fatækt i formi en hardla rikt i himneskum krapti. Þetta hið mæta musteri smiðaði Michael i einum fiallzhvirfli eigi með uppreistum veggium eða hꜳri þekiu, helldr er þat sem einn hellir klappaðr i biarginu, ok þvi er nu sva vordit, at Michael ann meira hiartans musteri en hafu steinsmiði, mæira sanri goðfysi en skygðum pilȩrum eða vænum glȩrgluggum. En hverssu kirkia þessi kom i vitorð heilagrar kristni, skal segia þessu næst i guðs nafni.

13. Sepontus heitir borg, er stendr ut ꜳ Pul meðal siovar þess, er Sinus Adriaticus heitir, ok fiallz þess, er menn kalla Garganum. Fiallit stendr .xii. milur brot af borginni, þat er storliga hátt vaxit utan með laghum skogi ok fagrum grausum, einkanliga þeim megum, sem at vissi borginni Seponto. I þeim fiallzhvirfli er Michaels musteri, ok i þvi musteri er su bok, er sva vattar af sinni fundning ok upphafi, at i greindri borg Seponto var forðum einn harðla rikr maðr Garganus at nafni, hann atti marga hiorð, naut ok sauði, svin ok yxn, gȩmul ok yngri; með ymisligum hætti lagði hann undir sinn[2] rikdom fiallit Garganum ok let þar ganga hiorðina i hogum goðum, var þvi fiallit kent við nafn rika mannz; er þo su grein i meðal, at heiti fiallzins skal seint leiða, en mannz nafnit skiott. Nu ber sva til ꜳ naukkuru sumri, sȩm smali rika mannz gengr i fiallino Gargano, at graðungr einn hafnar vȩniuligt samlag sinna kumpana ok ferr miok einn samtt um sumarið, sva at blandaz ekki vit aunnur naut. Liðr sva timi, þar til um haustit, at riki maðr lætr skoða hiorðina ok heim reka, er þa saknat graðungs, er getit[3] var aðr. Hvar firir burgeissinn hefir uppi mikit fiolmenni sveina sinna ok sialfan sik, fer fram i fiallit ok leitar, sem list var til, allt þar til at hann sialfr herrann kemr upp i

[1] heilagi *A*. [2] sik *A*. [3] gætt *A*.

guð er i ollum hlutum ok þo með engu moti inni strengðr[1], ok hann er um alla fram ok hvergi uti luktr; renna þvi englarnir firir omællt viðerni hans guðdomligrar navistu, hvart sem þeir renna til himins eða iarðar, ok þo at þeir se eigi i ǫllum stǫðum, þa er hann þo þeim nalægr i ǫllum stǫðum, ok þvi mega (þeir) hvergi fara fra hans augliti; rikir sva sanleikr i orðum sæls Mikhaelis, þvi at hann er enn hæsti guðs ærendreki.

15. Nu er þar til at taka, sem byskup vaknar gerandi sǫnnum guði lof ok dyrð firir sina milldi, kallar hann enn sem fyrr saman allan borgarlyð fram til kirkiu um morgininn, greinandi þeim meðr guðshræzlu, hvat hann hefir heyrt ok seeð um nattina. Siðan nefnir hann agætazstu menn borgarinnar til ferðar með ser upp aa fiallit Garganum; ok er þeir komo þar, sem hæst var, finna þeir tvær dyrr i fiallinu, aðrar til suðrs aðrar til norðrs, voru þær stærri er stoðu til norðrs. Sia þeir, at frami firir norðrdyrunum eru gradur nokkurar, aðr nalgiz dyrnar ok hurðina sialfa, en uppi yfer pǫllunum lykr biargit sinu rafi aa þann haat sem eitt forhus. En er Sepontini koma her inn i fram at sialfri hurðinni, þora þeir eigi firir augu sin at forvitnaz lengra, þviat sva bar miklum otta ok heilagleik ifer þenna stað, at engin dirfiz framar ganga, en honum er nefniliga lofat. Koma borgarmenn af Seponto fra þeim degi iafnan upp aa fiallit at biðia ser guð miskunnar ok hinn helga Mikhaelem, standa þeir dagliga firir dyrum uti, þviat enn var þeim eigi lofat at ganga inn i sialft musterið.

16. Nærri þessum tiðendum geriz þat, at su heiðin þioð, er Neapolite kallaz, stridir upp aa Sepontum ok setz um borgina. Hǫfðu heidnir menn liðsafla myklu meira, sva at borgin var skiott uppgefen þeira valldi eptir likendum. Þvi gefr herra byskup þat rað sinum borgarmonnum, at þeir beiði þriggia natta frest af heiðingium til raaðagiorðar, hvart þeir skolu borgina upp gefa eða veria, meðan þeir mega. Ok sakir (þess) at Neapolite þikkiaz einn vegh i hendi hafa rað borgarmanna, hvern vegh sem þeir taka, gefa þeir dvalir þessar. Þat gengr þeim ok annat til, er þeir fresta atgongu borgarinnar, at þeim þikkir vel standa, þo at Sepontini biði sva meira skaða fiar ok sæmða, at þeir taki firir fram þriggia natta kvǫl i velltiligu hioli sinnar raðagiorðar. En i þess hattar brǫgðum blekkiazt heiðingiar eigi litt, þviat allan tima þenna naatt með degi standa Sepontini i liðzdrætti eigi af iarðneskum heroðum, sem vita ma, þviat þeir voru inni stre(n)gdir af her Neapolitarum, helldr er

1 sterngðr A.

þessi liðsamnaðr af himneskum rikium. Þviat byskup þeira byðr sva, at meiri ok minni skal hallda þriggia nꜳtta faustu um alla borgina ok biðia fulltings almatkan guð ok helgan Mikhaelem, at hann veiti þeim nokkura asia, sva at þeira frelse ok fǫðurleifdir leggiz eigi undir heiðinn dom. Þvilik er framferð kristinna manna at vaka til guðs ok biðia miskunnar. En Neapolite fara leið aðra, þeir fꜳz alla þessa daga i leikum storum ok þionostum guða sinna, at þeir efliz þvi framar moti kristnum monnum.

17. Sem ifir stendr hin þriðia nott fǫstunnar ok hin næsta firir bardagann, birtiz Mikhael Sepontino byskupi i annan tima sva segiandi: «Fagni þer, þviat heyrdar eru bænir yðrar; þvi buiz i morgin rǫsklega fram i strið ok byrit[1] orrostu ꜳ fiorðu stund daghx, skolu þer þa profa mitt fulltingh, sva at fǫgrum sigri munu þer fagna eigha.» En er byskup vaknar af vitran þessi, synghr hann lof hinum sæla Mikhaeli birtanði lyðnum þꜳ feghinsǫgu, at raðinn er sigr i orrostu. Gerizst nu þegar gleði mikil[2] i folki guðs, sva at langar til bardagans. Ok þegar arlla buaz þeir ok herklæðaz hvatlega, eru þa ok heiðingiar[3] bunir ok hafa fylkt firir utan murꜳna. Sem her er komit, at hvarirtveggio eru bunir til atgongu, sia kristnir menn, at þoka mikil liðr niðr ifer hæsta hlut fiall(z)inzs Gargani, her med heyra þeir gnyreidir miklar, þvilikt sem pipri fiallit allt, en ut af þokunni fylgia elldingar som orfar gloandi fram i flokk Neapolitarum, sva at engi hlif ma við standa. Fylldiz vel ꜳ þeim degi spasaga Davids, er hann tok sva til ordz at lofa guð: Qui facit angelos suos spiritus et ministros suos flammam ignis etc. Her þarf eigi langt um, utan þegar i stað brestr flotti ꜳ heid(in)gium, þviat ǫrvar Mikhaelis urðu snarar ok harðla manskæðar, sva at þar firir rufuz allar fylkingar. Rennr nu hverr sem harðaz ma, en Mikael ok hans menn reka flottann með mikilli akefð ok harðfengi. Sottu heidingiar ret matuliga kaupferð til Sepontum ꜳ þeim degi, þviat nu eru þeir dreifdir, hraktir ok drepnir, sumir með elldi, sumir meðr iarni. En þeir sem lifit þiggia, komaz sem nauðughligazst aptr i borg sina Neapolim barðir ok sprengðir af mæði, hofðu latið lið mikit ok frit, þat til marks at firir ǫrum Mikhaelis einum saman hǫfðu fallit .vi. hundrat manna, en þat at auk allt, er Sepontini hofðu drepit brukum niðr sem busmala. Ok er su auma þioð kemr skilning ꜳ, hverr kraptr[4] stoð meðr kristnum monnum, kasta þeir villuklæðum en skryðaz

1 byriar A. 2 mikla A. 3 hváðigiar A. 4 karpr A.

heilagri tru; fengu þeir með þeiri atferð lifit, at þeir voru bardir til batnaðar.

18. Eptir þenna ægæta sigr venda Sepontini aptr með fagnaði til borgar sinnar ok dveliaz litinn tima, aðr þeir heim sækia sinn hertuga Mikhael hǫfuðengil fram i Garganum, þess ærendis at offra honum makligar lofgiorðir firir þa mætku hǫnd, er hann tiaði þeim i sinni nauðzsyn. Ok er þeir koma arla upp æ fiallit fram firir þær norðrdyrr, er aðr voru greindar, sia þeir þa nylundu, at i biarginu frammi firir forkirkiu eru nykomin tvǫ fotspor, þvilikt sem maðr hefði stigit i kramman snio. Skilia þeir, at þetta er elskumark Mikhaelis til verndar ok nalægðar viðr þan heilagan stað. Reisa Sepontini þar siðan vegligt musteri ok setia altarit þar sem sporin voru; tok su kirkia nafn af fotsporum Mikaelis ok var kǫlluð Appodonia. Aðra kirkiu efla þeir til austurs fra musterinu Mikhaelis til lofs ok dyrðar sælum Petro hǫfðingia postolanna; i þeiri kirkiu voru alltari tvau, annat vight ok helgat guðs moður Marie, en annat sælum Johanne baptista. En mustari Mikhaelis stoð sem aðr lukt ok læst, þviat menn þorðu ekki at gera, fyrr en guð birti. Hafði byskup Sepontinus margan traktatum af þvisa efni með sinu villdazsta raði, hvart hann skilldi treysta upp at luka ok vighia musterit, ef guð bannaði eigi. En þat verðr statt i raðagiorðum, at hann gerir sendimenn með brefum til herra pafans i Romam; i brefum skrifar hann greiniliga allan hæt af þeim stormerkium Mikhaelis, er um stund hafa lesin verit, biðiandi postoligan herra, at hann segi, hversu bezst er geranda i sǫgðum vanda. Sem giorr er boðskaprinn, taka sendiboðar orlof ok raða i vegh; ber þeim sva giptuliga til, sem væn var, at herra pafinn hefir farit i moti þeim eigi minnr en fimtigi milna firir einshveria kirkiunnar sauk. Þessi romverski byskup heitir Silvester pafa nafni ok viðrkvæmiliga, þviat hann hafði forðum þolat ofrið ok ofsoknir guðs ovina ok flyit undan i fiall Sarepte, sem giorði hinn fyrsti Silvester pafi, er kristnaði Konstantinum hinn mikla keisara. Var þessi guðs maðr likr hinum fyrra, heilagr ok rettviss, milldr ok litillatr. Þvi fa sendimenn byskups af Seponto bliðar viðtǫkur æ pafans garði, ok eru giarna heyrðir ok æn dvol með sinum ærendum fagrliga greiddir. Koma þeir aptr i Sepontum berandi sinum byskupi bref af herra pafans curia, hver upp broten ok iferlesin hallda þvilikan skilning af mali Mikhaelis meðal annarra greina: Ef þat er, segir herra pafinn, guðligh skipan ok forsio, at musteris vigsla Mikhaelis veitiz firir dauðlighs mannz þionostu

byriar at þvilikt embætti geriz sa þann sama dagh, sem Mikhael birti sinu stormerki firir þa sigrvegaragiof, er þer skrifuð ut til vaar i brefum yðrum. En ef herra stadarins likar betr ǫðruvis, synizt oss, sem hans valld ok vili se framaz biðianda til birtingar ifir þvisa mali sa þeim sama degi. Þvi er þat vort rað, at ver ok þer bioðit vorum borgarmonnum þriggia natta fǫstu moti þeim signaða deghi, næst er hann kemr, biðiandi heilaga þrenni(n)g, at þær giafir, sem hann virðiz veita firir hinn hæsta þion sins almættis vilia, leiddi hann ut til æskiligs enda. Sva segir virðuligr herra pafinn, ok hans rað er fyllt ok framkvæmt i alla grein. En þann tima sem yfir stendr hin sidarsta nott fǫstunnar, birtiz hinn blezaði Mikael Sepontino byskupi i þriðiaa sinn með dyrð mikilli sva mælandi: «Eigi er þǫrf, segir hann, at þer vigit þat mustari, er ek smiðaði, þviat ek sialfr helgaði min handaverk; nu gangit inn i morgin með minu orlofi, er þa mitt at syna, hversu ek hefe helgat þann sama stað firir sialfan mik. Þu skallt syngia þar messu i morgin ok gefa ollum lyd þionostu, en ek patronus stadarins skal nærri standa ok offra guði yðra þionostu, skolu þer ok heðan ifra optarr vitia staðarin(s) firir mina þǫkk ok vinattu.

19. Nu sem byskup vaknar af hinni þriðiu vitran, þakkar hann vaarum herra sina margfallda miskunn, segir hann sinum borgarmonnum, hvat hinn heilagi Mikhael hefir synt honum, ok byðr at fiolmenna sem mestt upp sa fiallit, þar með skipar hann monnum til at flytia seerhveria hluti, er hatiðinni til heyrðu ok þionostugiorðinni. Ferr byskup ok klerkar hans i aundverðu liðinu með bænum ok lofsǫngum, en allr meginherrinn fer siðar meðr saunnu astriki, synda iðran ok rettum viðbunaði, ok arla dags koma þeir fram gangandi at suðrdyrum[1] kirkiu, gera þar letanias firir uti, aðr þeir lyki upp dyrunum. Siþan ganga þeir inn með guðligum otta. Verðr þa i fyrstu firir þeim þvilikt sem eitt skot fra suðri til norðrs moti þeim dyrum, er fyrr voru greindar, ok fyr en þagat kiæmi, finna þeir til austr(s) sialfar musterisdyrnar, ganga inn ok litaz um, sia at musteri þetta er einn hellir[2] bæði uslettr um raf ok veggi, sva at hvassir hyrnusteinar stoðu hvervetna; eigi var ok hæra i morgum stoðum, en hǫfuð manz tok upp undir þekiuna, en sumstaðar þvi hæra, at maðr matti varlla taka upp hendi sinni. Eigi var hon ok me(i)ri vexti, en hon tok með skotinu .v. hundrat manna. Til suðrs i musterit sia þeir virðuligt alltari fagurliga prytt með rauðu klæði, er enn blezaði patronus Mikhael

1 syðrdyrum *A*. 2 heillir *A*.

hafði gefit kirkiu ok offrat alltarino a hennar vigsludagh. Varð nu fagnaðr mikill i husi guðs, þviat allir dasamuðu þat himnæska litillæti, sem enn af nygiu birtiz i verki þessu, þviat hvervetna var at sia dal um hol, klettr vit klett, en allt at einu var staðrinn sva heilagr ok guði kiærr, at eigi ma orðum skyra; i hverri vars herra skipan þat gefr skilia, at hinn blezaði Mikhael elskar meir saaluhialp sannrar goðfysi en skygðan marmara með steindu rafi. Saung byskupinn þar messu nefndan dagh ok gaf þionostu ǫllum lyð. Var þar innan kirkiu vautn i gnog til allrar þionostu, þviat bergit var sveitt vatni, en til norðrs fra alltarinu fell niðr or þekiunni smatt ok fagurt vatn, eigi oðara en deilldi storum dropum. Var þar siðan samit til glerker eitt harðla vænt ok fest undir dropann með silfurst(r)eingium. Gekk lyðrinn þar til iafnan um gradur nokkurar, þa er þionostan gafz i musterinu. Þa vatnraas kalla Sepontini stillam, af þvi blezaða vatni veitir Mikhael margum manni skiota heilsu af ymisligum kran(k)domi, riðusiukir menn koma þar, kreptir ok likðrair, veslir ok vanmattughir, ok finna sva mikinn krapt af husi Mikhaelis, at sumir komaz eigi upp a fiallit, aðr þeir verða heilir. Eru þar i vegginum grafit steinlikan til minningar, sem þeir vurðu heilir, a þann haatt formeruð, sem hattaðr var krankdomr[1] þeira. Einkanliga stendr hinn mætazsti Mikhael i þvilikum heilsugiofum a sinn hatiðardagh tertio kalendas Octobris, þviat[2] þa sækir til musterissins af morgum halfum Italie[3] (meiri fioldi, en vant er, ok er þa) hinn hæsti guðs ærendreki þvi nalægari með sinum bræðrum englunum, sem fleiri koma saman i rettum bænum.

20. Sem ver hǫfum Sepontino byskupi fra vikit ok hans sonum um hrið i voru mali, er nu greinanda, at eptir messuembættið fagurliga flutt vendu menn heim meðr fagnaði til sins goðz ok herbergia. En sa goði maðr byskupinn veitti Mikhaeli sva skylldugа þionostu dag fra degi. Þar var reistr bær ok kennimenn skipaðir at officera kirkiu; engan tima sagðiz þar ottusǫngr, fyrr en liost var af degi, þviat sva mikil ogn stoð af musterinu um nætr, at eingi maðr þorði inn at koma; ok þat er eigi undarlikt firir þa grein, at sva segia sannorðir menn, at a hveria natt flytiz þar messuembætti aan dauðligra manna fulltingi ok nakvæ(m)ð. Hefir sva vitraz, at skipaðr þionn kirkiu skal til reiðu lata hvern dag at kvelldi bakstr ok vin meðr oðrum messufǫngum, hvat er styrkir einn æfintyr, sva framt sem guði likaði ok honum [virðiz eigi[4] ofsagt vera.

1 krangdomr *A.* 2 þat *A.* 3 turis *tilf. A.* 4 [ virðir *A.*

21. Sva er senniliga lesit af einum haleitum byskupi, at Bonus het, hann bar traust til sakir sinna ægætra verðleika at vaka um nott i musteri Mikhaelis, þvi at sialfr guð ok hinn sæli Mikhael dæmðu hann þess makligan. Þessi hinn heilagi Bonus var ættaðr ok uppfæddr i Frakklandi, mikill ægiætismaðr i sinum byskupsdomi, þviat þat gæzkunafn, er hann bar a likamanum, fylldi hann daglega með sæmiligum siðum ok andligum framningum, varðveitandi sik sialfan ok ser a hendi folginn lyð undir rettu lǫgmali ok heilogum guðs boðorðum, berandi ser i hǫndum loganda tortis goðra verka til eptirdæmis sinum undirmonnum. En með þvi at fyr sǫgð kirkia hins signaða Mikhaelis er nu storliga fræg vorðin um heiminn, sæktu hana, sem fyrr greindi, utǫluligir lyðir karlla ok kvenna af fiarlægum herǫðum ok iafnvel byskuparnir sialfir, þviat þessi staðr var einkanliga til þess kosinn af guði, at menn þægi þar rettar bænir. Signaðr Bonus byskup ferðaz heiman af sinum byskupsstol með gloandi goðfysi ok godu fauruneyti fram til musteris heilags Mikhaelis; ok er hann gengr inn i musterit meðr auðrum monnum til aptanssǫngs um kvelldit, dvelz heilagr Bonus einn samt eptir i musterinu takandi ser leyniligan stað undir einum hellisskuta at uvitandum varðhallzmonnum kirkiunnar. Vakir hann þar um nottina goðfusari i guðs lofi, en ver megim sem verðugt er fra segia; hann minniz a ok innvirduliga eptir leitar, hvat hann hefir hæsta guði i moti gort i umliðnu lifi, grætr þat allt ok sytir af aullu hiarta biðiandi sælan Mikhael hofuðengil, at hann offri hans bænir ok þægi hans tar i augliti hins hæsta domara. Nu sem komit er midnætti ok byskupinn starvar i greindri goðfysi, heyrir hann fagran saunghhliom upp i loptið með sva undarligum sætleika, at ǫngar iarðligar raddir mattu við iafnaz. Þessi skemtanarsyn nalægiz hvern tima fra ǫðrum musterið, þar til at byskupinum gefr sia, at guðligt lios geislar hvervetna inn um þekiuna; her eptir, sem liosit rennr firir, fara himneskir flokkar heilagra engla berandi sighrmerki firir sinum hǫfdingia með fǫgrum sǫngh ok sætum hlioðum. Her með seer hinn signaði Bonus at fara skinandi borgarmenn himneskrar Jerusalem leiðandi sin i millum sialfa drottning himins ok iarðar, mey ok moður, hina sætu Mariam, hana sæmandi ok alla vega vegsamandi með sva fridri fyllgd ok tilskipuðu foruneyti, sem ǫngu ma vit iafna eptir iar(ð)ligum hætti. Nu sem virðuligt sæti er firirbuit ok drottning allra hǫfǫðengla ok heilagra manna hefir niðr setzst, ganga fram i korinn firir hasætit nokkurir af fruinnar hirðsveitum biði-

andi hana litillatliga meðr knefalli, at hun skipi til nokkurn mann at flytia messuembætti. En guðs modir Maria svarar sva þeira mali: «Berit þau min orð Bono byskupi, at hann skrydiz ok syngi messu, þviat honum ber ek þat vitni, at hann er makligr sva ságætri þionostu.» Virðuligr maðr guðs byskupinn, sem hann heyrir fruinnar orð þvilik, bliknar hann ok piprar allr af hræzlu færandi sik ut undir biargit sem mest, þviat hann vill lifs giarna felaz firir fruinnar sendimonnum. Se þar gerizt haleitt stormerki, þat er vattaði hans heilagleik, þviat biargit gaf honum rum ok laut undan honum, sva sem hann hallaðizst i kramman snio, ok seer merki þess. En þoat biargit hlyddi hans heilagleik, þa vinnr byskupi eigi þorf, þviat drottningarinnar sendiboðar eru storliga fundvisir, sva at rett ganga þeir at hit gegnsta, hvar er byskup liggr undir biarginu þoat miog laght ok leyniliga, gripa hann hǫndum þegar i stað ok leiða fram i herbergit ok musterið ok skryða hann himneskum klæðum, sva sem byskupi til heyrir. Sem hann er skrydr, leiða þeir hann fram firir altari ok gera messuembætti eptir kristninnar formi. Hverr dauðligra manna megi þat virða, hversso mikla sæmð ok æru[1] almattigr guð veitti sinum virkta vin Bono byskupi her þegar i dauðligum likama: hann stoð iarðneskr millum himneskra krapta pryddr himneskum skruða, takandi alla þionostu messunnar af litillatri undirvorpning hǫfuðfeðranna ok spamanna ok annara guðs astvina. Nærri var stodd hans þionostugiorð sialf drottning allra hluta hin milldazsta Maria ok bioðandi honum hatiðliga messu at syngia; sva var til skipat þionostumonnum, at hǫfuðfeðr ok spamenn bera fram kalek, vin ok vatn, ok hella a hendr honum, postolar greiða til handklæði, pislarvattar bua til reykelsi samtemprat himnesku timiamate. En englar, iattarar[2] ok meyiar syngia hunangligum rǫddum ut messuna. Ok er guðs maðr byskupinn hefir algort guðlikt embætti með einkanligri ast ok gloandi goðfysi, gefr gimsteinn allra meyia hin sætazsta guðs modir mær Maria honum þǫkk firir, ok i elskumark firir þionostugiorðina gefr hun signuðum Bono byskupi eitt himneskt klæði, þat er hann þiggr með meiri ast ok litillæti, en nokkur tunga megi skyra sinum framburði. Eptir sva gort, sem nu var greint, liðr þessi himneski flokr upp i loptið heim til himirikis, en byskup vakir, þat sem eptir var nætrinnar, lofandi guð almattigan ok hans blezaða modur firir þa miskunn, sem honum var veitt i sinni voku; gengr sidan um morgininn ut af musterinu kallandi til sin rettvisa menn ok

1 almatkum guði *tilf.* *A.* 2 iarttarar *A.*

guðfusa ok segir þeim greiniliga allan eventum, hvat hann hefir heyrt i musterinu, seð ok gort a þeiri nat, þar með syrir hann litilatliga þat himneska klæði, sem herbergi heilags anda hafði honum gefit, biðia(n)di alla menn fagna meðr seer ok gleðiaz af sva miklu stormerki.

22. Eptir þessa hluti fyllda ferr heilagr Bonus heim til sins byskupstols gerandi guði þakkir af þeim hlutum, sem honum hǫfðu at boriz i þessarri ferð. Flygr þat ok skiotliga viða um heiminn, hvilika sæmdarfaur Bonus byskup hafði farit til musteris heilags Mikhaelis; ok firir þa sauk at margr er sa virðingar[1] giarn, sem eigi er i lifinu til fullz vandvirkr eða athugall, þa frettir þetta ok einn byskup, sa er miklo var lægri at verðleikum, en hann mætti nokkut samiafnaz Bono byskupi, ok lyptir heiman sæmiligri ferð af sinum byskupstoli með gnogum kosti ok riku foruneyti þess ærendis at profa, ef hann oðlaðiz nokkut likt þvi, sem lesit er af hinum fyrra byskupi. Nu sem hann kemr fram i heilagt (fiall) hins sæla Mikhaelis, slær hann langtialldi sinu ok sitr glaðr um dagin hia kumpanum sinum. Ok firir þa sok at hann vill oþyrstr ganga til vǫkunnar, drekr hann vin sva diarfliga, at hann er miog sliofaðr bæði i samvizsku ok sonnum goðvilia, en þo allt eins gengr (hann) i musterit sið um kvelldit ulikt tilbuinn[2] ok hinn fyrri byskup. Sa þungr af tarum ok iðranar goðfysi, en þessi svefnþungr[3] af vist ok vini. En þo at þessi byskup byggi sik eigi til vǫkunnar sva sem skilldi, giorði almattigr guð ok heilagr Mikhael vit hann mikla miskunnsemi með faheyrðum hætti. Hann vindrukkinn sǫfnar i musterinu, en vaknar um morguninn eigi þar, helldr heima at sialfs sins byskupsstoli ok i sinni svefnskemmu. Nu sem hann lykr augum upp, signar hann sik, ok hverssu vit veit, fær hann eigi skilit, þviat hann kennir blauta sæng ok ser kunnikt herbergi, en man þo fullgiorlla, i hverium stað hann var næst um kvelldit. Sem hann hefir lengi undrat sialfan sik, gengr hann ut af herberginu ok litaz um, ser þionostumenn sina þar i garðinum ok heilsar a þa, ok hyggr sik þo senniliga villaz i þessum hlutum ǫllum, þar til at eptir stund liðna hverfr hann aptr til sialfs sins ok setz niðr hia sinum monnum segiandi þeim litillatliga, hverssu hin goðgiarni guð hefir um hann gort stormerkiliga ok miskunnsamliga. Heðan af er virðanda, hverssu hinn goði Mikhael er ifirvettis milldr firir hvern, er sva dasamligar iarteinir verða, þviat hann[4] þyrmdi sǫgðum byskupi misgeranda ok let hann til sins

1 virgingar *A.* 2 eða *tilf. A.* 3 svęfir þungr *A.* 4 þat *A.*

herbergis heilan aptr hverfa, helldr viliandi at hann leiðrettizt, en firirfęriz eigi i sinum misverka. Nu til þess at engi maðr ætli þessa hluti usanna vera, sem ver sǫgðum, þa viti firir vist, at þat klæði, sem guðs moðir gaf Bono byskupi, varðveitiz firir utan spell ok folvan allt til þessa daghs i einni fagri borg, er Clarus Mons heitir. Su borg stendr i þvi heraði er Vernonis kallaz. Klæðit geymiz i kirkiu guðs modur heilagrar Marie, ok fær engi iardligr maðr skilning saa komit, hvers vefnaðar eða natturu þat er utan eða innan. Ok enn til styrktar um þetta er sva skrifat, at virðuligr herra herra[1] Herbert byskup af Norvik hafði seeð ok hǫndum farit þetta klæði.

23. Greint hefir verit um hrid, hversu blezaðr Mikhael pryðir australfu heimsins meðr kreyptum ok iarteignum þeim, sem guði einum er mattulig ok fylliliga kunnigh. Þvi skal boða þessu næst, hversu drottinn allrar milldi dreifir sina oumræðiliga miskunn ifir vestrhalfuna firir ast ok meðalgongu sins kærazsta sendiboða Mikhaelis herra hǫfuðenglanna, til þess at eitt ok hið sama efni verði ǫllum liost i hverri halfu heimsins, at rettruadir menn eru skipaðir i samlagh englanna, sem fyrr var skrifat i þessu mali; þvi eru himneskir andar sendir i þionostu firir þeira skylld, er arftækir verða himnarikis firir saar ok milldi vaars liufa lausnara. Lesit var með nǫkkurri grein, hversu Mikhael kaus ser virðingharstað i hafu fialli Gargano, en nu skal af segia ok heyra i oðrum stað, hversu hann vill dyrkan sina gera lata með ulikum hætti. Þessi staðr, er nu skal af segia, stendr firir utann haf i vestrhalfu heims, hann er kominn miog undarliga ok leyniliga, hann stendr medal tveggia ósa þeira vatnfalla, er annat[2] heiter Seia, en annat Sennuna. Uthafit sialft gyrdir at firir utan sva hart at floðunum inn i baða osana, at siorrinn gengr saa laaghlendin baadum megin firir ofan staðinn, sva at þa er i einum floa stendr, þa (er) i miðiu sem eitt litið eyland, þat er kirkiu helgi Mikhaelis bannar, at siorinn meini. Sva segia gamlir menn ok sannorðir, at þetta nes meðal annara væri at fornu vaxit með þykkri iorð ok storum skogi, sva at voru viða einsetumanna bygðir, þviat sva var leyniliga kominn stadrinn bædi sakir þykkleika merkrinnar ok fiarlægra manna bygðar. Skogdyra fioldi var þar ok mikil hia einsetumonnum, sem viða er titt i eyðimorkum. Ok meðan drottenn villdi sva vera lata, at einsetumenn bygði þenna (stað), skipaði hann sva sinu einvalldi, at einn prestr af þorpi þvi er Austerianus heitir færði þeim likamliga vist,

1 hefir *A*. 2 aavat *A*.

þviat i sialfri morkinni var engi vǫn matfanga. Goriz þat i fyrstu, sem skilianlikt er, eigi oðruvisi en i stormerki birtingar Mikhaelis af guðs alfu til kennimannzi(n)s, at honum er staðrinn synðr ok sagðr, ok hvat hann byggir, eða hversu hann skal hialpa með dagligri huggan þeira lif, sem þar eru. For sva langan tima, at prestrinn tok asna sinn hvern dag ok færdi einsetumonnum vistir; var sa þeim doghum, er þetta giorðiz, forlendi mikit milli merkrinnar ok hafsins eigi minnr en .vi. vikur.

24. En þa er guð villdi um venda þessum stað ok bua til virdingar Mikhaeli sinum sæla vin, gengr siorinn a landit ok ryðr iorðina alla fyrst upp at skoginum, en siðan fellir hann morkina ok kemr monnum[1] a flotta, grefr brott grasrot alla ok gerir sem einn slettan sand alla leið upp i milli sanna, sva langt sem guð villdi skipa. Nærr i miðiu plazi stendr einn klettr, er guð hugði til eptirkomandi hluta. Ok er varr herra Jesus Kristr hefir staðinn með sva nyium hætti til buit, er segianda, at i þeiri borg er Abrincus heitir var agætr byskup Auðbertus[2] at nafni - su borg stendr sex milur brot af gre(i)ndum stað - var byskup hennar miogh heilagr maðr, sem guð virdiz syna honum ok hinn agæti Mikhael, þviat nokkura nott, sem byskup sefr i sinni sængh, birtiz honum blezaðr Mikhael með skinandi dyrð himneskrar birti ok mælir a þann hatt, sem her fylgir: «Auðberte[3] byskup, heyr hvat ek segi þer. I þeim stað er nu kallazt Arenna skalltu lata kirkiu reisa mer til sæmda, þviat ek er Mikhael hǫfuðengill, hefir ek þenna stað kosit ok blezat mer til virðingar i þessi halfu heims næri borg yðvarri, ok sva sem min dyrkan geriz i austurhalfunni a hafu fialli Gargano, sva veitiz mer lof her með yðr i lagum stað a siofar sandi.» Eptir sva talat vaknar byskup ok hugsar invirðuliga, hvat firir hafði borit, ottaz firir litillætis dygð, at hann muni gabbaðr i svefni firir umsat leyniligs ovinar, sem syndugum monnum kann opt til bera; þvi hugleidir hann postolans rað, er sva talar: profi þer andana seghir hann, hvart þeir eru af guði. Firir þvilikar ok adrar hugsanir dvelr byskup at fullgeyra boðnna hluti, þar til (er) hann fær vitran aðra meðr sama hætti, er nu þo mun striðara amintr, at hann hafi sik frammi ok algeri þat, sem honum var boðit. En byskup fer sva, þoo at hann væri heilagr maðr ok miog kiærr gudi, sem hinn heilagi Gregorius pafi vattar af spamonnum, at þeir hǫfðu nokkurn tima spadomsanda ok nokkura eigi, sem guð villdi skipa þeim til litillætis varðveizlu, at þeir

1 morkum *A*. 2 Augbertus *A*. 3 Augberte *A*.

kendi þvi gior, hvat þeir toku i giof eða hvat af sialfum ser. Þessu likt geriz með Abrincensi byskupi, hann fær eigi skilit smasmugliga grein andanna, þviat hans hiarta sliofaz i manligum veykleik, sakir þess at fremri gipt er honum undan dregin i þetta sinn, er hann þo senniliga miog hrædr firir þessar tvær aaminningar, er hann ofreyni sik eigi, þat er guði heyrir. Þvi leggr hann iafnan bænir miukar ok litillæti, at vaarr herra Jesus Kristr þyrmi hans hindran ok tortrygd, en greiddi þetta maal til æskiligs enda.

25. Rett i þann tima sem Abrincensis byskup hefir tekit sagdar aaminningar tvær at tǫlu, ber sva til i sagðri provincia, at einn graðungr er leyniliga tekinn brǫtt fra hiorðinni eins bonda. En sa er tok, gerir þat meirr sakir fornrar (o)vinattu en þiofligrar sialfs sins girndar; þvi leidir hann þat skrautliga naut, er bezst var allra með hiorðinni, brǫtt i þann stað, sem hann hugði at alldri skilldi finnaz. En meðr (þvi) at optliga kemr saman goðr vili guðs ok illr vili mannzins, þa leiðir þessi maðr graðunginn til fylsnis fram i þann stað, er ver greindum fyrr af, ok hann kemr ut meðal annara fram aa sandana. Ser hann, hvar kletr stendr i miðiu, her til ferr hann ok skoðar biargit uppi ok nidri, hva(r)t hann fyndi skuta nokkurn eða helli at binða nautið ok fela, ok er hann hefir rannzsakat, finnr hann i ovanverðu storliga mikla delld, sva at þat er et bezsta leyni, ef hann færr graðungenum upp komit. Þat kostar hann ok fær gort, ferr siðan fram a sandinn ok profar, hva(r)t hann sæi nokkut til gradungsins upp i bergit, ok ser eigi. Þvi snyr hann brǫtt ok þikkiz hafa allvel leikit, hyggr hann sik hlutlausan af stuld, en veit firir vist, at gra(ð)unghsins hvarf gerir rika manni mikla hugsott ok margan rekstr hâns at leita sið ok snemma. Ok rett for, sem hann gat, rika manni liggr illa ok leitar i fremzstu laug, gefr eigi upp fyrr, en uti eru allar vaanir, truir vist, at hans gerssimi se vorðin spellvirkia brad, ok harmar þat, þviat bondi var miogh aagiarn. En hvat graðungs greinir þessar hafa merkia i mali Mikhaelis, er þessu næst til veghar vikianda.

26. Sem her er komit, færr Abrincensis byskup þriðiu vitran i hardara pungt en fyrr, þviat Mikhael hǫfuðengill birtiz honum striðr ok ogurligr með avitanarorðum firir þa sauk, er hann ohlydnaðiz tveim aaminninghum; byðr honum nu i stað at byria sagðan guðs vilia ok eigi nokkura minnzstan talman aa gera, gerir ok i mikilli rǫghsemð(!), at sva mikit skal hann aflat hafa i sinni hindran, at af þeim stað, er kirkian reisiz, skal hann sina fætr hvergi brǫtt hræra, fyrr en musterit er giort til lykta. Viðr þess

hattar striðyrði sva mikils hǫfðingia verðr byskup aakafliga hrædr i svefninum, ok þo sva með guðs vilia at hann fær afl[1] at spyria þeira hluta, sem honum þotti mest þǫrf aa vera. Hann segir sva: «Herra minn sæli, hvar er sa staðr i þvi takmarki, er Arena kallaz ok yðvarri kirkiusmið se tilheyriligr?» Hinn blezaði Mikhael svarar: «Nærri þvi biargi, er bundinn graðung hefir i sinum kolli, ok stendr aa miðium sandi, skalltu reisa mitt musteri.» Byskup spyrr þa enn: «Hvat er, herra minn, hvar skal ek af taka viðrkvæmilikt form þessa huss i vidd eða breidd eða hæð at þinum vilia?» Hinn blezaði Mikhael svarar: «Aðr graðungrinn var uppleidr i klettinn, gekk hann umbergis i hring aa sandinum, sva vitt sem þu skallt kirkiu reisa, verðr þa miog kringlott, a likan haatt ok ek smiðaði i Gargano, vil ek þar lata eptir mynda ok gera ræfr laagt[2], sem staðnum til heyrir; laat þer ok i hug koma, at griprinn se aptr golldinn þeim sem aa, siðan þu hefir seð ok skilit hans firirætlaða þionostu.» Eptir þetta sva talat vaknar byskup bæði feghinn ok ottasleginn, lofandi guð ok gofugligan Mikhaelem með himnum ok lofsongum ifir þrennum þessum vitranum. Birtir hann nu sinum lyð, hvat honum hefir synt verit af guði ok hinum sæla Mikhaeli, ok byðr i stað, at hans menn buizst sem hvatligazt fram til staðarins. Tekr hann ser til fylgdar hina friðazstu klerka sinnar kirkiu, gangandi fram litillatliga með ymnum ok psalmodia, þegar hann nalægiz þann blezada stað. Ok sem hann kemr þar, ser hann oll merki, sem honum var iatat, biarg ok naut bundit, fotatra(ð)k ok fasena musteris reisingh þvilika. Gerir hann nu hvatliga boð tveim megum ut ifra ifir hvaratveggiu aa Siam ok Senunam, at menn komi at sia ok heyra sannan guðs vilia. Ok sakir þess at Mikhael hǫfuðengill er harðla vinsæll meðal goðra manna, (eru þeir) bunir til mæðu ok erviðiz, er herra Auðbertus vill þeim bioða. Þvi hefir byskup þat upphaf, meðan lið er næzst, at hann lętr ryðia staðinn ok grafa til grundvallar; en þann tima sem þeir hyggia at plazinu kirkiunnar, standa þar steinar tveir iarðfastir i miðiu harðla storir, er miklu fara hæra en smiðinu heyrði. Þvi byðr byskup, at grafa skal umbergis ok treysta goð aatǫk, segir at þesser steinar skolu fara ut i grundvollinn sialfan. Her þarf eigi langt um, brot eru til samin, treyst er ok aaknuit meðr allri list ok klokskap, ok sitia ste(i)nar sem aðr. Fær byskupi þetta mikils aahuga, þviat starfsmenn firir leggiazst ok faa

1 alf *A*. 2 laaga *A*.

ekki at gort, hvar firir mætum Mikhaeli er hugsanda at gera gott raað firir, sva at eigi falli verkit honum til sæmdar.

27. Nokkur rikr burgeiss var i einshverio heraði sva fiarlægr brǫt af Abrinko, at þar hǫfðu eigi komit þessi fagnaðartiðendi, ok eigi hafði þar birtr verit boðskapr byskups um liðsafla. Þessi riki maðr het Baiuno, storliga volldugr ok mikils hattar upp ifir alla sina frændr ok heraðsmenn; hann sitr i þeim hǫfuðbæ er Icius heitir, hann atti tolf syni, voru þeir allir storir menn ok sterkir; hǫfðu þeir allir saman feðgar sva sem konungs vaalld ifir lyðnum ok nalægum herudum. Þvi leitar sæll Mikhael þangat styrks ok birtiz rika manni aa næstu natt eptir, sem Auðbertus byskup er firir lagðr ok hans menn. Hann blezaðr talar þaa: «Þu riki Baiuno, segir hann, hefir mikit vallld ok laan af guði firir marghattad eptirlæti fiar ok frændastyrks; þvi ris upp ok tær þitt afll i mina tign, þviat ek er Mikhael hǫfuðengill; ber þik arlla i morgin fram i liðsdratt ok kom sem fyrst með sonum þinum ok vinum aa fund Auðberti byskups, ger þat sem hann byðr, þviat hann er minn umboðzmaðr.» Eptir sva talat vaknar riki maðr ok gerir guði þakkir, hefir i somu stunð fiolmenni uppi ok ferr með ollum skunda fram til Arennam a fund Auðberti byskups, segiandi honum þa vitran sem nu var lesin. Verðr byskup harðla feginn af þeima hlut, þviat nu er fundinn vattr annar ifir orðum ok vilia Mikhaelis, segir byskup Baiunoni, hvar komit er starfi ok sveita þeira kumpana i þarflaust at sva bunu um þria daga, þvi segir hann, at riki maðr ok synir hans skolo gera sina þionostu ok veita steinum atak eptir boði Mikhaelis. Ok aan dvǫl sem þeir koma ok profa steinana, eru þeir með guðs vilia sva lettir [1] ok velltiligir, hvert er likar, sem eigi hefði þeir griotligan þunga steinligrar natturu. Sǫng nu allr lyðr lof [2] Mikhaeli firir auðsena miskunn ok stormerki. Gengr nu herra byskup glaðr at verki með sinum huskǫrllum skipandi ymissar [3] syslur ser [4] hverium, sem hann ser bezt bera [5]. Ok þann tima sem grundvollr er grafinn, fylldr ok til buinn, sva vidr ut ok inn sem byskupi þikkir hæfa þeiri kirkiustǫðu, er heilagr Mikhael hafði honum vitrað, gerizst enn með nǫkkurum hætti ifasemd ok otti i hans goðfusa hugskoti, hvart efnit [vel þioni [6] boðorði Mikhaelis. Her ifir ottaz hann ok biðr guð [styrktar um [7] sina giorð, ef honum likar, at sva standi. Ok aa næstu nott birtiz honum syn þeiri lik, er lesin er forðum af

1 leittir *A*. 2 *Her begynder B*. 3 ymsar *B*. 4 þær *B*. 5 standa *B*. 6 [ mandi(!) þiona bliðu ok *B*. 7 [ styrkia *B*.

Gedeone, at dǫgg himins ste[1] niðr ifir annan hlut iarðarinnar en annan eigi, her með hlioðar rǫdd i byskupsins eyra sva mælandi: «Lat dǫgfallit raaða[2] grundvellinum, en þurrlendi iarðar se vǫxstr ok viderni kirkiu.» Ok eptir sva sagt vaknar byskup ottalauss i ǫllu efni ok fullr af fagnaði, lætr reisa til musteris þegar sa næsta degi, ok gengr siðan sva greint með heilagri fliotvirki, at byskup ser, ef guð lofar, at sva er sem gǫrt[3]. Þvi hugsar hann framleidis, at enn skortir mikit sa, sakir þess at [þat nygia[4] musteri hefir enga heilaga doma hins mæta Mikhaelis, þikkir honum þat miog i moti. Ok af þessu efni hugsar hann dagliga, þar sem hann sitr a þvi sama biargi, sem fyrr var greint i soghunni, þviat vel hellt hann hvarntveggia boðskap Mikhaelis, fylgia smiðinni staðfastliga ok hvergi brǫtt fara, ok þat annat, sem fyrr var sagt, at hann skylldi gradunginn aptr[5] senda sinum herra. Berr þat biarg[6] vitni, segir sa er saughuna diktaði, at Auðbertus byskup sat a þvi dagliga ok firir sagði musteris smið Mikhaelis. Þviat nærri þvi sæti, er hann kaus ser i biarginu, stendr til eilifrar minningar þat sama letr, er hann skrifaði með sinum fingri i[7] sialfum steininum allt eitt ok sa[8] krommum snio.

28. Til lofs ok dyrðar sinu haleita nafni birtiz Mikhael Abrincensi byskupi i fimta sinni [með itarligri syn[9] sva mælandi: «Rek[10] brǫt allan ekka [þins hiarta[11], þvi at ek kann gefa þer heillt rað at faa mina helga doma; gǫr tva bræðr guðhrædda austr sa Pul til kirkiu minnar i Garganum, fa þeim goða fylgð, sva at þeir megi vel fara, en ek skal sva um ganga, at þeir fai ærendi þat er þer liki; ertu þvi skylldari at fagna oss sem bezst ǫllum saman ok ganga ut i moti oss þann tima, er ver komum aptr or þessi ferð.» Eptir sva greint af guðs vin Mikhaeli, vaknar byskup ok breytir ollu, sem honum var boðit, faandi bræðrunum vænt skip meðr rǫskum liðsmonnum; fara þeir ok fram koma i allri farsælld, sem þeir mundu kiosa, ganga af skipi ok sækia fiallit Garganum, finna kirkiu Mikhaelis ok biðia þann signaða herra bliðra ærendisloka. Var i þenna tima skipaðr einn virðuligr aboti firir þionostugiorð a fialli Mikhaelis[12], tekr hann sendiboðana meðr ollum goðvilia heyrandi giarna þeira ærendi. En sakir þess at hann skilr bræð(r)anna bæn ok byskups orðsending of bioða þvi valldi, er Sepontinus byskup veitti honum ifir kirkiu[13], sækir hann heim

1 steig *B.* 2 styra *B.* 3 musterit *tilf. B.* 4 [ *tilf. B.* 5 heim *B.* 6 bragð *B.* 7 aa *B.* 8 i *B.* 9 [ *saal. B*; i nalægri *A.* 10 Tak *B.* 11 [ or skapi þer *B.* 12 Gargano *B.* 13 kirkiuna *B.*

sinn herra ok tiar honum greiniliga, hvat giorz hefir i vestralfunni, ok at sendiboðar eru þagat komnir þess ærendis at þiggia heilaga doma [ens sæla[1] Mikhaelis. Ok er byskup Sepontinus heyrir þvilik tidendi, offrar hann [noglig taar ok[2] lof almatkum guði, er veita virdizt mannligum veykleik[3] hialp ok heilagt fulltingh firir bæn ok blezan þeira sǫmu, er þiona eilifliga firir hans[4] velldishring. Eptir þat er byskup ok aaboti hafa gort sitt raað með tillogum[5] Mikhaelis, fara þeir badir samt upp aa fiallit ok bioda[6] sendimonnum i kirkiu Mikhaelis at heyra sin ærendislok, ok at hlioði gefnu talar þvilik orð byskup af Seponto: «Blezaðr se vaarr herra Jesus Kristr Mariu son, er oss[7] hefir sent af vestrhalfunni goð ok gleðilig tiðendi, at hinn mætazsti kirkiudrottinn vaarr Mikhael hǫfuðengill hefir þar kiorit ser með samri[8] birting annan virðingarstað. Ok til heilagrar [þeirar kirkiu pryði[9] vilium ver giarna alla astuð frami lata, sem hinn blezaði Mikhael hefir oss boðit; þvi skolu þeir bræðr sendiboðar Mikhaelis þiggia æskiligt ærendi ok taka með þeim reliquiis, [er æzstar[10] megu finnaz i fialli[11] Mikhaelis, þeim skilmala medal settum, at sva sem sami hǫfuðengill himnarikis lysti varn stað ok yðvarn sialfs sins virðing[12] birting ok blezadum kosningh, sva skal milli varra staða eilifliga standa elskuband ok astriki i sǫnnum guði ok einkanligum feðr vorum Mikhaeli.» En er byskup hefer sin orð til enda gort, falla sendiboðar fram i litillæti þakkandi með hiarta ok munni, hverssu drottinn himins ok iarðar gorði farsælan þeira veg. Gengr þa byskup til með guðligum otta ok sniðr[13] part af þeim sama rauða duk, er haleitr Mikhael hafði með prytt þat sama kirkiunnar altari, er hann smidadi, sem fyrr greindi i sǫghunni. Her meðr leggr byskup upphogginn hlut af þeim marmarasteini, er heilagr Michael stoð aa firir norðrdyrum, sem fyr var sagt. Taka sendimenn þessar mætazstu giafir glaðari en gull, virktum varðveitandi framar en fegursta topazion, en gefa byskupi Sepontino ok abota Mikhaelis glaða þa᷎ck[14] ok goðan dag firir tiguliga trakteran [ser veitta[15], raðandi siðan i veg sva vel ok giptuliga, at gengr at solu, koma fram með heilu ok holldnu gerandi orð[16] Abrincensi byskupi, at þeir eru landfastir með [sannri farsælld[17] allra sinna ærenda. Verdr byskup

1 [ *tilf.* *B.* 2 [ nogligt *B.* 3 veickleik *B.* 4 verdleiks *tilf.* *B.* 5 tilla᷎gu *B.* 6 *saal.* *B*; boda *A.* 7 vorum eyrum *B.* 8 *saal.* *B*; sannri *A.* 9 [ pryði þeirar kirkiu *B.* 10 [ sem æzstir *B.* 11 musteri *B.* 12 *mgl.* *B.* 13 syndi *B.* 14 *saal.* *B*; þǫukk *A.* 15 [ sem vert var *B.* 16 *tilf.* *B.* 17 [ hęilu ok holldnu *B.*

þeiri sǫgu fegnari, en fra megi segia, þviat nu gangazs[1] goð tiðendi glauð i moti, ok fagnaðir kyssa fagnaði, þviat rett a sama deghi er musterit algort i Arena, sem hann fregn heimkvamu senðiboðanna. Þvi byðr hann i stað, at til hans komi aagętazstu menn rikissins bæði kirkiu ok kurie at sæma sinni nalægð þann haleita thesaur, er i var kominn þeira landskap. En hvat ma segiaz af þessari fylgð ok ferð, er aull hlioðaði meðr himnasǫngh[2] hiartaligrar cantilene moti sælum Mikhaeli. Allar naalægar halfur syngia lof með fagnaði flokkum rennandi firir ok eptir, snauðir ok sælir, kallar ok konur, yngri ok ellri, allir kveiktir einum elldi at virða, dyrka ok lofa þann haleita hǫfdingia himneskkrar herferðar[3], er þeim veitti guðliga [forsiala[4] giof til eilifra fagnaða. Ei ma greinaz su andlig gleði, er guðs vinir þagu aa þeim degi, er heilagir domar Mikhaelis baruzt inn i nyia musteri, þviat alla vega ut i fra var kvikt ok lifanda til iarteinagiorðar i krapti almattigs guðs, sva at aa sialfum veginum toku syn .xii. blindir menn, ok umfram ein kona af þeim bæ er Austeriakus heitir, hon hafði latið með striðum augnaverk bæði sin augu, sva at tomir voru augnastaðirnir[5], at þvi haleitari yrði heiðr Mikhaelis i hennar heilsubot. Þessi kona var i fylgd med [heilagum domum[6] af þvi heraði, er hun atti heima, ok iamfram sem ferðin kemr aull saman niðr at slettlendi sandanna, tekr konan lios ok kastar myrkrum, undrandi sina noott hafa brott flyit undan nyium degi skiærrar synar. Ok eigi veittuz guðligar iarteignir firir dyrligar giafir Mikhaelis at eins aa þeim degi, helldr skina þar dagliga biartir geislar krapz ok stormerkia ut til beggia handa i lof ok dyrð varum græðara [ok hans mætazsta eyrendreka[7], þviat iarteignaraas hefir ekke takmark[8] i þeima stað, hvar firir allr heimr vestrhalfunnar flytr ok ferr til þessa brunnz finnandi[9] skiæra drykki af lifskelldu Mikhaelis. Þessi staðr er sva heilagr, at þar fremz ekki veralldligt verk, ok þeim einum heyrir þessi stadr, er gudi unna ok honum iðuliga þiona. Þvi flytr þessi staðr margan mann til eilifra fagnada, at brennandi ast kraptanna rikir þar i [musterum andanna[10]. Þessi haleiti[11] staðr fekk nytt nafn, siðan hann efldiz, ok er[12] kallaðr Tumba, þat þyðiz [at voru mali[13] sem eitt leiði[14], þviat ef langt seer til staðarins, er þvi likt aa [sitt form[15], sakir þess at laagt er

1 *saal. B*; gerazt *A*. 2 ymna saung ok salmum *B*. 3 dyrdar *B*. 4 [ *saal. B*; ok forsiola *A*. 5 stadir augnanna *B*. 6 [ *saal. B*: heilogǫum dominum *A*. 7 [ *tilf. B*. 8 taumalag *B*. 9 *saal. B*; frandi *A*. 10 [ musteri andar(inn)ar *B*. 11 *tilf. B*. 12 var *B*. 13 [ *tilf. B*. 14 hiði *B*. 15 [ *saal. B*; sin form sem *A*.

husat, sem fyrr segir, en staðan hrosar eigi sakir laaghlendis. Tysvar aa hverium degi lætr guð hafið vægia ok veita goðfusum lyð lidugan gang til lofs ok dyrðar Mikhaeli, en þess [i meðal[1] bannar siorinn alla tilferð. . Verða hans bygðer[2] þvi betri ok nalægri guði, sem þær eru heiminum fiarlægri ok meirr fra byrgðar[3] hans sukki ok osoma[4].

29. Heyrt hǫfum ver, bræðr minir, hversu andaligr faðer vaarr haleitr Mikhael hefir birt ok kiorit tva upphafliga stadi[5] ser til tignar a iarðriki, hvar firir hans eingiligri[6] dyrð eru lof gerandi bæði af hiarta ok munni, þviat með nyiu formi grundvallaði hann frabæra sina gofgan, sem engum er mattulegt utan guði einum; ok þat er viðrkvæmiligt, at einkanlig se verk Mikhaelis til þess, at hann sanni nafn sitt. En af hans blezaða nafni er þat fyrst hugsanda, sem Gregorius pafi segir i Roma, at [guðlig vitran[7] himneskrar speki þarf eigi nafn gefa til auðkennis sinum borgarmonnum, þviat þar er guð allir hlutir aullum[8]. Þvi er nafn Mikhaelis eigi natturu nafn helldr embættis, er hann tekr af þeiri dygðar þionostu, er drottinn himnakonungr skipaði honum. Mikhael þyðiz hverr sem guð, þviat sva opt sem nokkut geriz i dasamligum krauptum með kristninni, er þar tilsendr Mikhael af guði, at bædi megi vel skilia af nafni ok verki, at þat er guð aflar ma engi iafnb(i)oða[9]. Þessu signaða nafni þiona bæði musteri i Gargano ok Tumba, þviat þau eru bæði sett i undarligum hætti guðligx almættis, sem eingis mannz hond matti[10] vinna, hvart i sinni stoðu. En einkanliga ifir aðra hluti [fram fylgir Mikhael[11] nafni sinu, þa er hann drepr sialfan diofulinn i heims enda ok steytir honum i diupa dyflizu helvizkrar myrkvastofu streingiandi aptr dyrr eilifum laasi, er alldri brestr [i veralldir[12]. Af þessum sigri lofar Mikhaelem ǫll kristni, þvi at aðr hann setr sitt væna spiot til lags, gerir fiandinn harða hrið ok digrar dunur i verolldinni, sem alldri fyrr þvilikar af heims upphafi, þviat hann skilr þa skamman hernaðar tima eptir standa til heims loka, ok þvi er hann grimmari [en fyrr finnandi nytt raað at ræna heiminn[13] lifinu. Pestifer[14], er fell of metnaðar gǫtu, sem ver greindum fyrr [i upphafi þessarar sogu[15], tekr þa mandom ok segiz Kristr vera,

1 [ a millum *B.* 2 bygdarmenn *B.* 3 byrgdir *B.* 4 hegoma *B.* 5 *tilf. B.* 6 *saal. B*; eiginligri *A.* 7 [ guds vitra *B.* 8 iafnkunnir *B.* 9 sambioda *B.* 10 mætti *B.* 11 [ fylgir Mikhael fram *A.* 12 [ um alldr *B.* 13 [ *mgl. B.* 14 Sa enn sami Pestifer *B.* 15 [*saal. B*; i varu maali *A.*

